# FORNMANNA SÖGUR.

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AD TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆDA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.
*Fjölsvinnsmál.*

NÍUNDA BINDI.

Sögur Hákonar Sverrissonar, Guttorms Sigurðarsonar, Ínga Bárðarsonar ok Hákonar Hákonarsonar til falls Skúla hertoga.

**Kaupmannahöfn, 1835.**

*Prentaðar í S. L. Möllers prentsmiðju.*

# SÖGUR

# HÁKONAR SVERRISSONAR, GUTTORMS SIGURDARSONAR, ÍNGA BÁRDARSONAR OK HÁKONAR HÁKONARSONAR

## TIL FALLS SKÚLA HERTOGA.

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFNAR

AD TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.


Kaupmannahöfn, 1835.

*Prentaðar í S. L. Möllers prentsmiðju.*




# FORMÁLI.

Hið nímda bindi af Fornmanna-Sögum leiðist nú almenníngi fyri sjónir; það hefir hlotið að verða stærra enn nokkut hinna undanförnu, ok lýsum vèr þannig þess innihaldi:

A. Sögur af Noregs konúngum: Hákoni Sverrissyni, Guttormi Sigurðarsyni ok Inga Bárðarsyni, ok skiptast þær aptr í þrjá flokka:

a) Hin áðr prentaða Saga af tèðum þremur konúngum, útgefin af Etatsráðunum Thorlacíus ok Werlauff, í 4ða parti af Heimskrínglu eðr Noregs Konúnga Sögum, í Kaupmannahöfn 1813. Söguna sjálfa höfum vèr uppskrifað að nýu, til þessarar vorrar útgáfu, eptir þeirri merkilegu skinnbók í Árna Magnússonar safni er nefnist Eyrspennill (47, í 4to) ok er henni (merktri *G*) af oss nákvæmliga lýst í formála 8da bindis frá bls. XI til XV. Í tèðri skinnbók fylgir þessi saga Sverrissögu hinni styttri, eðr ágripi þeirrar lengri, hvört vèr, í nefndum formála, af þar tilgreindum röksemdum, höfum eignað Snorra Sturlusyni, sem framhald Heimskrínglu hans, jafnvel ætlað sèrhvörju öðru safni af Noregs Konúngasögum til viðrauka, en sèrílagi þó Sverrissögu, ok sèst það ljóslega af ymsum höfundsins orða tiltækjum t. d. sem áðr er sagt, fyrr er ritað, o. s. frv. Við Eyrspennil höfum vèr nákvæmlega samanlesið þá svokölluðu Skálholtsbók (sama handritasafns 81 í 4to, merkta *F*), hvörri vèr ok áðr nægiliga lýst höfum; hún sleppir nokkrum hluta sögunnar,

ok hættir framarlega í hennar 18da kapítula; vantar þá allt það sem eptir er ok verðr eigi við neitt annað fornrit samanborið.

Margt bendir til þess at Snorri Sturluson sè höfundr þessarar sögu, auk þess sem hèr er áðr á drepit. Þó mun hann hafa hana tvívegis (eðr optar, hvarum síðar meira mun sagt verða) í rit fært; ímyndum vèr oss að þettað muni þannig fram farit hafa. Sturlúngasaga segir svo í 4ða þáttar 21ta kapítula: „Snorri gjörðist „skáld gott. Hann orti kvæði um Hákon jarl galinn, „ok sendi jarlinn gjafir í móti: sverð, skjöld ok brynju. „Þarum kvað Máni þetta:

„Örr hefir sendar Snorra
„siklíngr gjafir miklar,
„unni afreksmanni
„jarl görsema snarla;
„gæðíngr hlaut sem gátum
„gjöf af tignum jöfri,
„þat fèkk skáld með skildi
„skinjat sverð ok brynju.

„Jarlinn ritaði til Snorra at hann skyldi utan fara, ok „lèzt til hans gera mundu miklar sæmðir, ok var þat „mjök í skap Snorra, en jarlinn andaðist í þann tíma, „ok brá þat för hans um nokkurra vetra sakir, en þó „hafði hann ráðit för sína þegar tími væri til.” Í 22 kapítula: „Snorri Sturluson rèðst til utanferðar. . . . „Þá er hann kom utan, våru orðnir höfðíngjar í Nor„egi Hákon konúngr ok Skúli jarl; tók jarlinn for„kunnar vel við Snorra, ok fór hann til jarls. ... Snorri „var um vetrinn með jarlinum, en sumarit eptir fór „hann austr á Gautland á fund Áskels lögmanns ok „frú Kristínar, er átt hafði Hákon jarl galinn. Snorri „hafði ort um hana kvæði þat er Andvaka heitir, fyrir „Hákon jarl, at bæn hans, ok tók hún allvel við Snorra, „ok veitti honum margar sæmiligar gjafir. Hún gaf

„hánum merki þat er átt hafði Eiríkr Svíakonúngr „Knútsson; þat hafði hann þegar hann felldi Sörkvi „konúng í Gestilsveini (Gestilhreimni). Snorri fór um „haustit aptr til Skúla jarls, ok var þar annann vetr „í allgóðu yfirlæti."

það segir sig sjálft að fyrr enn Snorri, sem aldregi hafði í Noreg komið, gat ort lofkvæði um Hákon jarl galinn, varð hann að þekkja æfisögu hans nákvæmlega. Sjálfr var hann hinn mesti rithöfundr, vaninn sögulestri frá barndómsárum sínum í Odda hjá Jóni Loptssyni, ok mun því án efa hafa fært það í rit er hann frétt hafði um Hákon galinn, þó svo, að því varð hentuglega komið fyrir til viðbætis þeim Noregs konúngasögum, er hann þá hefir verið farinn að semja. þau tíðindi mátti hann vel nema af ymsum Íslendíngum, er í Noregi höfðu verit, t. d. Guðmundi biskupi Arasyni, sem dvalizt hafði hjá Hákoni konúngi Sverrissyni ok var í vináttu við hann, ok líka þá um nokkr ár við Snorra.

þessi saga nær til ársins 1210, þá friðr var góðr orðinn um allan Noreg, en hreystiverk Hákonar jarls því til lykta leidd, ok mun sagan þannig enduð á Íslandi 1211; þá eðr 1212 hefir Snorri líklega sendt jarli lofkvæðit (ok máskè sögnna með), en fengið gjafir hans 1213. þá ætlaði Snorri að heimsækja jarlinn næsta ár í Noregi, en hann andaðist 1214, ok varð því ekkert af þeirri ferð. Sú saga, er Snorri þegar hafði sendt, eðr ætlaði sjálfr meðferðis að hafa, mun vera sú er í Eyrspennli stendr, en síðan hefir Snorri aukið hana eptir greinilegari frásögum fróðra manna, er þeim tíðindum kunnugri voru. Ráða má það af Skálholtsbók ok nýfundnu fróðlegu skinnbókar broti, að sú saga hefir síðan aukin verið, en annars líklega eptir andlát Hákonar galins, ætluð ok færð frú Kristínu, systurdóttur Margrètar drottníngar, fyrrum eginkvinnu

Hákonar jarls galins. þessi svokallaða saga þriggja Noregs konúnga segir rannar mest frá nefndum jarli, frá upphafi til enda, uns lokið var herförum hans, en sleppir flestu því er skerða kynni heiðr hans eðr Margrètar drottníngar, er sumt þó fór mjög í hámæli meðal Norðmanna, ok varð eigi síðar yfir þagað í ritgjörðum. Síðasti kapítuli sögunnar, um stríðið milli Sörkvirs ok Eiríks Svíakonúnga, virðist nokkuð undarlega við aukinn, máskè til skemtunar Gautum eðr Svíum, þegar Snorri ætlaði á fund þeirra ok frú Kristínar, enda fèkk hann líka merki þat, er borið var í þess stríðs síðasta bardaga, meðal annarra vingjafa af frúnni sjálfri. Tèðr kapítuli ber annars ljóslega vitni þarum, að höfundr sögunnar lifði á þeim dögum er þar um greindir viðburðir skèðu, með þessum orðum: „þessa frásögn sagði smiðrinn sjálfr Filippo jarli þann „sama vetr í Túnsbergi, en sá sagði oss, er þá heyrði „á." — Eitt skinnblað í arkarformi, áðr öldúngis ónotað, höfum vèr fundið af þessari sögu, merkt *J* í mismunargreinunum. það hángir rannar saman við 13da brot Sverrissögu, hvörju vèr þegar lýst höfum í formála 8da bindis, bls. XXIV-XXVI, ok eru brot þessi líklega úr sömu bók sem hið 9da Sverrissögu, hvört vèr ætlum að vera frá 14du öld; sjá samastaðar bls. XXI. Blað þettað er með sömu hönd ok þau hèrumgetnu, ok má því þannig líkan aldr ætla. Efst á því stendr (af misminni eðr misgáníngi) með Árna Magnússonar hendi: *„Úr Hákonar sögu gamla."*

b) Lengri saga fyrrnefndra þriggja konúnga, sem öll (eðr mest öll) einúngis er til í danskri útleggíngu (eðr útlögðu ágripi) af Snorra Sturlusonar Noregs Konúnga sögum, samdri af prestinum Pètri Claussyni Undal 1599, ok prentaðri í Kaupmannahöfn 1633, 4to. Er hún nú að nýu, eptir tèðri útleggíngu, á prent útgefinn, með sömu orðum og að mestu leiti með sama ritshætti,

með viðbættri nýrri íslenzkri útleggíngu, gjörðri af lim fèlagsins fornritanefndar, Herra Aðjúnctus Sveinbirni Egilssyni. Því er miðr að hin eldri danska sýnist í nokkrum stöðum ekki að vera hin bezta, en er þó í einum stað (bls. 111) rèttari enn báðar fyrrumskrifaðar skinnbækur. Lengi hafa menn verið í efa um, hvört Clausen mundi haft hafa gamalt íslenzkt eðr norrænt frumrit eðr eigi; líklegra var að hans verk mundi útleggíng vera, ok lètu því þeir hálærðu útgefarar af Noregs Konúnga sögum (1813) hana að nýu prenta, þó nokkuð lagaða éptir vorrar tíðar máli ok ritshætti. Nú erum vèr gengnir úr öllum skugga um efni þetta, ok höfum hèr fundið:

c) Þrjú forn brot þriggja aðskiljanlegra skinnbóka af lengri sögu Hákonar, Guttorms ok Inga; — á turni meðal ýmislegs skinnblaða rusls í Árna Magnússonar handrita safni, þessi uefnilega:

1. Kálfskinnsblað í fjögrablaðaformi, nær því algjörlega ólæsilegt, nema með lángvinnustu ok mestu augnaraun, vegna slits ok sorta; — í hinni gömlu, mjög merkilegu bók hefir þessum sögum verið knýtt við Sverrissögu, líka þeirri er finnst í Flateyarbók; vèr höfum lýst þessu blaði nákvæmar í voru útgáfu bls. 214, ok vísum enn framar til formála 8da bindis bls. XXVI-XXVII (Nr. 14), hvar vèr á gitskað höfum að brot þetta sè úr 14du öld. Utan um það lá pappírsblað með þessari áteiknan Árna Magnússonar: „Þetta „blað trúi eg sè það sem eg keypti utan um bók á „þeirri Auction sem stóð í Mag. Albert Wittes Resi„dentz í Kaupenhafn. *Scripsi* 1726, *mense Augusto.*"

2. Heilt blað úr gamallri kálfskinnsbók í fjögrablaðaformi (sjá bls. 217). Utan um það lá brotin hálförk, hvará ritað var með hendi Árna Magnússonar: „þessi 2 innlögð blöð eru fundin í Noregi. Eg heft „fengið þau af Ásgeiri Jónssyni, en hann fèkk þau

„frá Hr. Truið Nitter, presti, í Norðlöndum, hver þau „hafði tekið frá stúlku einni, er þau ætlaði að brúka „til að sauma á. Fyrra blaðið er úr Sverrissögu; hið „síðara er úr *Appendice Sverrissögu*, öðruvís samsettri, „enn vær almennilega höfum, ok má þetta síðara blað „haldast fyri raritet. NB. þetta blað accorderar við „þá dönsku version nærri lagi." það blað Sverrissögu, er fyrr hefir legið innan í téðri hálförk, mun líklegast verið hafa hennar 12ta brot (sjá formála 8 bindis bls. XXIII), þar það er öldúngis í sama formi, ok með nokkut líkri en þó smærri hönd. Réttritunin er ok hin sama; virðist oss því líka blað þetta ritað að vera á öndverðri 14dn öld.

3. Tveggja blaða brot (í einu) úr afgamallri lambskinnsbók í áttablaðaformi (sjá bls. 221, 224 o. f.). þau eru víða hartnær ólæsileg, ok sumstaðar til fulls vegna kants þess sem af blaðinu er skorinn; því sem í vantar höfum vér viðbætt eptir ávísun Clausens útleggíngar, ok stundum líka hinnar styttri sögu. Blöð þessi virðast oss að vera úr 13du öld. Sumstaðar eru orðin eigi reglulega aðskilin, ok *þ* stendr þar nær því allstaðar í staðinn fyri *ð*; *e* setst ok stundum fyri *æ*, t. d. í orðinu *etla*. þessi merkilegu blöð sýnast að vera úr sömu bók ok hið 11ta brot Sverrissögu, hvörju vér lýst höfum í formála 8da bindis bls. XXII-XXIII. Um ekkert þeirra höfum vér séð neina uppteiknun frá Árna Magnússonar hendi.

Auðséð er það að öll þessi brot hafa heyrt til þeirrar sögu, hvörja Pétr prestr Clausen á dönsku útlagt hefir, þó hann hafi látið stökuorð, sem voru honum of þúngskilin, hjá líða, eðr ekki útlagt þau sem skyldi, nema þau annars svo hafi staðið í frumriti hans, sjá t. d. skíríngargreinir vorar, bls. 105 ok 109. Bls. 68 stendr ýmislegt meir í útleggíngu hans en voru frumritsbroti, bls. 218, en mögulegt er, að hann

hafi tekið það úr sögu Hákonar Hákonarsonar (hjá oss í 1ta kap. bls. 230), ok skotið því hèr inn á þann stað, hvar honum þótti þat bezt til fallið. Síðast á bls. 104 vanta hjá Clausen nokkrar línur sem ok voru mjök vandlesnar í frumriti voru, bls. 222; bls. 106 vantar líka nokkut; sbr. bls. 223 3 línu o. flg. Bls. 138 nefnist þorfinnr hirðsveinn (að viðrnefni) sviðbrandr (Svidebrand) sem vantar í öll vor frumrit. Bls. 140 er tölunni 11 viðbætt; þarámút sleppir sú útleggíng þar mörgum atvikum er finnast í frumritinu bls. 225 ok 226, en samt vantar sumt hèrí, sem stendr í henni. Bls. 142 er Clausen miklu fáorðari um erkibiskups kosnínguna o. fl. enn frumrit vort bls. 227. Hjá honum bls. 144 ok síðast hjá oss bls. 228, er ok mikill munur á staðanöfnum, eins ok vèr annars í allri íslenzku útleggíngunni höfum gjört oss ómak fyrir leiðrèttíngu manna- ok staða-nafna, sem víða eru mjög afbökuð í hinni dönsku.

þessa lengri þriggja konúnga sögu eignum vèr líka Snorra Sturlusyni, ok álítum hana, svo at segja, fyri 3ðju auknu ok endrbætta útgáfu styttri sögunnar. Eptir áudlát Hákonar jarls galins mun Snorri um hríð vart hafa fengizt við framhald sögu hans, þar hann þess vegna settist aptr af ákvarðaðri Noregsferð sinni; 1217 um sumarit spurðist til Íslands fráfall Inga konúngs, ok það með, að bróðir hans, Skúli jarl, væri kominn um sinn til æðstu valda í Noregi; án efa hefir það líka þá (eðr fyrrum) frèttst, að jarl sá væri mesti vinr skáldskapar ok saguafræðis, eins ok bróðir hans verit hafði. þessar freguir hafa þá knúið Snorra til að framkvæma sína lengi fyrirhugnðu utanferð; mun hann svo á næsta vetri hafa aukið eldri söguna, ok undir eins ritað framhald hennar sem nær til jarldóms Skúla ok audláts Inga konúngs, 1217, er þá voru hinar síðustu freguir, sem honum höfðu fluttst úr Noregi. Um

sumarit 1218 sigldi Snorri til Noregs ok mun, strax er hann þar kom, hafa fært Skúla jarli sögnna; er það þá vel skiljanlegt, að jarl „tók Snorra forkunnar vel." Snorri Sturluson var tvo vetr með Skúla jarli, ok gerðu þeir Hákon konúngr hann skutulsvein sinn (St. S. 4 þ. 25 kap.); um það tímabil hafði hann nógar tómstundir til að bæta sögnna ok auka við hana, eptir fyrisögu sjálfs Skúla jarls, eins ok Sverrir konúngr fyrrum gjört hafði við höfund sögu sinnar. Snorri orti tvö kvæði um Skúla jarl, en í kvæðis ok líklega einnig sögu laun þáði hann eigi minna af jarli (auk tèðrar vetrvistar), en hafskip gott ok 15 stórgjafir aðrar (l. c. 4 þ. 26 k.)

Eitt er það helzt, meðal annars, sem dregr oss til þessa hugarburðar: sú kríngumstæða, að Skúli jarl, í fyrri sögunni, einúngis er nefndr einu sinni, við lítilfjörlegan atburð, en lengri sagan getr hans þarámót víða. Frásagan um Skúla jarl byrjar þar (bls. 95) með laungum ok greinilegum ættartölum þeirra bræðra, Hákonar jarls, Inga konúngs ok Skúla jarls, er sýna at Bárðr, faðir hins síðast nefnda, var kominn frá Noregs konúngum ok Hákoni jarli ríka. Því næst segir greinilega frá konúngstekju Inga Bárðarsonar ár 1204, ok því með, að hálfbróðir hans Hákon galinn ekki var kosinn, vegna þess, að hann var gautskr í föðurætt; í fyrri sögunni (bls. 8) er þessarar orsakar eigi getið, heldr annara mótmæla erkibiskups. Um Inga segir ok hèr at hann væri jafnborinn Hákoni galinn að konúngsætt, en kynjaðr að faðerni af ennm beztum ættum í þrændalögum. Bls. 107, 222 segir enn fremr frá uppeldi Skúla jarls ok bls. 131 því sem hann hafðist að í bardaganum í Niðarósi ár 1206; bls. 161 getr þess (eins ok styttri sagan bls. 42) að Skúli var meðal annars tignarfólks í Björgynjar borg, þegar hún var upp gefin, 1207, en hèr er því viðbætt, að erkibiskup þá tók hann til sín. Bls. 203 um lèn Skúla

konúngsbróðnr í Sogni ok skipabygging hans; bls. 202-205 um hreysti hans (framar enn Ínga konúngs) í bardaganum á Strind, er niðrþaggaði gjörsamlega þá uppreist, ok er hèr merkilega viðbætt, að hún hafi verið eignuð Hákoni jarli galinn, (sem heldr vildi konúngr vera enn annar þeirra Bárðarsona) bls. 206: Skúli vegr Pál dróttsetta í hefud fyri fjörráð við Ínga konúng; bls. 210-213: Íngi konúngr gefr Skúla jarls nafn ok forræði yfir öllum liðsmönnum ok hirðinni; Skúli lætr búa útför konúngsins, ok virðuligan umbúnað yfir gröf hans. Að nokkru leiti mun þetta miða til að sýna að Skúli væri rèttr erfíngi Ínga-konúngs, en á því atriði bygði hann síðar tilkall sitt til Noregs ríkis, er loks dró hann til falls ok bana. Endar þannig saga þessi hin lengri ár 1217, eðr jafnvel, í tilliti þess sem sagt er um grafarbúnaðinn, 1218, árinu fyrir fyrstu utanför Snorra Sturlusonar til Noregs eðr ok hið sama ár er hann þángað kom.

B. Saga Hákonar Hákonarsonar hins gamla, Noregs konúngs, er fyrstr kom Íslandi undir það ríki, samin af bróðursyni Snorra Sturlusonar, Sturlu lögmanni þórðarsyni, fæddum ár 1214, dánum þann 30ta júlí 1284. Hún er einnig fyrr útgefin, sem 5ti partr hinnar stóru Kaupmannahafnar útgáfu af Noregs konúnga sögum, 1818, af sömu lærðum mönnum ok þær hèr fyrrumgetnu. þau hjálparmeðöl, sem þeir höfðu, höfum vèr fyrst ok fremst brúkað til þessarar vorrar útgáfu. Eins ok þeir völdum vèr til aðalrits:

1) þá svokölluðu Frísa skinnbók, er á latínu nefnist *Codex Frisianus*, eptir aðalsmanninum Otto Frís, er fyrrum átti hana, líklega um miðbil 17du aldar. Fremst á þessari bók (í Árna Magnússonar safni Nr. 45 í arkarformi) er hin svokallaða Heimskríngla, að undanfelldri sögu Ólafs hins helga; Sverrissaga finnst hèr heldr ekki. Í skíringargreinum Árna við *Schedas*

Ara fróða nefnist þessi skinnbók ypparleg (*Codex egregius*) „*qui olim fuit Ottonis Frisii, nunc vero in meo „museo asservatur, emptus ab hæredibus Jani Rosen-„crantzii.*" Að vísu er bók þessi skrifuð með ágætasta handarlagi, ok optast með góðum stíls- ok rèttritunarmáta, en samt inniheldr hún ekki þá fullkomnustu af Hákonar sögum. Hún merkist hèr *A.* Nákvæmr gegnumlestr hennar hefir sannfært oss þarum, að hún rannar er sæmilega gott en sumstaðar þó eigi nógu rètt eðr greinilegt ágrip einhvörrar eldri ok lengri. Til dæmis hèrum vísum vèr einúngis til bls. 346 í 107 kap. 6 mmgr., bls. 349-350 í 109 kap. 7 mismgr., bls. 351, 110 kap. 4 mmgr., bls. 353, 111 kap. 2 mmgr., bls. 380, 134 kap. 2 mmgr., bls. 414, 160 kap. 8 mmgr., bls. 415, 161 kap. 4 mmgr., bls. 426, 176 kap. 7 mmgr., bls. 437, 181 kap. 2 mmgr., bls. 443, 185 kap. 5 mmgr., bls. 460, 198 kap. 1 mmgr., bls. 473, 10 mmrg. Merkilegt er það að bók þessi í 207 kap. hefir snotra grein, er vantar í allar hinar. Víða finnast í henni ritvillur, af ógáníngi eðr vankunnáttu ritarans, sem leiðrèttar eru af oss, eptir hinum skinnbókunum, þegar þess virðist augljóslega við þurfa. Víðast vantar yfirskriftir kapítulanna í hana, ok er þeim þá við bætt úr hinum. Rèttritun hennar er víða fornleg eðr norskuskotin; þannig brúkast *seyni* fyri *syni*, *geyrði* f. *gerði*, *reyri* f. *rèri*, *lætu* f. *lètu*, *hæit* f. *hèt*; *x* stundum fyri *gs*, t. d. *fèlax* f. *fèlags*; *ft* nær allstaðar fyrir *pt*, t. d. *aftr* f. *aptr*; *þessor* setst ok stundum fyri *þessi* (*í acc. plur.*) Vant er á að ætla hvört bók þessi muni rituð í Noregi eðr Íslandi, því einstök orða tiltæki miða til hins fyrra t. d. í 243 kap.: „í Reykjaholti á Íslandi," en önnur þarámót til hins síðara t. d. í 59 kap.: „út hèr," hvar Ísland ljóslega meinast. Samt eru nokkr líkindi til að hún í öndverðu sè frá Noregi komin, einkanlega þaraf, að víða á spázíunum standa einar ok aðrar ávísanir um

innihaldið á 15da aldar Norsku, ok fáeinar á latínu, allar með daufu bleki ok stundum vart læsilegri hendi; t. d.: „*Her bygges Wermeland; Gudroud Konning i Skone; Adelstenus rex Anglorum; Gulatings Lag; Frostatings Lag; Harald och Knudt then rigke, Söner Swens kḡ i Dan; fundator Nidrosie O. t.; Olaff kg lod christne Grönlandh; Magnus hin gode let riita Graagaas; Harald kge war i Rysland och i Grickland; fundator Aslogie Haraldus; Oslo bigdis; Olauer kyrre let byggia Biorgen; Selleyar wetter; ypperste lagmen i Norrig; Soldano mittebantur falcones.* Í miðri bókinni finnast tvö múð ok dauf nöfn með rúnum neðst á spázinnni; sèst þaraf ᚦᛆᚱᚴᛂ(ᛚᛚ) (*Þorkell*) ok nokkru ofar ᚠ... ᚴᚱᛁᛉᚢ.... (*F... Grímu....*). Við þettað vort aðalrit (líklega úr 14du öld) eru samanbornar þessar fleiri skinnbækur:

2) Hin nafnfræga Flateyarbók í konúngsins bókahirðslu, í stærsta arkarformi, hèr merkt *B*, sem í mörgum stöðum er lengri ok greinilegari; þessi Hákonarsaga finnst rituð þarí frá 659da dálki til 750ta dálks, hèrumbil 1390.

3) Sú fyrrnmgetna Skálholtsbók, hèr merkt *F*; um hana er hið sama at segja sem um *B*, ok kemr þeim líka optast saman; frá 297 kap. vantar það sem eptir er sögunnar.

4) Sá sömuleiðis áðr umskrifaði *Eyrspennill*, hèr merktr *G*; hann inniheldr einúngis ágrip Hákonarsögu, sem víða er mjög stutt ok ófullkomið, en hefir þó sumstaðar meira enn *A*. Í bók þessa vantar heilt blað, um hvört getið er á sínum stað í mismunargreinunum, ok líka nokkur hin síðustu blöð (frá 310da kap.) eðr sögunnar seinustu 22 kapítula.

5) Pappírsbók, í arkarformi, Nr. 42 í Árna Magnússonar handrita safni, inniheldr hið allrastyttsta ágrip af Hákonarsögu, ok hefir þó á stöku stöðum meira eðr

greinilegara en *A*, en nær eigi lengra en framm í voru 273 kapítula (ok vantar því fulla 60 hina síðustu); hana einkennum vèr *H*. Bók þessari, sem er rituð eptir pergamentsbók, hvörja þormóðr Torfason nefnir *Gullinskinnu*, ok sjálf fyri laungu er undir lok liðin, höfum vèr lýst í formála 8da bindis bls. XXVII-XXVIII (en *G*, *B* ok *F* samastaðar frá XI til XVII).

þessi forn skinnbókabrot til Hákonar sögu, sem aldreigi fyrr hafa brúkuð verið, höfum vèr notað við samanburð hennar, ok fundust þau mest (ásamt þeim hèr að framan bls. VIII-IX umgetnu) í hulstrunum Nr. 325, (4,) 8, 10, í Árna Magnússonar handrita safni. Merkilegar mismunargreinir, er í þeim standa, höfum vèr hèr fært niðr á spáziuna, undir sjálft aðalritið, (nema þær úr öðru brotinu). Brotum þessum lýsum vèr þannig:

1. Kálfskinnsblað úr bók í fjögrablaðaformi af hvörju hinn neðsti þriðjúngr er skorinn; mismunargreinir úr því eru tilgreindar bls. 261 o. f. það virðist oss að vera frá síðara hluta 14du aldar, ok er ritsmáti þess sæmilega góðr; líklega er það komið frá Íslandi, þar Árni Magnússon fèkk það 1726 hjá Oddi lögmanni Sigurðssyni, því kemr ok mjög saman við Flateyar- ok Skálholts-bækur.

2. Tvö kálfskinnsblöð í fjögrablaðaformi. þettað brot fundum vèr síðar en skyldi, ok urðu því eigi þess mismunargreinir teknar til athugasemdar á sínum stað, undir textanum, bls. 325 o. f. í þessari útgáfu; byrja þau þar í 17du línu. Vèr skjótum því hèr inn þeim mismunargreinum, sem merkilegar eru, ok eigi standa í öðrum oss kunnum skinnbókum: bæði Askatín ok Ormr nefnast ábótar í Höfuðey, en *Eyrikr* áboti í Túnsbergi; Áskell kapalín nefnist hèr ok *Jónsson*, ok því hætist við að hann síðan hafi orðið biskup *„í Stafángri"* ok að hann hafi verið *„bróðir þeirra Arnbjarnar*

*ok Gauts á Meli.*" Gunnarr þrænda lögmaðr nefnist hèr (að viðrnefni) *grjónbakr*. Blöð þessi ná til bls. 333, 18du línu, ok eru að öðru leiti, en hèr er sagt, samhljóða Flateyar- og Skálholts-bókum; að líkindum eru þau rituð á Íslandi í byrjun 15du aldar.

3. Skaddað skinnbókarblað, af hvörju nokkut er klippt að ofan, í fjögrablaðaformi. Sjá bls. 400 o. f.; sýnist það að vera úr merkilegri bók, líklega úr síðasta hluta 14du aldar, mest samhljóða *B* ok *F*. Hèr sèst ekkert ð, ok æ er hèr opt sett fyrir *e*; tvöfaldt *á* brúkast opt.

4. Heilt blað, er sýnist að vera úr sömu bók; sjá bls. 415 o. f. Efst á því hefir Árni Magnússon skrifað: „í Reykholti, 1707."

5. Tvö samföst blöð úr skinnbók í arkar eðr fjögrablaða formi; af þeim er að ofan nokkut klippt; sjá bls. 431 o. f. þau eru líklega jafnaldra þeim næstumgetnu ok í mestu samhljóða Flateyar- ok Skálholtsbókum.

6. Kálfskinnsblað úr bók í fjögrablaðaformi, er byrjar í sögunnar 290ta kapítula, úr 14du eðr 15du öld. Hèr brúkast tvöfallt *á*, en *eó* fyrir *jó*; *r* líkist *z* í stafagjörðinni; *æ* setst opt fyrir *e*. Innihaldið er vel vandað, í tilliti til rèttrar meiníngar. Á blaðið hefir Árni Magnússon skrifað: „úr Austfjörðum 1711."

7. Einstakt blað úr skinnbók í fjögrablaðaformi, er byrjar í sögunnar 292 kapítula; sýnist að vera úr 14du öld; ritsmátinn er nokkut bundinn; *k* setst hèr stundum fyri *g*, t. d.: *almennilikt;* reglulegt ð finnst hèr varla. Hálförk fannst utan um blaðið, á hvörja Árni Magnússon þannig skrifað hefir: „þetta blað úr „Hákonar sögu Hákonarsonar fèkk eg 1719 af Professor „Gram, en hann hafði það flegið utan af bók *in bi-„bliotheca Lymvicana, supra Hopnerianam.* Mèr virð-„ist það vera úr *Codice academico* þeim sem kom frá „þormóði, er hann kallar Gullinskinnu ɔ: þeim sem eg

„lèt setja bandið um. Formið er að sönnu nokkru „styttra, en línurnar eru eins margar í hvörutveggju. „Skriftin er að sönnu smærri á þessu blaði, en hún „smækkar ok í *Codice Academico* eptir því sem á hann „líðr." Tèð skinnbók mun annars brunnið hafa í Kaupmannahafnar mikla bruna 1728. Blað þetta verðr eigi samanborið við vora *H*, þar sú bók ekki nær til tèðs sögunnar kapítula. Annarr virðist oss blað þetta innihaldsríkara en svo, að það svari til hennar vanalegu styttíngar ok orðfæðar.

8. Kalfskinnsblað heilt, er sýnist að vera úr sömu bók ok hið 3ja ok 4ða brot, hin fyrr um getnu. það byrjar í sögunnar 320ta kapítula.

9. Blaðsbrot vart hálft, úr skinnbók í fjögrablaðaformi, af hvörju ofan til er mikið klippt; mun vera úr sömu bók ok 3ja, 4ða ok 8da brot. það byrjar í sögunnar 323ja kapítula.

Sèrhvört fyrrgreindra brota einkennist í mismunargreinunum með sinni tölu. *P* þýðir í þeim þá fyrr prentuðu útgáfu sögunnar.

Í næsta bindi fylgir síðasti hluti Hákonarsögu, ásamt fleirum sögum Noregs konúnga, sem áðr ekki hafa í Danmörk eðr Íslandi verið á prent útgefnar.

Kaupmannahöfn, þann 28da Janúari 1835.

# SAGA HÁKONAR SVERRISSONAR, GUTTORMS SIGURDARSONAR OK ÍNGA BÁRDARSONAR[1].

[*Upphaf Hákonar Sverrissonar, er hann var til konúngs tekinn*[2].

Þat sama sumar er Sverrir konúngr andaðist um vârit áðr[3], var Hákon son hans til konúngs tekinn norðr í Þrándheimi á Eyraþíngi; hurfu at því ráði allir höfðíngjar þeir sem áðr höfðu þjónat Sverri konúngi föður hans[4]; [litlu aðr[5] hafði andazt Sigurðr lávarðr son Sverris konúngs, hann átti son eptir (er) Guthormr hèt[6]. En er Íngi konúngr spurði at Sverrir konúngr var braut farinn úr Víkinni, [er hann hafði setit um bergit, sem fyrr er ritat[7], fór hann út í Víkina, ok dvaldist þar til þess er hann spurði andlát Sverris konúngs; rèðu Baglar þá enn til skipa[8], ok fengu enn lið mikit; þeir ætluðu þá enn norðr til Björgynjar[9], en er þángat kom frèttin[10]

---

1) *þannig P; þennann titil vantar algjörlega í báðum skinnbókunum.* 2) *v. F.* 3) *b. F.* 4) höfðu þeir styrk mikinn, *b. F.* 5) nokkru fyrr, *F.* 6) þá er Sverrir konúngr sat um bergit, sem fyrr var ritat, þá var Íngi til konúngs tekinn ok var á Upplöndum, *b. F.* 7) *v. F hèr.* 8) þar í Víkinni, *b. F.* 9) þeim byrjaði heldr seint, *b. F.* 10) um ferð Bagla, *b. F.*

var þar fyri Sigurðr konúngsfrændi[1]; ok er hann spurði til Bagla, fór hann móti þeim með miklu liði[2]. Hann fann Bagla suðr á Jaðri, ok elti þá þar upp af skipum, ok tók öll skip þeirra ok fè þat allt er þeir höfðu; en Íngi flýði til Víkr austr, ok þaðan til Upplanda, ok lá um sumarit uppi í Mjórs; þá var hann svikinn af mönnum sínum sjálfs. Gunnar lest hèt maðr, hann hafði Íngi áðr settan næstan sèr ok gert marga luti vel til hans. Íngi var drepinn af bændum í Eynni helgu í Mjórs; eyddist þá allr flokkrinn, ok stukku [margir úr landi[3], sumir suðr til Danmerkr, en sumir lengra á braut. Margrèt drotníng, er átt hafði Sverrir konúngr, fór eptir andlát hans austr í Gautland, ok hafði með sèr Kristínu, dóttur þeirra Sverris konúngs, ok margar gersimar er konúngr hafði átt[4]. Þetta sama vâr[5] fór Hákon konúngr[6] austr til Víkr, ok sat þar um sumarit lengi; hann sendi orð biskupum öllum þeim, sem verit höfðu í missætti við Sverri konúng, at þeir kæmi á hans fund ok gerði sætt við hann, eptir því sem Sverrir konúngr hafði ráð til gefit áðr hann lètist. Hann sendi ok orð eptir Kristínu systur sinni, ok tóku[7] hana af nauðigri drottnínginni[8]. Biskupar fóru heim til stóla sinna um sumarit, ok gerðust ástvinir kon-

[1]) hann átti systur Sverris konúngs; Helga hèt móðir hans, dóttir Sigurðar konúngs, *b. F.* [2]) ok stórum skipum ok mörgum, *b. F.* [3]) þeir or landi er mest voru sakbitnir, *F.* [4]) dvaldist hann þar um vârit, *b. F.* [5]) sumar, *F.* [6]) norðan allt austr, *b. F.* [7]) tók, *F.* [8]) ok varðveitti kost hennar, *b. F.*

úngs. Hákon konúngr fór um haustit til Björgynjar ok sat þar um vetrinn, [var hann orðinn allvinsæll[1]. Þat haust kom utan af Íslandi Guðmundr Arason, ok var kosinn til biskups yfir Norðlendínga fjórðúng; tók konúngr allvel[2] við honum; var biskupsefni með honum um hríð, var hann inn mesti vin konúngs jafnan síðan. Einarr prestr átti systur Hákonar konúngs, [aðra dóttur Sverris konúngs[3], ok hafði sýslu suðr á Rogalandi; hann var inn mesti höfðíngi, hann [var allkærr Hákoni[4] konúngi. Margir aðrir voru þá höfðíngjar með Birkibeinum: Hákon galinn, Pètr steypir, Sigurðr konúngsfrændi, Hróarr konúngsfrændi, Eyvindr prestsmágr, ok margir aðrir [ágætir menn bæði at ættum ok mannvirðíngu[5].

*Frá Erlíngi steinvegg.*

2. Maðr hèt Erlíngr steinveggr, er kallaðr var son Magnúss konúngs Erlíngssonar; hann var í gæzlu á Vindlandi[6], ok haldinn þar í turn einum. Margrèt hèt kona vindversk; hún kom honum þaðan með þeim hætti, at þau ristu í sundr klæði sín ok lögðu í streng, fór hann út um glugg einn ok ofan fyri steinvegginn með festinni, en festin vanst eigi til jarðar, ok fèll hann þá ok lamdist mjöðmin; en með því at nótt var myrk, þá komst hann á braut, ok kom fram í Danmörk; síðan var hann kallaðr Erlíngr

[1]) gerðist hann brátt vinsæll höfðingi, *F.* [2]) blíðliga, *F.* [3]) *v. F.* [4]) hafði mikla virðing af, *F.* [5]) göfgir menn, *F.* [6]) *þannig rèttar F, (samhljóða fyrsta broti hinnar lengri vitgjörðar þessarar sögu)*; Vinlandi, *G.*

steinveggr. Sumar þat er Hákon konúngr var í Víkinni, kom Erlíngr steinveggr á Skáneyri, ok birti fyri Norðmönnum[1] ætt sína; buðust honum þar[2] menn til fylgðar, en hann kveðst eigi vildu reisa flokk á móti Hákoni konúngi eða gera óróa í landi, meðan hann væri konúngr yfir Noregi. Fór [Erlíngr þá[3] til Kaupmannahafnar, ok var þar um vetrinn.

*Andlát Hákonar konúngs Sverrissonar.*

3. Hákon konúngr fór um haustit til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn, en um sumarit fór hann til Víkr austr, en fór aptr til Björgynjar um haustit, ok efnaði þar til vetrsetu. Þat haust kom Erlíngr á Skáneyri[4], ok þá kom Margrèt drotníng austan af Gautlandi[5] til Björgynjar, ok sat þar um vetrinn, ok lagðist heldr þúngt á með þeim Hákoni konúngi. Um vetrinn á jólum fèkk Hákon konúngr sótt, ok tók þegar svâ hart, at hann fèkk eigi stýrt sèr, lèt hann þá færa sik upp til Borgar, ok lá þar litla stund áðr hann andaðist; þat var inn átta dag jóla. Hann var jarðaðr í Kristskirkju, ok stóðu menn mjök hryggvir yfir grefti hans, þvíat hann var manna vinsælastr; [lèttlátr var hann ok lítillátr, hirðprúðr[6] ok háttagóðr, hraustr ok sigrsæll í mannraunum, sem [fyrr er ritat, at hann þótti jafnan vera[7] traust Birkibeinum[8]. Þat var kent Mar-

[1]) Norðanmönnum, *F.* [2]) þegar margir, *F.* [3]) Hákon konúngr þaðan (*rángt*), *F.* [4]) sem fyrr var sagt, *b. F.* [5]) *þannig rèttar F* (*samhljóða fyrrtèðu sögubroti*); Gotlandi, *G.* [6]) litilátr var hann við alþýðu, *F.* [7]) áðr er sagt at Sverrir konúngr væri; þótti þat jafnan, *F.* [8]) sem hann var, þegar hann var eigi sjálfr við, *b. F.*

grètu drotuíngu at hún hefði ráðit mann til at svíkja konúnginn í drykk; þann mann tóku Birkibeinar ok [höfðu þessi kennsl á honum[1], en hann setti þar syn fyri ok[2] bauð skírslur, ok kom því svâ at hann fastaði til járns, ok bar járnit allsköruliga, en er höndin var leyst, þá var hún mjök brunnin; eptir þat var hann fluttr út fyri Björgynjarvâg ok drekkt þar.

*Guthormr til konúngs tekinn Sigurðarson.*

4. Þat sama vâr[3] tóku Birkibeinar sèr konúng[4], Guthorm son Sigurðar lávarðar, hann var þá barn at aldri; en fyri [flokkinn bundust[5] Hákon galinn, systurson Sverris konúngs, ok Pètr steypir, annar systurson Sverris konúngs, hann átti þá Íngibjörgu, dóttur Magnúss konúngs. Þessir voru ok með[6] flokkinum, Sigurðr konúngsfrændi, Eyvindr prestsmágr, Einarr konúngsmágr, Hróarr konúngsfrændi ok mart annarra göfugra[7] manna. En er þetta spurðu þeir menn, er verit höfðu fyrrum með Böglum, þótti þeim sèr ekki mjök friðvænt með Birkibeinum, ok fóru úr landi til Danmerkr. Þorleifr skálpr ok þeir synir Önundar lunz[8], Oddr ranr[9] ok Arnbjörn tröll komu til Erlíngs steinveggs í Kaupmannahöfn; þá hófst þar flokkrinn; dreif þar mart manna til þeirra, er áðr höfðu verit með Böglum; þeir sendu þá boð norðr í Víkina til vina sinna, ok stefndu þeim til Álaborgar um föstu. Þar kom þá af Noregi Hreiðarr sendi-

1204

[1]) báru þeim sökum, *F.* [2]) *v. F.* [3]) sumar, *F.* [4]) þar í Björgyn, *b. F.* [5]) flokkinum voru þessir höfðingjar, *F.* [6]) höfðingjar, *b. F.* [7]) ríkis, *F.* [8]) linz, *F.* [9]) rumur, *F.*

maðr[1], Sölvi Dísarson, Philippus af Veggini[2], [þeir höfðu þá mikinn skútnaher[3]; en er þeir komu í Víkina, þá gekk allt fólk undir þá; ok fóru svâ austan[4] til Oslóar; þar var þá fyri Nikolás biskup. Þá bað Erlíngr biskup [gera sèr skírslur til faðernis, en biskup vildi þat eigi, ok[5] bað hann bera járn í Borg[6]; fór þá Erlíngr til Borgar, ok fastaði þar. Kom þar þá Nikolás biskup, ok er Erlíngr skyldi taka [undir járnit[7], þá sagði biskup hann skyldi bera ekki járn: farðu til Túnbergs, ok ber þar járn, þvíat þar mun koma Danakonúngr, ok skal hann sjá járnburðinn. Fór þá Erlíngr til Túnbergs, ok beið þar Danakonúngs. Nikolás biskup ok Danakonúngr höfðu þàt ráð gert með sèr, àt hann[8] skyldi fara til Noregs, ok hafa með sèr Philippus, son Símunar Kárasonar, systurson Ínga konúngs Haraldssonar, ok frænda Nikolásar biskups[9]. Þat var um vârit fyri Bótólfsvöku, er Valdamar Danakonúngr kom til Túnbergs, ok hafði meir en CCC[10] skipa, ok fór allspakliga; þá fastaði Erlíngr til járns annat sinn, ok bar járnit vel ok sköruliga; sá þá skírslu biskup ok konúngr, en er höndina skyldi leysa, þá setti Danakonúngr [menn vâpnaða[11] umhverfis kirkjuna, ok ef Erlíngr yrði eigi skírr, þá var auðsærr hans

1) Jóns son drotníngar, *b. F.* 2) Veiginni, *F.* 3) þá lyptu þeir þaðan ferðinni með skútnaherinn, *F.* 4) austr, *F.* 5) at gera skírslur í Osló, gengu þá at sveitarhöfðingjar, ok fulltíngðu máli Erlings; kom þá svâ at biskup, *F.* 6) ef hann vildi, *b. F.* 7) við járni, *F.* 8) konúngr, *F.* 9) ok skyldu þeir halda honum (hann) til konúngs, *b. F.* 10) þrjú hundrut, *F.* 11) vopnaðan her, *F.*

kostr[1]. Var hann í boði Danakonúngs um daginn; konúngr gaf honum[2] hálfan fjórða tug skipa með öllum reiða. Eptir um myrgininn var blásit til húsþíngs[3], en áðr þíngit væri, hafði Nikolás biskup því til leiðar komit af fulltíngi vina sinna ok sjálfs síns framkvæmð, at Filippus frændi hàns var tekinn til jarls; hèt biskup því, at hann skyldi veita þeim með allan sinn styrk; var þá Erlíngr til konúngs tekinn[4]; fór þá Danakonúngr suðr til Danmerkr[5]. þá gekk til handa Erlíngi Arnbjörn, son Jóns Gautssonar, ok Helgi Birgisson, Ásbjörn koppr[6], Gyrðr Beinteinsson[7], Guthormr þvari[8], Ormr lángi, þórðr dokka, Benedikt af Gumanesi, Símun kýr, Kolbjörn rauði, Gyrðr skjálgi, ok höfðu allmikit lið[9]. A bak Jónsvöku [höfðu þeir[10] Borgarþíng; var þar Erlíngr til konúngs tekinn, en Filippus til jarls. [Birkibeinar stukku[11] allir úr Víkinni, ok fóru norðr til þrándheims, en sumir til Björgynjar[12]. þetta sumar andaðist Guthormr konúngr þar í þrándheimi. Birkibeinar stefndu þá Eyraþíng, var þar þá þórir erkibiskup ok allr fjölði inna vitrustu manna[13] í þrændalögum; var þar þá rætt

---

[1]) hann var allvel skírr, *b. F.* [2]) at þeirri veizlu, *b. F.* [3]) Hangaþings, *F.* [4]) þá gaf hann Filippo jarlsnafn á því sama þingi, *b. F.* [5]) en lið dreif til Erlings konúngs ok gerðist honum handgengnir, *b. F.* [6]) kantifa, *F.* [7]) *ó. F.* [8]) þrimr, *F.* [9]) ok fritt, *b. F.* [10]) fóru þeir yfir til Borgar, ok áttu þar, *F.* [11]) síðan fóru þeir aptr til Túnsbergs, en er Birkibeinar spurðu þat, stukku þeir, *F.* [12]) en er Birkibeinar spurðu at Dana herr lá í Víkinni, sneru þeir þá norðr til þrándheims, er áðr sátu í Björgyn, ok dvöldust þar um sumarit, *b. F.* [13]) bænda, *F.*

um konúngs tekju. Hákon galinn hafði þá fengit frú Kristínar, [en erkibiskup hafði talit[1] at því; vildu flestir[2] bændr taka hann til konúngs, en erkibiskup mælti á móti; var þá tilnefndr Sigurðr konúngsfrændi, dótturson Sigurðar konúngs Haralldssonar, ok Pètr steypir, systurson Sverris konúngs. Íngi hèt son Cicilíu konúngsdóttur, bróðir Hákonar galins ok son Bárðar Guttormssonar, hann var þar þá í kaupángi; en fyri því at hann var þrænzkr at ætt, þá vildu [alþuðan hann[3] til konúngs; var ok þat erkibiskups vili; hafði ok Íngi áðr verit með honum; var þá Íngi til konúngs tekinn, en fyri því at hann var æskumaðr ok ekki reyndr í [herstjórn, en[4] var vandi mikill [fyri at sjá[5], þá var þat ráð liðsmanna at Íngi gæfi Hákoni jarls nafn ok svâ var gert. Eptir Ólafsvöku fór Erlíngr [or Túnsbergi með öllum her sínum, ok sneri norðr með landi, ok höfðu[6] hálfan fjórða tug skipa; tóku leiðángra ok allar konúngs skyldir, fóru heldr tómliga; en er þeir [komu til Björgynjar[7], þá voru í borginni Birkibeinar: Dagfinnr, þorgrímr af Ljánesi, þórðr brasi[8] ok nær CC manna; gengu Baglar[9] upp í bæinn ok sóttu upp til borgar, ok skutust á um hríð, þá mælti Erlíngr steinveggr við sína menn: skjótið eigi á þá, því at þeir eru allir

[1]) sagði erkibiskup, *F.* [2]) liðsmenn ok, *b. F.* [3]) bændr hann helzt, *F.* [4]) hirðstjórn, en í annan stað, *F.* [5]) í at bindast fyri flokkinum, er ófriðr var mikill, *F.* [6]) konúngr ok Philippus jarl ok Nikolás biskup ok allr herr þeirra or Túnsbergi með, *F.* [7]) fóru til Túnsbergs (*rángt*), *F.* [8]) bragi, *F.* [9]) *þannig leiðrètt eðr lesið úr* bb *í báðum skinnbókunum.*

vârir menn. Baglar sváfu jafnan á skipum um nætr, sumir við akkeri, en sumir [yfir við Múnkabryggju[1], en voru jafnan í bænum um daga; þeir fóru jafnan upp til borgar, ok skutu hvârir á aðra, urðu margir[2] menn sárir, en fáir[3] fèllu. Einn dag reyru þeir Erlíngr konúngr á nokkurum skútum á Hólmi, ok lendu við Biskupsbryggjur[4], ok gengu upp til Krists kirkju; en er þat sáu Birkibeinar, gengu þeir ámót þeim ok[5] veittu þeim svâ harða árás at Baglar hrökkva undan; hljóp Erlíngr á kaf ok sumt liðit, en sumt fèll, sumir náðu skipum[6]; ok er þeir náðu skipunum, spurðu þeir Erlíng hvert þeir væri enn [þeirra menn? Konúngr sagði[7] at svâ var. Litlu síðarr fóru Baglar or bænum ok norðr með landi, settu sýslumenn í hèruð, ok fóru þá norðr í Rúgsund, ok lágu þar nær III vikur[8]; þá tók Nikolás biskup landskyldir sínar, ok þá kom at þeim leiðángr mikill; þá kom til þeirra Loðinn búandi af Leykni[9] ok Nikulás[10] Bótólfsson ok Kaurlúngr, bróðir hans, Endriði hegri[11], Kálfr af Hornyn[12]. Þá spyrja þeir at Birkibeinar hafa tekit sèr konúng ok jarl, [ok búast nú norðan með her mikinn; snúa Baglar þá aptr[13] til Björg-

1) við Múnkabryggjur, *F.* 2) nokkrir, *F.* 3) sumir, *F.* 4) konúngsbryggju, *F.* 5) ok skutust á, en er þeir sá at þeir höfðu litit lið, þá hlaupa Birkibeinar á þá ok, *b. F.* 6) ok voru dregnir í skip upp, fóru þeir við þat til liðs síns, *b. F.* 7) konúngsmenn er í borginni voru? hann segir, *F.* 8) nætr, *F.* 9) Lykkjum, *F.* 10) bondi, *b. F.* 11) heggi, *P.* 12) Hornum, *F.* 13) *frá* [ var þetta ráð Nikulásar ok konúngs at fara aptr til Björgynjar ok vinna borgina; sigla þeir nú suðr, *F.*

ynjar, ok lögðu skipum sínum inn í Laxárvâginn.[1] Biskup hafði þar [suðrmann einn[2], er gera kunni maungu, ok kveðst hann þar hafa brotit með marga borg: [ok ef eigi brýt ek þessa, sagði hann, leggit mik í slaunguna ok slaungvit mèr at borginni[3]. Þá voru fluttir til viðir til borgarinnar, ok tekit at búa maunguna[4], þetta var kallat maungu[5] haust. Þá kom sú njósn til bæjarins at sèn væri siglíng Birkibeina norðan um Stafafjörð[6]; [var þá blásit[7] til stýrimanna stefnu, [ok leitaði eptir hvat mönnum þætti ráð til at taka[8]. Konúngr vildi[9] at þeir biði[10] ok hèldi[11] orrostu við Birkibeina[12]. Biskup svarar: ef þú vill, konúngr, berjast hèr við[13] Birkibeina, þá muntu eigi þurfa at gera ráð fyri [þessum mönnum optarr, er nú fylgja þèr; er þat mitt ráð at vèr búimst sem skjótast ok setim upp segl vâr, ok siglum í Vík austr; berjumst þar við Birkibeina, ef þeir sækja þángat eptir. Var þat ráðs tekit[14]; lèt biskup þegar færa[15] tjöld af[16] skipi sínu, ok sneri út or vâginum, ok síðan svâ hverir [sem búnir urðu[17]; fóru bæði nætr ok daga, þar til er þeir komu til Túnbergs, fór þá biskup inn til Oslóar. Birkibeinar komu til Björgynjar litlu

---

[1]) Laxavogh, *F.* [2]) einn mann, *F.* [3]) *frá* [ *v. F.* [4]) *leiðrètt fyri* munguna (*G*); um slönguna, *F.* [5]) *l. f.* mungu, (*G*); möngu, *F.* [6]) Stúfafjörð, *F*; Stapafjörð, *P.* [7]) lèt biskup þá blása, *F.* [8]) *frá* [ spurði hann þá hvat mönnum þætti ráðligra, *F*; leitaði *fyri* leitat *sýnist ok at benda hèr til undanfarinnar ritvillu i Eyrspennli eðr hans frumriti.* [9]) sagði þat sitt ráð, *F.* [10]) þar, *b. F.* [11]) þar, *b. F.* [12]) fylgðu því ráði aðrir, *b. F.* [13]) sæborgir *b. F.* (*samkvæmt broti hinnar lengri sögu*). [14]) áðr sleit stefnunni, *b. F.* [15]) upp setja, *F.* [16]) á, *F.* [17]) at öðrum, *F.*

síðar en Baglar voru á brautu[1], dvöldust þeir í Björgyn um hríð, sneru síðan aptr norðr til Þrándheims, ok sátu þar um vetrinn, en Baglar í Víkinni; á Upplöndum voru hvârirtveggju.

*Um manntal.*

5. Á Upplöndum var af Birkibeinum Úlfr hani, Haraldr kesja[2], Guðleikr flotbytta, ok enn fleiri sveitarhöfðíngjar; en af Böglum var Þóraldi Augusun[3], Guðleikr skreiðúngr, en á Hríngaríki Benedikt af Gumanesi; á Valdresi var Jón griðmaðr[4]; þeir felldu um vetrinn Narva spjót ok mart manna með honum, en sumir komust undan[5]. Um vârit eptir páska sendi Erlíngr frá sèr skútur ok öll[6] lèttiskip, var þar fyri Arnbjörn Jónsson, Nikolás Bótólfsson, Loðinn stallari, Gyrðr Benteinsson, Atli griðkona; þeir höfðu XVIII skip, ok ætluðu til Björgynjar, ok fóru skjótliga; en er þeir komu til[7] Fjölbyrju, spurðu þeir at Einarr konúngsmágr var með sveit manna í Stafángri ok háfði ekki[8] spurt um þeirra ferð; sneru þeir þá þángat ok sigldu um daginn fyri Jaðar, ok um miðs dags skeið til staðarins; en er Einarr fèkk njósn af ferð þeirra, var hann á sættarstefnu, ætlaði hann at eigi mundi svâ skjótt at bera; en er þeir Einarr sá skipin, þá hljópu

[1]) þeir höfðu mikit lið ok stór skip, þóttust þeir eigi mega rekast eptir þeim á vetrar dag, *b. F.* [2]) kerra, *F.* [3]) Guguson, *F.* [4]) svarti, *F.* [5]) ok stukku ofan í Sogn; opt voru þar atferðir ok eltíngar um vetrinn, tóku hvârir menn fyrir öðrum. Sat Erlíngr konúngr um vetrinn í Túnsbergi, *b. F.* [6]) *v. F.* [7]) fyri, *F.* [8]) *báðar skinnbækrnar (ok líka eitt af eptirfylgjandi brotum) hafa þetta orð, hvört P meinar vanta í G.*

þeir í Svithunskirkju ok upp[1] í stöpulinn. Baglar brutu upp kirkjuna, ok buðu[2] Einari grið; [gengu þeir þá innar í kirkjuna[3]; vann Einarr þá eið at Svithuns skríni, at vera[4] aldri ámót Erlíngi konúngi. Eptir þat fóru þeir með hann út or kirkjunni, vildu þă höfðíngjar halda grið við hann, en liðsmenn rèðu ok drápu hann, [IIII menn aðrir voru drepnir[5] í kirkjunni. Þar tóku Baglar leiðángr mikinn, er Einarr hafði saman dregit áðr um Rogaland[6]; sneru Baglar þá aptr til Túnsbergs.

*Frá Birkibeinum ok Böglum.*

6. Birkibeinar buðu út leiðángri allt norðan úr landi, ok fóru um vârit suðr til Björgynjar, ok höfðu [allmikit lið; fóru síðan[7] austr til Víkr. Pètr steypir tók sýslu þá er Einarr hafði haft, ok setti þarí [Ána systurson sinn[8], ok Þorkel dreka[9], en Pètr fór austr með konúngi. Baglar voru í Túnsbergi, ok höfðu búit skip sín, ok ætluðu norðr í land; en er þeir spurðu til Birkibeina, [þá vill Nikolás biskup at þeir fari undan[10] suðr til Danmerkr[11], ok var þat ráðs tekit; sigla

---

[1]) innar *F.* [2]) þeim, *b. F.* [3]) en þat varð at lyktum, at þeir gengu or stöplinum, ok innar í saunghúsit, *F.* [4]) berjast, *F.* [5]) drepnir höfðu verit fjórir hans sveitúngar, er áðr höfðu verit teknir or kirkjunni, en grið höfðu nær fimtigir manna, *b. F.* [6]) ok mikit fè annat er Birkibeinar áttu ok bæjarmenn, *b. F.* [7]) allmikinn styrk bæði liðs ok skipa ok dvöldust þar litla hríð aðr þeir fóru, *F.* [8]) *þannig P.* (*líklega í tilliti til Clausens dönsku útleggíngar af lengri sögunni*) Lem son systr sinn, *F*; *frá* [ *v. G, en hefir hèr litla eyðu fyri nokkrum bókstöfum.* [9]) prefisdreka, *F.* [10]) sagði Nikulás biskup at ekki var annat ráð en fara, *F.* [11]) ok berjast eigi við ofrefli, *b. F.*

suðr til Hallands, [ok lágu í Visk um hríð[1]. Birkibeinar komu til Túnsbergs, ok áttu þar Haugaþíng, var þar Íngi til konúngs tekinn, en Hákon til jarls; lögðu þeir þá undir sik Víkina, ok settu menn í sýslur, þá fóru þeir yfir til Borgar, ok áttu Borgarþíng; var þar enn Íngi til konúngs tekinn, en Hákon til jarls, fóru síðan aptr til Túnsbergs; en er Baglar spyrja þetta[2], þá fór Filippus jarl norðr í Víkina, ok með honum Arnbjörn[3], Filippus af Vegini, Hreiðarr[4], Nikulás Bótólfsson, Atli griðkona, Helgi gaurn[5]; þeir höfðu XX skip. Konúngr var eptir við sumu liðinu. Nikolás biskup var farinn suðr til Kaupmannahafnar. Baglar fóru norðr sem skjótast, ok ætluðu at koma á úvart, en er þeir komu [í Hafsteinssund, kom þar [kuggr einn[6] eptir ok sigldi þegar fram or sundinu. Baglar brugðu þá við þegar, ok sá þá at njósn mundi komin fyri þá til Túnsbergs, sneru þeir þá aptr til Hafsteinssunda; fóru þeir þá öllu liðinu[7] til Limafjarðar,

[1]) *v. F.* [2]) gera þeir ráð sitt, *b. F.* [3]) Jónsson, *b. F.* [4]) sendimaðr, *b. F.* [5]) Birgisson, *F.* [6]) *þannig leiðrètt fyri* konúngrinn, *G, F. Fylgjandi brot af stærri sögunni sýnir ljósliga að báðir ritarar þessara skinnbóka hafa hèr lesið rángt; sèst þat ok enn fremr af Clausens gömlu dönsku útleggíngu.* [7]) *frá* [ til Hafsteinssunda, þá spurðu þeir at Birkibeinar voru ekki austanfjarðar; þeir biðu þar nætr at sigla yfir fjörðinn; þá sigldi konúngrinn (*rèttara:* kuggr einn) sunnan at þeim ok fram í sundit; þá vöknuðu Baglar ok báðu at leggja. Konúngrinn (kuggrinn) sigldi fram or sundinu ok yfir fjörðinn; þá vissu Baglar at njósnin mundi komin fyri þá til Túnsbergs. Baglar brugðu við skjótt ok sigldi eptir konúnginum (kugginum). Konúngr (kuggrinn) var þá fyrir Brimsteini, en er Baglar sáu at ekki tjóaði eptir at halda, þá

ok voru þar[1] lengi um sumarit í Álaborg. Þá kom þar Nikolás biskup[2]; sigldu þeir þá norðr í Augusund[3] frá Konúngahellu, ok gengu þar á land, en sendu aptr skipin suðr til Hallands, ok þar með Loðin stallara, Hallbjörn tröll [ok nær CC[4] manna, sigldu þeir suðr í Nizi, ok settu þar upp skipin, kom þar þá ok Nikolás biskup ok gekk þar af[5] Bókaskreppunni; fór hann landveg austan í Víkina. Baglar fóru [margir með honum[6], en sumir fluttust it ytra á smáskútum; fundust þeir í Borg [um haustit[7]. Þeir fluttu skip sín allt upp í[8] Mjórs, ok svâ norðr á Heiðmörk; en er þeir komu norðr at [Hamrinum litla[9], var drepinn Oddr tanr[10]; [þat gerði[11] Guðleikr flotbytta[12]. Baglar fóru norðr til fjalls ok ofan í Uppdali ok svâ til Orkadals, ok þaðan inn til Kaupángs; sumar sveitir Bagla fóru af Upplöndum, ok komu ofan í Harðángr; voru þar þessir sveitarhöfðíngjar: Sörkvir snápr, Símun uxi, Erlíngr skamháls, [Halli lauð[13], Ögmundr eikiland[14]; þeir höfðu XXX manna; þeir drápu Erlíng birkibein, [ok þá drápu þeir Þorkel digra við Ávaldsnes við VI mann ok XX, fóru síðan aptr[15]

---

sneru þeir aptr til Hafsteinssunda ok síðan suðr í Vík ok aptr til konúngs. Litlu síðar fóru þeir öllu liðinu yfir, *b. F.*

1) *v. F.* 2) þá leiddist liðinu at liggja þar, fóru þeir aptr í Vikina, *b. F.* 3) Haugasund, *F.* 4) með tvö hundrut, *F.* 5) at (*rángt*), *F.* 6) norðr í Víkina, *F.* 7) *v. F.* 8) ána ok svâ í Eyjavatnit, þaðan upp í Mjórs, *b. F.* 9) Hamendum, *F.* 10) tanur, *F.* 11) Þorgeirr, (þat gerði, *b. F.*) 12) hlupu þar or skóginum fjórir menn, ok þegar aptr í skóginum (skóginn) *b. F.* 13) *v. F.* 14) eikilundr, *F.* 15) *frá* [ ok son hans; þá spurðu þeir til Þorkels ok hans förunauta, ok fóru at leita þeirra, en þeir Þorkell voru við hálf-

á Upplönd; en Baglar, þeir er komu til Kaupángs, fengu aungva mótstöðu, ok dvöldust þar um hríð. Þá stefndu þeir Eyraþíng, ok kom fátt manna til þeirra, var þar Erlíngr til konúngs tekinn, en Filippus til jarls; voru þá menn sendir í sýslur, ok fèkkst lítit af fè úr hèruðum. En er Birkibeinar spurðu at Baglar höfðu farit norðr um fjall, þá skipta þeir liðinu, fór Íngi konúngr norðr með sumu liðinu, en Hákon jarl fór suðr með sumu til Hallands[1], ok kom at þeim er skipanna gættu í Nizi; fèll þar af Böglum nær[2] XXX manna, en allt annat flýði á land upp; þar fèll Arnbjörn tröll. Hákon jarl tók þar öll skip þeirra[3], ok svá Bókaskreppuna, er Nikolás biskup átti; þeir brendu sum, en sum höfðu þeir með sèr; fóru þeir þá aptr í Víkina[4]; um haustit fór hann norðr til Björgynjar, en Íngi konúngr fór norðr til Þrándheims. Baglar höfðu á njósn suðr á Mæri Ásbjörn kopp ok [Þóralda skinríng[5] með [II skútum[6]; þeir sá er Birkibeinar sigldu fyri Stím, reyru þeir[7] þá norðr. Birkibeinar sá þá ok herddu[8] eptir þeim, ok eltu þá allan dag, sumir reyru inn til Þíngvallar; þar var Guthormr Þvari, hann hafði haft sýslu; Birkibeinar[9] eltu þá þar upp, þar fèll Guthormr [við

an þriðja tug manna, ok höfðu róðrarskip, ok lágu við Ögvaldsness, ok höfðu tjald á landi. Baglar lögðu at við bæ, ok gengu fyri víkina, ok tóku fyrst vörðinn; síðan felldu þeir á þá tjaldit; þar fèll Þorkell ok öll sveitin, en Baglar fóru, *F.*

1) Hálsnæss, *F*; (Hallsnes, *P*). 2) *v. F.* 3) bænda ok Bagla, *F.* 4) tók hann þá landskyldir, *b. F.* 5) Þóralla skinhring, *F.* 6) fimm skútur, *F.* 7) Baglar, *F.* 8) róa, *F.* 9) Birkibeina, þeir, *F.*

sínum mönnum[1]. Síð um kveldit lögðu þeir at
í Sólskel, þeir Asbjörn koppr; Birkibeinar komu
at þeim um nóttina, ok eltu þá upp, ok gættu
eyjarinnar; en um myrgininn rannsöknðu þeir
eyna, ok drápu flest allt manna; Ásbjörn komst
undan við nokkura menn. Þá fóru Birkibeinar
norðr ok tóku eina skútu af Böglum norðr við
Agðanes, fóru þá inn til bæjar. Baglar fóru þegar
úr bænum upp um brú, ok svâ [austr um Skán-
eyjafjall[2] til Eystridala, [ok lèttu eigi fyrr en þeir
komu til Oslu, en sumir[3] sátu í Eynni miklu[4].
1199-1200 Íngi konúngr var þann vetr í Kaupángi, en Hâk-
on jarl í Björgyn. Áðr um haustit er Baglar voru
upp eltir í Nizi[5], þá fóru þeir [sunnan um Hal-
land[6] allmæðiliga; þeir komu fram í Ljóðhúsum[7]
síðla kvelds, þar voru fyri á II skútum Birkibein-
ar; Hallvarðr hlíðarfaxi var fyri þeim; urðu þeir
eigi fyrr varir við, en Baglar komu at þeim ok
drápu þá nær alla[8]. Baglar tóku skipin, ok reyru
upp eptir ánni allt til Naustdalsfors[9], settu þar
upp skúturnar ok brendu, fóru síðan upp á
Markir, ok svâ norðr til Eiðaskógs[10] til Upplanda;
hittu konúnginn í Mjórs. Hallvarðr hlíðarfaxi
komst undan, þvíat hann hafði verit uppi í
bænum.

*Frá Sýslumönnum.*

1200 7. Þegar á bak jólum fóru sýslumenn í

---

1) ok sum sveitin, *F.* 2) svâ upp um Selabú ok austr um Skáneyarsíðu, *F.* 3) *frá* [ svâ á fjall ok Heiðmörk ok til Oslóar ok, *F.* 4) mjök til jóla; um jólin voru þeir i Osló, *b. F.* 5) Uizi (*rángt*), *P.* 6) *v. F.* 7) Hljóðhúsum, *F.* 8) nema þá er á kaf hlupu ok þá er uppi voru i bænum, *b. F.* 9) Dalforsnausts, *F.* 10) ok, *b. F.*

sýslur. Philippus af Vegini hafði Borgarsýslu; hann lèt gera II skútur, Ásbjörn koppr I skútu, þóraldi Auguson eina skútu, Ormr lángi [i Óðinsey[1] I skútu, þorsteinn þjófr I skútu, Jón drotníng II skútur við Elfi, Guðólfr á Blakkastöðum[2] ok Gunnar Ásuson II skútur, Hreiðarr [I skútu[3] Philippus jarl II skútur, þórðr dokka I skútu[4], Gunni lángi II skútur í Skíðunni, Gyrðr[5] eina skútu; alls voru gervar II skútur ok XX[6]. þeir fóru suðr eptir Víkinni allt til Konúngahellu, komu þar nær miðföstu, snúa þá norðr til Túnsbergs. þriðja dag í efstu viku spurðu Birkibeinar skipagerðina[7]. Baglar fóru lánga frjádag úr bænum[8], annan dag páska fóru þeir í Grindhólmasund[9], laugardaginn sigldu þeir í Portyrju, drottinsdaginn í Æsjuneseyjar[10]; var þá saman komit allt liðit, segir konúngr at hann vill þá norðr í land[11]; þessi ætlun þótti mönnum misjöfn. þriðja daginn fór konúngr þaðan í Randarsund; en eptir lágu í Æsjuneseyjum, [ok vildu eigi fara[12]; Ormr lángi ok Ragnarr Gamalsson ok Gunnarr Ásuson, Benedikt af Gumanesi með IIII skipum[13]. þá spurðu þeir at þorgils [fuðendr

---

1) *v. F.* 2) Bakka, *F.* 3) *frá* [ sendimaðr tvær skútur, *F*; Jónsson (*rángt*), *P.* 4) Hundólfr hetta ok, *b. F.* 5) Benteinsson, *b. F.* 6) en konúngr fèkk til flest allt liðit, *b. F.* 7) ætluðu þeir at Baglar mundi or landi farnir, er þeir höfðu austr farit, *b. F.* 8) yfir til Óðinseyjar, *b. F.* 9) þaðan sigldu þeir frjádaginn vestr í þórsey, *b. F.* 10) Esjúneseyjar, *F.* 11) þeir höfðu gert frá sèr skútur, Símun kýr Ragnarsson ok Arnþór foka, í Bjargheims hèraði eina skútu, *b. F.* 12) *frá* [ *v. F.* 13) skútum, *F.*

hafði[1] dregit saman leiðángr mikinn [inn í Vinisdal[2]; var þá siglt fyri dag, ok komu snemma norðr í Hítr[3]; var þorgils norðr farinn, reyru þeir þá norðr eptir þeim; en er þeir komu at Foksteinum, þá sá þeir hvar byrðíngar fóru[4], [en er byrðíngs menn sá skúturnar, sneru þeir inn Rekuvâg, ok hljópu þar upp, en Baglar tóku leiðángrinn, ok fóru[5] um kveldit í Eikundasund.

## *Drepinn Jón drotníng.*

8. Þat var þá er Baglar gerðu skúturnar, þá hafði Jón drotníng sýslu austr við Elvi, fór hann[6] við sveit mikla [at veizlum[7], hann kom til þess búanda er þrándr hèt, hann átti konu fríða. Jón kallar þau á tal í lopt eitt, gekk húsfreyja fyrri, ok er hún kom í loptit, þá snerist hann við bónda, ok hratt honum út, en [lèt aptr[8] loptit; en er búandi taldi at [þessu, þá hætti Jón honum sökum[9], ok lèt taka hann ok binda [við hrossala, fluttu[10] hann svâ til skips; hann leysti sik hálfri mörk gulls, [ok varð því feginn[11]. VII nóttum síðarr þá Jón veizlu þar sem heitir at Forsælu, gekk hann upp til kirkju [snemma einn morgin[12], ok annarr maðr með honum, en þrándr ok þeir VIII saman lágu þar skamt frá, ok sá til ferða hans; þá hljópu þeir til kirkjunnar[13]. Jón ljóp innarr í saunghúsit. Þrándr skaut spjóti at Jóni[14], hljóp Jón þá út

[1]) *frá* [ voru norðr farnir ok, *F.* [2]) *v. F.* [3]) Hvitur, *F.* [4]) reru, *F.* [5]) *frá* [ *v. F.* [6]) um vetrinn, *b. F.* [7]) *v. F.* [8]) læsti, *F.* [9]) gaf Jón honum skuld á, *F.* [10]) í hrosshala, ok draga, *F.* [11]) *v. F.* [12]) *v. F.* [13]) ok inn, en, *b. F.* [14]) af því varð hann sárr, *b. F.*

um saunghúsit[1], en þrándr eptir honum, ok felldu hann á akrinum, hjó þrándr þá höfuð af honum. Jón var fluttr til Konúngahellu, ok jarðaðr þar at múnklífi, en þrándr fór síðan til Birkibeina; Gunnbjörn, bróðir hans, ok Sölvi Dísarson hefndu hans[2], ok drápu IX[3] menn, en fóthjöggu VII.

*Frá Böglum.*

9. þá er Baglar höfðu legit í Eikundasundi, þá sigla þeir þaðan fimta daginn norðr fyri Jaðar í Hvítíngseyjar, ok svâ[4] norðr um Karmsund[5], þaðan[6] norðr í Siggjarvâg, ok áttu þá stýrimannastefnu, ok töluðu um, hvârt þeir skyldu snúa, til Björgynjar eðr norðr þaðan. Spurðu þeir þá, at Hákon jarl var í bænum, ok hafði ekki til þeirra spurt; voru þess flestir fúsari[7]. Hreiðarr[8] mælti því ámóti, [ok vildi heldr at þeir hèldi at konúnginum, ok svâ var gert. Lögðu þeir at um daginn[9] í Skálavík; þá gerðu þeir II[10] skútur inn í Grafdal, ok tóku þeir þar [mylnumenn nokkra ok[11] fluttu út til liðsins; sögðu þeir at jarli var komin njósn, ok allir bæjarmenn væri [þar í viðrbúnaði[12] í Kristskirkjugarði[13]; voru

[1]) saunghússdyrnar, *F.* [2]) Jóns, *F.* [3]) XI, *F.* [4]) um kveldit, *F.* [5]) var þá svâ myrkt at fár einar skúturnar hèldu í sundit; sumt liðit hafði siglt inn í Fylingsfjörð, ok kvomu eigi fyrr í Karmsund, en er á leið kveldit; fóru þeir, *b. F.* [6]) *v. F.* [7]) at snúa þángat, *b. F.* [8]) sendimaðr, *b. F.* [9]) kallaði ráðligra at leita þar eptir sem konúngrinn var; þat var ráð tekit, ok lágu þar um daginn ok nóttina með; drottinskveldit fóru þeir norðr, *F.* [10]) *v. F.* [11]) tvo menn, *F.* [12]) í safnaði, *F.* [13]) þá var ráðagerð mikil; var konúngr

þá þegar dregin upp segl ok snúit út um Völunes ok svâ fyrir utan Fenhríng[1]. III byrðínga hittu þeir í Víkíngavâgi, voru þar á Birkibeinar, ok drápu þeir þar af nokkura menn, en sumir hljópu upp í eyna. Mánadag at kveldi lögðu þeir at í Skútusundi[2], gengu upp til bæjarins, ok spurðu tíðinda, ok kváðust vera Birkibeinar; búandi [sagði, at hann kveðst flutt hafa brèfamenn Inga konúngs um daginn[3], ok sagði hvar þeir mundu vera um nóttina. Baglar [náðu brèfunum, ok fluttu Erlíngi konúngi[4]; var þat þar á at Hákon jarl sendir kveðju Ínga konúngi, bróður sínum, ok bað hann varast, at Baglar voru sunnan á leið: ok veit ek eigi, segir hann, hvârt þeir snúa at yðr, þvíat þeir hafa lið lítit[5]. Þriðja daginn róa þeir norðr í Ángrgerði[6], þá var andviðri svâ at byrðíngar sigldu á mót þeim við tvö rif. Baglar spurðu at leiðángr mikill var samandreginn í Borghund, ok þar var [lángskip gert[7]; miðvikudaginn[8] rèðu þeir til, ok rak aptr öll skipin, nema Filippus járl á IIII skútum, ok komu um nóttina til Borghundar, ok drápu þar XVIII menn, en tóku allan leiðángrinn ok brendu lángskipin. Vta daginn reyri konúngr norðr í Yxney[9], ok lágu þar um nóttina;

fúss til bæjar, en Hreiðarr latti, ok voru þarum ráð hans höfð, *b. F.*

[1]) ok svâ á þjóðleið, *b. F.* [2]) ok lágu þar um nóttina; nokkurir menn, *b. F.* [3]) sagðist flutt hafa brèf til jarls í Vogsey, *F.* [4]) fóru þegar ok drápu þá, en fluttu Erlíngi konúngi brèfin, *F.* [5]) ok smá skip, þarf eigi at óttast þá, *b. F.* [6]) Ángr, *F.* [7]) tvitugsessa ein, *F.* [8]) var allhvast á norðan, þá, *F.* [9]) *í G hefir staðið* Lángey, *en er þannig leiðrètt.*

spurðu þeir þá norðan or Kaupángi, at Íngi konúngr skyldi gipta Sigríði, systur sína, þorgrími af Ljánesi, ok skyldi þá efla at brullaupinu frjádaginn, ok svâ þat at Birkibeinar höfðu gert [lángskip í Raumsdal[1]; þá sendu þeir þángat Filippus af Vegini ok þórð dokku með II skútum. Frjádaginn[2] reyru þeir norðr í Lýngverr[3]. þeir Filippus komu um kveldit í Veeyjar, ok lögðu í enn ytra vâginn. Birkibeinar áttu skútu í inum iðra vâginum; fengu Baglar þar fátt af mönnum, en tóku [þar (leiðángr) mikinn[4], en brendu skipin[5]. Frjádaginn at kveldi rann á byrjargol, drógu Baglar þá segl sín, ok sigldu norðr um nóttina, [ok er þeir komu norðr í Sveigjaðarsund, hvesti veðrit[6], ok sviptu þá til eins rifs; lögðu at um daginn í Veddey, ok mötuðust þar, ok gerðu ráð sín. þá mælti Arnbjörn Jónsson ok svâ Hreiðarr, at þat væri ráð at bíða liðsins, þvíat[7] þeir Filippus voru eigi eptir komnir[8], konúngr svarar: betra þikki mèr at hafa í nótt XIIII skútur til bæjarins, en hálfu fleiri á myrgun[9]. Vinda þeir nú segl sín ok sigla norðr ok innan undir Agðanes um kveldit; var þá skipat til atlögu; þá mælti Loðinn stallari: væri menn nú öruggir, er vèr komum í

1) skip í Veey, *F.* 2) at kveldi rann á byr, ok, *b. F.* 3) Lýngr, *F.* 4) *frá* [ leiðángrinn þar ok mikit fè annat, *F.* 5) voru þeir þar um nóttina, *b. F.* 6) máttu þeir eigi rannsaka bæinn, áðr en ljóst var orðit. Jón ángráðr hafði þar verit í hans sveit; þeir komu í Veggjaðarsund, lustu þá veðr, *F.* 7) eptir höfðu verit tvær skútur suðr í Fjörðum, *b. F.* 8) þeir höfðu XIV skútur, *b. F.* 9) ok er þeir voru viðbúnir, gánga þeir til skipa sinna, *b. F.*

bæinn, skulum vèr leggja utan at Eyrum[1]; er nú betra at falla með drengskap, en rekast hèr með landi lengr[2]; munu þeir hafa aunga njósn af oss ok liggja fyri dauðadrukknir, sem líkligt er at margr hafi eigi sparat at gera sik drukkinn af miði ok víni[3]. Konúngssveitin ok hans merki[4] skal fara upp um vestra stræti, en jarl ok Arnbjörn um nyrðra stræti, en Arnþór foka ok Símun uxi[5], þeir skulu róa til árinnar ok gegna þeim er á sund laupa[6]. Var nú tekit til segla, ok siglt inn eptir firði, [svâ sem vera vildi, var þá myrkt af nótt[7].

*Um brèfa sendíng.*

10. Hákon jarl hafði látit gera þrenn brèf í Björgyn, ok eitt á öllum[8]; ein brèfin tóku Baglar, sem fyrr var ritat, en önnur komu til konúngs, in þriðju urðu seinni. Laugardaginn at kveldi komu brèfin til Ínga konúngs, ok las hann ok sýndi höfðíngjum, ok rèðu menn þat af at blása öllu liðinu um kveldit út til [Gildaskála með vâpnum[9]; ok er Þorgrímr vissi þat, þá bað hann konúng at eigi skyldi spilla veizlunni, sagðist hann mundu fá útvörðu um nóttina[10], en lèzt ætla at Baglar mundu eigi þora at halda til bæjarins[11], at slíku fjölmenni sem þar

---

[1]) gegnt Gildisskála, ok gánga upp, hvat sem fyri væri, *b. F.* [2]) ok þó hitt likara, ef vèr flýjum, at bæði reki oss Birkibeinar ok bændr, *b. F.* [3]) er hvârtki man skorta, *b. F.* [4]) *þannig F;* sveit, *af ritvillu, G.* [5]) þeir höfðu eitt skip, *b. F.* [6]) þetta var um kveldit er myrkva tók, *b. F.* [7]) *v. F.* [8]) Völlum, *F.* [9]) *frá* [ Gildisskála, *F.* [10]) sagði at hann skyldi til greiða, at verðir væri öruggir, ok hans sveit skyldi vaka með vápnum, *b. F.* [11]) Kaupángs, *F.*

var fyri. [Liðit var mjök drukkit, varð skjótt[1] af talit, at blása liðinu í safnaðinn, [en þeir er vörðrinn var boðinn, kölluðust ekki skyldir heldr vöku en aðrir menn[2], ok drukku sik ófæra; var eingi vörðr greiddr[3]. Konúngr svaf í garði Sigurðar svardaga.

*Frá Böglum; bardagi í bænum.*

11. Baglar sigldu inn [eptir firði um nóttina; þeir lögðu seglin við[4] Ilu[5], kom þá drífa el mikit ok var allmyrkt; þat var inn efra lut nætr, þá [skildu þeir skipin[6], reyru þeir Arnþór til árinnar; en er þeir komu í ósinn, vildi Arnþór eigi uppleggja, [en Símun ok sum sveitin vildu uppleggja[7], ok var þar búit við atgaungu, en þó rèð Arnþór[8]. Annat lið lendi utan at Eyrum[9], ok fóru svâ upp í bæinn[10], var þá blásinn herblástr; allt var [kyrt ok hljótt[11] í bænum; fóru þeir þá upp um stræti með óp ok brak, ok brutu húsin[12], var þá ekki fallit mannanna. Þá svifu þeir út um aptr, um akra fyri utan[13] bæinn, fèllu þá við mennirnir er [á rás voru komnir[14]; fóru þá Baglar annat sinn utan um

[1]) konúngrinn var mjök drukkinn ok allt liðit, var þat, *F.* [2]) var setit lengi, en þeir er vörðinn hèldu, sveitúngar Sigvalda karls, sögðust eigi vera skyldari en aðrir menn at vaka, *F.* [3]) nè rannsakaðr, *b. F.* [4]) yfir Flaðka á fjörðinn ok inn meðr Gaularás, mjök til, *F.* [5]) lögðu þeir þá seglin ok bjuggust um, *b. F.* [6]) greiddu þeir atróðrinn sem ætlat var, *F.* [7]) *frá* [ *v. F.* [8]) at eigi var upp lagt, *b. F.* [9]) ok hlupu fyri borð þegar skipin kendu niðri, hverr or sínu rúmi *b. F.* [10]) sem til var skipat, *b. F.* [11]) hljóðkyrt fyrir, *F.* [12]) ok fóru allt upp í Krists kirkjugarð, *b. F.* [13]) ofan, *F.* [14]) eigi kvomust á rás undan or bænum, *F.*

stræti, fèll þá mart manna í þeirri svipan. Þórðr [Finngeirs bróðir[1] fèll fyri garði sínum[2]. [Þorgrímr af Ljánesi fèll á efra stræti, ok þeir VI saman[3], en er Baglar ljópu fram yfir þá, þá komst Þorgrímr á braut, ok allmjök sárr. Íngi konúngr svaf hjá frillu sinni, ok fátt manna hjá honum; en er it fyrsta kom herópit, þá vöktu konurnar hann, ok vaknaði hann alltrautt, ok mælti nær í óvitinu: hvat, hvat? Herra, segja þær, ófriðr er kominn í bæinn; þá hljóp hann upp ok til dyranna, ok heyrði út brakit; hljóp hann þá at húsamótum[4], meðan Baglar fóru út um garðinn. En er kýrðist á strætinu, þá hljóp hann ofan á bryggjurnar, ok út á ána, þar lágu skip nokkur við akkeri, ok sveif honum þar at, ok tók um strenginn, ok [rèð um at[5] fara upp í skipit, þá losnaði línbrók hans, ok sveif honum[6] um strenginn. Maðr var á skipinu, ok mælti til hans: halt eigi strenginum, maðr, far heldr leið þína! Konúngr þagði við; kaupmaðrinn [tók upp fork einn ok skaut við honum[7], svâ at þá varð konúngrinn laus við strenginn; tók konúngrinn þá til sunds. Í [þessu bruni[8] hljóp fjöldi manns á ána, sumt fyrr en konúngrinn, sumt síðarr. Konúngr komst yfir ána, ok gekk upp í bakka einn; þá fèll hann, ok mátti eigi gánga lengra, leið þá bæði at kuldi ok mæði.

---

1) Fengeirsson, *F.* 2) á neðra stræti, *b. F.* 3) þá fundu þeir á efra stræti Þorgrím af B. nesi, ok þá fjóra saman, ok felldu þá þrjá, *F.* 4) ok þar upp á þekjuna, ok lá þar, *b. F.* 5) vildi, *F.* 6) henni, *F.* 7) skaut undir hann forkinum, *F.* 8) þann tíma, *F.*

Þá sá hann upp fara Ívar fljóðakoll, ok mælti til hans: Ívarr, segir hann, hjálp mèr! Ívarr svaraði: mèr mun ek nú fyrst hjálpa[1], ok gekk á braut. Nokkuru síðar komu menn upp af áni, ok var þar fyri Reiðúlfr, Bárðar bróðir[2]; hann gekk upp hjá konúnginum ok mælti: erut þèr þar, herra? hann svarar: svâ kölluðut þèr mik í gær. Reiðúlfr mælti: svâ [ertu enn, ok svâ skaltu[3] meðan við lifum báðir. Hann tók af sèr höfnina[4] ok sveipaði um konúnginn, [tók hann upp ok bar hann upp á völlinn[5]. Þeir fluttust svâ upp á Skúsás[6]; þar fèkk konúngrinn eyk ok sleða ok klæði sem þeir þurftu, þvíat Reiðúlfr hafði áðr eigi fleiri en skyrtu ok hosur[7]. Sigvaldi[8] karl ok þeir IX saman vörðust í lopti einu[9], ok fèllu þar allir. Bergsveinn lángi var felldr, merkismaðr Ínga konúngs, en er Baglar gengu frá honum, þá tóku konur nokkurar merkit af belti hans[10]. Kolbeinn [berir fèll við Gregoríuskirkju, ok þeir VI saman[11]; Eivindr feylir[12] fèll á akkrinum, ok þeir VIII saman; [Kolbeinn strínefr fèll á strætinu neyrðra, ok þeir V saman[13]; Hallvarðr hlíðarfaxi fèll við IIIa mann við Krosskirkju[14]. Birkibeinar höfðu

---

1) ef ek má, *b. F.* 2) son, *F.* 3) *frá* [ erut þèr, ok svâ skulut þèr vera, *F.* 4) yfirhöfnina, *F.* 5) þá tók hann skautin, ok brá um herðar sèr, ok bar konúnginn á baki sèr, *F.* 6) Skýsás, *F.* 7) Reiðúlfr fór með konúnginn inn á Strind, *b. F.* 8) Sigurðr, *F.* 9) Sigurðar eikirauns, *F.* 10) ok geymdu, *b. F.* 11) bekkr ok þeir þrír saman voru sóttir á strætinu við Greg. k. ok fèllu þar; Kolbeinn fèll á kirkjugarðinum, *F.* 12) feykir, *F.* 13) r. *F.* 14) Jón skekki fèll einn samt í loptinu fyri neðan torg, *b. F.*

saman safnazt á akrinum, XL manna, var þar fyri Sigurðr skjálgi, [Örnólfr hækill[1], Þorgils sokr[2], Þorfinnr lúðrsveinn; þeir[3] felldu mann í geilunum af Böglum [er Styrr hèt[4], annan á strætinu íslenzkan er Kolskeggr hèt; þá hljópu Birkibeinar at garðs liðinu[5], var garðrinn fullr af Böglum. Guðólfr af Blakkastöðum [snerist við Birkibeinum[6], ok skaut skildi fyri sik, en lagði með sverði, kom lagit á Örnólf í ennit fyri neðan stálhúfuna; stukku Birkibeinar þá á braut, ok komust flestir í Kristskirkju. Örnólfr hafði laupit á ána, ok fannst [hann dauðr[7]. Konur nokkurar sögðu Böglum, at Íngi konúngr væri í Maríukirkju; þá hljópu þeir til, ok hjöggu saunghúss-syllurnar; var þá upp látin kirkjan. Þar voru inni sýslumenn II, [Ólafr af Krjanaðum[8] ok Ívarr dýnulaus, ok þeir IX saman. Ólafr var skotinn í augat inn í kirkjuna, en allir voru drepnir[9]. Í Andreskirkju var Bárðr stálpi, ok þeir IIII; var Bárðr drepinn, ok varð við inn hraustasti[10]. Drottinsdaginn er ljóst var orðit, skiptu Baglar bænum með sèr í fjóra staði ok svâ liðinu til rannsóknar; hafði konúngr eina sveit[11], aðra Filippus jarl, Árnbjörn ok Guðólfr ina þriðju, Hreiðarr ok Filippus af Veigini ina fjórðu; höfðu þeir Þórðr ok Filippus komit

[1]) *v. F.* [2]) skokkr, *F.* [3]) hlupu inn í bæinn ok, *b. F.* [4]) *v. F.* [5]) þá er Sigvaldi karl var sóttr, *b. F.* [6]) sneri út í garðshliðinu, *F.* [7]) öðrumegin, *F.* [8]) Óleifr or Ljárauðum, *F.* [9]) Í Ólafskirkju voru þeir Bjálfi skinnstakkr, ok þeir þrettán saman, ok voru allir drepnir, *b. F.* [10]) þrír voru drepnir, en hinn fjórði handhögginn, *b. F.* [11]) ok hlaut hinn efra hlut-bæjar, *b. F.*

sunnan um myrguninn til bæjar. [Var þá rannsakaðr allr bærinn[1], fannst þá mart manna, ok voru nær allir drepnir; þar var ok tekit stórmikit fè. Annan dag vikunnar[2] voru [útsett skipin[3] þau er þeir vildu með sèr hafa, hafði konúngrinn Gullbrínguna, en jarl Gestaskálpinn[4], Arnbjörn Darrhettuna, Hreiðarr Lyrtuna[5], Philippus Ógnarbrandinn[6]; þeir brendu Kláðann ok Elftina ok [en it þriðja[7]. Baglar[8] lágu hverja nótt út við Borg, en um daga[9] bjöggu þeir skipin. Miðvikudaginn[10] var borit lutskipti út í Gildaskála, en fimtadaginn ok frjádaginn ok laugardaginn var skipt; þar voru CCC hríngabrynja ok brynhosur, [at fórnaði[11]; í öllu var þar mikit fè, svâ at eingi laut minna fè en III merkr eðr IIII.

### *Frá Íngi konúngi.*

12. [Íngi konúngr fór á[12] Strind ok[13] it efra til Gaulardals; [dreif þá lið til hans, þat er undan hafði komizt, ok svâ bændr; hafði hann þá meirr en[14] XX hundrut manna; fór[15] hann þá til bæjarins. Annan dag vikunnar fóru Baglar út til Hólms[16]; en þriðja daginn lögðu þeir út til Agðaness; þeir höfðu haft lið úr bænum, allt þat er þeir fengu, ok fóru suðr með landi, var

1) þá voru brotin upp húsin, *b. F.* 2) gengu þeir til skipanna, *b. F.* 3) *frá* [ þá framsett, *skinnbókarbrotið J, er þannig byrjar hèr.* 4) gestaskálkinn (*rángt*), *F.* 5) Hirtuna, *F.* 6) ok þeir Guðólfr af Blakkastöðum höfðu eitt skip, *b. F.* 7) *frá* [ ok III önnur, *J.* 8) skútur nokkurar Bagla, *F.* 9) dögum, *J.* 10) *v. F, J.* 11) at auk, *J; v. F.* 12) *frá* [ þeir Íngi konúngr fóru af, *F.* 13) *frá* [ þá er Íngi k. kom, *J.* 14) *frá* [ dróst honum svâ lið, at þá hafði hann, *J.* 15) sneri, *J.* 16) úr bænum, *b. J.*

þá boðit út leiðángri, ok tóku hvern mann er þeir fengu[1]. Hákon jarl bjóst þegar sunnan, er hann frá tíðindin, ok fór norðr fyri Staði, reyri hann á sker, ok braut skipit; þar týndust XV[2] menn. Önnur skipin reyru at, ok tóku menn af kafi[3]; en er jarl kom norðr fyri Stím, sigldi hann þjóðleið. Þá lá við Markarhólminn Baglaherinn, en er þeir sá siglíngina, reyru þeir norðr, ok stefndu fyri þá, fyrir innan Lángeyjarsund. Jarlinn lagði at í Sveggjaðarsundi[4]; þá sá þeir skip Bagla, ok þóttust eigi lið til hafa at berjast við þá, ok reyru norðr á fjörðinn, allt at Hamrasundi, en Baglar reyru eptir þeim; þá stefndu Birkibeinar út til Æðeyjar, gekk þá veðrit á vestr, komu þeir þá seglum við, en Baglar sneru aptr. Fór jarl norðr, en Baglar suðr til Björgynjar, þá sat í borginni Svertíngr ok Þórir brasi[5], Ivar gusi, [Eiríkr maxi[6]. Baglar voru í bænum um daga, en sváfu á skipum um nætr, ok höfðu allmikit lið. Ormr lángi kom austan til Björgynjar með Margrètu konúngsdóttur, konu Filippus af Vegini; ok litlu síðar átti[7] hann vörð ok sveitúngar[8] Benedikts af Gumanesi; hann var þá ok austan kominn; þeir gengu[9] upp á Bakka með sveitirnar, ok hèldu þar vörðinn; en er borgarmenn sá þá, laupa þeir ofan á þá, en Baglar óku undan; þar fèll Ormr lángi. [Opt

[1]) rèru þeir þá norðr til Stims, *b. F.* [2]) *þannig F, G, J*; (*neðanundir*) XII, *P.* [3]) ok svâ fè; var þar skipit eptir látit, *b. F.* [4]) Sueggjardalssundi, *F.* [5]) bragi, *F.* [6]) i Nizi, *F.* [7]) hèlt, *J.* [8]) hans ok, *b. F.* [9]) *frá* [ við sveit sina, *b. J.*

var þat á síðkveldum at Baglar hljópu upp til Borgar[1]; voru þá sumir [særðir, en sumir barðir eðr[2] drepnir.

*Frá Hákoni jarli.*

13. Hákon jarl bjóst norðan um vaknaskeið[3], en þá voru reist stórskip í Kaupángi. Jarl fór þegar hann var búinn, ok hafði [V[4] lángskip[5] ok skútur XIII; en er hann kom [suðr um Stað[6] í Hindeyjar[7], þá lèt hann þar eptir öll stórskipin, en hafði með sèr þat lið er hraustast var. Andres dritljóð[8] sendi hann aptr með stórskipunum[9] til þrándheims[10], en jarl fór suðr með skúturnar. II skútur, er Baglar áttu, lágu í Mjaðmarsundi[11]; þeim stýrðu þeir Marteinn soddi ok Kolbeinn smjörreðr[12]. þeir jarl reyru norðan[13] á Sognsjá, reyru Baglar þá suðr. [Birkibeinar reyru eptir hart í Keilustraumi[14]; reyri Kolbeinn upp á sker; tóku þeir jarl skútuna, ok drápu þá flesta; þeir Marteinn báru njósn til bæjarins[15]. [Jarl lagði at Háeyjum, þeir reyru um nóttina inn í Arnarfjörð[16], [báru reiðann upp í skóg ok fálu[17], gengu síðan suðr yfir fjallit, ok komu aðra nóttina [til Björgynjar[18].

1) *frá* [ Jafnan hljópu Birkibeinar á Bagla á siðkveldum, *J.* 2) *frá* [ meiddir, en sumir, *F.* 3) fimm vikna skeið, *F.* 4) *v. F.* 5) *frá* [ lángskipin, *J.* 6) *v. J.* 7) *þ. P, F, G, J;* (*neðanundir*) Hniðeyjar, *P.* 8) dritskit, *F;* ok Benedikt þjóf (daufa, *J*) *b. F, J.* 9) ok bað á fara norðr, *b. F.* 10) sem skjótast, *b. F.* 11) Mjaðarsundi, *F.* 12) *v. F.* 13) undan, *F.* 14) en jarl eptir þeim í Keilustraum, *F.* 15) um kveldit, *b. F.* 16) *frá* [ Birkibeinar lögðu at í Arnarfirði, *J.* 17) *frá* [ ruddu þeir þá skipin, en fálu reiðann, ok lètu þar eptir menn at gæta, *F.* 18) í Víkina, *F.*

Baglar höfðu allt skipat fyri síuum mönnum, var konúngrinn uppi [í Maríukirkjugarði[1]; [uppi í kopri[2] voru gervir flakar, [allt fyri ofan[3] þar sem misti húsanna; var þar lið mikit fyri innan. Jarl ok Filippus af Vegini voru [fyri ofan[4] Nikuláskirkju [við mikla[5] fylkíng. Um myrguninn töluðust þeir við, buðu Baglar Birkibeinum ofan at gánga, þeir sögðu á móti at [dögurðr þeirra var í bænum, ok[6] þeir mundu ofan gánga. Baglar höfðu meirr en XX hundrut manna, ok allvel búít, en Birkibeinar [VI C[7] manna; þeir höfðu II merki, fór Pètr steypir með öðru, sneri hann it efra móti jarlinum. Hákon jarl gekk [it efra[8] at kopri[9]. Filippus jarl flýði þegar er saman kom liðit, ofan í bæinn ok svâ út eptir stræti. [þeir Hákon jarl brutu[10] flekana[11]; rukku Baglar þá undan. Baglar höfðu tekit í Kaupángi þorfinn lúðrsvein ok lúðrinn Andvöku [er átt hafði Sverrir konúngr[12]. Erlíngr konúngr bað at þorfinnr lúðrsveinn skyldi blása þegar er jarlinn gengi ofan. þorfinnr kom aungu hljóði í lúðrinn, ok komst ekki upp blástrinn. Birkibeinar sóttu nú ofan um garðana, varð þá ekki af viðrtökunni, flýði þá hverr um annan; en er Erlíngr [kom ofan at[13] Maríukirkju, þá mælti við hann þorfinnr lúðrsveinn: herra, segir hann, hlaupum inn í kirkjuna. Kon-

1) við Maríukirkju, *J.* 2) kofri, *J.* 3) *frá* [ *v. J*; en garðar voru gerfir, *F.* 4) uppi við, *J.* 5) ok höfðu þar áðr, *F.* 6) *v. F.* 7) V C h., *J.* 8) ofan, *F, J.* 9) kofri, *J.* 10) *frá* [ en sumt inn; Hákon jarl gekk at ok braut, *F.* 11) flakana, *J.* 12) *frá* [ *v. J.* 13) *frá* [ fór ofan hjá, *J.*

úngr [þagði, ok sneri eigi inn[1]. Þorfinnr hljóp í kirkjuna, ok margir Birkibeinar; en er jarlinn kom ofan í garðinn[2], þá hljópu Birkibeinar út or kirkjunni til hans; blès Þorfinnr þá [svâ Andvöku, at [gall við í hverjum[3] steinvegg[4]. Þá fór flóttinn ofan um Lafranzkirkju[5], varð þá þraung mikil um garðsliðit[6], ok lá þar hverr um þveran annan, gerðist þar valköstr mikill[7]. Uppi við[8] Lafranzkirkju fèll Þórðr dokka ok Benedikt af Gumanesi, Gunni lángi[9]. Þá rèðu Birkibeinar til at höggva valköstinn; þá mælti einn maðr: höggvum eigi, sagði hann, vârir menn eru nú; lètu þeir af at höggva. Baglar hljópu þá á fætr, hverr sem mátti, ok komst þá mart undan, ok mart fèll. Baglar hljópu þá á skipin, en Birkibeinar á bryggjurnar, ok tóku festarnar, ok drógu at sèr skipin, en Baglar vörðust, lètu þá hvârirtveggju gánga allt þat er til vâpna höfðu. Baglar hjöggu festarnar ok komust með því út, tóku þeir marga sína menn af sundi, ok lögðu þegar út á vâginn, en sumir yfir [til Múnkabryggju[10], ok tóku sína menn, er laupit höfðu úr bænum; reyru Baglar þá[11] norðr með landi, ok inn í Arnarfjörð; en Birkibeinar þeir er jarl hafði þar sett til geymslu[12], hljópu þegar upp

[1]) *frá* [ ljóp lengra, *J.* [2]) kirkjugarðinn, *J.* [3]) tók í hvern, *J.* [4]) *frá fyrra* [ Andvöku svâ sem hann vildi, *F.* [5]) mikla garð, *J;* Kristskirkju ok ofan um Miklabæ, *F.* [6]) hliðit, *F* [7]) Hakón jarl komst þá ofan á bryggjurnar, *b. J;* jarlinn komst upp á húsin, ok ofan um loptin á bryggjurnar, varð hann mjök sárr, *b. F.* [8]) í, *F.* [9]) ok enn nokkrir menn, *b. F.* [10]) fyrir Múnkabryggjur, *F, v. J.* [11]) út or vâginum, *b. F.* [12]) hlupu til ok hjuggu skipin, *b. F;* falu reiðann frá skútunum, en spiltu skipunum, *J.*

í skóginn, er þeir sá siglíng Bagla, [tóku þeir skipin, ok fundu nær allan reiðann[1]. Reyru þeir þegar norðr [um nóttina, var þar fyri Filippus af Vegini[2]. Birkibeinar, þeir er norðr skyldu hafa farit með stórskipin, nentu eigi at róa norðr fyri Stað, ok lágu í Síld, ok biðu byrjar, en höfðu VIæríng einn á njósn suðr í Úlfasundum; en er þeir[3] sá at liðit fór sunnan, þá reyru þeir norðr[4], ok sögðu sínum mönnum at XIIII[5] skútur reyru sunnan, ok kendu at jarlinn hafði þær suðr haft. Þeir reka af sèr tjöldin ok róa inn á fjörðinn[6], sá þeir þá at ófriðr var, ok róa inn til Moldafjarðar; skúturnar sækja nú fast eptir; en er Birkibeinar komu at landi, laupa þeir upp, sumir hljópu á kaf. [Bagla bar þá at[7]; þar fèll Andres dritljóð[8] ok [nær CC manna[9]. Tóku Baglar skipin, ok allt þat er á var, fèkkst þar mikit lutskipti; fóru þá Baglar suðr aptr, ok hittu konúnginn í Víkíngavâgi.

*Frá Hákoni jarli.*

14. Hákon jarl fór þegar or Björgyn, er hann spurði at Baglar höfðu norðr snúit[10]; fór jarl upp um Borgarskarð, ok ofan í Ostrarfjörð, [ok svâ norðr[11] um Rauðafjall, [ok lètti eigi fyrr

---

1) *frá* [ ok fálust; en er Baglar kvomu, drógu þeir upp skipin ok bættu, en sumir hlupu í skóginn at leita reiðans, ok finnst hann flestr, *F.* 2) en stórskipin lágu eptir í Víkíngavogi, *F.* 3) njósnarmenn, *F.* 4) norðan, *F.* 5) *þannig G;* þrettán, *F;* XIII, *P.* 6) þá sá þeir skjótt at hinir sneru eptir þeim, ok svâ at ekki voru skildir við stafna, *b. F.* 7) þá bar skjótt at skúturnar; hlupu þeir upp ok eltu þá, *F.* 8) drit, *F;* dritljót, *J.* 9) mart Birkibeina, *J.* 10) hræddist hann at konúngrinn mundi koma þeim á úvart, *b. F.* 11) ok upp á Vors; þá, *F.*

en hann kom norðr[1] til þrándheims, ok hitti þar Inga konúng. Baglar fóru þá til Björgynjar, ok dvöldust þar um hríð. Baglar skiptu þá liðinu; fór Filippus austr með stórskipin, en konúngrinn hafði tvítugsessur[2] ok mörg in smærri; fór hann norðr til Stims ok lá í Frekeyjarsundi, ok sendi skútur norðr á Mæri, ok bauð út leiðángri at mönnum ok vistum, [ok tók af liðinu slíkt er honum sýndist[3], tók hann þá landskyldir[4] með endilaungu landi. þá fór hann um Sauðúngssund [in neyrðri[5], er kallat var[6] at aungum konúngi hlýddi at fara; fór hann þá til Túnbergs, ok kom þar litlu fyri jól, var þá þar veitt um jólin. Eptir jól fór Philippus jarl norðr í land með [tvítugsessur ok mörg smáskip[7], ok kom til Björgynjar. Erlíngr konúngr lèt þá reisa lángskip, annat Hreiðarr, þriðja Philippus; þau voru miklu meiri, en fyrr hefði[8] gjör verit í Noregi, þau voru með tvennum háborum[9] milli austrúma, enar efri árarnar voru[10] XX álna lángar, tjaldit þyrfti [yfir hálf þrítugt[11], VIII menn [voru skráðir[12] í hálfrými; þá er maðr stóð [niðri á innviðunum[13], þá náðu þeir einir er hæstir voru[14] breiðöxi[15] upp á þilfarit. Stundu[16]

1) ok ofan í Leradal í Sogn, þá upp á Valldres ok upp í Guðbrandsdali, svá um Dofrafjall, *F.* 2) tvítugsessu, *F.* 3) fór hann þá suðr aptr, *b. F, J.* 4) konúngsskyldir, *F;* skyldir, *J.* 5) *v. F.* 6) er, *J.* 7) *frá* [ með smáskipin, *F; v. J.* 8) slík, *b. F.* 9) *þ. F; G hefir fyrst haft* borum; há *er sett ofan yfir með annari fornri hendi.* 10) þurfti, *F.* 11) hálfþrítugt yfir, *F.* 12) skyldu vera, *J.* 13) niðri á, *v. J;* uppi á viðunum, *F.* 14) með, *b. J.* 15) *v. F.* 16) *v. J.*

eptir jól tók Erlíngr konúngr sótt, ok andaðist[1]. Leynt var andláti hans um hríð, var fyrst varðveitt lík í herberginu VII nætr, [var þá fært líkit til Ólafs kirkju, ok var þar. Var þá send skúta norðr til jarls[2], var þar fyrir Ólafr þóruson, hitti hann jarlinn í Björgyn, ok sagði honum tíðindin, en alþýðunni var sagt, at Danakonúngr vildi finna hann. Kom jarl til Túnbergs at föstunni; var þá lýst andláti konúngsins. Var þá jarðat líkit at Ólafs kirkju. Konúngrinn var lagðr í steinvegginn neyrðra utar frá altarinu[3]. Þá tók Philippus jarl við forræði flokksins, ok hèlt saman liðinu; voru þá í Túnsbergi um föstuna. Erlíngr steinveggr átti eptir II sonu, Magnús ok Sigurð. Sigurðr var þá fjögurra vetra, ok hafði Erlíngr gengit við frændsemi[4] hans; Magnús var þá VIII vetra, [ok festi Erlíngr járnburð[5] til hans faðernis[6]; var hann þá hans[7] son kallaðr; sagði jarl at þeir hefði góð konúngsefni, þar sem voru synir Erlíngs; líkaði þat vel liðinu. [Jafnan fóru[8] brèf milli þeirra Nikolásar biskups ok Filippus jarls; hafði hann [ok laungum[9] launstefnur við bændr ok þá mest[10] er ríkastir voru. Hálfum mánaði eptir[11] páska fóru Baglar öllu liðinu yfir til Borgar, höfðu þeir með sèr sonu Steinveggs[12], var þá stefnt Borgarþíng; þar kom Nikolás biskup. Þíngit var í Maríukirkjugarði, biskup var í kirkj-

[1]) ok lá nærr viku, *b. F.* [2]) *frá* [ *v. F.* [3]) kórnum, *J.* [4]) faðerni, *F.* [5]) vildi Erlíngr járnburð hafa, *F.* [6]) *frá* [ *v. J.* [7]) konúngs, *F.* [8]) fóru þá, *F.* [9]) *v. F.* [10]) *v. F.* [11]) fyrir, *F.* [12]) Erlings konúngs, *F.*

unni, ok allir bændr með honum, þeir er ríkastir voru ok mestu skyldu ráða; talaði hann þar fyri þeim, ok kom þeim öllum í samþykki með sèr um konúngs tekju. Á þínginu talaði Hreiðarr, [sagði þeim nauðsyn á vera[1] at taka höfðíngja yfir flokkinn: höfum vèr þar til góð faung, þvíat hèr eru II synir Erlíngs steinveggs[2], má þann til taka, er [liðinu er skapfeldra; menn gerðu at þessu góðan róm. Þeir voru bændr[3] í kirkjunni, er [ríkastir voru, ok[4] mestu skyldu ráða; var þá [farit eptir þeim í kirkjuna, ok komu þeir[5] á þíngit, tók þá einn[6] til orða, ok mælti svâ: rètt er þat, sagði hann, at yfrin er nauðsyn til at vèr takim oss höfðíngja [allir samt[7]; höfum vèr nú gert vârt ráð, bændrnir; sýnist oss [sem þat muni ekki vera barnsverk at taka við þessum[8] vanda; lízt oss svâ sem þess manns muni við þurfa, er bæði sè vel viti borinn ok [hafi til vanda at kunna[9] herstjórnina, ok svâ at skipa búanda rèttinum; viljum vèr þann konúng hafa, er oss sè nokkr vörn í, nú er hèr vel til borit, þvíat vèr sjáum góð föng til höfðíngja, þar sem jarlinn[10] er, systurson Ínga

[1]) sendimaðr, ok ræddi um skaða sinn, er varð í fráfalli konúngsins: en eigi at siðr, sagði hann, berr oss nauðsyn til, *F.* [2]) konúngs, *F.* [3]) bændum er skapfeldra eðr liðinu, þar fengust eingi svör af bændum, þviat þeir oru, *F.* [4]) *v. F.* [5]) upplokin kirkjan, gengu bændr út ok, *F, J.* [6]) sá er mest var fyri búöndunum, *J.* [7]) fyri flokkinn, þviat hèr er mikill styrkr bæði liðs ok skipa; mun mikils við þurfa, ef hlýða skal, fyri Birkibeinum, *F.* [8]) þat eigi úngmenna, at taka upp slikan vanda, *J.* [9]) kunni vel, *F.* [10]) Filippus jarl, *J.*

konúngs Haraldssonar, þess er beztr konúngr
hefir verit[1] í manna minnum; er hann reyndr
at[2] góðum siðum; munum vèr gefa honum kon-
úngs nafn, ef þèr vilìt. Þá svarar Loðinn
stallari[3]: þèr bændr eigut at ráða konúngstekjunni,
en [þat vildu liðsmenn at son Erlíngs væri helzt
til konúngs tekinn, annarrhvârr, sá sem mönnum
væri meira um. Þá svöruðu bændr: ef þèr
vilìt eigi[4] hafa þann konúng sem vèr viljum, þá
munum vèr aungan taka ok vera þá í aungu yðr
lýðskyldir; [ok er svâ var komit, þá sá liðsmenn
at þat máttu þeir eigi[5]; var þat þá ráðit, at [allra
samþykki, at [láta bændr[6] ráða. Erlendr af
1207 Húsabæ or Heggnu[7] gaf Filippó konúngsnafn,
[stóð þá upp annarr búandi ok dæmdi[8] leiðángr,
[róð ok reiðu[9]; var þá farit til skipa. Eptir
um morguninn fóru þeir aptr til Túnbergs[10];
þá gerðu þeir norðr XVI[11] skútur; rèð þar fyrir
Arnbjörn Jónsson, [Eindriði hegri[12], Nikulás
Botólfsson, Arndórr foka, Gyrðr Benteinsson[13].
Í þenna tíma andaðist Philippus af Veggini, kom
á [hann drep[14], ok lá litla hríð, ok var jarðaðr
at Ólafskirkju.

---

1) í Noregi, *b. F.* 2) viti ok, *b. F, J.* 3) vitum vèr at, *b. J.* 4) þó ætla ek þat ásamt koma með liðinu, at þeir vilì helzt þjóna sonum Erlings konúngs; talaði þá allr múgrinn at þat væri satt, ok varð at því mikill rómr, stóð þá upp hverr at öðrum ok talaði: vilì þèr eigi, sögðu þeir, *F.* 5) sá þat margr sá er vafizt hafði í flokkinum, at þeir áttu engrar eirðar von at Birkibeinum, ef flokkrinn sundraðist, *F.* 6) at bændr skyldu, *F.* 7) Hegni, *F.* 8) stóðu þá bændr upp ok dæmdu honum, *F.* 9) *v. F.* 10) ok voru þar um hríð, *b. F.* 11) XIII, *F;* VVV, *J.* 12) *þ. G, F;* heggi, *P.* 13) *frá* [ ok fleiri sveitarhöfðingjar, *J.* 14) drep á handlegginn, *J;* drepsótt, *F.*

*Frá Birkibeinum ok Böglum.*

15. Þat sama vâr bjöggust Birkibeinar norðan, ok höfðu allstór skip, er þeir höfðu gera látið [í Kaupángi[1]; voru þau III er [meirr voru en þrítug, [ok margar[2] tvítugsessur; höfðu þeir [allmikinn her[3], ok fóru suðr til Björgynjar. Þá gerðu þeir frá sèr suðr njósn, XIIII skútur, rèð þar fyri Þorsteinn gemsir[4] ok Sveinn næpa, en þeir konúngr ok jarl fóru seinna[5] með stórskipin allt í Hvítíngseyjar. Baglar fóru austan í Sæleyjar[6], þá spurðu þeir at Þorgils fuðhundr[7] var[8] á Veggjum, ok hafði dregit saman leiðángr. Þá var á norðan veðr lítið, þeir reyru norðr um myrgininn við[9] sól, skyldu öll skipin finnast í Hítrum; komu þeir þar um miðs morgins skeið, en Arndórr [reyri norðr um; en er Arndórr[10] kom fyrir árósinn, þá hleyptu Birkibeinar út at þeim II skútum. Arndórr sneri þá undan, ok kom við segli viku[11], [Birkibeinar snúa þá[12] norðr fyri Hádyri[13]. Baglar reyru inn til Sóknar, ok lögðu inn í ána öllu liðinu. Þar[14] sendu þeir III skútur norðr á njósn, en er þeir komu í Selvâga, þá spurðu þeir at Birkibeinar lágu á XII skútum í Eikundasundi; róa Baglar þá norðr fyri Hádyri; [þá sá þeir Birkibeina róa

---

1) *v. J.* 2) en sum voru hálfþrítug, ok margar skútur ok, *F; frá fyrra* [ er voru hálffertug, *J.* 3) mörg skip ok allmikit lið, *J.* 4) gángr, *F.* 5) suðr eptir, *F.* 6) Seleyjar, *F.* 7) fuðendr, *J.* 8) norðr, *b. J;* í Sókn norðr, *b. F.* 9) fyri, *F.* 10) *frá* [ *v. F.* 11) *v. F.* 12) *frá* [ gerðu þeir bæði at sigla ok róa; gerðu Birkibeinar nokkura menn, en er þeir sáu skúturnar, þær er sunnan reyru, þá sneru þeir undan ok, *b. F.* 13) *hèr ok síðar* Háeyri, *F.* 14) *v. P.*

norðan XIIII skútum, snúa þeir þá undan, en Birkibeinar elta þá[1]. Sá þeir menn, er vörðinn hèldu, hvar Baglar reyru, snúa þeir Arnbjörn[2] þá út or ánni, ok [setti hann þá upp merki sitt[3]; en er þat sá Birkibeinar, þá hugðu þeir at vera mundi meginherinn Bagla, snúa þá undan, ok róa norðr, en Baglar eltu þá; snúa Birkibeinar þá undan, ok laupa á land upp í Svâfuvík[4], en Baglar eptir þeim ok elta þá[5]; með Birkibeinum var mart leiðángrs lið, fèll þar mart manna af þeim, þar fèll Sveinn næpa ok Erlendr þjófakappi, en sumt fèkk grið. Baglar tóku [skipin öll[6], ok snúa þegar austr aptr, var þeim þá sagt at her Birkibeina lá í Hvítíngseyjum, fóru Baglar þá dag ok nótt austr til Túnbergs, [en Birkibeinar fóru norðr, ok fundu konúnginn í Hvítíngseyjum [með stórskipin[7].

*Frá Böglum er þeir leifðu skipin.*

16. Litlu síðar búa Baglar austan skútnaherinn, ok hafa hálfan fjórða[8] tug skútna, var þar fyri Nikulás af Lista, [Erlíngr vikr[9], Ormr skutilsveinn, [Knörr hattspjörr[10]; ok er þeir komu norðr í Helgasund, þá kom njósn norðan; var þá sagt at Birkibeinar hefði siglt norðan fyri Jaðar[11]; vildi Nikulás þá austr sigla, en Ormr mælti á móti, var þá beðit allan dag til kvelds.

[1]) *v. F.* [2]) Jónsson, *b. J.* [3]) setja upp merki sín, *J.* [4]) Svofuvík (Svöfuvík), *F.* [5]) leingi, *b. F.* [6]) skúturnar ok allt þat er á var, *J.* [7]) *frá síðara* [ *v. J; frá fyrra* [ þóttust þeir hafa vel árnat í þessari ferð, *J.* [8]) þriðja, *F.* [9]) *v. J.* [10]) *v. F,* Knaurr háðspjorr stýrði skútu Arnbjarnar, *b. J.* [11]) ok svâ fyri Lista, *b. F.*

Um nóttina sigldu þeir austr, ok lögðu at um myrgininn í Portyrju, þá var á mjörkvi mikill ok sá þeir eigi fyrr en Birkibeinar sigldu fyri höfnina; brugðu Baglar þá við skjótt, ok ráku af sèr tjöldin, ok snúa austr or höfnunum, draga þá upp segl sín, ok stefndu fyrir innan Aur ok þar á fjörðinn. Birkibeinar voru þá komnir austr yfir fjörðinn, [Baglar sigldu þá eptir, ok lögðu í Staferni. Birkibeinar sigldu inn[1] til sunda, en skútur III er Baglar áttu sigldu undan þeim. Bjórólfr[2] bátr ok Eiríkr[3], Bergr ok Skæríngr, þeir báru njósn til konúngs[4], lèt hann þegar blása öllu liðinu upp á Hauga; spurði hann þá [hvert ráð þeir vildi upptaka[5], hvârt menn vildi gánga á skipin ok berjast við Birkibeina, eða vildi þeir bíða þar í bænum, sagði þá mundu eiga við liðs mun at etja, er ok sá til at snúa á land upp[6], ætla ek ok vera þann beztan. Þá svarar Arnbjörn Jónsson: gaungum á skipin þau III[7] stóru, ok tökum við sem drengiligast, ok munu þau seint sótt verða, þótt vèr hafim lið minna. Þetta ráð líkaði mönnum vel; var þá gengit til skipanna; var þá gengit á it mikla[8] skipit, þat er Filippus[9] hafði gera látið, þat var mest af öllum; var Arnbjörn fram á skipinu við sína sveit[10]. Birkibeinar lögðu at við Hrossanes[11], ok herklæddust; ok er menn

[1]) út, *F.* [2]) Björgólfr, *F.* [3]) baðkall, *b. F.* [4]) *frá* [ Baglar lèttu eigi fyrr en þeir komu til Túnbergs, ok báru konúnginum njósn, *J.* [5]) *v. F.* [6]) ok höldum saman liðinu, *b. F.* [7]) hin, *F, J.* [8]) mesta, *F.* [9]) af Vegini, *b. F, J.* [10]) en konúngssveitin aptr, *b. F, J.* [11]) ok skipuðu til atlögu, *b. F.*

voru búnir, greiddu þeir atróðrinn, en þegar er þeir komu í skotfæri, [flýðu Baglar, ok[1] sóttu upp or bænum, ok svâ upp um Fróðaás, ok lètu þar aungva menn nema einn, er hèt Þorbjörn skeifr[2]. Birkibeinar tóku öll skipin[3], ok mikit fè tóku þeir annat, [þvíat Baglar bjöggust skjótt á braut[4]; dvöldust Birkibeinar þar um hríð. Áðr Birkibeinar fóru or Björgyn, var þat ætlat, at Dagfinnr[5] skyldi sitja í borginni, vildi hann hafa CC manna; menn sögðu hann eigi þurfa at sitja þar við [svâ mikit fjölmenni[6]; þá bauð Svertíngr at halda borgina við C[7] manna, var sá kostr tekinn, at þeir Ívarr boddi[8] ok Erlendr sliðri sátu þar allir. Baglar [þeir er fóru með skútna hernum stefndu norðr með landi; þeir spurðu at Birkibeinar fóru norðan[9] II skútum, Ólafr, Jörundar bróðir, ok [Ólafr smjörmagi[10], þeir höfðu sýslu á Vestr-Ögðum. Baglar hittu þá, ok eltu aðra upp í Þrymlíngum, en aðra við Flostrgafl[11], ok drápu þá flesta. Nikolás af Lista gaf grið hvârumtveggja Ólafi; en er liðsmenn urðu þess varir, þá veittu þeir þeim atgaungu, ok drápu þá[12]. Fóru Baglar þá norðr, ok er

---

[1]) *frá* [ þá hlupu Birkibeinar upp af skutbryggjunni ok því næst fram bryggjurnar. Birkibeinum varð eigi skjótt um landgönguna, þvíat skipin lágu allt fyri bryggjum, *F, J.* [2]) ok var leiðángrsmaðr, *b. F.* [3]) bæði þau er konúngrinn hafði gera látit í Kaupángi ok svâ þau er höfðu gera látit Baglar, *b. F.* [4]) *v. F.* [5]) sýslumaðr, *b. F.* [6]) her manns, [7]) tvö hundrut manna, (*rángt*) *F.* [8]) *v. F.* [9]) meðr, *F.* [10]) annarr Ólafr, *F.* [11]) Flaustrgafl, *F.* [12]) *frá fyrra* [ höfðu eigi allir norðr snúit, ok hittu þeir á sýslumenn II; hèt hvârrtveggja Ólafr; þeir fundust í Þrymling-

þeir komu fyri Jaðar, hittu þeir þar Englandsfar eitt, ok ræntu, ok fengu þar mikit fè, annat skip tóku þeir í Körmt, þat var ok Englandsfar. Þá fóru þeir norðr til Björgynjar[1], ok er þeir reyru[2] at bænum, skiptu þeir liðinu, reyru sumir at í Tolovík[3], en sumir lögðu utan undir Borg[4], gengu þá upp hvârirtveggju at borginni. Birkibeinar gengu ámóti út[5], sóttu Baglar þá at, var þunt skipat fyri; hrukku Birkibeinar inn af veggjunum, ok hljópu inn í meginborgina, Baglar komust [upp á útveggina[6], ok unnu hana[7], en er þeir sá at þeir [megu eigi vinna at svâ búnu meginborgina[8], þá brendu þeir útborgina, ok skipuðu sínum mönnum í kastalann. [Birkibeinar höfðu drykk lítinn í borginni; Baglar geymdu þar[9], at þeir næði eigi á braut at komast; sátu nú svâ hvârirtveggju um hríð. Filippus konúngr ok þat liðit er upp var elt í Túnsbergi fór it efra um Upplönd, ok komu ofan í Sogn; þá spurðu þeir til sinna manna í Björgyn[10]. Þeir rèðu þá til skipa, ok fóru suðr til Björgynjar. En er Birkibeinar voru þrotnir at drykknum, þá báðu þeir sèr griða, ok buðu at gefa upp borgina. Filippus konúngr gaf þeim

---

um; fèll þar hvârrtveggi Ólafr, ok fáir menn, *J*, (*sem endar þannig*).

1) var þeim sagt, at fátt var lið í borginni, *b. F.* 2) sunnan, *b. F.* 3) Tenluvík, *F.* 4) bergit, *F.* 5) á borgarveggina, *b. F.* 6) inn í borgina, *F.* 7) skjótt ok svâ kastalann, *b. F.* 8) fengu ekki at gjört meginborginni, *F.* 9) en er þeir vissu at Birkibeinar höfðu litit lið en farnir mjök at drykk, þá gættu þeir þess, *F.* 10) ok hvat þeir höfðust at, *b. F.*

grið, ok svâ, at hverr skyldi hafa þat sem ætti í borginni, en þat sem konúngr ætti, skyldi skipta með liðinu. Þá er borgin var uppgefin, ok menn gengu út, þá unnu allir eiða, at eingi bæri meira út en hann ætti; þar var í borginni Kristína, dóttir Sverris konúngs, ok Skúli, bróðir Ínga konúngs; þar var ok Margrèt, kona Dagfinns, ok Guðríðr[1], kona Þorsteins Heimness[2]; alls voru þar XL kvenna. Baglar tóku þá borgina, ok fengu þar vist mikla, en lítit fè annat[3]. Þórsdaginn brendu þeir borgina, en frjádaginn at kveldi tóku þeir at brjóta borgina, ok allan laugardaginn; þá kom þeim njósn at Hákon jarl fór austan, lögðu þeir [þá út öllu liðinu[4] í Flóruvâga. Birkibeinar brendu öll stórskipin[5] í Túnsbergi[6]; þeir höfðu Gullbrínguna með sèr, [en er þeir spurðu at Baglar höfðu norðr farit, þá skiptu þeir liðinu; var konúngrinn eptir með in stærri skipin, en jarlinn fór norðr með tvítugsessur ok smáskútur[7]. Þá var á norðrænt; þóttust Baglar þá vita, at jarli var þat andviðri. Annan dag vikunnar fóru Baglar inn til Borgar, lètu þeir þá blása öllum bæjarlýð til at brjóta borgina; týsdaginn lögðu þeir or bænum suðr í Sundsvâg. Miðvikudaginn var á[8] suðrænt[9],

1) Jónsdóttir, *b. F.* 2) sonar Gems, *F.* 3) Mánadaginn kom konúngrinn til bæjarins, tírsdaginn gekk fólkit úr borginni, óðinsdaginn var rannsakat í borginni, en, *b. F.* 4) því sunnudaginn út, *F.* 5) skipin, *F.* 6) þau fyrst hin mestu er Baglar höfðu gera látit, Gestaskálpinn ok Lyrtuna, *b. F.* 7) ok önnr stórskipin, en jarl fór með tvitugsessur ok smærri skip, *F.* 8) *þannig G, F;* þá, *P.* 9) í móti, *b. F.*

þá [sigldi jarl[1] sunnan, en er hann kom á Harðsæ, þá sá Baglar, ok reyru suðr í móti; hugði jarlinn at þeir mundu vilja berjast, ok hlóðu seglunum; en er Baglar komu í skotmál, þá víkja þeir þvers út eptir firðinum. [Birkibeinar reyru út eptir þeim, en þó drógu Baglar undan. Birkibeinar sigldu[2] norðr til Björgynjar, en er þeir koma þar, [þá voru veittar[3] stórar átölur þeim er borgina höfðu upp gefit[4]. Dagfinnr eggjaði mjök at borgina skyldi upp bæta; var þat ráðs tekit at blásit var til bæjarfólkinu at setja borgarveggina, [dag eptir dag[5]. Nú kemr jarli þat í hug, at konúngr mundi þikkjast of fáliðr í Víkinni austr, býst hann þá norðan, en setr eptir Pètr steypi ok Dagfinn[6] til at geyma borgarinnar, er hann fór á braut,

*Frá Inga konúngi ok Böglum.*

17. Ingi konúngr fór or Túnsbergi ok inn til Oslóar, ok hafði IIII skip, Ógnarbrandinn ok Gullbrínguna ok tvö önnur[7]. Hann dvaldist þar um hríð. Böglum byrjaði vel norðan, en er þeir komu í þrymlínga, spurðu þeir at Ingi konúngr var í Oslu, sigla þá [inn ok liggja við Ormeyna[8], ok ætla at leggja konúnginum; síðan

[1]) sigldu jarl ok hans menn, *F.* [2]) Þá róa Birkibeinar eptir þeim, ok kvomust í skotfæri skútunum, en lángskipin urðu seinni. Þá sneru Baglar aptr, ok vildu taka skúturnar, en Birkibeinar kvomust aptr móti lángskipunum. Baglar reyru þá undan suðr í Salbjarnarsund um kveldit. En er Birkibeinar sáu at þeir fengu ekki atgert, draga þeir upp segl sín ok sigla, *b. F.* [3]) veittu þeir, *F.* [4]) ok sögðu verit hafa í sjálfs veldi (valdi), *b. F.* [5]) *v. F.* [6]) sýslumann, *b. F.* [7]) hin miklu, *b. F.* [8]) enn, ok komu ekki til Túnsbergs, ok lögðu við Ormeyna inn frá Jarlsey, *F.*

sigla þeir inn[1] til Höfuðeyjar. Þat var í þann tíma er menn voru komnir í skytnínga; var þá blásit í bænum, hljópu Birkibeinar þá á skip sín, ok heimtust út undir akkerin, þá lögðu Baglar at þeim, ok hjöggu strengina; veðr var á hvast, þá rak stórskipin inn til Frysju, þar til er öll stóðu á leirunum, var konúngsskipit eitt sèr. Baglar leggja þá at aldjarfliga; lètu þá hvârirtveggju gánga allt þat er til vâpna höfðu; lagði Filippus konúngr næst sína skútu; Birkibeinar komu á hana stafnljám, ok drógu hana at sèr; þá steig konúngrinn fyri borð ok allt liðit; þar fèllu [VIII menn[2]; var konúngrinn tekinn af sundi [við sínum mönnum[3]. Baglar reyru þá frá ok inn til bæjarins, ok tóku þar byrðínga V, ok báru á við ok næfrar ok hálm, lustu þar í eldi, ok lètu þat reka inn at skipunum[4], Birkibeinar stúngu [forkum við eldinum, ok rak þat inn á leirurnar. Baglar reyru um kveldit út[5] til Höfuðeyjar; þá mínkaði veðrit, en er flæða tók, flutu skip Birkibeina; reyru þeir til bæjar, ok lágu við akkeri um nóttina. Um myrgininn gerðu Baglar þat ráð at fara til Túnsbergs, taka þar kaupskip, ok stefna þá at Birkibeinum, ok standa nú öngum mun lægra en þeir; þeir tóku þar kugga II ok austfarar skip VII, tóku þar frá vígin ok háboroðu ok þildu á bitum; báru

[1]) eptir firði, *b. F.* [2]) VII menn eðr VIII, *F.* [3]) ok aðrir þeir er á voru, *F.* [4]) ok reyru á eptir, *b. F.* [5]) við forkunn, er eldinn rak at þeim, ok hrundu frá sèr; rak þat inn at leirum. En er Baglar sá at þat tjáði ekki, þá reyru þeir inn til bæjarins ok um kveldit inn, *b. F.*

þá á grjót, ok fluttust út á fjörðinn. Birkibeinar sigldu þá innan eptir firði, en Baglar utan á móti, en er Birkibeinar [koma í skotmál[1], þá snúa þeir þvers út á fjörðinn, bar þá brátt í sundr. [Birkibeinar[2] lögðu at út í Marfirðinum[3]; þar lágu Birkibeinar við akkeri, en Baglar í bryggjulægi. Birkibeinar höfðu vatnfátt[4]; um myrgininn lètu þeir síga at skipin; þá kölluðu þeir ok báðu Smjorka[5] frænda ryðja höfnina[6]. Baglar lögðu þá or höfninni, ok stúngu stöfnum at nesinu[7]; Birkibeinar reyru þá austr aptr, ok lögðu at í Staferni, lágu þeir[8] enn um akkeri. Baglar fylgðu þeim, ok fór allt á sömu leið. [Um myrgininn[9] voru hvârirtveggju á landi; þá sá þeir at skip sigldu vestan um Grenmar, eigi færri en XXX; [var þá illr kurr[10] í Böglum, því at þeim var jarlsins vân. Birkibeinar mæltu: hvat er nú, Baglar! [sjáit þèr sigla nakkvað; verum kyrrir[11], liggjum allir saman, þat er oss ódaufligra. Baglar gáfu ekki at því gaum, drógu segl sín, ok sigldu austr yfir Foldina, lögðu at í Astishólmum[12], ok lágu þar nokkura nætr. Þat höfðu verit byrðínga segl[13]. [Fám dögum síðarr kom

---

1) sá þá, stefna þeir hit beinasta á þá, en er þeir koma í skotfæri, *F.* 2) *þannig G;* Baglar, *P.* 3) *frá* [ Baglar hlupu á stórskipin ok á skúturnar ok eptir þeim. Birkibeinar stefndu út fyri Tunnaskaga, sigldu svâ út fyri Nesjar þjóðleið ok lögðu at, *F.* 4) *þ. G, F;* utan farit, (*neðanundir*) *P.* 5) *þ. G; v. F;* Smjörkára, *P.* 6) fyri konúnginum, *b. F.* 7) *þ. G, F;* nesjum, *P.* 8) þar aðra nótt ok lágu, *b. F.* 9) at Birkibeinar lögðu í lægit, en Baglar rèru út ok lágu við nesit, *F.* 10) þá gerðist óttamikit, *F.* 11) hví láti þèr óróliga, *F.* 12) Ástússhólmi, *F.* 13) norðan or Björgyn, ok ætluðu til Túnsbergs, ok voru þar um haustit, *b. F.*

jarlinn norðan, hitti hann þá konúnginn, fór nú með öllu liðinu til Túnsbergs, ok dvöldust þar um haustit[1]. Baglar gerðu sitt ráð[2], ok sigldu [um myrgininn snemma, ok komu[3] um kveldit í þrymlínga, hittu þar byrðínga marga, er norðan voru komnir; spurðu þeir þá at jarlinn hafði austr siglt, svâ þat, at Pètr steypir ok Dagfinnr sè í Björgyn, ok lètu gera upp borgina; lagði Dagfinnr á allan hug um borgargerðina, þvíat hann hafði þá sýslu um Hörðaland[4], en Pètr gaf at aungvan gaum; var hann jafnan yfir at Jónskirkju, þvíat þar var Íngibjörg[5] kona hans. Hákoni jarli var ekki mikit um [at brjótast við[6] borgargerðina. Baglar fóru norðr ok heldr skyndiliga; þeir lágu í Eldeyarsundi, reyru þaðan um kveldit ok um nóttina, ok komu fyri dag til bæjarins; hljópu nú af skipunum ok svâ í bæinn ok upp eptir stræti, en sumir fyrir ofan bæinn. Dagfinnr var með sína sveit í borginni, ok urðu þeir þegar varir við, er þeir hljópu í bæinn; blèsu þeir þegar herblástr. Birkibeinar vildu til borgarinnar, þeir er í bænum voru. [Baglar komu ámót þeim[7], ok fèllu þar XI menn. Pètr hljóp upp or bænum við sína sveit[8]. Baglar settust um borgina, ok biðu lýsíngar; en er ljóst var orðit, sóttu þeir at borginni. Þeir buðu Dagfinni grið, en hann lèzt aungvarra þurfa; var þar nú hörð atsókn. Birkibeinar vörðust

1) *frá* [ *v. F.* 2) at fara norðr á Agðir, *b. F.* 3) *v. F.* 4) hèlt hann þeirri sýslu, meðan borgin stóð, *b. F.* 5) konúngsdóttir, *b. F.* 6) *v. F.* 7) en þeir urðu ofseinir, *F.* 8) er þeir heyrðu blástrinn, *b. F.*

vel ok drengiliga[1], þá báru Baglar eld at borginni; fórust Birkibeinar þá mjök af reyk[2] ok mæði; þeir voru ok allir mjök sárir; þar var hálfr þriði tugr manna. Dagfinnr bað þeim griða; Baglar sögðu þá ekki þurfa griða heldr en um myrgininn. Þá tóku þeir kirkjustiga ofan í bæinn, ok voru þeir settir við borgina, ok gengu menn svâ upp. Þá lèt Dagfinnr fara ofan í festi sveininn Hákon, son Hákonar konúngs[3], ok bað gefa honum grið[4], ok þar með lèt hann fara sverð búit er hann sendi Gyrði skjálga, mági sínum. Gyrðr tok við öllu samt, sveininum ok sverðinu. Gakk til konúngs, sagði Dagfinnr, ok vit[5] ef þú fáir oss grið. Gyrðr gerði svâ; hann bað konúnginn gefa Dagfinni grið, bauð þar at veði alla eigu sína[6]. Konúngr lèt þá blása til húsþíngs, ok sagði at Baglar[7] skyldu ráða griðum; allir mæltu ámóti. Gyrðr bað eigi at síðr. Gakkttu, segir konúngrinn, ok bið Dagfinn gánga híngat einn, ok hafa grið. Gyrðr sagði þetta Dagfinni; hann svaraði: eigi vil ek grið hafa, nema vèr hafim allir. Gyrðr sagði nú konúngi. Konúngr bað liðmenn þá gefa þeim grið, sagði þeim aungvan frama at drepa fá menn ok þó áðr illa leikna. Voru þeim þá grið gefin, skyldu þeir gánga út vâpnlausir ok yfirhafnalausir; Dagfinnr einn hafði stálhúfu; gengu þeir þá ofan í biskupsgarð,

[1]) ok voru æ hinir sömu frammi, en Baglar skiptust við, þegar þeir mæddust, ok gengu þá aðrir framm, *b. F.* [2]) hita, *F.* [3]) Sverrissonar, *b. F.* [4]) *b. F, P.* [5]) freista, *F.* [6]) at hann skyldi eigi vera ámóti honum síðan. Þá kom Arnbjörn Jónsson, ok lagði margt til, *b. F.* [7]) liðit, *F.*

ok unnu þá konúngi trúnaðareiða. Annan dag [var brotin öll borgin ok borinn sèrhverr steinn[1]. Baglar dvöldust hálfan mánnð í bænum, þaðan fóru þeir norðr í þrándheim; var þar Filippus til konúngs tekinn á Eyraþíngi. þá var svâ mikit hallæri í þrándheimi, at þeir[2] fóru braut eptir vetrnætr suðr [með landi[3]; þá gerðu þeir skútur suðr á njósn, var þar fyrir Bjorgólfr[4] bátr, Birgir af Staungum, Brynjólfr nef[5], þeir höfðu spurt at Pètr var í Stafángri[6]. Baglar lögðu at í Mostr, ok spurðu at Pètr steypir var ekki í bænum um nætr, en sat þar um dögum[7]; þá róa þeir út í Herfili, ok tok þá þar andviðri, ok lágu þar IIII nætr. þá ɽeyru þeir [suðr í Fjörbyrjusund ok inn í iðra vâginn[8]. Pètr steypir hafði gengit til óttusaungs ok hlýddi formessu, ok sveit hans; drífa var á svâ myrk, at þeir urðu eigi fyrr varir við[9], en Baglar gengu af skipum; þá sá Birkibeinar ok sögðu Pètri, hljóp hann þá þegar út, ok tók á rás upp or bænum, ok allir þeir[10]. Baglar hljópu eptir, ok drápu þar IX[11] menn. Pètri var svâ nær komit, at hann kastaði kyrtlinum ok beltinu; Baglar fundu eigi beltit, en kyrtilinn höfðu þeir heim til bæjarins.

---

[1]) eptir lètu Baglar blása öllu liðinu til at brjóta borgina; var þá brotinn hverr steinn or sinni stöðu, *F.* [2]) máttu ekki fæða þar svâ mikit lið, ok, *b. F.* [3]) til Björgynjar, *b. F.* [4]) *eðr* Bjórsólfr, *G*; Björgólfr, *F.* [5]) ok Skæringr, *b. F.* [6]) ok hans sveit, *b. F.* [7]) ok hafði ekki spurt, at þeir hefði norðan komit, *b. F.* [8]) yfir fjörðinn, inn til Vaðeyjar fyrir innan Bókn ok fyrir utan Útstein, þá suðr í Fjarðbyrjusund, inn í Rogin (Vogin), *F.* [9]) *þ. G, F*; *v. P.* [10]) Pètr var allra manna fóthvatastr, *b. F.* [11]) XI, *F.*

Konúngsdóttir hugði at Pètr mundi fallinn, áðr henni var sagt[1]. Dvöldust Baglar þar um nóttina, fóru síðan til Björgynjar.

*Frá konúngi ok jarli.*

18. Þeir konúngr ok Hákon jarl[2] fóru austan úr Víkinni, ok komu norðr litlu fyri jól. Þeir lágu[3] lengi í Seleyjum, en er Baglar spurðu [til Birkibeina[4], fóru þeir or bænum, ok lágu um nóttina í Bárðarsundi, reyru um daginn í Hvísvíkr[5]; þá var á sunnanveðr; [sigldu Birkibeinar þá ok lögðu at í Eldeyjarsundi[6]. Þá spurðu þeir[7] at Baglar voru fyri [sunnan Storð, reyri jarl þá[8] suðr með öll lèttiskipin[9]. Jarl lagði at við Títólfsnes um kveldit, spurði hann þá, at Baglar voru eigi um farnir. Baglar reyru suðr um nóttina, ok hugðu Birkibeina mundu vera alla samt í Eldeyjarsundi, [reyru þeir þá um nóttina til Títólfsness. Arnbjörn fór fyrstr með IIII skútum, þá varð vörðr Birkibeina varr við[10] ok kallaði hátt: af tjöldin, hèr ferr ófriðr. Þeim Böglum þótti þetta undarligt[11]; rendu þá skúturnar[12] fram fyri höfnina, sá þeir þá elda á landi ok skipin er bar við eldsljósinu [ok höml-

1) at komst hann undan, *b. F.* 2) ok lið þeirra allt, *b. F.* 3) um haustit, *b. F.* 4) at Birkibeinar voru komnir í Körmtsund, *F.* 5) Hvistvík, *F.* 6) Baglar sigldu þá í Eldeyjarsund, *F.* 7) Birkibeinar, *F.* 8) innan Stað, fór Hákon jarl, *F.* 9) en konúngr var eptir, *b. F.* 10) *frá* [ en er þeir komu fyri Láfúngsnes, sneru þeir á fjörðinn til Títólfsness, ok var á landviðri, þeir Arnbjörn lágu fyrir á fjórum skipum nærr landi, ok varð varr við vörðu Birkibeina, *F.* 11) þviat þeir hugðu at Birkibeinar mundu ekki nær, *b. F.* 12) skipin, *F.*

uðu nú at um[1]. Þá kallar Björgólfr bátr á þá: hvat liði er þetta? segir hann. Birkibeinar höfðu þá starfsamt, tóku af sèr tjöldin ok lögðu viðuna ok svöruðu aungu. Björgólfr kallaði annat sinn ok þriðja; þá svarar maðr: lát eigi svâ, lát eigi svâ, maðr, segir hann, þú verðr varr við. Nú þóttust Baglar vita at Birkibeinar mundu vera, ljósta nú í árum ok róa út; var þá ok komit fyri höfnina lið þeirra[2] allt; Birkibeinar róa þá eptir ok lètu gánga lúðrana, Baglar reyru þá aungum mun at minna; svâ var myrkt at þeir kendust eigi ok fóru náliga skipin öll saman. [Reyru Baglar[3] út með landi, en Birkibeinar stefndu á fjörðinn; bar þá í sundr með þeim; vissu Birkibeinar ekki til, hvert Baglar sneru[4]. Pètr[5] kom þá til þeirra í Eikundasundi, ok stýrði þá skútu; hann [reyri þá[6] upp á skip Hreiðars sendimanns; þá kallaði einn maðr af skipi Pètrs: hví róa djöflar yðrir fyrir oss í alla nótt? ok tekr upp stein ok kastar ok kemr á þann er sitr í fyrirúminu á skipi Hreiðars[7]; róa þeir aungum mun at minna. Þeir Pètr kendu þá eigi. Reyru þeir Hreiðarr fyrir innan Mostr ok Helgi Birgisson. Arndórr foka sneri aptr norðr ok inn í Teknafjörð ok hljópu þar á land. Birkibeinar lögðu inn í höfnina ok biðu þar

1) *v. F.* 2) Birkibeina, *F.* 3) ok rendust á; Baglar einstrengðust upp ok fóru, *F.* 4) Birkibeinar snúa þá aptr, *b. F.* 5) steypir, *b. F.* 6) stýrði, *F.* 7) Þá mælti maðr á skipi Hreiðars: róum vèr sem vèr megum mest, *b. F, sem endar hèr þessa sögu, en hefir ¾ blaðsíðu auða, líkliga ætlaða því, sem G hefir meira.*

dags. Um myrgininn eltu Birkibeinar upp í Vaðilsey Arnbjörn, bróður Sörkvis snáps; þar fèll Arnbjörn við Vta mann. Birkibeinar fóru leið sína norðr til Björgynjar. Baglar komu um myrgininn í Haugasund með sínu liði, þá komu þar til konúngs brèfamenn Nikulásar biskups, lèt konúngr lesa upp brèfin; var þat þar á at þeir skyldu sættast, Birkibeinar ok Baglar, ok hvârigir skyldi öðrum mein gera; þá var skamt til jóla. Baglar skiptu liði sínu um jólin á Agðir, eptir þat fara þeir austr til Túnsbergs, ok dvöldust þar um vetrinn. Nikulás biskup hafði farit áðr um sumarit norðr til þrándheims, á fund þóris erkibiskups; kom þat ásamt með þeim, at þeir skyldu leggja á allan hug at þeir sættist, Birkibeinar ok Baglar; fór Nikulás biskup þá austr aptr, hófust þá upp brèfsendíngar millum manna. Um vârit fór Nikulás biskup út til Túnsbergs á fund Filippus, áttu þeir þá stefnur sín á milli. þá mælti konúngr: herra biskup! segir hann, hvern stað á sættar umleitan þessi, er þèr farit með? Biskup svaraði: herra, segir hann, þat er upphaf at, at þèr erut III höfðíngjar, skal sinn þriðjúng lands hafa hverr yðar; skulut þèr, herra, hafa Víkina ok Upplönd, ok er þat ekki jafnt er þrándheimr er; þar er nú sultr ok seyra, en hèr er árferð góð. Vèr erkibiskup höfum þat hugsat at þèr skulut fá Kristínar, dóttur Sverris konúngs, er af beztri ætt er komin í Noregi; mætti svâ verða at þit ættið sonu samt, mun mönnum þá þikkja lítils um

vert ætt Bárðar Guttormssonar eðr Fólkviðar lögmanns; hefir oss lengi verit þúngt at eiga við Birkibeina, en ef þèr vilit þetta fyrst miðla, kann vera at svâ búim vèr um, at þeir miðli meira annat sinn. Konúngi þótti þetta áheyriligt. Biskup ferr nú norðr til Björgynjar með góðu förunauti, hann kom sèr í tal við Ínga konúng ok Hákon jarl, bar þetta upp fyri þá ok segir svâ: Filippus frændi vârr vill nú uppgefa með minni fyritölu alla mótstöðu við yðr; fellst honum vel í skap at binda við yðr tengðir, ef þèr vilit gipta honum Kristínu, dóttur Sverris konúngs; nú má hann vera yðr, herra, styrksmaðr mikill, hvers sem þèr kunnit krefja. Þeir konúngr ok jarl voru fátalaðir um þetta: sögðu at ekki mundi sú sætt verða, at eigi væri Íngi einn konúngr yfir landi. Biskup talaði hèrum mjúkliga; las fyrst smám ok smám munina fyri þeim; kom þat hellzt ásamt með þeim at Filippus skyldi fá meyjarinnar, ef þat væri hennar vili, ok hafa þvílíkt af landi, sem haft hafði Eiríkr jarl, bróðir Sverris konúngs, ok þvílíka nafnbót sem Íngi konúngr vill gefa honum. Þótti Birkibeinum biskup taka allt frekara en þeir jáðu; kom svâ at þetta var talat á þíngum, flutti Nikulás biskup málit. Birkibeinar skutu við orðum heldr óvingjarnligum, ok báðu níðínginn þegja, sögðu hann nú sem fyrr ótryggjan. Biskup gaf aungvan gaum at hvat þeir sögðu. Erkibiskup var þá ok norðan kominn, lagði hann ok mikinn hug á um sættargerðina; kom sva at sættarfundr skyldi vera í Hvítíngseyjum, skyldu þar til koma hvâr-

irtveggju, svâ ok erkibiskup ok Nikulás biskup; hittust þeir þar um haustit; lágu Birkibeinar við Hvítíngsey, en Baglar við Nauteyna, fóru þá menn á millum, ok því næst fundust þeir sjálfir. Birkibeinar voru miklu fjölmennari, töluðu þá biskupar ok sögðu upp hvèr sætt ætluð var; var þá sem opt kann verða at hvârumtveggjum þótti nakkvat dregin sín orð; veittu Birkibeinar þá orskurð at Filippus skyldi hafa land (eigi) lengra norðr en til Rygjarbits ok eigi suðr lengra en til Svínasunds; hann skyldi ok niðr leggja konúngs nafn, en hafa slíka nafnbót sem Íngi konúngr vildi gefa honum. Þessi sætt var svardögum bundin, svâ ok um manna aftökur flokka ámillum, þá skyldu hvârigir hefna nè heimta gjöld fyri, svâ um fjár uptekt, hvârir sem tekið höfðu. Unnu þeir nú sættareiðana, fyrst höfðíngjarnir, Íngi konúngr ok Hákon jarl ok Filippus, síðan lèndir menn ok sýslumenn, tvennar tylftir af hvârum; lauk svâ þínginu at grið voru sett ok trygðir veittar, mælti þar fyri Gunnarr grjónbakr. Annan dag eptir festi Filippus sèr Kristínu konúngsdóttur. Þá gerðist kurr í hvârutveggja liðinu af þeim mönnum, er fèlausir voru ok höfðu þó nafnbætr; var þá þat ráð gert, at eptir um vârit skyldu þeir herja til Suðreyja ok afla sèr fjár; ætluðust þá til menn af hvârutveggja liðinu. Þá gerðu þeir ok sitt ráð Pètr steypir ok Hreiðarr sendimaðr; hann átti Margrètu, dóttur Magnúss konúngs; ætluðu þeir at fara út í Jórsalaheim; skildust þá at svâ mæltu; fóru Baglar austr, en Birkibeinar til Björg-

ynjar. Baglar kölluðu Filippus þá konúng sem áðr. Eptir um vârit gerði Filippus II skútur norðr til Björgynjar móti Kristínu konúngsdóttur; var þar fyri Eysteinn Róason, Hámundi bust, Grundi fèhirðir; fór konúngsdóttir austr til Víkr. Filippus gerði brullaup sitt í Oslu; þar kom þá austan af Gautlandi Margrèt drotníng er átt hafði Sverrir konúngr, hún var dóttir Eiríks konúngs ins helga; hún var ok móðir Kristínar. Þat sumar fóru þeir í víkíng í Suðreyjar, Þormóðr þasramr ok Þormóðr fýlbeinn, Óspakr suðreyski, þessir voru af Birkibeinum; en af Böglum var Eiríkr Tóvason ok Eiríkr ok Erlendr píkr, Bergr maull, Nikulás gilli, þeir höfðu XII skip. Einum vetri síðar fóru þeir af landi braut Pètr steypir ok Hreiðarr, ok höfðu II skip, ok kom hvergi aptr.

*Fall Styrkars.*

19. Þann vetr er Erlíngr steinveggr andaðist þá fóru Baglar litlu fyri jól austr til Víkr; þá dvöldust eptir þeir menn er skyld eirindi þóttust eiga. Sörkvir snápr hafði farit inn í Harðángr; fór hann suðr þaðan á lítilli skútu, ok þeir XIII saman. Þá hafði lèn á Rogalandi Styrkar stagnál; hann spurði til fara Sörkvis, ok fór at leita hans; þeir sást við Barðhólma; Styrkarr reyri eptir ok elti þá suðr í Karmsund, tók þá at nátta, lagði Styrkarr at í Bæ, settu upp skipit ok fóru til húss; þeir lágu í stofunni. Þeir Sörkvir viku aptr ok leita þeirra, lögðu at í Bæ ok kendu þar skip Styrkars; gengu síðan heim til bæjarins. Sörkvir gekk fyrst inn í stofuna,

hann greip ofan kesjur II, ok ljóp út með, ok bað þá at sækja, sagði ærit lið; tóku þá sleða ok ráku fyri dyrrinn; þeir Styrkarr ljópu upp ok tóku vâpn sín, hugðu þeir at fjölmenni væri úti, varð því ekki af útgaungunni. þeir settu borð við stofuglugginn, fóru þar út nokkrir menn. Baglar rufu stofuna, ok báru þar inn grjót, þá tóku þeir næfrar, ok lustu þar í eldi ok báru í gluggana, svâ at ljóst var í stofunni; voru þeir þá sumir særðir, en margir drepnir. þar fèll Styrkarr ok þeir XVII. Sörkvir varð sárr; IX mönnum gáfu þeir grið.

*Frá smið ok Óðni.*

1208 20. þann sama vetr eptir jól, fyri sætta sumarit, þá bjó smiðr einn á Nesjum. þat var eitt kveld, at þar kom maðr einn ríðandi ok bað hann gistíngar, ok bað hann gera sèr hestgáng. Búandi kvað þat vel mega; þeir stóðu upp er lángt var til dags, ok tóku til smíðar. Búandi spurði: hvar varttu í fyrri nótt? í Meðaldal, sagði gestr; þat var norðarliga á þelamörk. Smiðrinn mælti: þú munt vera inn mesti lýgimaðr, þvíat þetta má aungvan veg vera. þá tók hann ok smíðaði, ok smíðaðist ekki sem hann vildi. Hann mælti: aldri smíðaðist mèr svâ fyrr, sagði hann. Gestrinn mælti: smíðaðu sem sjálft vill fara, ok urðu meiri hestskúarnir en hann hefði fyrr sèna, en er þeir báru til, þá var sem hæfði hestinum, þá skúaðu þeir hann. þá mælti gestrinn: þú ert ófróðr maðr, segir hann, ok óvitr; hví spyrr þú einskis? Smiðr mælti: hvað manna ertu? eðr hvaðan ertu kominn? eða

hvert skalttu fara? Hann svarar: norðan em ek at kominn or landi, ok hèr hefi ek nú lengi dvalzt í Noregi, en ek ætla nú at fara austr í Svíaveldi, ok lengi hefi ek nú á skipum verit, en nú mun ek verða at venjast hestinum um hríð. Smiðrinn mælti: hvert ætlar þú í kveld? austr í Sparmörk, segir hann. Þat mun eigi satt, segir búandi, þvíat þat fær varla riðit á VII dögum. Hann steig þá á hestinn; búandi mælti: hverr ertu? Hann svaraði: hefir þú heyrt getið Óðins? Heyrt hefi ek hann nefndan, segir búandi; hèr máttu nú hann sjá, segir gestrinn, en ef þú trúir eigi því er ek hefi sagt þèr, þá sè nú er ek hleypi hesti mínum yfir garðinn. Hestrinn hopaði til; þá keyrði hann hestinn sporum, ok rendi honum at; hestrinn hljóp yfir garðinn, ok kom hvergi við, sjö álna var garðstaurrinn hár, en aldri sá hann hann síðan. Fjórum nóttum börðust þeir síðarr í Lenrum, Sörkvir konúngr ok Eiríkr konúngr. Þessa frásögn sagði smiðrinn sjálfr Filippó jarli þann sama vetr í Túnsbergi, en sá sagði oss er þá heyrði á. Bœrinn heitir í Píslum, en búandinn, sá er hestskúana gerði, hèt Þórðr vettir.

---

# HÁKONAR SVERRISSONAR, GUTTORMS SIGURDARSONAR OK ÍNGA BÁRDARSONAR LENGRI SAGA

Í DANSKRI UTTLEGGÍNGU PRESTSINS

PETURS CLAUSSONAR UNDALS,

MED ANNARI NÝARI ÍSLENZKRI,

ÞAREPTIR SAMDRI.

---

## KONG HAGEN SVERRIS SÖN,

som bleff kaldet den Gamle.

STRAX efter Kong Sverris afgang ginge Birkebenerne tilskibs met deris Höfvitzmand Hagen Galin (hand var Ceciliæ sön, K. Sverris Systers) oc Peter Steiper, som oc var K. Sverris Systersön. De hafde med sig de Brefve, som K. Sverre hafde tilforn ladet skrifve til sin sön Hagen, som för er omtalit, oc de seilede nord med et skib, vel bemandet. Oc der de komme for Stadshaff, seilede de udenskjærs nord til Trondheims Minde, fordi at Baglerne (det er K. Ingis Krigsfolck) hafde indtaget Landet ved Sjösiden udi Sogn oc Fjordene, oc begge Möre oc Rumsdal, oc laa der udi store hobe, oc der de komme indtil Nidros, lagde de ind til Kongens Gaard, der Messen var sjungen, oc nogen af Kongens Folk komme dennem til möde, oc hilsede dennem venlig, oc spurde dennem om tidende, oc besynderlig hvorledis Kongen lefvede, thi de hafde hört, at hand var kranck. Birkebenerne svarede, at det var nu bedre med hannem, oc de spurde, hvor Hagen Kongens Sön var: Dennem bleff sagt, at hand var hjemme udi sit Herberg.

# SAGA HÁKONAR KONÚNGS SVERRISSONAR,

er kallaðr var hinn harmdauði[1].

Þegar eptir andlát Sverris konúngs gengu Birkibeinar á skip, með höfðíngja þeirra, Hákoni galinn, hann var son Cecilíu, systur Sverris konúngs, ok Pètri steypir, öðrum systursyni Sverris konúngs. Þeir höfðu með at fara brèf þau, er Sverrir konúngr hafði áðr ritat látið til Hákonar sonar síns, sem fyrr er getið; sigldu þeir norðr, ok höfðu eitt skip vel skipat. Ok er þeir komu fyrir Staði, sigldu þeir útleið norðr til Þrándheimsmynnis, því Baglar hèldu land allt með sjó, um Sogn ok Fjörðu, Mæri hvâratveggja ok Raumsdal, ok höfðu þar setur fjölmennar. Ok er þeir komu inn til Niðaróss, lögðu þeir at í konúngsgarði, þá er messa var súngin; komu þar þá nokkurir af konúngsmönnum til móts við þá, ok fögnuðu þeim blíðliga; spurðu þeir tíðinda, ok einkanliga, hversu konúngr mætti: því þeir höfðu spurt, at hann var sjúkr. Birkibeinar sögðu hann nú betr mega, ok spurðu, hvar Hákon væri, konúngsson. Þeim var sagt, at hann var heïma at herbergi sínu; gengu þeir þá upp til Krists-

[1]) *þannig P;* hinn gamli *stendr þarámót í Clausens útleggíngu; eginlega ætti hèr at bætast við:* svo ok af Guttormi ok Inga.

De ginge op til Christkirck, oc siden til Kongens Gaard, oc lode Hagen udkalde, oc sagde sig hafve noget hiemmeligt at gifve hannem tilkjende: Hagen gick til Dörren, oc lod kalde Hagen Galin oc Peter Steiper, met nogen aff de fornemmeste til sig, oc de hilsede hver andre venlige. Siden gafve de hannem alting tilkjende om hans Faders afgang, oc antvordede hannem Brefvene, oc talede nogen stund met hannem. Derefter lod Hagen Kongens sön sammenkalde sit Raad oc alle sine Hofsinder, oc gaff dem disse tidende tilkjende, oc blev hand strax paa den samme stefne hyldet, oc tagen til en Höfding ofver alt Norrig.

Om Vaaren derefter lod hand stefne alle Bönder i Trondelagen til Öireting, oc bleff hand der paa Tingit tagen til Konge ofver alt Landet, oc en Bonde, som Skervord hed, gaff hannem Kongenafn. Der efter tog hand Folck an, ok flere Hofsinder, oc alle hans Faders gamle Hofsinder komme til hannem, oc hand sette sine Mend ofver Lænene. Siden lod hand ferdig gjöre sine Orlogsskib oc udbjude Leding, oc seilede met sit Folck til Bergen. Baglerne vaare inde paa Landet, oc der spurdis atskillige tidende fra dennem: Somme sagde, at de vilde drage nord til Trondheim, oc en part, at de vaare komne ned paa Rogeland (det er Jæderen), thi sende Kongen sit Folck mod dennem met Peter Steiper, Torgrim aff Lianæs, Einer, Kongens maag, oc flere Höffdinger met megit Folk, oc der de komme til Rot, spurde de at Baglerne vaare i Stavanger.

Om morgenen derefter da saae Birkebenerne

kirkju, ok þaðan í konúngsgarð, ok lètu Hákon út kalla, kvoðust hafa leyndarmál nokkur at segja honum. Hákon gekk til dyra, ok lèt kalla til Hákon galinn, Pètr steypi ok nokkura hina helztu menn; fögnuðu þar hvârir öðrum með blíðu. Því næst intu þeir honum allt, hversu farit hafði um andlát föður hans, ok fengu honum brèfin, ok töluðust þeir við um hríð. Eptir þat lèt Hákon konúngsson kalla saman ráðuneyti sitt ok alla hirðmenn, ok sagði þeim þessi tíðindi; voru honum þegar eiðar svarðir á þeirri stefnu, ok var hann tekinn til höfðíngja yfir allan Noreg.

Hákon lèt um vorit eptir stefna til Eyraþíngs öllum bóndum í Þrændalögum, ok var hann til konúngs tekinn þar á þínginu of allt land. Bondi sá, er Skervarðr hèt, gaf honum konúngsnafn. Efldist Hákon síðan at liði, ok fjölgaði hirðmönnum, gengu til handa honum allir fornir hirðmenn föður hans, ok skipaði hann í sýslur mönnum sínum. Eptir þat bjó hann skip sín, ok bauð út leiðángri, ok sigldi með liði sínu til Björgynjar. Baglar voru á landi upp, ok fóru ýmsar frèttir af þeim, sögðu sumir menn at þeir myndi ætla norðr til Þrándheims, en aðrir kváðu þá komna ofan á Rogaland. Gerði konúngr því lið á hendr þeim, voru þar höfðíngjar: Pètr steypir, Þorgrímr af Ljánesi, Einar konúngsmágr ok fleiri höfðíngjar, höfðu þeir mart manna, ok er þeir komu í Rott, spurðu þeir, at Baglar voru í Stafángri.

Um morguninn eptir sá Birkibeinar, at

at Baglerne komme roendis sönden til oc stefne til Öen met deris skib, oc de lagde ud mod dennem. Der Baglerne det saae, flydde de, oc Birkebenerne forfulde dennem, oc optoge et aff deris skib: Baglerne verjede sig vel der paa, men dog bleff det Skibsfolck mesteparten slagit, oc de andre flydde ind i Fjordene, oc forlöbe skibene, oc gafve sig op i Landet igjen, oc Birkebenerne seilede til Bergen igjen, ok Kongen seilede saa nord til Throndheim, oc laa lenge om Sommeren i Fjordene.

Dronning Margrete, K. Sverris efterlefverske, drog efter hans afgang öster i Vigen met hendis Daatter Christin, oc sin Systers Daatter Fru Christin Niclausdaatter, oc actede at drage op til Gotland (det er Vester Gydland). Birkebenerne sjuntis det icke være raadeligt, at Kongens Daatter skulde drage aff Landet. Thi drog Peter Steiper öster til Oslo, oc fant Dronningen der, oc der hand hafde töfvet nogen Dage, hende det sig, at Dronningen var i bad, da gick Peter Steiper ind i Dronningens Kammer, oc sagde til Christin Kongens Daatter, at Baglerne vaare strax paa Hænderne: Jomfruen bleff forskrecket, oc spurde hvad gode raad hand gaff. Peter tog hende op i faffnen, oc bar hende til sit skib, oc lod sla tjelding aff, oc hans Folck gafve sig til Aarerne, oc der de lagde aff met skibene, kom Dronningen hasteligen paa Bryggen, oc raabte, at de skulde faa hende hendis Daatter igjen. Peter Steiper sagde, at hun skulde först drage til Kongen, hendis Broder. Da lod Dronningen ilde, oc sagde:

Baglar reyru sunnan ok stefndu til eyjarinnar, lögðu þeir þá út til móts við þá. En er Baglar sá þat, flýðu þeir; Birkibeinar hèldu eptir þeim, ok fengu tekit eitt skip þeirra; vörðust Baglar drengiliga, en þó var mestr hluti drepinn þeirrar skipssagnar, en aðrir Baglar flýðu inn í Fjörðu, runnu frá skipum ok stukku á land upp. Birkibeinar sigldu aptr til Björgynjar, fór konúngr þá til þrándheims, ok lá lengi sumars í Fjörðum.

Margrèt drotníng, er átt hafði Sverrir konúngr, fór eptir andlát hans í Vík austr með Kristínu dóttur sinni, ok frú Kristínu Nikolásdóttur, systurdóttur sinni, ok ætlaði hún at fara upp á Gautland. Birkibeinum þótti eigi ráðligt, at konúngsdóttir færi af landi brott; fór því Pètr steypir austr til Oslo, ok fann þar drotníngu. Ok er hann hafði þar dvalit nokkura daga, bar svâ við, at drotníng var í laugu; gekk Pètr steypir þá inn í herbergi drotníngar, ok sagði Kristínu konúngsdóttur, at Baglar fóru þegar á hæl honum. Júngfrúin varð við felmsfull, ok spurði hvað hann kynni heilla ráða. Pètr tók hana í fáng sèr, ok bar til skips, lèt hann svipta af tjöldum, ok tóku menn hans til ára. En er þeir lögðu or læginu, kom drotníng af skyndíngu ofan á bryggjurnar, ok kallaði, at þeir mundu fá henni aptr dóttur hennar. Pètr steypir kvað hana fyrst mundu fara á fund konúngsins, bróður sins. þá bar drotníng sik illa, ok mælti: þat skyldi guð vilja, at ek

Gud gifve, at jeg maatte lefve den dag, at jeg kunde gjöre eder saa stor sorge oc harm igjen, som i nu gjöre mig: jeg er en Kongis Daatter, oc var gifven en Konge her i Riget, oc hafver icke uden dette ene Barn med hannem, hvilket i nu röfve mig fra, lige som det vaare et Træls eller et Slæfred Barn. Saadant raabte hun dennem efter, meden de kunde höre hende. Siden drog hun op til Sverig med hendis Frencke Fru Christin: Men Peter förde Kongens Daatter til hendis Broder K. Hagen, oc hun bleff der vel annammet, oc ærlige holden.

Denne Sommer komme til Norrig igjen Ercke Biscop Erick i Nidros oc Bisp Marten i Bergen, Bisp Niæls i Stavanger, Bisp Ifver i Hammer, oc Bisp Nicolaus i Oslo, som hafde fult Baglernis Hær, oc værit stundom i Danmarck, oc stundom i Sverrig, oc blefve de forligte med K. Hagen, oc hver drog til sin Biscopsstoel, oc Erckebispen tog alt Landet udi forligelse igjen. Da kom oc fra Island Gudmund den Gode, som var udvald Bisp til Island, oc bleff Vinteren ofver hos Erckebispen. Baglerne hulde sig oppe i Landet om Sommeren oc Hösten, oc Ingi deris Konge holt Huus paa den store Ö, som ligger udi Mjös, med megit Folck, ok hans Höfdinger hafde Lænene inde paa Oplanden, oc bleff deris hob dagligen jo mindre oc mindre, thi alt Landsfolcket gaff sig under K. Hagen, oc hand bleff megit vennesalig oc afholden aff Almuen, thi hand holt sig from oc venlig mod Bönderne, men mod sit egit Folck vaar han haard og

lifði þann dag, at ek mætta vinna yðr jafnmikinn harm ok trega, sem nú vinni þèr mèr; ek em konúngs dóttir, ok var ek gefin konúngi í ríki þessu, hefi ek ekki barn með honum, utan þetta, er þèr rænit mik nú, sem væri það þrælborit eða frilluborit. Slíkum orðum kallaði hún á eptir þeim, meðan þeir máttu heyra mál hennar. Eptir þat fór hún upp í Svíþjóð með frú Kristínu, frændkonu sinni. En Pètr fór með konúngsdóttur til Hákonar konúngs, bróður hennar, var þar vel við henni tekit, ok haldin sæmiliga.

þetta sumar komu þeir til Noregs aptr Eiríkr erkibiskup af Niðarósi, Marteinn Björgynjar biskup, Nikulás biskup af Stafángri, Ívar biskup af Hamri, ok Nikulás biskup af Oslo, er fylgt höfðu her Bagla, ok verit ýmist í Danmörku eða Svíaveldi, ok sættust þeir við Hákon konúng; fór þá hverr heim til síns stóls, en erkibiskup tók allt land í sátt aptr. þá kom ok utan af Íslandi Guðmundr enn góði, er kjörinn var til biskups at Hólum, ok var hann með erkibiskupi um vetrinn. Baglar höfðust við á Upplöndum um sumarit ok haustit, ok hafði Ingi, konúngr þeirra, atsetr á eynni miklu, er liggr í Mjörs, var hann allfjölmennr; en höfðíngjar hans höfðu yfirsókn á Upplöndum, ok fór afli þeirra mínkandi með degi hverjum, því allr landsmúgr gekk undir Hákon konúng, ok gjörðist hann mjök vinsæll ok vel þokkaðr af alþýðu: því hann var góðr ok vingjarnligr við

streng, oc straffede dennem hart, baade met skarpe ord oc anden straff, naar de gjorde Bönderne nogen uret.

Bönderne paa Opland forsamlede sig met nogne aff Kongens svorne Mend, oc droge ud paa Öen udi Mjös, med smaa Baade oc Flaader, thi alle store Roerskib oc Ferjer hafde K. Ingi ladet tage ud til Öen, oc de komme der ud för dag, oc sögte hjem til Kongens Gaard, hand sad endda oc drack med sine Mend. En aff Vecterne kom ind oc sagde dem, at Fienderne vaare ved Gaarden. Kongen sprang op, bad sine Mend vebne sig oc gaa ud mod dennem, oc lade sig icke myrde inde i Husit. Kongen gick sjelff ud met de förste, oc varede det icke lenge, för end hand bleff slagen, met största parten aff sit Folck. Der de andre Bagler det spurde, som paa andre steder vaare forsamlede, da blefve de forsagede, oc flydde, en part til Sverrig, en part til Danmarck, oc en part til deris Frender, oc nogne sögte forligelse hos Kong Hagen, oc bleff da alt det Folck oc den hob adspred oc forstöret.

K. Hagen vaar den Vinter udi Trondheim, oc efter Jul sende hand sin Brefdrager til Oplanden, oc öster til Vigen, met sine Brefve oc befalning, hvor efter hans Befalningsmend oc Almuen skulde rette sig, oc gaff tilkjende, at hand vilde komme öster til Vigen om Sommeren derefter. Disligeste sende hand venlige brefve oc budskab til Sverrige, at Dr. Margrete oc Fru Christin skulde komme til hannem, de skulde

bændr, en sínum mönnum var hann harðr ok stríðr ok refsíngasamr, bæði með hörðum orðum ok annari hegníngu, ef þeir gerðu á hluta bænda.

Bændr á Upplöndum ok nokkrir handgengnir menn konúngs gjörðu samnað, ok fóru út til eyjarinnar í Mjörs á smám bátum ok flotum, þvíat Ingi konúngr hafði taka látið öll róðrarskip ok ferjur ok færa til eyarinnar. Þeir komu út þángat fyrir dag, ok sóttu heim að konúngsgarði, sat konúngr þá enn, ok drakk með mönnum sínum. Einn af varðmönnum kom inn, ok kvað óvini fara at bænum. Konúngr ljóp upp, ok bað menn vâpnast ok út gánga ok láta sik eigi myrða í húsum inni; gekk hann sjálfr út í fyrra lagi, ok var skömm hríð, áðr hann fèll ok mestr hluti liðs hans. En er þat spurðu Baglar, þeir er annarstaðar höfðu setu, hvarf þeim hugr, ok flýðu sumir til Svíþjóðar, sumir til Danmerkr, ok nokkurir til frænda sinna; þeir voru ok nokkurir, er sátta leituðu af Hákoni konúngi, ok var þá allr sá flokkr eyddr ok í sundr dreifðr.

Hákon konúngr sat þann vetr í Þrándheimi, ok eptir jól gjörði hann mann til Upplanda ok austr til Víkr með brèfum ok orðsendíngum, hversu hann vildi, at sýslumenn hans ok alþýða skyldi fram fara, sagði hann ok, at hann myndi koma um sumarit eptir austr til Víkrinnar. Hann sendi ok boð ok vinsamlig brèf til Svíþjóðar, at Margrèt drotníng ok frú Kristín skyldu til hans koma, ok hèt þeim miklum

blifve holden i störste act oc ære hos hannem. De sende hannem ocsaa venlige brefve oc bud tilbage igjen, om alt det som hand dennem tilskrefvit hafde.

Om Vaaren, strax efter Paasken, seilede K. Hagen met megit Folck sönder til Bergen, oc siden öster i Vigen, oc drog til alle Kjöbstæder, oc alt öster til Elfven, oc alt Folcket gik hannem til haande, oc fulde hannem samme tid de ypperste Herrer udi Landet, som vaar Hagen Galin, Peter Steiper, baade Kong Sverris Systersönner, Sigurd oc Roar Kongens Frender, oc Dagfind Bonde, oc mange andre Krigs-Höfvitzmend, oc der hand drog tilbage igjen, da töfvede hand lenge i Sarpsborg om Hösten: der tog hand til sig en Edelmandsdotter, som hed Inga, föd af stor Slect udi Borgesyssel, hun vaar hos K. Hagen i hans Herberge, dog viste der ingen aff deris handel, uden Hagen Galin, oc Peter Steiper, oc nogne andre Kongens tro Mend, oc bleff hun fructsommelig ved Kongen. Derefter drog hand nord i Vigen igjen, oc indtil Oslo, oc töfvede der nogen stund: der komme til hannem Dr. Margrete oc Fru Christin, oc Kongen tog megit venlig mod dennem, oc de fölgede hannem til Bergen, oc der vilde hand blifve om Vinteren.

Udi Kong Sverris tid var der en Mand i Danmarck, ved nafn Erling, hand sagde sig være Kong Magni Erling-Söns Sön, thi hafde Kongen send Mend til Danmarck, at opsöge oc dræbe hannem, men hand bleff advaret, oc flydde til Vester-Gydland. Der Kong Hagen det spurde,

sæmdum ok metnaði. þær sendu honum ok vináttu boð ok brèf í móti um alla þá luti, er hann hafði til þeirra ritat.

þegar eptir páska um vârit sigldi Hákon konúngr með miklu liði suðr til Björgynjar, ok þaðan í Vík austr, kom hann við í öllum kaupstöðum, ok hèlt allt austr til Elfar, ok gekk allt fólk honum til handa; fylgðu honum þá hinir æðstu menn, er í vâru landinu, Hákon galinn, Pètr steypir, þeir voru báðir systrasynir Sverris konúngs, Sigurðr ok Róar konúngsfrændr, Dagfinnr bóndi, ok margir aðrir sveitarhöfðíngjar. Ok er hann vendi aptr, dvaldi hann lengi í Sarpsborg um haustit; þar tók hann til sín dóttur göfugs manns nokkurs, sú hèt Ínga, ok var af stórum ættum í Borgarsýslu; var hún hjá Hákoni konúngi í hans herbergi; vissu eingir menn samvistir þeirra, utan Hákon galinn, Pètr steypir ok nokkurir aðrir trúnaðarmenn konúngs, ok varð hún með barni af þeim fundi. Eptir þat fór konúngr norðr aptr til Víkrinnar ok inn til Oslo, ok dvaldi þar um hríð; þar kom til hans Margrèt drotníng ok frú Kristín, tók konúngr vel við þeim, ok fylgðu þær honum til Björgynjar, bjóst hann þar at sitja um vetrinn.

Á dögum Sverris konúngs var sá maðr í Danmörku, er nefndist Erlíngr, ok kvaðst vera son Magnúss konúngs Erlíngssonar; hafði konúngr því gert menn til Danmerkr, er skyldu leita hans ok drepa. Honum kom njósn, ok flýði hann til vestra Gautlands. En er þat spurði

sende hand Bud. oc brefve til Kong Knud i Sverrig, at saadan en Mand vaar i hans Rige, som kalled sig K. Magni Sön, oc actede at gjöre ufred i Norrig. Der K. Knud det spurde, sende hand sine Mend hen, oc lod hannem opsöge, oc indsette i det höye Taarn paa Visings ö: der hand nogen tid lang der hafde siddet, bestillede hand med en Qvinde, som bar Mad til hannem, at hun fick hannem mange klæder eller Laggen ind til sig, hvilke hand skar udi lange regler, ok knyttede enderne sammen, oc dermed vant hand sig ned for muren ofven aff Taarnit, oc der Linen icke var saa lang, at den kunde recke til jorden, lod hand sig falde oc slog det ene Laar i stycker, saa at hand altid siden haltede, oc hand kom derfra, oc gaff sig Öster paa Jærnbergene. Der Kong Hagen det spurde, sende hand sine Mend öster i Jærnberge Land, oc lod hannem ihjelsla, oc de förde hans Halsbog eller Tegnebog til Kongen, som hans Nafn stod i skrefvit. Hvilcken Bog siden bleff kjent aff dem, som viste at den haffde hört hannem til.

Den samme Sommer kom der en Mand til Skaanör, den tid Marcket bleff der holden, oc sagde sig være Kong Magnus Erlings Söns Sön, oc hafde nogen stund været i Venden, oc siden hafde været indset nogen tidlang udi et Taarn paa Visings Ö. Der de adsprede Bagler, som vaare komne mange der til Marcket, det hörde, da sellede de sig til hannem, oc vilde tagit hannem til deris Höffding, oc sagde sig ville faa Folck nock, naar de hafde en Höffding, som vaar

Hákon konúngr, gerði hann menn með brèfum til Knúts konúngs í Svíþjóð, ok lèt segja honum, at sá maðr var í hans ríki, er kallaðist vera son Magnúss konúngs, ok hugði at gjöra ófrið í Noregi. En er þat spurði Knútr konúngr, sendi hann til menn sína, ok lèt hann upp leita ok innsetja í þann háfa turn, er var á Vísíngsey. Ok er hann hafði setið þar um hríð, fekk hann af konu þeirri, er færði honum mat, at hún lèt mörg klæði inn til hans; reist hann þau í lánga strengi, ok knýtti saman endana; vatt hann sik með því ofan fyrir múrinn af turninum. En með því strengrinn var styttri en hann mætti ná á jörð ofan, þá lèt hann fallast niðr, ok brotnaði annar lærleggr hans, ok gekk hann jafnan haltr síðan; komst hann við það á braut þaðan, ok fór austr á Járnberaland. En er þat spurði Hákon konúngr, gjörði hann menn sína austr á Járnberaland, ok lèt taka hann af lífi; færðu þeir konúngi hálsbók hans, er nafn hans stóð á ritað, ok var sú bók síðan kend af þeim, er vissu, at hann hafði átt.

Þetta sama sumar kom maðr nokkur til Skáneyrar, í þann tíma er þar var haldinn markaðr, ok kvaðst vera son Magnúss konúngs Erlíngssonar, ok verit lengi í Vindlandi, ok síðan verit innsettr um hríð í Vísíngsey. En er Baglar heyrðu þetta, þeir er flýit höfðu, ok voru margir komnir þar til markaðarins, þá sóttu þeir til hans, ok vildu hafa tekit hann til höfðíngja, töldu sèr vân liðs, ef þeir hefði þann at höfðíngja, er væri

Kong Magni Sön. Men hand svarede dennem oc sagde: Kong Hagen hafver yndist oc venskab aff alt Folcket i Norrig, oc som mig er sagt, er Baglernis Höfdinger den störste part gaaet hannem til haande: thi begynder jeg ingenlunde denne handel med saa liden mact oc styrcke, oc der med skildis de ad, oc hand drog til Kjöbenhafn, oc vaar der om Vinteren.

Kong Hagen vaar om Vinteren udi Bergen, oc Dronning Margrete hans Stifmoder hos hannem. Hand lod holde hende et besynderlig Kjöcken oc Bord, oc det skede sjelden at hun gick til Bords med Kongen. Fröiken Christin Kongens Dotter, K. Hagens Syster, var altid hos hendis Moder: Dronningen motte icke vel lide Kongen, oc var hun ofteste uglad oc ilde tilfreds, men Kongen holt sig altid blid, venlig oc vel talendis imod hende. Fru Christin lagde altingest til det beste imellem dennem. Kongen lod herligen berede mod Jule Höytid, oc der det lidde mod Julen, kom der megit Folck til hannem, baade hans Lænshöfdinger oc andre hans svorne Mend. Dronningen hafde stor had oc vrede til Peter Steiper, oc alle de andre, som hafde værit med hannem öster til Oslo oc hente hendis Dotter fra hende. Men hun maatte saare vel lide Hagen Galin, oc hafde ald hendis tröst til hannem. Kongen sende bud til Dronningen oc Fröiken Christin paa Jule Aften, at de skulde komme til Bords met hannem, oc vaar da Kongens Sal fuld aff Folck, oc hver var skicket i sit sted, efter gammel sedvan. Dronningen svarede med stor vrede

son Magnúss konúngs. En hann svaraði þeim ok kvað Hákon hafa vild ok vináttu af öllu fólki í Noregi: er mèr ok sagt, kvað hann, at flestir af höfðíngjum Bagla hafi gengit til handa honum, treystumst ek því engan veg at hefja þetta stórræði með svâ litlum afla. Skildu þeir síðan, ok fór hann til Kaupmannahafnar, ok var þar um vetrinn.

Hákon konúngr sat um vetrinn í Björgyn, ok Margrèt drotníng stjúpmóðir hans hjá honum; hafði hún kost ok borðhald fyrir sjálfa sik, ok var það sjaldan, at hún gekk til borðs með konúngi. Frú Kristín konúngsdóttir, systir Hákonar konúngs, var jafnan með móður sinni. Drotníng hafði þúngan hug á konúngi, var hún jafnan óglöð ok í hörðu skapi, en konúngr gerði sik við hana blíðan ok lèttan í máli. Frú Kristín bætti jafnan með þeim. Móti jólum hafði konúngr mikinn viðrbúnað; ok er dró at jólum, komu margir menn til hans, bæði lendir menn ok aðrir hans handgengnir menn. Drotníng hafði reiði mikla ok hatr til Pètrs steypis, ok allra þeirra manna, er farit höfðu með honum austr til Oslóar, ok tekit dóttur hennar frá henni; en til Hákonar galins var hún vel, ok hafði hann at trúnaðarmanni. Jóla aptan sendi konúngr boð til drotníngar ok frú Kristínar, at þær kæmi til borðs með honum; var þá höllin alskipuð, ok hverr maðr í sæti kominn eptir fornri venju. Drotníngin svaraði með mikilli

oc sagde: Jeg maa lenge komme ihu at jeg sad i höy sædet om Juleaften hos min salige Herre oc Konge: Sig Hagen det, at jeg kommer icke i hans höy sæde at sidde. Der Kongen fick det at vide, gjorde det hannem ont, at hun icke vilde annamme med tacke den ære oc tjeniste som hand hende tilböd, oc hand sagde: Endog at Dr. Margrete er saa stolt, at hun icke vil ydmyge sig oc sidde hos os, saa skal dog min Syster Christina komme til os. Det bleff Dronningen sagd, oc at Kongen vaar vred. Hun svarede: Troer hand at jeg mindis det icke, at hand tog min Dotter fra mig i Oslo, uden hand nu minder mig der paa igjen. Dotteren tog paa hende oc sagde: Moder, gifver eder tilfreds, jeg vil blifve hos eder. Hun svarede: Det skal saa være, daatter: Icke skalt du komme i Uvenners hænder, meden jeg er saa nær, oc maa end Gud gifve, at vi blifve icke lenge under denne tvang, oc hun stod op oc gick med hendis Dotter i Kongens Sal oc sette sig i höy sædet, oc Kongen oc hans Gjester vaare megit glade.

Anden Dag i Jul lod Kongen sjunge Messe for sig, oc gick siden met nogne faa Mend i sit Kammers, oc lod sin Median sla, oc aad oc drack hand nogit lidet, oc töfvede siden til Höymesse var ude i Christkircke, förend hand gick til bords, oc hand holt sig stille, efter laden, oc vilde icke hafve ljus nær til sig, oc aad oc drack lidet, oc talede icke heller meget. Den tredie dag i Jul, lod han sjunge Messe for sig i sit Sengekammer, oc gick siden tilbords, oc befand han sig da me-

reiði, ok mælti: lengi minnir mik þess, at ek sat í hásæti þessu jólakveldit með mínum sæla herra ok konúngi: seg nú svâ Hákoni, at ekki mân ek koma at sitja í hans hásæti. En er konúngr vissi þetta, þótti honum þat illa, er hún vildi eigi með þökkum taka þann veg ok þjónkan, er hann bauð henni, ok mælti: en þó at Margrèt drotníng sè svâ stórlát, at hún vill eigi lækka sik ok sitja hjá oss, þá skal þó systir mín Kristín koma híngat. Þat var sagt drotníngu, ok at konúngr var reiðr. Hún mælti: ætlar hann, at ek minnist ei þat, er hann tók frá mèr dóttur mína í Osló, nema hann minni mik nú á þat af nýju? Dóttir hennar tók til hennar, ok mælti: látið kyrt vera, móðir; ek vil vera hjá yðr. Hún svaraði: svâ skal vera, dóttir; ekki skaltú koma í óvina hendr, meðan ek em svâ nærri; má þat ok enn guð gefa, at ekki verðu vèr lengi undir ánauð þessi. Stóð hún þá upp, ok gekk með dóttur sinni í höll konúngs, ok settist í hâsæti; var þá konúngr ok boðsmenn hans mjök glaðir.

Annan dag jólanna lèt konúngr syngja sèr messu, ok gekk síðan til herbergis síns við fá menn, ok lèt slá sèr æðablóð; át hann ok drakk mjök lítið, beið síðan til þess hámessu var úti at Kristskirkju, áðr hann gekk til borðs; var hann kyrrlátr, eptir blóðtökuna, ok vildi eigi hafa ljós hjá sèr; át hann lítið ok drakk, ok mælti fátt. Þriðja dag jóla lèt hann syngja sèr messu í sængrherbergi sínu, ok gekk síðan undir borð, ok kendi þá

git svag at være. Thi gick hand udi sit Kammer strax efter Maaltid, oc lagde sig ved Sengen. Om natten derefter bleff hans skröbelighed jo större oc större. Den 5 dag i Jul bleff ald hans Legem ophefvit, oc blefve der icke mange tilstede at gaa til hannem, oc hans onde forögede sig hver dag, indtil den 8 dag i Jul, da döde hand, oc vaar da ald hans Legem blaa, oc opblæst, saa at det vaar neppelig ligt efter et Menniskis Legeme, oc det bleff begrafvit udi Christkircke, paa nordre side, tvert ofver fra K. Sverris Graff, oc ald Landsfolcket sörgede for hannem, oc sagde sig hafve faaet den störste Mandeskade ved hans död.

K. Hagen vaar en deylig Mand, vel skicket paa sine Lemmer, oc hafde deylig lydde paa sit Ansict oc Haar: Hand vaar maadelig höy, dog megit höyere end hans Fader vaar: Hand hafde et klart oc rede maal, oc var vel talendis, oc hafde hand megit forandret sine seder, siden hand bleff Konge, oc alt til det beste; hand vaar stille, oc megit herlig oc hæderlig, naar hand sad i sit kongelige sæde.

## KONG GUTORM SIGURT SÖN.

Den 10 dag udi Jul holt Bispen raad med Kongens Hofsinder oc de beste Mend, hvem de skulde tage til Konge igjen, oc blefve da alle samdrecteligen saa beraadde, at de toge Gutorm, Sigurt Lavarts sön, K. Sverris Sönne sön, oc K. Hagens Broder sön, til Konge igjen, som da vaar 4 Aar gammel, oc skulde Hagen Galin regere Ri-

mikils kránkleika; gekk hann því til herbergis síns þegar eptir máltíð, ok lagðist í rekkju. Um nóttina eptir gerðist vanmáttr hans æ at meiri. Fimta dag jóla var allr hans líkamr þrútinn, ok var fám mönnum leyft til hans at koma; fór sjúknaðr hans hvern dag í vöxt, en hann andaðist at átta degi jólanna, ok var þá allr hans líkami blár ok þrútinn, svâ at varla var líkr annara manna; var hann jarðaðr í Kristskirkju norðanvert, þvers yfir frá gröf Sverris konúngs. Hann var harmdauði öllu landsfólki, ok kvoðust þeir í hans fráfalli fengit hafa inn mesta mannskaða.

Hákon konúngr var fríðr sýnum, limaðr vel, fagrliga litaðr á ásjónu ok hár; hann var meðalmaðr á hæð, en þó miklu hærri vexti, en faðir hans; hann var snjallr í máli ok vel talaðr. Hann hafði stórum tekit háttaskipti, síðan er hann varð konúngr, ok allt til ens betra. Hann var kyrrlátr ok manna göfugligastr, ok vegligr, er hann sat í hásæti sínu.

## SAGA GUTTORMS KONÚNGS SIGURDARSONAR.

Tíunda dag jóla átti biskup stefnu við hirð konúngs ok hina beztu menn, hvern þeir skyldu til konúngs taka; sýndist öllum eitt ráð, at taka Guttorm til konúngs Sigurðarson Lávarðar, sonarson Sverris konúngs, ok bróðurson Hákonar konúngs; hann var þá fjögra vetra at aldri: skyldi Hákon galinn hafa öll landráð ok hirð-

get oc det Kongelige Hof paa hans vegne, oc Peter Steiper oc Einer Kongens maag skulde opfostre oc tage vare paa Kongen: Dette bleff saaledis endrectelige samtyckt, oc stadfest med Vaabne tag, oc der de ginge til bords, ledde Höffdingerne Kongen ind, oc sette hannem i Konge sæde, oc gjorde hannem Kongelig tjeniste. Da tog Kongen et Sverd, oc band ved Hagen Galins side, oc hengde en Skjold paa hans Axel, oc gjorde hannem til en Grefve med alle Höfdingernis samtycke, oc sette hannem paa Bencken hos sig, oc i saa maade holt de Krigsfolcket tilsammen. Der efter sende Kongen oc Grefven Brefve Nord til Trondheim, at Inge Baard Gutorms Söns sön skulde hafve alt Trondelagen i forlæningen.

Der denne Tidende spurdis til Danmarck, da vaar Erling Stenveg i Kjöbenhafn, oc strax sögte alle Baglerne til hannem, som hafde værit hos hannem om Vinteren tilforn, oc fick hand snart en Flock forsamlet. Der komme til hannem aff Norrig: Thorleif Skalper, Arnbjörn Trold, Od Tand, Agmonds Sönner, oc de sende Bud til Norrig, at alle de som vilde styrcke deris Flock oc Forsamling, skulde komme til dennem udi Aalborg, oc Erling drog til Kongen i Danmarck, oc klagede sin vaande for hannem, oc begjerede hjelp, oc gaff fore at Kongen vaar hans Frende, oc burde derfore at gjöre hannem bistand. Kongen lofvede at gjöre hannem undsetning, oc hjelpe hannem til at bekomme sit Fæderne Rige. Erling begynte sin Reyse fra Kjöbenhafn udi Faste, oc drog til Aalborg med sin Flock: Der komme

stjórn af hendi konúngs, en Pètr steypir ok Einar konúngsmágr skyldu fóstra konúnginn ok gæta hans. Var þessu játtað með vild ok samþykki allra, ok átt at vâpnatak. Ok er þeir gengu til borða, leiddu höfðíngjar konúnginn inn, ok settu hann í konúngs hásæti, ok veittu honum alla þjónustu, er konúngi heyrði. Þá tók konúngr eitt sverð, ok festi við hlið Hákoni galni, ok hengði skjöld á öxl honum, ok gaf honum jarlsnafn með samþykki allra höfðíngja, ok setti hann í bekk hjá sèr; ok með þessum hætti hèldu þeir saman herinum. Síðan sendu þeir konúngr ok jarl brèf norðr til Þrándheims, ok var þat þar á, at Íngi, son Bárðar Guttormssonar, skyldi hafa yfirsögn um öll Þrændalög.

Þá er tíðindi þessi spurðust til Danmerkr, var Erlíngr steinveggr í Kaupmannahöfn, sóttu þá jamskjótt til hans allir Baglar, þeir er um vetrinn fyrir höfðu með honum verit, ok hafði hann þegar flokk uppi. Þessir komu af Noregi til liðs við hann: Þorleifr skálpr, Arnbjörn trölli oc Oddr tanni Ögmundarsynir, gjörðu þeir orðsendíng til Noregs, at allir þeir er efla vildu flokk þeirra, þá skyldu koma til þeirra í Álaborg. Erlíngr fór á fund Danakonúngs, ok kærði fyrir honum sín vandræði, beiddi at hann vildi fá honum styrk nokkurn, taldi hann til frændsemi milli þeirra, ók kvað skylt, at konúngr legði honum lið sitt. Konúngr kvaðst mundu efla hann svâ, at hann með hans tilstyrk fengi föðrleifð sína. Erlíngr hóf ferð sína frá Kaupmannahöfn á föstu, ok hèlt til Álaborgar með flokk sinn; þar komu

til hannem af Norrig: Reider Sendemand, Philippus af Vegene, Jon Dronning oc Salve Disarsön, oc hand fick Skuder oc Skib, oc drog ofver til Vigen i Norrig, oc siden til Oslo, oc alt Landsfolcket gick hannem tilhaande.

Bisp Niclaus vaar udi Oslo, oc Erling begjerede at hand vilde annamme hans bevisning aff hannem paa sit Fæderne, men Bispen vilde icke tilstede, at det skulde skee udi Oslo: Men der Höfdingerne oc de ypperste Mend lagde sig der udi, oc styrckede Erlings begjering, da bad Bispen hannem bære gloende Jærn, om hand vilde udi Sarpsborg. Erling drog til Borg oc festede Jærnburd: Men der hand skulde gaa under Jærn, sagde Bispen, at hand skulde drage til Tunsberg, oc der gjöre sin bevisning udi Dane Konges nærværelse, som snart var did forventendis, oc vilde uden tvifl vide hvad sandhed Erling foer med: Thi der som det skede med Kongens villie, oc det lyckedis hannem vel, maatte hand forvente sig hjelp oc bistand aff Kongen, men der som hand foer med lögn, hafde hand straff oc refsning at forvente. Erling lod sig det vel befalde, oc sagde sig det ville vofve, thi hand fortröstede sig paa Guds hjelp oc bistand i denne sin retfærdige Sag, oc hand drog til Tonsberg.

Det förste som Bispen Niclaus hafde spurt, at Erling forsamlede sit Folck udi Danmarck, da drog hand til Kongen i Danmarck, oc adspurde hannem om hand vilde gjöre samme Erling bistand. Kongen sagde ja, at hand det hafde lofvit hannem, for deris Frendskabs skyld.

til hans af Noregi Reiðar sendimaðr, Filippus af Vegini, Jón drotníng ok Sölvi Dísarson; fèkk hann sèr þar skútur ok skip, ok hèlt til Noregs í Víkina, ok þaðan til Oslo, ok gekk allt landsfólk undir hann.

Nikolás biskup var þá í Oslo; beiddi Erlíngr at hann tæki skírslu af honum til faðernis sèr. En biskup vildi eigi gefa orlof til, at skírsla færi fram í Oslo. En er höfðíngjar ok inir æztu menn lögðu til orð sín, ok studdu beiðni Erlíngs, bað biskup hann bera heitt járn, ef hann vildi, í Sarpsborg. Erlíngr fór til Borgar ok festi járnburð. En er hann skyldi járnit bera, bað biskup hann fara til Túnsbergs, ok gera þar skírslu í viðrvist Danakonúngs, er þángat var vân, ok vildi fyrir víst vita, með hverjum sannindum Erlíngr færi: því ef þat yrði með vilja konúngs, ok bæri hann þar auðnu til, mundi hann vænta mega liðs ok hjálpar af konúngi, en ef hann færi með lýgi eina, mundi hann á sínum lut kenna at nokkuru. Erlíngr lèt sèr þat vel líka, ok kvaðst mundu á hætta, lèzt hlíta mundu guðs hjálp ok lidsemi ok sönnum málaefnum, ok fór hann til Túnsbergs.

Jafnskjótt sem Nikulás biskup hafði spurt, at Erlíngr dró lið saman í Danmörku, fór hann á fund Danakonúngs, ok frètti eptir, ef hann myndi fá Erlíngi styrk nokkurn. Konúngr kvað þat satt vera, at hann hefði því heitit honum fyrir frændsemis sakir. Biskup mælti:

Bispen sagde: Underligt sjunes mig det, Herre, saa viis en Förste som i er, at i skulde lade reyse Folck udi eders land, oc gjöre dennem bistand til at stride paa et andet Kongerige, hves Höfding ingen veed hvad Slect oc byrd hand er kommen af, ok jeg tencker hand er en Torperis sön i Oplanden, oc er for sin lögn skyld fordrefven aff sit Fæderneland, oc hafver værit lenge hudset oc hadet aff alle gode Folck. Men der som i ville sende eders Hær til Norrig, oc stille oc frede Landet aff den store uskickelighed oc Guds Vrede oc Plage, som [Baglerne] der hafve lenge gjort oc opvect, da setter en aff eders egne Frender der ofver, som i vide at være eder tro oc lydig: Thi Gud hafver nu omstyrt alle [Baglernis] Höffdinger, som nogen Forstand hafde til at være Höffdinger ofver dem: Effterdi de brugede deris Forstand mere til ont end got, oc de hafve nu tagit et barnactigt oc vanvittigt Menniske til Konge ofver sig, oc sjelfve vide de ingen gode raad. Kongen svarede: Mine Frender ere saa vel forsörget her udi Danmarck, at de icke ville drage til Norrig med dette Folck. Bispen sagde: Jeg veed en Mand som er vel skicket til at tage ved denne Bestilling. Det er eders Frende Her Philippus Kong Ingis Syster-Sön i Norrig, Thi hand hafver alle de stycker, som en Konge eller Höffding sömmer at hafve. Bispen talede det tit oc offte viiseligen oc vel for Kongen, oc det kom saa langt paa det sidste, at Kongen samtycte hannem det, oc lofvede at

undarligt virðist mèr, herra, svâ vitr höfðíngi sem þèr erut, at þèr skuluð láta flokk reisa í landi yðru, ok veita þeim mönnum lið til at herja á ríki annara konúnga, er eigi veit, af hverjum ættum höfðíngi þeirra er kominn, ok hygg ek hann vera munu son þorpara nokkurs á Upplöndum, ok fyrir sakir lýgi sinnar útlægjan gjörvan af sínu föðurlandi, ok um lánga tíma flæmdan ok hataðan af öllum góðum mönnum. Nú ef þèr vilið senda her yðvarn til Noregs, at friða ok frjálsa land þat af þeim mikla ósóma ok guðs reiði, er Birkibeinar hafa þar gjört ok uppvakit um lánga tíma, þá er þat miklu ráðligra, at þèr setið yfir lið þat nokkurn frænda yðvarn, er yðr er kunnr at lýðni ok trúleik; því guð hefir nú steypt öllum höfðíngjum Birkibeina, þeim er báru nokkurt vit til at hafa ráð fyrir þeim, því þeir brúkuðu meir vizku sína til illra hluta, en góðra; hafa þeir nú þann mann at konúngi, sem bæði er barn at aldri ok örviti, ok kunnu sjálfir eingi góð ráð. Konúngr svarar: frændr mínir hafa svâ góða kosti hèr í Danmörku, at eigi fýsast þeir at fara til Noregs með flokki þessum. Biskup mælti: veit ek þann mann einn, er vel er tilfallinn at taka við þessu starfi: þat er herra Filippus, frændi yðvarr, systurson Ínga konúngs í Noregi, því hann hefir alla þá luti með sèr, er prýða kunnu konúng eðr höfðíngja. Biskup ræddi opt ok vitrliga um þetta fyrir konúngi, ok kom þar at síðustu, at konúngr játaði honum því, ok hèt at koma sjálfr til

skulle komme sjelff udi Norrig om Sommeren derefter, oc dermed drog Bispen hjem igjen.

Om Sommeren derefter drog K. Valdemar ofver til Norrig med 300 skib, oc kom til Tonsberg om Botolphi tid, oc var med hannem Philippus Simonssön [oc Eltho] Kaarissön [Norske Mend]. Philippi Moder var Margreta Arnes daatter paa Stads Rein, oc Sigurds Dronnings Rangvalt Ingi söns dotter: Margreta var Kong Ingi Haralds söns Syster paa Moderens side, oc Orm Kongens Broders sön var Ifver Sneisis Sön. K. Valdemar hafde lofvit Bisp Niclaus, at Philippus skulde blifve Höfvitzmand ofver Baglernis Folck, om de det sjelf vilde samtycke. Oc der det bleff Baglerne foreholdet, da raabte alle Höfdingerne i Folken der imod, oc sagde, at de vilde hafve Kong Magnus sön til Konge, som var byrdig der til, oc ingenlunde vilde de tjene eller til Konning hafve den Mand, som icke var höybyrdigere end en aff dennem, de vilde heller skilie deris Folck ad, oc hver see for sig. Bönderne svarede oc: At der som nogen Kongens sön var for haanden, den vilde de gifve Konge nafn, oc være hannem bestandige oc lydige: Men der som den icke vaare, da vilde de ingen opreisning gjöre inden Lands. Der Bisp Niclaus fornam at denne Flok kunde ingen fremgang faa, uden Erling bleff tagen til Konge, da sagde han til hannem: Mig sjunis at Bönderne ere

Noregs sumarit eptir. Fór biskup við þetta heim aptr.

Á hinu næsta sumri fór Valdemar konúngr til Noregs, ok hafði þrjú hundruð skipa, hann kom til Túnsbergs um Bótólfsvöku skeið. Þar var þá með honum Filippus Símonarson [or Eldo, Kárasonar[1]; móðir Filippi var Margrèt, dóttir Árna af Stoðreimi ok Íngiríðar drotníngar, dóttur Rögnvalds Íngasonar: Margrèt var systir Ínga konúngs Haraldsonar at móðerni, ok Orms konúngsbróður Ívarssonar sneiss. Valdemar konúngr hafði því heitið Nikolási biskupi, at Filippus skyldi höfðíngi verða yfir flokki Bagla, ef þeir vildi því sjálfir játa; ok er þat var upp borit fyrir þeim, þá æptu allir höfðíngjar flokksins þar í móti, ok kvoðust vilja hafa at konúngi son Magnúss konúngs, er þar væri til borinn, en at engum kosti vildu þeir þjóna þeim manni, eðr hafa þann fyri konúng, er eigi væri stórættaðri en einn hverr þeirra; kvoðust þeir ella mundu rjúfa flokkinn, ok leita hverr fyrir sèr, sem verða mætti. Bændr svöruðu ok því, at ef nokkurr konúngsson væri til, vildu þeir taka þann til konúngs, ok veita honum fylgð ok þjónustu; en ef sá væri eigi til, mundu þeir einga uppreisn hefja innanlands. En er Nikolás biskup skildi, at eingi mundi verða uppreist flokks þessa, nema Erlíngr væri til konúngs tekinn, þá mælti hann til hans: svâ lízt mèr, sem bændr sè

[1]) *þessi* Kári *kallast í Sverr. S.* (*Khf. eldri útg.*) bls. 179 (*Fornm. S. VIII*, 245) Ölrukári, (*aðrir* Ölun-Kári), *svo vera mætti, að hèr egi að standa:* Simonarson Ölru-Kárasonar.

megit uvillige til at gjöre nogen opreist, saa at du liden hjelp tör vente dig aff dennem, uden jeg staar dig bi, oc forfremmer dig her udi, thi jeg veed det for sanding, at der som det icke vil lyckis dig, at bære Jærn, da lader Dane Konning dig dræbe, oc enddog jeg vel kand tencke hvem din Fader monne været, saa kand jeg dog vende det hvorledis jeg vil, der som du vilt foröge min Frendis Philippi ære oc værdighed, oc gjöre hannem til din Jarl, da vil jeg sla mig til dig, ok hjelpe dig at reise denne Flok, oc staa dig bi aff ald min mact, med alle mine Frender oc Venner, oc hves jeg formaar. Dette bleff saaledis samtyckt, oc endelige besluttet dennem imellem, at Philippus skulde blifve Grefve, om Erling vilde blifve Konge.

Erling Steenveg drog til Tonsberg, oc festede Jærnburd andet sinde, oc Bisp Nicolaus viede Jærnet: Men Kong Valdemar, som der vaar kommen, stafvede hannem Eeden fore oc raadde for Jærnburden (det er, hvor mange gloende Jærn hand skulde bære). Der tiden kom at Erling skulde gjöre sig fri, skickede Kong Valdemar bevebnede Krigsfolck uden om Kircken, hvor aff mand kunde nock forstaa, hvad Erling var tillafvit, om hannem hafde feilet nogit. Bisp Niclaus ledde Erling i Chors dörren der hand blottede eller bargjorde sin Haand, oc hand holt Erlings Haand op, oc lagde sine Fingre der i, oc sagde med höyer röst: Hand hafver vel gjort sig fri, jeg saa aldrig en Haand komme uskad fra Jærnit som denne. Kongen stod strax uden for

mjök tregir til at hefja uppreisn nokkra, ok sè þèr af þeim lítillar hjálpar vân, nema þú njótir við minnar liðsemdar ok fullt íngs; því þat veit ek með sönnu, at ef þik skortir hamíngju til járnburðarins, þá mun Danakonúngr láta drepa þik. Ok þó ek mégi gera í hug mèr, hverr faðir þinn muni verit hafa, þá fæ ek því þó umstillt á hverja leið er mèr líkar, með því þú vilir auka sæmd ok nafnbætr Filippi frænda míns, ok gjöra hann jarl þinn: mun ek þá snúast at með þèr, ok styrkja til at reisa flokk þenna, ok fylgja þèr með öllum afla mínum, ok allra frænda minna ok vina, ok hvívetna því er í mínu valdi er. Var þetta þannig samit ok til staðar ráðit þeirra í meðal, at Filippus skyldi jarl verða, ef Erlíngr yrði konúngr.

Erlíngr steinveggr fór til Túnsbergs, ok festi járnburð annað sinn; vígði Nikulás biskup járnit, en Valdemarr konúngr, er þar var þá kominn, stafaði honum eiðinn ok rèð fyrir járnburðinum. Þá er sá tími kom, at Erlíngr skyldi vinna skírslu, setti Valdemarr konúngr vâpnaða menn hið ytra umkríng kirkjuna; mátti þar af sjá, hvat Erlíngi var búit, ef hann hefði nokkut á brostið. Nikulás biskup leiddi Erlíng í kórsdyrnar, þá er hann leysti til handarinnar, hèlt hann upp hendi Erlíngs, ok lagði þar í fíngr sína, ok kallaði hátt: hann hefir gjört sik vel skíran, aldri sá ek nokkra hönd koma svâ úskadda frá járni, sem þessa. Konúngr stóð beint fyrir framan

Chors dörren, ok alt hans Folck der neden for i Kircken, ok de begynte alle at tacke Gud, oc sjunge *Te Deum laudamus.* Erling var den Dag Kongens Gjest, oc Kongen skjenckte hannem 35 Orlogskib, med ald deris rustning oc tilbehöring. Anden dagen der efter bleff Erling tagen til Konge paa Höugating, oc der gaff hand Philippus Grefve nafn, oc nogen stund der efter drog Kong Valdemar til Danmarck igjen med sin gandske Hær, oc drog hand fredelig af Norrig, oc gjorde ingen mand skade. Da sögte megit Folck til Erling, oc svore hannem, oc komme disse Höfdinger til hannem, Arnbjörn Jonssön, Helje Byrje sön, Asbjörn Koppere, Gjurt Bentes sön, Gutorm Tvarre, Orm Lafve, Tord Dotte, Bendict aff Gummönæs, Simon Kyr, Kolben Röde, Gjurt Skjelge, ok hafde de megit Folck med sig og sköne Skib. Om S. Hans tid droge de ud til Sarpsborg oc hulde der Ting, oc bleff Erling der til Konge tagen, oc Philippus til Grefve: Siden droge de ofver til Tonsberg igjen, oc Bisp Niclaus med dennem. Der Birkebenerne dette spurde, römde de nord i Landet, en part til Bergen, oc en part til Tonsberg.

Dronning Margretæ var udi Bergen efter Kong Hagens Död, oc alle mand hafde stor mistancke til hende oc hendis Mend for Kongens död, oc det kom paa det sidste til höy maals tale, at hun oc hendis Tjenere blefve obenbare beskyldet, at de hafde forgifvet Kongen, men hun sagde ney der til, oc at hun oc hendis Tjenere vaare der uskyldige udi. Hagen Galin orsagede

kórsdyrnar, ok allt lið hans utar frá í kirkjunni; hófu þeir þá allir at lofa guð, ok súngu *Te deum laudamus.* þann dag var Erlíngr í boði konúngs, ok gaf konúngr honum hálfan fjórða tug herskipa með öllum búnaði. Annan dag eptir var Erlíngr til konúngs tekinn á Haugaþíngi, þar gaf hann Filippus jarlsnafn, ok nokkuru síðar fór Valdemarr konúngr aptr til Danmerkr með öllum her sínum; fór hann friðliga af Noregi ok gjörði eingum manni mein. Sótti þá mikit lið til Erlíngs ok gekk til handa honum. þessir komu höfðíngjar til hans: Arnbjörn Jónsson, Helgi Birgisson, Ásbjörn koppr, Girðr Beinteinsson, Guttormr þvarri, Ormr lági, þórðr dotta, Benedikt af Gunanesi, Símon kýr, Kolbeinn rauði, Girðr skjálgi, þeir höfðu fjölda liðs ok fríð skip. Um Jónsvöku skeið fóru þeir út til Sarpsborgar, ok áttu þar þíng, var Erlíngr þar til konúngs tekinn, ok gefit Filippus jarls nafn. þaðan fóru þeir aptr til Túnsbergs, ok með þeim Nikolás biskup. þegar Birkibeinar frágu þetta, stukku þeir norðr í land, sumir til Björgynjar, sumir til þrándheims.

Eptir andlát Hákonar konúngs var Margrèt drotníng í Björgyn, ok höfðu allir menn mikinn grun á henni ok mönnum hennar um dauða konúngs, ok kom svâ um síðir, at borit var í hámæli, ok voru henni ok mönnum hennar berliga kend völd um, at þeir hefði gert konúngi banadrykk. Drotníng duldi þess, ok kvað sik ok sína menn þess úvalda. Hákon galinn mælti

hende, oc stod hende megit bi i denne sag. Men Höfdingerne oc Kongens beste Venner sögte oc paatalede denne sag saa hart, at Dronningen maatte faa en Mand til at bære Jærn for hende oc alle hendis Mend, til undskylding oc veder-försel i denne sag: den Mand hed Peter som Jærnit bar, oc bleff hand megit ilde brent, thi bleff hand strax henled oc drenckt, oc Kongens Tjenere oc Krigsfolck begynte at knurre, oc sagde, at Dronningen var lige saadan straf værdig: thi bleff hun forskrekket, oc sögte hjelp hos hendis Venner. Hagen Galin stod hende troligen bi, oc forskaffede hende Folck oc fordenskab ind i Sogn, oc der fra op til Valders til Erling paa Quidme. Hand forfremmede hende siden indtil hun kom Öster til Værmeland, oc siden til Sverrig. Men Fru Christin bleff igjen hos Hagen Galin, oc hafde synderlig venskab med hannem.

Om Sommeren spurde Birkebenerne at Baglerne hafde samlet en stor Flock oc forsamling udi Vigen, oc hvorledis ald den handel var tilgaaen: da droge de nord til Trondheim, oc Hagen Galin hafde Fru Christin med sig, oc lod hand megit Krigsfolck igjen i Bergen, med disse Höfdinger, Dagfind Bonde, Torgrim af Lianæs oc Tore Bruse: Der Grefve Hagen Galin kom nord til Trondheim, lode Kongen oc hand stefne Almuen til Öire ting, oc forsamlede Krigsfolck.

Strax derefter fick Kongen saadan kranckhed, at hannem tycktis skarpe nagle stinge igjennem alt hans Legem, oc der hand bleff atspurt, naar hand först fandt det onde, sagde hand, at

hana undan, ok var henni mikill stoðamaðr í því máli; en höfðíngjar ok hinir beztu vinir konúngs fylgðu svá fast þessu máli, at drotníng varð mann at fá, þann er bæri járn fyrir hana ok alla menn hennar til afburðar ok undanfærslu um þetta mál: hèt sá maðr Pètr, er járnit bar, ok brann hann mjök til skemda, var hann þegar burt leiddr ok drekktr. Konúngs menn ok Birkibeinar kurruðu illa, ok sögðu drotníngu makliga at taka sömu hegníng. Gjörðist hún þá óttafull, ok leitaði trausts hjá vinum sínum. Hákon galinn dugði henni af trúnaði, ok fèkk henni föruneyti ok fararbeina inn í Sogu, ok þaðan upp á Valdres til Erlíngs á Kyiðmu, greiddi hann síðan ferð hennar, þar til er hún kom austr á Vermaland, ok síðan til Svíþjóðar. En frú Kristín varð eptir með Hákoni galni, ok var einka vinátta milli þeirra.

Birkibeinar spurðu um sumarit, at Baglar höfðu flokk mikinn ok liðsafnað í Víkinni, ok hversu allt mál þeirra hafði til leiðar snúizt. Hèldu þeir þá norðr til Þrándheims, ok hafði Hákon galinn frú Kristínu með sèr. Hann lèt eptir lið mikit í Björgyn, ok þessa höfðíngja, Dagfinn bónda, Þorgrím af Ljánesi ok Þóri brúsa. Þá er Hákon jarl galinn kom norðr til Þrándheims, lètu þeir konúngr stefna alþýðu til Eyraþíngs, ok buðu út leiðángri.

Brátt þar eptir tók konúngr þann sjúkleika, at honum þótti sem hvassir broddar stæði í gögnum sik allan; ok er hann var at spurðr, nær hann kendi fyrst þess meins, sagði hann svá, at

den Svenske Kone, det var Fru Christin, sette hannem paa sin knæ, oc trafvede hannem omkring hans Legem, oc strax fick hand den kranckhed, oc nogen dage derefter döde Kongen aff samme sjuge, oc bleff begrafven udi Christkircke, oc Hagen Jarl raadde ofver Krigsfolcket, oc hafde en stor Hær.

K. Sigurd Haraldsön hafde en dotter ved nafn Cecilia. Hun bleff hæderligen opfostret udi Trondelafven, saa som et Kongebarn sömmede, oc den tid K. Sverre begynte at stride paa Norrig, som för er sagt, da fant hand hende udi Værmeland, oc kjende hende for Syster, oc talede ofte med hende, oc var hun der gift, thi den tid at Erling Skacke var efter at ödelegge ald K. Harald Gillis slect oc Afkom, da blef Cecilia gift til Værmeland med Folkvider Lagmand: deris sön var Hagen Galin Grefve udi Norrig: der Cecilia spurde, at Sverre hendis broder var blefven Konge udi Norrig, drog hun fra hendis mand, thi hun unte hannem icke vel, oc hand fick hende Gjelmin at bo paa, der som hun var opfostret.

Baard Gutormssön paa Reine var Asulff Skule söns sön, oc Skule var Toste Jarlssön, som för er sagt udi Harald Haardraadis Historia. Asulfs moder var Guron Nefstensdotter, hendis Moder var Ingerid K. Sigurd Sirs dotter; Gutorms moder var Thora Skofte Ogmundsöns dotter. Ogmund var Thorberg Arnesöns sön, ok Ragnhilds Erling Skjalgsöns dotters: Toras Moder var Sigrid Tord Follesöns dotter, som var S. Olufs Fennickedrager; Sigrids Moder var Alof

sú hin svenska kona, þat var frú Kristín, setti hann í knè sèr, ok fór höndum um hann allan, ok fèkk hann þá þegar þetta vanheilindi; ok nokkrum dögum síðar andaðist konúngr af sömu sótt, ok var hann jarðaðr í Kristskirkju. Rèð þá Hákon jarl fyrir liðinu, ok hafði her mikinn.

Sigurðr konúngr Haraldsson átti þá dóttur, er hèt Cecilía; hún var sæmiliga uppfóstruð í þrændalögum, svâ sem konúngsbarni hæfði; ok þann tíma, er Sverrir konúngr hóf að berjast til Noregs, sem áðr er sagt, fann hann hana í Vermalandi, ok kendi, at þat var systir hans, talaði hann optliga við hana, ok var hún þar gipt. því á þeim tíma, er Erlíngr skakki sótti eptir at eyða allri ætt ok afkvæmi Haralds konúngs gilla, þá var Cecilía gipt í Vermaland Fólkviði lögmanni, ok var þeirra son Hákon galinn, jarl í Noregi. En er Cecilía spurði, at Sverrir bróðir hennar var konúngr vorðinn at Noregi, fór hún frá manni sínum, því hún unni honum lítt; fèkk konúngr henni Gelmin at búa á, hafði hún áðr verit þar á fóstri.

Bárðr Guttormsson á Reini var sonr Ásúlfs Skúlasonar; Skúli var son Tosta jarls, sem áðr er sagt í sögu Haralds ins harðráða. Móðir Ásúlfs var Guðrún Nefsteinsdóttir, hennar móðir var Íngiríðr, dóttir Sigurðar konúngs sýrs. Móðir Guttorms var þóra, dóttir Skopta Ögmundarsonar þorbergssonar Arnasonar, ok Ragnhildar, dóttur Erlíngs Skjálgssonar. Móðir þóru var Sigríðr, dóttir þórðar Folasonar, er var merkismaðr hins helga Ólafs konúngs. Móðir Sigríðar var Álöf,

Einer Tambeskjelfvers dotter oc Bergljot Hagen Jarls dotter.

Baard Gutormssön var en Lænshöfding, som hans Forældre hafde værit for hannem, hand var megit riig oc en deylig Mand, sactmodig oc stille, oc holt sig vel. Hand bode paa Reine, den tid K. Sverre kom til Riget. Hand kom snart udi stor venskab med Kongen, thi begjerede hand paa det sidste, at Kongen skulde gifve hannem sin syster til hustru. Kongen samtyckte det, men Erckebisp Oisten vilde det icke tilstede, saa lenge som hendis Mand Folckvider lefvede, thi drog Cecilia til Erkebispen, ok talede met hannem udi K. Sverris oc mange Höfdingers nærverelse, oc spurde hannem ad, om hand hafde forbudet hende at gifte sig med hendis Frenders raad. Hand sagde ja, oc bad hende drage til Værmeland til hendis Ectemand. Hun svarede: Jeg maa bekjende at jeg hafver ingen Ectemand. Thi den tid at Erling Skacke, oc K. Magnus hans Sön, hafde ihjelslagit alle mine Frender som de kunde ofverkomme, oc bare nogen Fare fore, da toge de mig oc forsende mig uden Lands oc gafve mig Folkuit Lagmand til Bolskab, mod min villie ok samtycke: Dog viste jeg mig ingen raad til at komme der fra, för end min Broder kom her til Riget, oc meente jeg mig nu hos hannem at være fri for saadan sag. Oc strax beviste hun denne hendis beretning med sandferdige Vidnesbyrd; thi gaff Bispen hende loff til at gifte sig, oc Kongen lod hendis Bryllup hæderlig gjöre med Baard Gutorms

dóttir Einars þambarskelfis ok Bergljótar, dóttur Hákonar jarls.'

Bárðr Guttormsson var lendr maðr, svâ sem verit höfðu forellrar hans fyrir honum. Hann var auðmaðr mikill ok fríðr maðr sýnum, hægr ok kyrrlátr, ok hèlt sik vel; hann bjó á Reini í þann tíma er Sverrir konúngr gekk til lands. Hann kom sèr skjótt í mikla vináttu við konúng, ok at lyktum beiddi hann, at konúngr gæfi honum systur sína til eiginkonu. Konúngr játaði því, en Eysteinn erkibiskup vildi eigi gefa þar lof til, meðan Fólkviðr lifði, maðr hennar. Fór þá Cecilía til erkibiskups, ok talaði við hann í viðrvist Sverris konúngs ok margra höfðíngja; spurði hún, ef hann hefði bannat henni at giptast með ráði frænda sinna? Hann kvað þat satt vera, ok bað hana at fara í Vermaland til manns síns. Hún svaraði: játa má ek, at ek á öngvan bónda; því þá er Erlíngr skakki ok Magnús konúngr son hans höfðu drepit alla frændr mína, er þeir fengu náð ok báru nokkurn ótta fyrir, tóku þeir mik, ok sendu af landi brott, ok gáfu mik til friðlu Fólkviði lögmanni fyrir utan minn vilja ok samþykki. Vissi ek þá eingi efni þaðan at komast, áðr bróðir minn kom hèr til ríkis; hugðumst ek nú mundu hjá honum frjáls vera um þetta mál. þessa sína sögu sannaði hún jafnskjótt með sannligum vitnum; gaf biskup þá orlof til, at hún giptist, ok lèt konúngr gera virðuliga brúðlaup hennar ok Bárðar Guttorms-

sön, oc de aflede en Sön sammen, som Ingi bleff kaldet, oc siden bleff Konge i Norrig. Oc nogit derefter bleff Cecilia Kongens dotter död, oc begrafven udi Christkircke norden ved Chorit, oc hendis Graff kostelig prydet. Baard Gutorms sön fick siden til Hustru Ragnfrid Erlings dotter paa Qvidne, Lænshöfdings i Valders: deris Börn vaare, Sigurd, Asulff, Gutorm oc Skuli, oc en dotter ved nafn Ingeborg, som fick Alff aff Trondberg. Hand aflede med hende Erling hin unge. Baard döde udi Bergen, om Sommeren efter at K. Sverre hafde slagit sig med Öjeskjæggerne i Florevog, oc bleff begrafven i Christkircke paa den nordre side i Choret oc hans Graff herligen prydet: Derefter drog hans Sön Ingi til K. Sverris Hoff oc föddis der op.

## KONG INGI BAARTS SÖN.

Efter K. Gutorms död ginge Höffdingerne i raad, hvem de vilde tage til Konge igjen. Oc den förste part gafve deris stemme oc samtycke paa Hagen Jarl Galin, men Erckebisp Erick lagde sig der imod, oc sagde, at dennem var nogen tvist oc uenighed imellem: Desligeste stötte hand sig fast paa det venskab som Hagen Jarl hafde lagt med Fru Christin Svenska: Samme tid komme Bönderne aff alle Læn i Trondelagen, som vaare stefnede til Öreting, at kaare og udvelje sig en Konge, oc blefve da til nefnde de Brödre Hagen Galin oc Inge Baardssön, oc Sigurt K. Sverris Syster Sönner, oc Roar Kongens Frende,

sonar. Þeirra son var Íngi, er síðar varð konúngr í Noregi. Nokkuru síðar andaðist Cecilía konúngsdóttir, ok var jörðut at Kristskirkju, norðanverdt við kórinn, ok búit vegliga um leg hennar. Bárðr Guttormsson fèkk síðan Ragnfríðar, dóttur Erlíngs á Kviðnu, hann var lendr maðr á Valdresi. Þeirra börn voru: Sigurðr, Ásúlfr, Guttormr ok Skúli, ok ein dóttir er hèt Íngibjörg, hennar fèkk Álfr af Þrándarbergi, ok átti hann við henni Erlíng hinn únga. Bárðr andaðist í Björgyn þat sumar eptir er Sverrir konúngr hafði barizt við Eyjaskeggja í Flóruvogum, ok var jarðaðr í Kristskirkju nyrðramegin í kórnum, ok sæmiliga búit um leg hans; fór þá Íngi sonr hans til hirðar Sverris konúngs, ok var hann þar uppfæddr.

## SAGA ÍNGA KONÚNGS BÁRDARSONAR.

Þá er Guttormr konúngr var andaðr, áttuhöfðíngjar ráðagjörðir um þat, hvern þeir skyldu í hans stað til konúngs taka. Voru þeir fyrstir, er þar nefndu til Hákon jarl galinn. En Eiríkr erkibiskup mælti þar í móti, ok sagði, at missætti nokkur var með þeim; hann fann þat ok til, at vinátta var milli Hákonar jarls ok frú Kristínar hinnar sænsku. Í þat mund komu bændr af öllum fylkjum í Þrændalögum, þeir er stefndir voru til Eyraþíngs at kjósa konúng; voru þeir þá tilnefndir bræðr, Hákon galinn, Íngi ok Sigurðr

oc Peter Steiper Kongens Syster sön. Hans Hustru var Ingeborg Kong Magnus Erlings söns dotter: Om disse Herrer var laugt beraad, oc atskillige samtycke iblant Höffdingerne: men paa det sidste bleff Öretinget set, oc S. Olaffs Skrin der opbaarit. Oc Erckebisp Erick oc Clerkeriet fulde med ud paa Tingit, oc der de hafde samtale om Kongens udkaarelse, bleff det skudt til Lougen, at Bönderne burde at udkaare sig en Konge, oc det samtyckte de alle. Bönderne ginge i raad, hvem de vilde tage til Konge aff disse tre Kong Sigurts Dotterssönner, Hagen Jarl, Ingi Baardssön oc Sigurt Baardssön, oc falt alle deris sind til Sigurd, thi hand var stille, retviis, ydmyg oc vensalig. Men en part lagde sig der imod, oc sagde, at hand var icke Mand til nogit Regimente at före, oc der var en stor Krigshær, oc Fiender komme i Landet, oc Hagen Jarl var best skickelig til at være ofver Krigsfolcket. Oc det kom saa langt, at Lænshöfdingerne vilde icke andet, end at hafve Hagen til Konge. Bönderne sagde, Da er det allis voris vilie, at vi icke ville hafve den til Konge som er aff Gotiske Slect paa sin Faders side. Men vi ville heller hafve den som er lige nær kommen aff Kongeslecten ved hannem, oc er paa Fæderne aff den beste Slect i ald Trondelagen er, oc det er Ingi Baardsön. Oc Ingi bleff med Erckebispens raad, oc alle Höfdingers oc menige Bönders vilie oc samtycke tagen til Konge, oc de svore hannem alle huldskab, oc troskab oc lydighed, oc hand svor at hand skulde holde

Bárðarsynir, er voru systursynir Sverris konúngs, Róar konúngsfrændi, ok Pètr steypir, systursonr konúngs, er átti Íngibjörgu, dóttur Magnúss konúngs Erlíngssonar. Töluðu menn lengi um þessa höfðíngja, ok kom ríkismönnum lítt ásamt. En at lyktum var sett Eyraþíng, ok borit þángat skrín hins helga Ólafs konúngs, fylgði Eiríkr erkibiskup ok kórsbræðr því á þíngit. Ok er þeir áttu at tala um konúngs kosníng, var því skotið til laga, at bændr skyldu sèr konúng taka, ok urðu allir á þat sáttir. Bændr ráðguðust um, hvern þeir skyldu til konúngs taka af þessum þrimr dóttursonum Sigurðar konúngs, Hákon galinn, Ínga eðr Sigurð, Bárðarsonu, ok var Sigurðr öllum bezt þokkaðr, var hann hóglátr, rèttlátr, lítillátr ok vinsæll. Aðrir voru þeir, er mæltu þar í móti, ok kváðu hann ófallinn til landstjórnar, sögðu at herr mikill ok múgr fjandmanna var kominn í landit, ok Hákon jarl var bezt tilfallinn at vera fyrir liðinu. Kom því máli svâ, at lendir menn vildu ekki annat, en hafa Hákon at konúngi. Þá mæltu bændr: Þat er vârr vili allra, at hafa eigi þann fyrir konúng, er kominn er af gauzkri ætt at faðerni; vilju vèr heldr þann hafa er at konúngs ætt er honum jafnborinn, ok kynjaðr at faðerni af enum beztum ættum í Þrændalögum, en þat er Íngi Bárðarson. Var þá Íngi með ráði erkibiskups ok vilja ok samþykki allra höfðíngja ok alþýðu til konúngs tekinn, ok svarit honum land ok þegnar. Hann sór ok at halda þeim öllum við

G 2

dennem alle ved Lands Lougen. Der efter ginge alle de gamle Hofsinder oc svorne Mend hannem til haande, som hafde tjent de framfarne Konger. Da bleff der en ny knur for Hagen Jarls skyld, af hans venner oc Anhengere, som sagde at hand var bedre skicket til at være ofver Krigsfolcket, end Ingi Baardssön, oc det samme samtyckte oc Krigsfolcket, oc bleff det saa paa det sidste aff beggis deris Venner saa tilfredsstillet oc afftalit, at Ingi skulde være Konge, oc Hagen skulde være Jarl, oc Öfverste ofver Krigsfolcket, oc tage halff Kongens rettighed med Ingi. Oc Kong Ingi gjorde hannem til sin Jarl, oc hand svor Kongen huldskab oc Mandskab. Siden dömde oc samtycte Bönderne Kongen halff leding oc Udbotsfolck aff Riget. Oc Kongen oc Grefven gjorde sig skyndelig ferdige med megit Folck, oc mange store Skib.

Efter S. Olaffs dag om Sommeren droge Baglerne aff Tonsberg med deris gandske Hær, oc hafde 35 Skib, oc sejlede nord langs Lande, oc optoge Leding oc alt Kongens Rettighed, oc de droge langsommelig frem, oc der de komme til Bergen, vaare Birkebenerne paa Slottet, som för er sagt. Da ginge Baglerne i Byen, oc de sögte nogne gange til Slottet, oc vilde vinde det. Da sagde Erling Steinveg til Baglerne: Skjuder icke paa dem, thi de ere mine Mend. Baglerne laae paa Skibene om Natten, oc en part laae for Anckerne, en part ved Munkebryggen, oc ginge op i Byen. De droge ofte for Slottet, oc skjöde paa hver andre, oc blefve somme saare, men faa blefve

landslög. Eptir þat gengu allir fornir hirðmenn ok handgengnir menn til handa honum, þeir er þjónat höfðu hinum fyrrum konúngum. Þá tóku vinir Hákonar jarls, oc þeir er honum fylgðu, at kurra af nýju hans vegna, ok sögðu, at hann var betr feldr til herstjórnar en Íngi Bárðarson; því samþyktu ok sjálfir liðsmenn. Urðu þá at lyktum beggja þeirra vinir á þat sáttir, at Íngi skyldi konúngr vera, en Hákon jarl, ok skyldi hann hafa forustu fyrir liðinu, ok hafa hálfar konúngs tekjur við Ínga; gjörði Íngi konúngr hann þá jarl sinn, ok sór hann konúngi trúnaðar eið ok hollostu. Eptir þat dæmdu oc játtuðu bændr konúngi hálfan leiðángr ok útboð af ríkinu; bjöggust þeir síðan af skyndíngu konúngr ok jarl, með miklu liði ok mörgum stórskipum.

Um sumarit eptir Ólafs messu fóru Baglar úr Túnsbergi með allan her sinn, þeir höfðu hálfan fjórða tug skipa, hèldu þeir norðr með landi, ok tóku leiðángr ok allar konúngs tekjur, fóru þeir tómliga; ok er þeir komu til Björgynjar, voru Birkibeinar fyrir í kastalanum, sem áðr er sagt, gengu Baglar upp í bæinn: þeir sóttu nokkrum sinnum at kastalanum, ok vildu vinna hann. Þá mælti Erlíngr steinveggr til Bagla: skjótið ei at þeim, því þeir eru mínir menn. Baglar voru á skipum um nætr, lágu sumir fyrir akkerum, en nokkrir við Múnkabryggju, ok gengu svâ upp í bæinn. Þeir fóru tíðum til kastalans, ok skutu hvârir á aðra, urðu nokkrir sárir, en

döde. En dag lagde Erling ud til Holmen med nogen Jacter, oc lagde til ved Biscopsbryggen, oc gick saa med sit Folck til Christkircke. Der Birkebenerne det saae, ginge de mod dennem, oc de skjöde paa hver andre. Oc der Birkebenerne saae at Baglerne vaare ikke stercke, da sögte de allevegne til, oc Baglerne vigede tilbage, oc Erling sprang i Vandet, oc gaff sig under, oc kom saa tilskibs med sit Folck, oc mange vaare slagne. Da atspurde Baglerne Erling, om det end vaare hans Mend som paa Slottet vaare. Oc strax der efter droge Baglerne aff Bergen, oc nord i Landet, oc sette Befalningsmend udi alle Læn, indtil de komme til Rugsund, der töfvede de udi 3 Uger, oc Bisp Niclaus optog der sin Landgjelde, oc der kom megit udbuds Folck til dennem: Der kom Endre Höigre, oc Loden Stallere met megit Folck der til, Niclaus Botolfssön, oc Carlunger hans broder, oc Kalf af Horning, oc der finge Baglerne tidende, at Birkebenerne hafde tagit en Konge oc en Grefve ofver sig, oc vaare ventendis norden aff Landet med en stor Krigshær; thi bleff Bisp Niclaus oc Baglerne til raads, at de vilde drage tilbage igjen til Bergen, oc indtage Slottet, oc de seilede til Bergen, oc lagde til Laxevaagen.

Biscopen hafde en Österlending hos sig, som sagde sig at kunde gjöre Bulverck med saadan kunst oc manere, at de der med kunde bryde Slottet, oc sagde sig hafve værit met at bryde mange Slot oc Feste med samme kunst, oc der som hand det icke gjorde, maatte de sette hannem

fátt fèll. Þat var einn dag, at Erlíngr lagði út til Hólms með nokkrum skútum, ok lagði til við biskupsbryggju, ok gekk síðan með liði sínu til Kristskirkju. En er þat sá Birkibeinar, gengu þeir til móts við þá, ok skutust þeir á. Birkibeinar sá, at Baglar vâru eigi liðmargir, veittu þeir þá hvervitna atgöngu, svâ at Baglar lètu undan síga. Erlíngr ljóp á kaf, ok komst við þat til skipanna með mönnum sínum, en margir voru drepnir. Þá spurðu Baglar Erlíng, hvert þeir væru nú hans menn, er í kastalanum voru?, ok þegar eptir þat fóru Baglar or Björgyn, ok norðr í land, ok settu menn sína í allar sýslur, unz þeir komu í Rúgsund, þar dvöldust þeir þrjár vikur, tók Nikolás biskup þar landskyldir sínar. Þar kom mart leiðángrslið til þeirra. Þar kom Eindriði hegri ok Loðinn stallari með mikla sveit, Nikolás Bótúlfsson ok Karl úngi bróðir hans, Kálfr af Hornúngi; þar spurðu Baglar þau tíðendi, at Birkibeinar höfðu tekit konúng ok jarl yfir sik, ok at þeirra var norðan vân með her mikinn; leizt því Nikulási biskupi ok Böglum þat ráð, at fara aptr til Björgynjar ok vinna kastalann, sigldu þeir þá þángat ok lögðu til í Laxavâgi.

Biskup hafði með sèr einn þann mann, er kominn var af Austrlöndum, hann kvaðst kunna maungu at gjöra með þeirri list ok kunnáttu, at þeir fengi þar með brotið kastalann, kvaðst með hafa verit at brjóta með þeirri vèl margar borgir ok kastala; ok ef hann fengi þat eigi unnit, mætti þeir setja hann á þá valslöngu,

paa Vaalslengen eller Bliden, oc skjude hannem ind paa Slottet. Der bleff megit stort Timmer tilfört, med andet som der til behöfvedis. Oc som de det hafde for haande, finge de kundskab, at Birkebenernis Seigle vaare seet nord paa Stafvefjord. Da lod Bispen blæse Folcket sammen, oc holt raad med Höfdingene paa skibene, hvad de skulde gribe an. Erling Steenveg gaff raad, at de der skulde forbide Birkebenerne, oc stride mod dennem. Oc det raad efterfulde störste parten aff Baglerne. Da sagde Bispen til hannem: Der som du vilt her hos denne Sjöborg stride mod Birkebenerne, da skalt du icke hafve behoff at hafve omsorg for dit Folck, efter denne Dag, oc de som dette raade dig, besinde oc betencke icke deris Formue oc efne; Thi er det mit raad, at vi strax seile Öster i Vigen, oc der stride mod Birkebenerne, naar de besöge os. Det Raad bleff vedtagit, oc de seilede Netter oc Dage indtil de komme til Tonsberg, oc Bispen drog til Oslo. — Birkebenerne komme til Bergen strax efter at Baglerne vaare affdragne, med megit Folck oc mange store Skibe, oc fordi det led mod Vinteren vilde de icke drage efter Baglerne, men blefve nogen stund i Bergen, oc droge siden nord til Trondheim igjen, oc Baglerne vaare i Tonsberg den Vinter, oc de hafde deris Höfvitzmend oc Krigsfolck ude paa begge parter, oc gjorde hver andre ofte stor skade. Aff Birkebenerne vaare, Ulffham oc Harald Kesie, oc Gudleg Fladbond: Aff Baglerne, Tarald Ogmundssön, Gudleg Skreding, Benedict aff Gunmönæs i Valders, Jon Gretmand, oc flere andre.

ok skjóta honum inn í kastalann. Var þar þá atfluttr viðr geysimikill, ok annat er hafa þurfti. En er þeir höfðu þetta með höndum, var þeim sagt, at segl Birkibeina voru sèn norðr á Stafafirði; lèt biskup þá blása liðinu saman, ok átti skipstefnu við höfðíngja, hvat þá væri tiltækilig-ast. Erlíngr steinveggr rèð, at þeir skyldu þar bíða Birkibeina, ok berjast við þá; ok því ráði fylgðu flestir Baglar. Þá mælti biskup til hans: ef þú vill berjast við Birkibeina hjá sjóborg þessari[1], þá muntu eigi þurfa eptir þenna dag at gjöra ráð fyrir liði þínu; hugsa þeir ok ekki afla sinn ok efni, er þeir ráða til þessa; því er þat mitt ráð, at vèr siglim í stað austr til Víkr, ok eigim þar bardaga við Birkibeina, ef þeir vitja vâr. Var þat ráðs tekit, ok sigldu þeir nætr ok daga, þar til er þeir komu til Túnsbergs, en biskup fór til Oslo. — Birkibeinar komu til Björgynjar, eptir þat er Baglar voru burt farnir, með miklu liði ok mörgum stórskipum, en af því þá leið at vetri, vildu þeir eigi halda austr eptir Böglum; þeir voru hríð nokkura í Björgyn, ok fóru síðan norðr aptr til Þrándheims. Þann vetr voru Baglar í Túnsbergi, ok höfðu hvârirtveggju úti lið sitt ok sveitarhöfðíngja, ok gerðu optliga hvârir öðrum stóran skaða. Þessir voru af Birkibeinum: Úlfr hani, Haraldr kesja ok Guðleikr flotbytta; en af Böglum, Þóraldi Ögmundarson, Guðleikr skreiðúngr, Benedikt af Gumanesi á Valdresi, Jón griðmaðr, ok fleiri aðrir.

[1]) *Hèr hefir Petri Clausen án efa (eins ok viðar) misskilizt frumrit hans. Brot sögunnar sýna að her eigi at lesast: við sæborgir (ɔ: skip) Birkibeina.*

Den samme Vinter sende Bisp Niclaus sine Mend op til Valders, oc vilde lade tage Baard Gutorms Söns Sönner, Gutorm oc Skule. Men Erling Bonde, som dem hafde til at opfostre, fick kundskab der aff, oc hand forsende dem hen i en Skouffbygd, at blifve der saalenge som Baglerne vaare i Valders, siden sende hand dem til Trondheim, til Kong Ingi deris broder, oc de blefve hos hannem. Den samme Vinter var Erick, som siden bleff Konge i Sverrig, hos K. Ingi. Oc samme Vinter i Jul gjorde Hagen Jarl Bryllup med Fru Christin Svenska, oc om Sommeren der efter böd K. Ingi leding ud ofver alt Trondelagen, oc alt norden for Stad.

K. Ingi oc Hagen Jarl droge norden til med en stor Skibs-Flaade oc Krigshær, oc vaare mange deris Höfdinger synder i Landet for dennem i deris Læne: Einer Kongens Maag var i Stavanger, oc Baglerne hafde udgjort 27 Skuder oc Jacter, oc actede at drage til Bergen. Der de komme til Fjeldbyrg, spurde de at Einer Kongens Maag vaar i Stavanger med sit Folck, oc viste intet aff deris komme. De seilede aff tiligen om dagen, oc komme ved Middagstid ind til Stavanger. Einer var den tid paa en stefne om nogen forligelse, oc hand tenckte icke, at Baglerne skulde saa snart komme ofver hannem. Oc der hand saa at hand kunde icke undkomme, löb hand op i Taarnit i S. Svetonii Kircke, oc Baglerne bröde Kirkedörren oc böde Einar Fred oc Leide, oc paa det sidste gick hand med sine Mend ned aff Taarnit, oc ind i Chorit, oc der

Þann sama vetr sendi Nikulás biskup menn sína upp á Valdres, ok vildi taka láta sonu Bárðar Guttormssonar, Guttorm ok Skúla; en Erlíngr bóndi, er þeir voru at fóstri með, hafði njósn af því, ok sendi þá burtu í afdal nokkurn, dvöldust þeir þar, meðan Baglar voru í Valdresi. Síðan sendi hann þá til Þrándheims á fund Ínga konúngs bróður þeirra, ok voru þeir með honum. Þann vetr var Eirékr, er síðan varð konúngr í Svíþjóð, með Ínga konúngi, ok á þessum sama vetri at jólum gjörði Hákon jarl brúðkaup sitt, ok fèkk frú Kristínar hinnar sænsku, ok um sumarit eptir hafði Íngi konúngr úti leiðángr um öll Þrændalög ok allt fyrir norðan Stað.

Íngi konúngr ok Hákon jarl hèldu norðan, höfðu þeir fjölda skipa ok her mikinn; margir lendir menn þeirra voru suðr í landi fyrir þeim í sýslum sínum: Einar konúngsmágr var í Stafángri. Baglar höfðu búit tuttugu ok sjö skútur ok lèttiskip, ok ætluðu til Björgynjar. Þá er þeir komu til Fjölbyrju, spurðu þeir, at Einar konúngsmágr var í Stafángri með sveit sína, ok vissi ekki um komu þeirra, ok komu nær miðjum degi inn í Stafángr. Einar var þann tíma á sáttarstefnu nokkurri, ok hugði eigi at Baglar mundu svâ brátt koma á hendr honum; ok er hann sá, at hann fèkk eigi undan komizt, ljóp hann upp í turninn í kirkju hins helga Svítuns. Baglar brutu upp kirkjuna, ok buðu Einari grið, ok gekk hann at lyktum með sínum mönnum niðr af turninum ok innar í kórinn, vann

svor hand en Eed, at hand aldrig der efter skulde stride imod Erling Stenveg. Oc der efter ginge de ud aff Kirken med hannem. Da vilde Erling oc Höfdingerne holde den Lejde, men Krigsfolcket vilde raade. Der Einer saa, hvorledis det vilde gaa, sagde hand: Kranck oc svigfuld er Baglernis fred oc lejde, oc strax bleff hand dræbt med 4 sine Mend, oc tilforn hafde de dræbt heden ved 50 af dennem, som de hafde tagit ud af Kircken, endog de hafde gifvit dennem lejde. Baglerne finge stort roff oc bytte i Stavanger, oc droge saa tilbage igjen til Tonsberg.

K. Ingi oc Hagen Jarl komme med deris Skibsflaade oc gandske Hær til Bergen, oc töfvede der nogen stund, oc seilede siden Öster i Landet. Baglerne vaare da i Tonsberg oc hafde ferdiget deris Skibe, oc vilde drage nord i Landet: Men der de spurde Birkebenernis komme, ginge de i raad sammen, hvad de vilde gjöre: Bisp Niclaus raadde dennem at drage til Danmarck, oc stride icke mod Ofvermacten. Det raad bleff vedtagit, oc Baglerne sejlede til Halland, oc lagde sig der i Hafn nogen tid lang. Birkebenerne droge til Tonsberg oc sammen kaldede Hougeting, oc der bleff K. Ingi tagen til Konge af Landssotterne, oc Hagen til Grefve. Der efter droge de til Sarpsborg, oc bleff K. Ingi ocsaa paa Borge ting samtyct til Konge ofver alt Landet, oc Hagen til Grefve, oc de lagde all Vigen under sig, oc sette Befalningsmend ofver Lænene, oc droge siden til Tonsberg igjen.

Der Baglerne det spurde, blefve de saa til

hann þeim þar þann eið, at hann aldri síðan skyldi berjast í móti Erlíngi steinvegg. Síðan gengu þeir með hann út or kirkjunni, vildi þá Erlíngr ok höfðíngjar halda griðin, en liðit vildi ráða. Ok er Einar sá, hvernig fara mundi, mælti hann: veil ok fláráð grið Bagla; var hann þegar drepinn ok fjórir hans menn, en áðr höfðu þeir drepit af þeim nær fimm tygi[1], er þeir höfðu út tekit or kirkjunni, þótt þeir hefði þeim áðr grið gefit. Baglar fengu mikit herfáng í Stafángri, ok fóru við þat aptr til Túnsbergs.

Íngi konúngr ok Hákon jarl komu með öllum her sínum ok skipaliði til Björgynjar, ok dvöldu þar nokkura stund, sigldu síðan austr í land. Þá voru Baglar í Túnsbergi, ok höfðu búit skip sín, ok ætluðu norðr í land. En er þeir spurðu komu Birkibeina, gengu þeir á stefnu, hvat þeir skyldi ráðs taka. Nikulás biskup rèð, at þeir færi til Danmerkr, ok berðist eigi við ofrefli. Þat var ráðs tekit, ok sigldu Baglar til Hallands, ok lágu þar í höfn nokkura hríð. Birkibeinar hèldu til Túnsbergs, ok stefndu Haugaþíng, var þar Íngi til konúngs tekinn, ok gefit Hákoni jarlsnafn af bóndum. Síðan fóru þeir til Sarpsborgar, var Íngi ok til konúngs tekinn á Borgarþíngi yfir allt land, ok Hákoni jarslnafn gefit; lögðu þeir undir sik alla Víkina, ok settu menn í sýslur, ok fóru síðan aptr til Túnsbergs.

Þá er þetta spurðu Baglar, gjörðu þeir þat

[1]) *Hèr mun hinum danska útleggjara aptr misskilizt hafa, því 50 (eða 40) manns fengu grið; sjá bls. 12 ok 3ðja brots 2að blað frumritsins.*

raads, oc Grefve Philippus drog nord i Vigen, oc med hannem Arnbjörn Jonsön, Philippus aff Veginne, Reider Sendemand, Niclaus Botolffsön, Atle Gredmand, Helie Byriesön, ok hafde heden ved 20 skib med sig: Erling Stenveg bleff efter i Halland, med nogit aff Folcket, oc Bisp Niclaus vaar tilforn dragen sönder til Kjöbenhafn, Baglerne seilede hastelig, oc actede at komme uforvarendis paa Birkebenerne. Oc der de komme i Haffsten Sund, lagde de dertil, oc vilde bie til om Aftenen, at de kunde sejle ofver Fjorden om Natten, oc der kom en liden Kog seilendis dennem forbi, oc lagde vester paa Fjorden. Da fornumme de at der monne komme tidende til Byen for dennem, thi lagde de ud paa Fjorden efter Koggen alt hvad de kunde. Oc der de kunde icke naa hannem, droge de tilbage igjen til Halland til deris Folck, oc strax der efter seilede med deris Folck ofver til Aalborg, oc töfvede der nogen stund, oc der kom Bisp Niclaus til dennem.

Den samme Sommer sette Birkebenerne Peter Steiper ofver Ryefylcke i Einer Kongens Maags sted, oc var Peter dragen öster med Birkebenerne, oc hafde set Ani sin Syster Sön oc Torkel Drage ofver Lænit i sin sted, da komme Serquer Snapper, Simon Erlingsön Stackhals, Halle Ogmundsön aff Egeland, Byrie aff Stange, ofven aff Oplanden ned i Hardanger, oc dræbte Erling oc hans Sön, hand var Torgrims Lænsmand aff Lydanæs: Siden droge de at söge efter Ani oc Torkild, oc komme uforvarendis paa

ráð, at Filippus jarl fór norðr í Víkina, ok með honum Arnbjörn Jónsson, Filippus af Vegini, Reiðar sendimaðr, Nikulás Bótólfsson, Atli griðmaðr ok Helgi Birgisson, ok höfðu nær tuttugu skipa. Erlíngr steinveggr var eptir á Hallandi með nokkrum hluta liðsins; en Nikulás biskup var áðr farinn suðr til Kaupmannahafnar. Baglar sigldu sem óðast þeir máttu, ok ætluðu at koma Birkibeinum á óvart, ok er þeir komu í Hafsteinssund, lögðu þeir þar at, ok vildu bíða aptans ok sigla um nóttina yfir foldina. Þá kom þar kuggr[1] einn lítill, ok sigldi um þá, ok lagði vestr á fjörðinn; sá þeir þá, at njósnir mundu undan þeim gánga til bæjarins, hèldu þeir því út á fjörðinn eptir kugginum allt slíkt er þeir máttu, ok er þeir fengu eigi tekit hann, fóru þeir aptr á Halland til liðs síns, ok sigldu þaðan með herinn yfir til Álaborgar, ok kom þar Nikulás biskup til þeirra.

Þat sama sumar settu Birkibeinar Pètr steypi yfir Rygjafylki í stað Einars konúngsmágs; var Pètr farinn austr með Birkibeinum, ok hafði sett Ána systurson sinn ok Þorkel dreka yfir lènit í sinn stað. Þá komu þeir Sörkvir snápr, Símon Erlíngsson stakkháls, Halli Ögmundarson af Eikilandi ok Birgir af Stöngum ofan af Upplöndum í Harðángr, ok drápu Erlíng ok son hans: hann var lendr maðr Þorgríms á Ljánesi. Þaðan fóru þeir at leita Ána ok Þorkels, ok komu

[1]) *Hèr hefir frumrit Pèturs prests Claussonar rèttara verit en styttra sögubrotið; sjá bls. 13, 14.*

dennem i Karmsund, oc slog dennem ihjel med 35 Mend.

Baglerne knurrede, at de skulde töfve saa lenge i Aalborg, oc de sejlede ofver til Visk udi Halland igjen, oc de toge det raad for sig, at de sejlede til Ogsund, uden for Kongehelle, oc ginge der paa Landet, oc sende Loden Stallere oc Arnbjörn Jonssön, oc 200 Mend med alle deris skib, tilbage igjen til Halland. De lagde sönder i Vin Aa, oc sette deris skib der op: der gick Bisp Niclaus aff sit skib Bogeskreppen, oc drog Landvejs nord i Vigen. Baglerne droge da en part Landveys, oc en part med Skuder oc Jacter nord til Sarpsborg, oc der fra oc til Mjös, oc nord ofver Hedmarken, oc der de komme til lille Hammer, kom Gudleg Fladbond udaff Skoufven med 4 Mend, oc dræbte Od Tand Amund Lynssön, oc löb siden i Skoufven igjen. Siden droge Baglerne nord ofver Fjeldet til Orckedal, oc siden til Nidros, oc stefnede Öre ting. Der komme faa Folck, oc bleff Erling der tagen til Konge, oc Philippus til Grefve. Siden sette de Befalingsmend ofver Lænen, men de finge liden Rettighed aff Bönderne.

K. Ingi oc Hagen spurde det til Bergen at Baglerne vaare i Trondheim med deris gandske Hær, thi skifte de det Folck de hafde, oc Kong Ingi drog nord i Landet, oc Hagen Jarl seilede Öster til Halland, til dem som forvarede Baglernis skib udi Nisaa: Der bleff Arnbjörn Trold Amund Lynds sön slagen met 30 Mend. De andre flyde op i Landet, oc Hagen Jarl tog Bogeskreppen,

at þeim óvörum í Karmsundi, ok drápu þá þar með hálfum fjórða tugi manna.

Baglar eirðu því illa, er þeir skyldu dvelja svâ lengi í Álaborg, sigldu þeir þá aptr yfir til Viskar á Hallandi, ok gerðu þat ráð, at þeir sigldu til Augasunda fyrir utan Konúngahellu, ok gengu þar á land. þeir sendu Loðin stallara ok Arnbjörn Jónsson við tvö hundruð manna með öll skip þeirra aptr til Hallands, ok lögðu þeir suðr í Nizi, ok settu þar upp skip sín: þar gekk Nikulás biskup af skipi sínu Bókaskreppunni, ok fór landveg norðr í Víkina; Baglar fóru þá sumir á landi, en aðrir með skútum ok lèttiskipum norðr til Sarpsborgar, ok þaðan upp til Mjörs ok norðr yfir Heiðmörk; ok er þeir komu til Litla Hamars, kom þar Guðleikr flotbytta or skógi, ok fjórir menn með honum, ok felldu Odd ran, son Önundar lyns, ljóp hann síðan aptr í skóginn. þaðan fóru Baglar norðr yfir fjall til Orkadals, ok svâ til Niðaróss, ok stefndu Eyraþíng; kom þar fátt manna; var þar Erlíngr til konúngs tekinn, ok Filippus gefit jarlsnafn; settu þeir eptir þat menn í sýslur, en litlar fengu þeir skyldir af bóndum.

þat spurðu þeir Íngi konúngr ok Hákon jarl til Björgynjar, at Baglar voru í þrándheimi með allan her sinn; skiptu þeir þá liði því er þeir höfðu; fór Íngi konúngr norðr í land, en Hákon jarl sigldi austr til Hallands, fann hann þar þá er geymdu skip Bagla í Nizi; var þar drepinn Arnbjörn tröll, son Önundar lyns, ok með honum þrír tugir manna, en aðrir flýðu á land upp. Hákon

oc alle Baglernis skib, oc sette ild paa en part, oc nogne förde hand med sig nord i Landet, oc kom til Bergen silde om Hösten, oc blef der om Vinteren.

Kong Ingi drog nord til Trondheim, oc Baglerne hafde send Asbjörn Kop oc Torald Skinckring sönder til Möre til Landeværn, med 2 Skuder: Der Birkebenerne sejlede uden for Stim, saae de hvor Baglerne roede, oc de forfulde dennem hasteligen, oc jagede dennem paa Landet: Somme roede indtil Tingvolt, der funde de Gutorm Tvarre Lænshöfding, oc blef hand slagen med megit aff sit Folck. Silde om aftenen lagde Asbjörn Kopper til Solskjel, oc om natten komme Birkebenerne paa hannem, oc jagede hannem paa Landet med alt sit Folck, oc de holde vact paa öen om natten, at ingen skulde afkomme, oc om morgenen randsagede de öen, oc dræbte alle dem som de funde, men Asbjörn undkom med nogne aff sine Mend. Birkebenerne sejlede nord, oc ved Agdenæs toge de en skude fra Baglerne, oc lagde siden ind til byen. Der Baglerne saae deris Skibsflaade, droge de aff Byen op ofver Broen, oc op til Sælö, oc siden ofver Skaanefjeld til Österdalen, oc der fra til Hedmarcken. Oc de blefve der til Jul, oc hafde deris meste tilholt i den store Ö udi Mjös, oc efter Julen droge de til Oslo.

Strax efter Julen droge Baglernis Höfdinger ud i Lænene. Philippus af Vegene hafde Borgesyssel, oc lod hand bygge to skib: Asbjörn Kopper aff Folden lod bygge et skib: Torald Ogmund-

jarl tók Bókakreppuna ok öll skip Bagla, brendi sum, sum færði hann með sèr norðr í land, ok kom til Björgynjar síðla um haustið, oc sat þar um vetrinn.

Íngi konúngr hèlt norðr til þrándheims. Báglar höfðu sendt Ásbjörn kopp ok þóralda skinríng suðr á Mæri til landvarnar með tveimr skútum. þá er Birkibeinar sigldu fyrir utan Stím, gátu þeir at líta, hvar Baglar röru; eltu þeir þá með skyndi ok ráku á land upp. Nokkrir reru inn til þíngvallar, fundu þeir þar Guttorm þvara, lendan mann, ok var hann þar drepinn ok flest sveit hans. Síðla um aptaninn lagði Ásbjörn koppr at í Sólskel, ok um nóttina komu Birkibeinar at honum, ok eltu hann á land ok alla menn hans, hèldu þeir vörð á eynni um nóttina, at eingi kæmist undan. Um myrgininn könnuðu þeir eyna, ok drápu þá alla, er þeir fundu, en Ásbjörn komst undan ok nokkrir menn hans. Birkibeinar sigldu norðr; þeir tóku við Agðanes eina skútu af Böglum, ok lögðu síðan inn til bæjarins. þá er Baglar sá skip þeirra, fóru þeir or bænum upp yfir brú, ok upp í Selabú, ok síðan yfir Skáneyjarfjall til Eystridala, þaðan á Heiðmörk, ok voru þar til jóla; höfðu þeir mest atsetu í Eynni miklu, er liggr í Mjörs; en eptir jólin fóru þeir til Oslo.

þegar á bak jólum fóru höfðíngjar Bagla í sýslur. Filippus af Vegini hafði Borgarsýslu, ok lèt byggja tvö skip; Ásbjörn koppr lèt reisa eitt skip á Foldinni; þóraldi Auguson

sön lod bygge et skib i Oslo: Skinner Lange i Onsö et skib: Tosten Tjuff i Skottenæs et skib: Jon Droning ved Gotelff to skib: Gudolff aff Blackested oc Gunar Assersön i Lidum to skib: Reider Sendemand i Drafne (det er Drammen) to skib: Philippus Jarl lod bygge to skib, Tord Docke et skib: Hunolff Hette oc Gunni Lafve i Skine to skib: Gjurt Bendsön i Visedal et skib: Simon Kyr oc Ragner Galme sön i Beffie to skib: Arntord Focke i Bjerghærit et skib: ofver alt blefve da bygde 22 skib.

Jon Droning var Lænshöfding öster ved Elfven, oc drog hand sterck udi Lænit, oc hand gjeste en gang hos en Bonde som Trond hed, hand hafde en deylig Hustru, Jon lod kalde baade Bonden oc Hustruen ind til sig. Oc der de komme ind, lod hand skjude Bonden ud ad Dörren igjen, oc holt Hustruen hos sig. Der Bonden klagede paa denne Handel, tillagde hand hannem usand sag. Bonden sagde ney der til, dog lod Jon binde hannem ved sin Hesterumpe, oc förde hannem til skibs med sig, oc Bonden maatte löse sig med en halff Marck Guld. Faa dage der efter gick Jon Droning sjelff anden op til den Kircke som laa der hos. Oc Trond laa sjelff ottende paa Bjergit, icke langt der fra, oc lurede efter hannem. Der Jon gick i Kircken, löbe de hasteligen ned oc sögte i Kircken til hannem. Jon sögte ind i Chorit, oc Trond skjöd til hannem med et Spjud, oc gjorde hannem saar. Thi löb hand ud igjennem Chordörren, oc Trond forfulde hannem, oc slog hannem ihjel paa Aggeren neden for Kircken, oc hug hans Hofvit af hannem. Jons Liig bleff fört til Kongelle oc

lèt byggja eitt skip í Oslo; Ormr lángi í Óðinsey eitt skip; þorsteinn þjófr í Skottanesi eitt skip; Jón drotníng við Gautelfi tvö skip; Guðólfr á Blakkastöðum ok Gunnar Ásuson í Hlíðum tvö skip; Reiðar sendimaðr í Dröfn tvö skip; Filippus jarl lèt byggja tvö skip; þórðr dokka eitt skip; Hundólfr hetta ok Gunni lángi í Skíðunni tvö skip; Girðr Beinteinsson í Vísidal eitt skip; Símon kýr ok Ragnar Gamalsson í Befju tvö skip; Arnþór foka í Bjargheimshèraði eitt skip; ok alls voru þá bygð tuttugu ok tvö skip.

Jón drotníng var lendr maðr austr við Elfi, ok fór hann fjölmennr í sýslu sína. Einhverju sinni var hann at gistíngu með bónda nokkrum, er þrándr hèt; hann átti konu fríða. Jón lèt kalla þau bæði inn til sín, bónda ok húsfreyju; ok er þau komu inn, lèt hann skjóta þrándi út aptr úr dyrunum, ok hèlt hjá sèr konu hans. En er bóndi kærði þetta, bar hann úsanna sök á hendr honum. Bóndi neitaði. þá lèt Jón binda hann við tagl hesti sínum, ok færði hann með sèr til skipa, ok varð bóndi at gjalda hálfa mörk gulls í útlausn. Fám dögum síðar var þat, at Jón drotníng gekk við annan mann til kirkju þeirrar, er þar var nærri. þá lá þrándr við áttunda mann á bjargi því, er þar var allskamt í brott, ok sætti honum. þá er Jón gekk í kyrkjuna, ljópu þeir skjótt inn, ok sóttu at honum í kirkjunni: leitaði Jón innar í kórinn; þrándr skaut spjóti til hans; ljóp hann þá út um kórdyrnar, ok þrándr eptir honum, ok drap hann á akrinum niðr frá kirkju, ok hjó höfuð af honum. Lík Jóns var fært

begrafvit i Munckeklosterit, oc Trond drog til Birkebenerne. Gudbjörn Jons broder hefnede siden hans död, oc dræbte 9 Mend derfore, oc hug det ene been aff 7 mend.

Erling Stenveg forsamlede alt sit Folck udi Tonsberg med alle de ny skib hand hafde ladet bygge, oc alle de Jacter oc smaa skib hand kunde faa der til. Birkebenerne hafde spurt hans Skibsbygning, oc at hand actede aff Landet der med. Hand seilede med sin gandske Flaade först östen til Onsö om Langfredag, oc anden Dag Paaske sejlede hand tilbage igjen til Grindholmssund, oc kom om Söndagen i Esienæs Öer med 22 Skib, oc der gaff hand sit Folck tilkjende, at hans forset vaar, at drage nord i Landet: Somme raadde til, oc somme fra. Tredie Dag der efter, kom hand i Rannesund, oc blefve der nogne Höffdinger med 4 Skib liggendis igjen i Esienæs Öer, som icke vilde fölge hannem. Erling drog nord ved Landet, indtil hand kom til Folckes steen. Der saa hand en Skude, som Birkebenerne vaare paa, oc var fuld aff Fitallie, oc hand forfulde dennem ind i Regevaag. Der löbe Birkebenerne paa Landet, oc hand tog Skuden oc Fitallien, oc roede til Ekornsund om Aftenen. Siden sejlede hand nord til Moster, der holt hand Ting eller Gemein med sit Folck, oc spurde dennem til raads, om hand skulde först drage til Bergen, eller strax nord til Trondheim. Den störste part raadde hannem at drage först til Bergen, thi Hagen Jarl viste intet aff deris komme, men Reider Sendemand affraadde det, oc vilde at de

til Konúngahellu, ok jarðat at munklífi; en þrándr fór til Birkibeina. Gunnbjörn, bróðir Jóns, hefndi síðan dauða hans, ok voru þar drepnir fyrir níu menn, ok sjö fóthöggnir.

Erlíngr steinveggr dró saman allt lið sitt í Túnsbergi, ok öll hin nýju skip, er hann hafði gera látið; hann lèt ok samna skútum öllum ok lèttiskipum er hann mátti til fá. Spurt höfðu Birkibeinar um skipagerð hans, ok at hann ætlaði at halda þeim af landi brott. Hann sigldi með allan flota sinn austan, fyrst til Óðinseyjar frjádaginn lánga, annan dag páska sigldi hann austr aptr til Grindhólmasunds, ok kom drottinsdaginn í Esjunesseyjar með tuttugu ok tveimr skipum; sagði hann þar mönnum sínum, at hann ætlaði at halda norðr í land; rèðu þar sumir til, en sumir frá. Týsdaginn eptir kom hann í Randarsund, ok urðu þar nokkrir skipsstjórnarmenn eptir með fjórum skipum í Esjunesseyjum, þeir er ekki vildu fylgja honum. Erlíngr hèlt norðr með landi, unz hann kom til Foksteina; þar sá hann skútu eina, er á voru Birkibeinar, ok var hlaðin vistum. Erlíngr elti þá allt inn í Rekuvâg; þar ljópu Birkibeinar á land, en hann tók skútuna ok vistir þær er á voru, ok rèru um aptaninn í Eikundasund; þaðan sigldi hann norðr at Mostr, átti hann þar húsþíng, ok spurði menn ráðs, hvârt hann skyldi fyrst halda til Björgynjar, eðr þegar norðr til þrándheims: þeir voru flestir, er þat rèðu, at stefna fyrst til Björgynjar, því Hákon jarl vissi ekkert af komu þeirra; en Reiðarr sendimaðr mælti því í móti, ok vildi, at þeir

skulde strax drage nord, som Kongen vaar. Oc de fulde hans raad, oc droge nord til Skalle Vig, der finge de vis kundskab, at Grefven hafde spurt deris komme, oc hafde gjort sig ferdig med sit Folck, at tage mod dennem. Dog vilde Erling drage först til Bergen, men Reider Sendemands raad gick for sig, oc de sejlede nord ved Landet, oc gjorde Birkebenerne stor affbreck, hvor de ofverkomme dennem. Hagen Jarl hafde send sine Breffdragere til Kongen, ok Baglerne komme efter dennem udi Vaagsö, oc sloge dennem ihjel, oc förde brefvit til Erling. Det lydde saa i sin mening, at Hagen sender sin Broder Kong Ingi helsen, oc bad hannem hafve sin sag udi god act, thi Baglerne vaare paa veye östen til, oc hand viste ikke om de vilde legge til Bergen eller drage lenger nord i Landet. Dog vaare de icke stercke, oc hafde smaa skib, thi torde hand icke frycte storligen for dennem. Erling drog nord ved Landet, oc lagde til udi Oxö, der spurde hand tidende fra Nidros, at Kong Ingi skulde gifte sin Sÿster med Torgrim aff Lianæs, oc skulde Bryllupet begynde anden dagen. Baglerne brende Skibe for Birkebenerne, oc gjorde dennem Skade i hvor de kunde. Oc om natten der det vaar mörckt, vunde de Sejl op, oc sejlede nord, oc lagde ind omkring Agdenæs med 14 Skib, oc vilde icke fortöfve de andre Skib, som vaare paa veyen efter dennem. Oc Erling gaff alt sit Folck beskeden, hvor hver skulde legge til, oc gaa op, naar de komme for Byen.

Loden Stallere talede for Folcket, oc gaff

hèldi fyrst norðr þar er konúngr var. Var þat ráðs tekit, ok er þeir komu norðr í Skálavík[1], fengu þeir sanna frètt af, at jarl hafði spurt til komu þeirra, ok var búinn til viðtöku með liði sínu. Vildi þó Erlíngr halda fyrst til Björgynjar, en Reiðar sendimaðr rèð, ok sigldu þeir norðr með landi, ok gerðu stóran skaða Birkibeinum, hvar sem þeir fengu þá staðit. Hákon jarl hafði sendt menn sína með brèfum til konúngs, gátu Baglar farit þá í Vâgsey, drápu þá, ok færðu Erlíngi brèfit; þat sagði svâ, at Hákon sendir kveðju Ínga konúngi, bróður sínum, ok bað hann vera sem varastan, kvað Bagla vera á leið austan, en þat vissi hann eigi, hvârt þeir ætluðu til Björgynjar, eða mundu þeir halda norðr lengra í landit, kvað þá þó eigi aflamikla ok hafa smá skip, ok myndi hann eigi mjök þurfa at óttast þá. Erlíngr hèlt norðr með landi, ok lagði at í Yxney, spurði hann þar þau tíðindi or Niðarósi, at Íngi konúngr skyldi gipta systur sína Þorgrími af Ljánesi, ok mundi brullaupit hefjast annan daginn. Baglar brendu skip Birkibeina, ok gjörðu þeim skaða, þar er þeir máttu. Ok um nóttina, er myrkt var orðit, undu þeir segl sín, ok sigldu norðr, ok lögðu fjórtán skipum inn um Agðanes, ok vildu eigi bíða annara skipa, er eptir komu; sagði Erlíngr öllum sínum mönnum, hvar hverr skyldi at leggja ok upp gánga, þá er þeir kæmu til bæjarins.

Loðinn stallari talaði fyrir liðinu, ok lagði

[1]) *Rèttara mun sumum þykja, at hèr standi Skallavik, ok visum vèr því til skemri sögunnar hèr at framan, bls. 19.*

raad, at de skulde legge til ved Gildeskaalene, det vaare de Stofver oc Huse som stode ved Stranden, oc mand gjorde Gilde oc Gjestebud udi, oc hand sagde, Det er bedre at falde her med ære, end fly lenger for Birkebenerne, oc der som vi blifve end slagne paa Fluct, er det os ingen skam, efterdi vi have baade Birkebenerne oc Bönderne imod os. Det kand oc vel være, at Kongen hafver ingen kundskab aff vor komme, oc at vi finde dennem druckne aff Mjöd oc Viin, som der uden tvifl nu nock vancker, oc skal Kongen med sine Mend drage ind ad den Vestre Gade, oc Grefve Philippus oc Arnbjörn den nördre Gade, oc Arnbjörn Foke oc Simen Kyr skulle legge ind i Aaen med 2 Skib, oc tage dennem op, som ville svömme ofver fra Byen: Dette vaar silde om dagen, der det begynte at mörckis, oc de vunde deris Segl op, oc sejlede ind efter Fjorden. K. Ingi vaar i Byen, oc hafde megit oc dueligt Krigsfolck hos sig, oc skulde da Torgrims aff Lianæs Bryllup staa med Kongens Syster Sigrid, hvilket Kongen havde statlig med stor bekostning ladet berede.

Om Löfverdagen om Aftenen, kom en Breffdrager til Kongen fra Hagen Jarl, oc sagde, at Jarlen hafde trende gange udsend sine Breffdragere, oc ingen vaar fremkommen, uden hand alleene, hand hafde saa grandgifveligen spurt om Baglernis færd, oc hand sagde dennem være forventendis den samme Afften, eller om Morgenen strax effter. Da lod Kongen forsamle sit Raad oc yperste Mend, oc gaff dennem dette tilkjende

þat til ráðs, at þeir skyldu at leggja við gildaskála[1]. Hann mælti: betra er at falla hèr með sæmd, en flýja lengr undan Birkibeinum; er oss þat ok eingi skömm, þótt vèr komum enn á flótta, er vèr höfum nú hvâratveggju í móti oss, Birkibeina ok bændr. Má þat ok vel vera, at konúngr hafi einga frètt af komu vârri, ok finnum vèr þá drukna af miði ok víni, er nú mun eigi skorta í bænum. Skal konúngr með sína sveit gánga inn af vestra stræti, en Filippus jarl ok Arnbjörn um hit norðara stræti. Arnþórr foka ok Símon kýr skulu leggja upp í ána með tveim skipum, ok gegna þeim, er svíma vilja yfir frá bænum. Þetta var síð dags, er myrkva tók, undu þeir þá segl, ok sigldu inn eptir firði. Íngi konúngr var í bænum, ok hafði mikit lið ok frítt, ok skyldi þá vera brúðlaup Þorgríms af Ljánesi ok Sigríðar konúngs systur, er konúngr hafði búa latið með miklli prýði ok tilkostnaði.

Laugardaginn móti aptni kom maðr til konúngs með brèfum Hákonar jarls, ok sagði, at jarlinn hafði senda þrjá menn, ok var eingi þeirra fram kominn, utan hann einn. Hann hafði svâ glöggliga spurt um ferðir Bagla, at hann kvað þeirra vân hinn sama aptan, eðr þegar at næsta morni. Þá lèt konúngr kalla saman ráðuneyti sitt ok hina beztu menn, ok

[1]) *Hinn danski útleggjari bætir hèr, án efa, sjálfr nokkru við (eins og hann víðar smegir líkum skíríngargreinum inn) um gildaskála þeirra tíða, að þeir hafi verið brúkaðir til at halda gildi ok gestaboð í.*

som Budet kundgjorde. Oc de blefve alle til raads, at om Afftenen silde vilde de lade blæse ald deris Folck tilsammen, med deris Vaaben oc Verie, oc leigre sig ude ved Gildeskaalene om Natten. Der effter gick Kongen ind i Bryllups-Stufven, oc de drucke en stund, oc vaare megit glade. Da gafve Kongens Mend hannem tilkjende, at det vaar tid at lade blæse i Trommeten, oc kalde Folcket sammen. Men Torgrim aff Lianæs, Brudgommen, stod op, oc bad, at Kongen icke skulde lade blæse, oc der med spilde oc forstöre den Glæde, som begynt vaar, oc sagde, at hand vilde lade sine Mend vebne dem, oc vaage ude paa Ören, oc skulde de holde got varetect. Kongen adlydde hannem, oc de drucke lenge om Natten. Der de vilde gaa til Seng, bad Torgrim sine Mend vebne sig oc gaa ud paa Ören oc holde vact. De sagde indbyrdis til hver andre, at de icke vilde vaage ofver Kongens Tjenere oc Bönderfolck, oc de lagde sig til at sofve. Folcket vaar saa ofvermaade drucket, at de gaffve ingen act paa, hvorledis Vacten bleff holden, oc Kongen soff i Sigurds Sverdals Hus, Sigult Jarl holt vact med sit Folck for hans Dör, oc vaare de druckne, saa vel som de andre. Oc Torgrim aff Lianæs soff i den samme Gaard, som Kongen vaar udi.

Baglerne sejlede ind ofver Flackefjord, oc ind under Guler Aas, oc lafvede sig til: der kom nogen Ilinger paa, oc bleff saare mörck, oc det vaar sidst paa Natten, da lagde til, hver som deris beskjen vaar; oc der Arnbjörn og Simon komme i Aaen, vilde Arnbjörn icke legge op, men Simon

sagði þeim, hvað hann hafði spurt; urðu allir samráða, at saman skyldi blása öllu liðinu síð um aptaninn, ok liggja með vâpnum úti við gildaskála um nóttina. Eptir þat gekk konúngr inn í brúðkaups stofuna, ok drukku menn um hríð ok voru kátir. Þá minntu konúngs menn á, kváðu mál vera að blása ok kalla saman liðit. Þorgrímr brúðgumi af Ljánesi stóð upp, ok beiddi konúng, at hann lèti eigi blása, at þar við eyddist sú gleði, er upp var hafin, kvaðst mundi láta vâpnast menn sína, ok vaka úti á Eyrum, ok mundi sá vörðr allgóðr. Konúngr lýddi á þetta, ok var drukkit lángt á nótt framm. En er þeim þótti mál at gánga til rekkna, bað Þorgrímr menn sína vâpnast, ok gánga út á Eyrar, ok halda þar vörðinn. Þeir mæltu sín í millum, at eigi myndi þeir vaka yfir konúngs mönnum ok bændum, ok gengu at sofa. Svâ voru menn druknir or hófi, at eingi gaf gaum at, hvernig vörðrinn var haldinn. Svaf konúngr í garði Sigurðar svardaga, hèlt Sigvaldi karl[1] vörð fyrir þeim dyrum með sveit sína, ok voru þeir eins druknir ok aðrir. Þorgrímr af Ljánesi svaf í sama garði sem konúngr.

Baglar sigldu inn yfir Flaðkafjörð, ok allt inn undir Gaularás, þar bjuggust þeir um. Þá gjörði el nokkurt, ok furðu dymt, var þá komit at degi, lögðu þeir til, sem ætlat var. Þá er Arnþór ok Símon komu í ána, vildi Arnþór ekki upp leggja, en Símon ok hans

1) *Eptir Clausens riti, sem prentað er, ætti hèr að standa Sigvaldi (eðr Sigurðr) jarl, ef hin sagan eigi væri greinilegari.*

oc hans Folck vilde legge op i Aaen. Oc vaar det nær at de skulde hafve slagits indbyrdis, dog raadde Arnbjörn, saa at de icke lagde op i Aaen. De andre skib lagde til ved Ören, oc der de komme nær Landet, holt de op med Aarene, oc lydde sig om, oc de hörde at der var alt stille i Byen: Siden sette de nogne paa Landet, oc de ginge frem til Gildeskaalene, oc de fornumme der ingen, thi ginge de til skibene igjen, oc gafve dem det tilkjende, at der var ingen Folck i Boderne, thi rodde de til Landet, oc lode Skibene sjelfve tage ved, oc de sprunge alle paa Landet, oc ginge op i Byen, oc det var alle steds stille i Byen. Baglerne komme allesammen i Kongens Gaard, oc der begynte de at blæse oc raabe Krigsraab, oc droge saa med raab oc stort gny ned igjennem Byen igjen, oc funde icke mange paa Gaarden, oc de ringede Stormklocken oc dræbte Vecterne som sofve i Taarnet.

Kong Ingi soff hart, oc nogne Qvinder hörde Krigsraabet, oc de vecte Kongen. Hand vognede seent, oc spurde hvad paa færde vaar. De sagde at Fjenderne vaare i Byen. Kongen löb ud i svalen oc kom paa Tagit, oc laa der indtil Fjenderne vaare dragne det stræde forbi, saa gaff hand sig ned paa Kjöbmandsgaden oc sögte til Aaen, oc sprang i Aaen oc svam ud til et Kjöbskib, som der laa, oc greb fat i Kabelen, oc vilde komme op i Skibet. Men en Mand paa Skibet gick frem oc sagde til hannem: Du Mand slip det Touff oc far din vey. Kongen tagde stille, oc Baadsmanden tog en Baadshage oc skjöd hannem fra Tofvet med,

menn vildu leggja upp í ána, ok lá við sjálft, at þeir myndi berjast; þó rèð Arnþórr, at þeir lögðu eigi upp í ána. Hin önnur skipin lögðu at við Eyrar, ok er þeir komu at landi, hèldu þeir upp árum ok hlýddust um, heyrðu þeir þá at allt var kyrt í bænum, lètu þeir síðan nokkra menn á land, ok gengu þeir fram at gildaskálum, ok urðu þar við einga menn varir; fóru þá aptr til skipanna, ok sögðu, at öngvir menn voru at skálunum. Rèru þeir þá at landi, ok lètu skipin sjálf taka við, stukku síðan á land allir, ok gengu upp í bæinn, var þá allt kyrt í bænum. Baglar komu allir saman í konúngsgarði, tóku þeir þá at blása ok æpa heróp, ok fóru síðan með ópi ok gný miklum um bæinn, ok fundu í garðinum fátt manna;ríngðu þeir þá herklokkunni, ok drápu þá varðmenn, er sváfu í turninum.

Íngi konúngr svaf fast, en konur nokkurar heyrðu herópit, ok vöktu konúng. Hann vaknaði seint, ok spurði, hvat um var. Þær sögðu, at óvinir voru komnir í bæinn. Konúngr ljóp út í svalirnar, ok þaðan á ræfrit upp, ok lá þar til þess er Baglar voru komnir fram um þat stræti. Þá fór hann ofan á Kaupmannastræti, ok sótti til árinnar; hann ljóp á ána, ok svam út at kaupskipi einu, er þar lá, ok greip í kaðalinn, ok vildi komast upp á skipit. Maðr einn gekk fram á skipit, ok mælti: lát laust togit, maðr, ok verþú brautu. Konúngr þagði. Þá tók skipmaðr stafnljá, ok skaut

thi svömmede Kongen ofver Aaen, oc somme hans Folck for hannem, oc en part efter hannem.

Baglerne droge anden sinde ind igjennemByen, da vaare Birkebenerne meste parten komne paa flucten, oc en part sögte ud aff byen, hvor de kunde best udkomme, oc somme sögte i Kircker, somme blefve oc slagne paa Gaden, oc somme i Gaardene, thi de randsagede da alle Hus.

Tord Findgjers broder bleff slagen paa Gaden, uden for sin Dör. Torgrim aff Lianæs verjede sig lenge oc vel, oc blefve 7 aff hans Mend slagne, som vaare hos hannem, oc hand undkom sjelff, dog hand vaar ilde saar. Sigvald Jarl bleff slagen sjelf 9 i et Loft. Bergsven Lange K. Ingis Bannnermester bleff slagen paa Gaden, oc der Baglerne ginge fra hannem, toge nogne Qvinder Kongens Banere oc forvarede det. Colben Bjeringer bleff slagen sjelff ottende paa Gregorii Kirkegaard. Evind Friland bleff slagen sjelff ottende inde paa Aggeren. Halfvard Led-Faxe falt sjelf fjerde paa Gaden, oc mange flere, hver paa sit sted. Siden forsamlede sig hen ved 30 Birkebener paa Aggeren, med Sigurd Skelge, oc flere Höffdinger, de sögte ind i Byen igjen, oc sloge nogne ihjel af Baglerne, dog bleff Sigurd slagen, oc Torolff Senerfei bleff stucken med et Sverd i Ansictet neden for Stormhuen, oc hand sögte til Aaen oc svam ofver, oc bleff funden död paa den anden side.

Nogne Qvinder sagde for Baglerne, at Kong Ingi vaar i Mariæ Kircke, thi löbe de der til oc sloge Dörren op, oc dræbte dem som derinde

honum frá strenginum; svam konúngr þá yfir ána, ok sumir menn hans undan honum, en nokkurir eptir.

Baglar fóru öðru sinni ínn um bæinn, voru þá Birkibeinar at mestu komnir á flótta, en sumir leituðu or bænum, þar er bezt var undanfæri, sumir sóttu í kirkjur; voru þá ok nokkurir drepnir á strætum, en sumir í görðum, því þeir rannsökuðu þá hvert hús.

Þórðr Finngeirsbróðir fèll á strætinu fyrir garðsdyrum sínum. Þorgrímr af Ljánesi varðist lengi vel, ok voru sjö drepnir af mönnum hans, þeim er með honum voru, en sjálfr komst hann undan, ok varð mjök sárr. Sigvaldi karl var drepinn ok níu menn aðrir í lopti einu. Bergsveinn lángi, merkismaðr Inga konúngs, var felldr á strætinu, ok þá er Baglar gengu frá honum, tóku konur nokkurar merki konúngs ok hirðu. Kolbeinn berrir var drepinn í Gregoríi kirkjugarði ok sjö menn aðrir. Eyvindr feylir fèll úti á akri við átta mann. Hallvarðr hlíðarfaxi fèll á strætinu við fjórða mann, ok margir fleiri, þar er staddir voru. Síðan söfnuðust saman nær þrimtygum Birkibeina með Sigurði skjálga ok fleirum höfðíngjum; þeir sóttu aptr inn í bæinn, ok drápu nokkura af Böglum, fèll Sigurðr þó ok Örnólfr hækill, hann var lagðr sverði í andliti fyrir neðan stálhúfuna, sótti hann til árinnar, ok svam yfir, ok fanst dauðr fyr handan ána.

Konur nokkurar mæltu fyrir Böglum, at Ingi konúngr væri í Maríukirkju, hlupu þeir þá þángat, ok brutu upp dyrnar, ok drápu þá er

vaare, oc hugge en Haand af Mariæ billede, men Kongen funde de der icke. I S. Olofs Kircke var Bjelffer Skinsstack med 30 Mend, oc blefve der alle dræbt. Udi S. Anders Kircke vaar Baard Stolffe, oc bleff der dræbt sjelff fjerde. K. Ingi var kommen ofver Aaen, oc var baade mödig oc træt, oc der til kold oc frössen, thi det baade sneede oc regnede. Hand gick op i Backen, oc der falt hand, oc kunde icke gaa lenger. Da saa hand Ifver Flodekold komme der frem, oc hand bad hannem hjelpe sig. Ifver sagde: Jeg vurder nu först at hjelpe mig sjelff, oc hand gick bort. Strax der efter kom op fra Aaen Raadolff Baards broder, oc der hand kom frem der som Kongen vaar, sagde hand til hannem: Ere i her, Herre! Kongen svarede: saa kallede i mig i Gaar. Raadolff sagde: Saa est du endnu, oc saa skalt du være saa lenge vi lefve baade sammen. Oc hand tog sin Kjortel af sig oc svöbte Kongen udi, saa tog hand alle Baandene af sine Klæder, oc band Kongen paa sin ryg, oc baar hannem op til Skysaas. Der fick hand Hest oc Slæde, oc saa mange Klæder som hand behöfvede. Thi hand hafde icke uden sin Skjorte oc sine Hoser paa sig, oc hand drog med Kongen ind paa Strind.

Skule Kongens broder vognede op, der hand hörde den bulder oc gny, oc der hand saa ud af Vinduet, saa hand Baglernis Fenicke drage frem for Vinduet, oc en Qvinde sagde med höy Röst: Baglerne skulde icke saa skyndelige drage denne Gaard forbi, dersom de viste, at Kongens Broder vaar der inde. Der Baglerne vaare om-

inni voru, ok hjuggu aðra hönd af Maríu likneski, en ekki fundu þeir þar konúng. Bjálfi skinnstakkr var í Ólafskirkju við þrjá tygi manna, ok voru þeir allir drepnir. Í Andreaskirkju var Bárðr stálpi, var hann þar drepinn oc þrír aðrir. Íngi konúngr var kominn yfir ána, var hann bæði móðr ok þreyttr, ok þó kaldr ok frörinn, því bæði dreif þá ok rigndi. Hann gekk upp í árbakkann, ok fèll þar, ok mátti ei lengra komast; þá sá hann Ívar fljóðakoll koma or ánni, ok bað, at hann mundi bjarga honum. Ívar mælti: ek verð nú fyrst at hjálpa sjálfum mèr; braut gekk hann. Brátt eptir kom Reiðúlfr, bróðir Bárðar, upp úr ánni, ok at þar er konúngr var; hann mælti: eru þèr hèr, herra? Konúngr mælti: svâ nefndut þèr mik í gær. Reiðúlfr mælti: svâ ertú enn, ok svâ skaltú vera, meðan við lifum báðir; hann tók möttul sinn, ok vafði konúng í honum; þá tók hann öll bönd af klæðum sínum ok batt konúng á bak sèr, ok bar hann upp at Skúsási, fèkk hann þar hest ok sleða, ok svâ mörg klæði sem hann þurfti, því hann hafði ekki klæða, nema skyrtu ok hosur; fór hann með konúng inn á Strind.

Skúli konúngsbróðir vaknaði, er hann heyrði háreystið ok gnýinn, ok er hann leit út um glugginn, sá hann merki Bagla fara framm hjá vindauganu, ok heyrði, at kona nokkur kallaði hátt, ok sagði: eigi mundu Baglar fara svâ skjótt framm hjá garði þessum, ef þeir vissi, at bróðir konúngs væri hèr inni. Þá er Baglar voru farnir

dragne, gaff Skule sig ud paa Gaden, oc kom stundum igjennem Gaardene, oc stundum under Husene, oc kom paa det sidste til Aaen, oc fant der for sig Jon Usle med 40 Birkebenere, som hafde da faaet sig Ferjer oc Baader, oc de droge ofver Aaen, oc op til Klephus. Der funde de Kongen med 100 Mend, baade Birkebener oc Bönder, som hafde sögt til hannem, oc Kongen oc hans Broder vaare glade der de fundis. Gutorm, Kongens broder, kom under Bulvercket under et Hus, oc skjulte sig, oc der Baglerne lode aff at randsage, kom hand op i Mariæ Kircke, oc skjulte sig der ald Söndagen ofver. Om Mandagen klædde Canickerne hannem i en Canickeklædning, oc fulde hannem op ofver Broen, oc forskaffede hannem Vaaben, oc Heste oc Folck, oc lod hannem ride. Alle Birkebenerne som slagne bleffve, vaare heden ved 90 Mend.

Kong Ingi drog fra Strind oc op til Guledal, oc alt Folcket sögte til hannem som dette spurde, baade hans egne Tjenere oc Bönderne.

En Bagling jagede en Birkebener paa Gaden, oc hand sögte til Kircken. Ved Kirckehjörnet hug Baglingen hannem ihjel, oc der hand vaar falden, saa hand at det vaar hans egen Broder; thi kastede hand Sværdet fra sig, oc gremmede sig ynckeligen.

Om Söndagen der det vaar ljust, skiffte Baglerne byen i fire Parter, oc sette en Höfding til at randsage hver Part. Da blefve mange Kongens Mend fundne oc dræbte, oc megit Gods oc Pendinge röfvit: om Mandagen ginge de til skibs,

umframm, fór Skúli út á strætið, fór hann stundum gegnum garðana, en annat skeið undir húsin, ok komst at lyktum til árinnar, hitti hann þar fyrir Jón usla ok með honum fjóra týgi Birkibeina, höfðu þeir fengit sèr ferjur ok báta, ok fóru yfir ána upp til Kleppabúss; þar fundu þeir konúng við hundrað manna, voru þat Birkibeinar ok bændr, er sótt höfðu til hans. Þeir konúngr ok Skúli urðu fegnir mjök, er þeir fundust. Guttormr konúngsbróðir fór niðr fyrir hússhlað nokkurt, ok falsk þar; en þá er Baglar lèttu rannsókninni, komst hann upp í Maríukirkju, ok duldist þar allan drottinsdaginn. Mánudaginn fengu kórsbræðr honum kanúka búnað, ok fylgðu honum upp um brú, fengu þeir honum vâpn ok hest ok menn til fylgðar, ok lètu hann braut ríða. Náliga níu tygir manna voru alls drepnir af Birkibeinum.

Íngi konúngr fór af Strind ok upp í Gaulardal, ok sótti allt fólk til hans, er þetta spurði, bæði hans menn ok bændr.

Beglíngr einn elti á strætinu Birkibein nokkurn, leitaði sá til kirkju; en við kirkjuhornit hjó Beglíngr hann banahögg, ok er hann var fallinn, sá hann, at þar var bróðir hans, kastaði hann þá frá sèr sverðinu, ok undi við hið versta.

Drottinsdaginn, þá er ljóst var, skiptu Baglar í fjóra staði bænum, ok skyldi sinn höfðíngi hafa hvern luta til rannsóknar; voru þá margir konúngsmenn funnir ok drepnir, ok rænt miklu fè ok peníngum. Mánudaginn gengu þeir til skipa;

oc toge Kong Ingis beste skib. Erling tog Guldbringen, oc Philippus Jarl tog Gesteskelfven, Arnbjörn tog Daareboden, oc Reider tog Lyrtynden, Philippus tog Ogenbranden, oc Gudolff paa Blackested tog oc et stort skib, men de andre Kongens skib oc Jacter brende de op.

Om Onsdagen lode de alt deris roff oc byte udbære, ned til Gildeskaalene, oc om Fredagen oc Löfverdagen bleff det skift. Der vaar iblant andet roff 300 Ringebrynier oc Bryniehoser efter gammel skick. Baglerne vaare hen ved 1600 Mend, oc hver aff dennem fick stort byte. K. Ingi forsamlede siden heden ved 1600 Mend i Gauledal, oc hand drog ned imod byen. Oc der hand kom paa Ilevold om Löfverdagen ad Aften, da vaare Baglerne end i Byen; oc der kom megit Folck til Kongen aff Orkedal. Om Mandagen drog hand til byen med 2000 Mend. Thi sögte Baglerne strax til skibs, oc lagde ud under Holmen, oc laae der om Natten, oc droge siden Öster i Landet igjen.

Der Hagen Jarl spurde, at Baglerne vaare nord dragne, gjorde hand sig ferdig at drage nord efter dennem med et stort Skib, oc nogne smaa Skib oc Jacter, oc det store Skib bröd for hannem for Stad. Der hand kom nord til Langösund, saa hand Baglernis Flaade komme norden til, thi lagde hand uden omkring dennem, oc Vinden bleff Vesten, saa at hand sejlede dennem forbi, oc kom til Trondheim. Kong Ingi, hans broder, glædde sig ved hans Komme. Baglerne droge til Bergen, da vaare paa Slottet Sverting

þeir tóku hin beztu skip, er Íngi konúngr átti. Erlíngr tók Gullbrínguna, ok Filippus jarl Gestaskálpinn, Arnbjörn Darrheltuna, Reiðar Lýrtuna, ok Filippus Ógnarbrandinn; Guðólfr á Blakkastöðum tók ok skip mikit; en önnur skip konúngs ok skútur brendu þeir.

Óðinsdaginn lètu þeir útbera allt herfáng sitt ofan til gildaskála, ok á frjádaginn ok laugardaginn var því skipt. Þar voru með öðru hlutskipti þrjú hundruð ríngabrynjur ok brynhosur eptir fornum hætti. Baglar voru nær sextán hundruð manna, ok hlotnaðist hverjum þeirra mikit fè. Eptir þat samnaði Íngi konúngr nær sextán hundruðum manna í Gaulardal, ok fór ofan gagnvart bænum, ok er hann kom á Iluvöllu laugaraptaninn, voru Baglar enn í bænum; kom þar þá mart lið til konúngs af Orkadal. Mánadaginn hèlt hann til bæjarins með tuttugu hundruð manna. Sóttu Baglar þá þegar til skipa, ok lögðu út til Hólms, ok lágu þar um nóttina, ok hèldu síðan aptr austr í land.

Þá er Hákon jarl spurði, at Baglar voru norðr farnir, bjóst hann at halda norðr eptir þeim; hann hafði eitt skip mikit, ok nokkur smáskip ok skútur; ok er hann kom fyrir Staði, braut hið mikla skipit. Þá er hann kom norðr at Lángeyjarsundi, sá hann her Bagla, er norðan fór, lagði hann þá á útborða þeim; vindr var vestrænn, sigldi hann þá framm um þá, ok hèlt til Þrándheims, fagnaði Íngi konúngr mjök komu hans. Baglar hèldu til Björgynjar. Þeir voru þá í kastalanum Svertíngr, Þórðr brasi,

oc Thore Brose, Ifver Guse, oc Ifver Maxon. Baglerne laae i Byen, oc Orm Lafve kom Östen til med Margrete Kongens dotter, Philippi hustru aff Vegne; oc strax der efter falt det hannem til at holde vact med Benedict aff Gumenæs oc deris Folck; oc der de paa Slottet saae deris Leilighed, falt de ud til dennem, oc drefve dennem tilbage, der falt Orm Lafve. Baglerne sögte ofte op til Slottet om Aftenen naar de vaare druckne, oc en part af dennem blefve slagne, oc en part saargjorde.

Hagen Jarl gjorde sig ferdig at drage til Bergen, oc Kongen skulde blifve igjen i Trondheim, da blefve der mange store Skib reiste: Hagen Jarl seilede sönder med 5 lang Skib oc 17 Skuder; oc der hand kom sönden for Stad udi Hindö, lod hand ald Bondehæren drage tilbage igjen med de store Skib, oc hand tog Kongens Folck oc sine egne Mend med sig, oc drog sönder ved Landet. Der hand kom i Kileström, laa der to aff Baglernis Jacter paa Speideri, paa hvilcke vaare Maarten Sodde oc Kolben Smör. Kolben roede paa et skjær oc bleff optagen, oc meste parten ihjelslaget aff hans Folck: De andre förde tidende til Byen om Aftenen. Jarlen roede ind i Jærnfjord, oc lagde sine Jacter der op, oc lod nogne faa Mend blifve der igjen, som dennem skulde tage vare, oc lod bære alt Redskabet oc andet saadant paa Landet, oc skjulte det. Siden drog hand med sit Folck sönden om Fjeldet, oc komme den anden Nat til Slottet med 600 Mend. K. Erling oc Grefve Philippus hafde skicket deris

Ivar gusi ok Eiríkr maxi. Baglar höfðust við í bænum, kom þá Ormr lángi austan með Margrètu konúngsdóttur, er átti Filippus af Vegini; honum hlauzt til litlu síðar með Benedikt af Gumanesi, at þeir skyldu vörð halda ok sveit þeirra. Ok er kastalamenn sá færi sitt, hlupu þeir út á hendr þeim, ok hrukku hinir undan; þar fèll Ormr hinn lángi. Baglar sóttu optliga á kvöldum upp til kastala, er þeir voru druknir, ok fèllu sumir af þeim, en sumir urðu sárir.

Hákon jarl bjóst at fara til Björgynjar, en konúngr skyldi eptir vera í Þrándheimi; þá voru þar reist mörg stórskip. Hákon jarl sigldi suðr með fimm lángskipum ok seytján skútum, ok er hann kom í Hindeyjar fyrir sunnan Staði, lèt hann aptr fara allan bóndaherinn með stórskipunum, en hafði með sèr lið konúngs ok sína menn, ok fór suðr með landi. Ok er hann kom í Keilustraum, lágu þar tvær njósnarskútur Bagla, voru þar á Marteinn soddi ok Kolbeinn smjörreðr. Kolbeinn rèri á sker eitt, ok var hann þar tekinn, ok drepit flest lið hans, en hinir báru njósn um kveldit til bæjarins. Jarl rèri inn í Arnarfjörð, ok setti skútur sínar þar upp, lèt hann þar fá menn eptir at geyma þeirra, en reiða allan ok önnur föng lèt hann á land bera, ok faldi; fór hann síðan suðr um fjall með lið sitt, ok kom aðra nótt til kastalans með sex hundruð manna. Erlíngr konúngr ok Filippus jarl höfðu skipat liði sínu mót jarli, þar er

Folck i Orden paa beleilige steder imod hannem, heden ved 3000 Mend. Anden dagen talede de til hin anden. Baglerne sagde til Birkebenerne paa Slottet: Er nu eders bidske Hund kommen til eder. Da svarede de: Vor Jarl er kommen, tager eder nu vel vare, i Baglere. Baglerne sagde: Kand skee at eder fattis Fittalie paa Slottet. Kommer her ud til os, i Birkebenere, thi her er Kost nock i Byen. Birkebenerne sagde. Vi ville saa gjöre, thi vi acte vist at æde vor Dauvre med eder i Byen idag. Der Fropredicken var ude, da udfalt Hagen Jarl aff Slottet, med alt sit Folck, oc Peter Steiper med hannem, oc sögte Birkebenerne saa duelige fram, at Baglerne maatte vige, oc søgte de langs ned igjennem byen, at de kunde komme til Skibene, oc blefve mange slagne aff dennem. Der K. Erling vigede ned omkring Mariæ Kircke, talede hand til sin Trommeter oc bad hannem blæse.

Baglerne hafde i Slagit i Nidros tagit K. Sverris Trommete, som kaldtis Andvoge, oc blæste der udi: der Torfind Svidebrand Trometere, som tog vare paa samme Trommete, oc hafde den at bruge, det hörde, sögte hand i Christkircke, oc fick siden Fred aff Baglerne, oc drog med dem, oc bleff Erlings Trometer. Nu der hand skulde blæse, lod hand som hand ingen ljud kunde faa i Trommeten, thi flygtede alt Baglernis Hær, oc der de komme jefne ved Mariæ Kircke dör, da löb Torfind, oc de andre Birkebener, som vaare blant Baglerne, ind i Kircken, oc der Hagen Jarl kom fram med sit Folck, gafve de sig ud til

vænst þótti, ok höfðu þeir nær þrjátíu hundrud manna. Annan daginn áttu þeir tal saman; mæltu Baglar til Birkibeina, er í kastalanum voru: er nú hinn grimmi hundr yðarr kominn? Birkibeinar svöruðu: kominn er jarl vârr, ok gætið yðar vel, Baglar! Baglar mæltu: vera má, at yðr sè vistfátt í kastalanum; gângit því út til vâr, Birkibeinar, því ærnar vistir eru hèr í bænum. Birkibeinar mæltu: svâ munum vèr gjöra; ok þât hyggjum vèr at hafa dagverð með yðr í bænum í dag. Þá er formessa var súngin, gerði Hákon jarl úthlaup úr kastalanum með öllu liði sínu, ok Pètr steypir með honum; sóttu Birkibeinar svâ hart framm, at Baglar urðu undan at láta, stefndu þeir þá ofan eptir bænum, ok sóttu til skipanna, ok fèllu þá margir menn af þeim. Þá er Erlíngr konúngr hrökk ofan um Maríukirkju, mælti hann til luðrsveins síns, ok bað hann blása.

Baglar höfðu í slaginu í Niðarósi tekit lúðr Sverris konúngs, er andvaka var nefndr, ok blèsu í. Þá er þat heyrði Þorfinnr sviðbrandr, er gæta skyldi lúðrsins, hljóp hann í Kristskirkju, ok fèkk síðan grið af Böglum, ok fór með þeim, gjörðist hann þá lúðrsveinn Erlíngs. En er hann skyldi nú blása, lèt hann sem hann fengi ekki hljóð or lúðrinum; flýði því allr herr Bagla. Ok er þeir komu gegnt dyrum á Maríukirkju, ljóp Þorfinnr ok aðrir Birkibeinar, er með Böglum voru, inn í kirkjuna; ok er Hákon jarl kom þar at með sínu liði, sneru þeir út aptr, ok

hannem igjen, oc da blæste Torfind i sin Trommete, som hand vilde, oc var vaan at gjöre. Da blefve mange slagne aff Baglerne: Torger Docke falt paa Laurentii Kirckegaard, oc Benedict aff Gummanæs oc Guni Lave. Baglerne flydde ned ved Möglegaard, oc der de komme til Gaards ledit, vaar der trang, at de kunde ikke alle tillige komme igjennem, da falt de, den ene paa den anden, saa at der laa en stor hob. Grefve Philippus kom löbendis, oc sprang ofven paa hoben, oc kom saa paa Tagit, oc ned paa den anden side, oc kom paa bryggen, oc hafde 11 store saar. Birkebenerne begynte at hugge ihjel aff dem som laae faldne: da raabte der en iblant dem, oc sagde: Hugger icke, thi her er Birkebener iblant, oc der med lode de aff att hugge. Baglerne komme da en part paa skibene, oc somme maatte springe i Vandet oc svömme ud, oc de andre toge dennem ind. Birkebenerne stode paa Bryggen, oc de toge fat paa Baglernis Landtouff, oc de kortede Skibene til sig, da bleff der brugit paa begge sider alt det som for Vaaben brugis kunde, oc Baglerne hugge deris Landtouff, oc gjorde sig löse, saa som de maatte oc drage nord, oc lagde ind i Jærnefjord, oc toge der de Jacter, som Hagen Jarl hafde der oplagt, oc opsögte redskabit som skjult vaar, oc de seilede nord ved Landet. Oc der de komme nord til Kindsö, funde de der de store Skib, som Hagen Jarl vaar fradragen, oc laa de der oc biede efter Bör; thi vilde de icke roe, endog Hagen Jarl hafde befalit dennem at drage nat oc dag, indtil de komme til

gengu í lið með honum; blès þá þorfinnr í lúðr sinn, sem hann vildi ok var vanr at gjöra: fèllu þá margir af Böglum. þórðr dokka fèll á Laurentíí kirkjugarði, Benedikt af Gumanesi ok Gunni hinn lángi. Baglar flyðu ofan með Miklagarði; ok er þeir komu at garðshliðinu, var þar þraungt mjök, ok var ei öllum rúm framm at komast, fèllu þeir þá hverr um þveran annan, svâ at þar var valköstr mikill. þar kom at hlaupandi Filippus jarl, stökk hann upp á köstinn, ok komst svâ á þakit, ok ofan niðr annars vegar, ok þaðan á bryggjur; hafði hann ellifu sár ok öll stór. Birkibeinar tóku þá at höggva þá er fallnir lágu, ok drepa; þá kallaði einn þeirra, ok mælti: höggvit eigi, því hèr eru ok Birkibeinar á meðal; lèttu þeir þá af at höggva. Baglar komust nokkrir á skipin, en sumir ljópu â kaf, ok syntu út til þeirra, en aðrir tóku í móti þeim. Birkibeinar stóðu á bryggjunum, gripu þeir landfestar Bagla, ok drógu at sèr skipin, börðust þá hvârirtveggju með öllu því er til vâpna var. Baglar hjuggu landfestar sínar, ok leystust sem þeir máttu; stefndu þeir norðr ok hèldu inn á Arnarfjörð, tóku þar skútur þær, er Hákon jarl hafði upp sett, ok leituðu upp búnaðinn, þann er falinn var, ok sigldu norðr með landi. Ok er þeir komu norðr til Hindeyja, fundu þeir þar stórskipin, er Hákon jarl hafði eptir skilit; lágu þau þar, ok biðu byrjar: því þeir vildu eigi róa, hafði þó Hákon jarl mælt svâ fyrir, at þeir skyldu fara dagfari ok náttfari, ok lètta eigi fyrr en þeir kæmi til

Trondheim igjen. Baglerne toge Skibene, oc sloge Hövitzmanden ihjel, oc de andre Folck römde paa Landet, oc en part blefve slagne. Siden droge Baglerne sönder igjen, oc funde Erling (i) Vikingevaag.

Hagen Jarl drog aff Bergen strax efter at Baglerne vaare hendragne. Thi hand fryctede, at de skulde komme uforvarendis paa Kongen, oc forraske hannem, thi drog hand öster ofver Borgerskard, oc ned i Österfjord, siden ofver Trollefjeldet, oc ned i Lerdal i Sogn, oc derfra op i Valders. Siden Öster i Gudbrandsdalen, oc saa nord ofver Dofrefjeldt, oc fant Kongen i Trondheim.

Erkebisp Erick vaar kommen i Norrig igjen, oc vaar hand blind, som för er sagt, oc der hand hafde værit paa tredie Aar paa sin Erckebiskops stol i Trondheim, gaff hand den velvillig op, oc kallede i sit Sted igjen Tore Gudmund Fladis sön Chorsbroder i Halvards Kircke i Oslo, oc drog hand til Rom oc bleff viet, oc kom igjen den anden Sommer der efter. Hand vaar en viis Mand, oc vennesalig, oc hafde stor myndighed oc anseelse i Norrig.

Kong Ingi oc Hagen Jarl oc Peter Steiper blefve i Trondheim om Vinteren, oc Kongen lod bygge et skib 36 rum stort, oc Peter Steiper et som vaar 32 rum stort, med mange flere skibe, som da blefve bygte. Baglerne droge til Bergen igjen, der de hafde tagit Kongens Skib i Mollefjörd, oc de skifte deris Folck, oc Philippus Jarl drog Öster i Vigen med alle store Skibe, oc Erling bleff igjen i Bergen med de smaa

þrándheims. Baglar tóku skipin, ok drápu þá er fyrir rèðu, en aðrir hlupu á land upp; sumir voru ok drepnir. Fóru Baglar síðan suðr aptr, ok fundu Erlíng í Víkíngavâgi.

Hákon jarl fór or Björgyn, þegar eptir er Baglar voru í brottu, því hann ugði, at þeir mundi konúngi á óvart koma, ok láta honum nær stýrt verða; fór hann því austr um Borgarskarð, ok ofan í Ostrarfjörð, þaðan yfir Tröllafjall, ok ofan í Læradal í Sogni, ok svâ upp á Valdres; þaðan fór hann austr í Guðbrandsdali, ok svâ norðr um Dofrafjall, ok fann konúng í þrándheimi.

Eiríkr erkibiskup var aptr kominn í Noreg; hann var blindr, sem áðr er sagt, ok er hann hafði nærr þrjá vetr setið at erkistóli í þrándheimi, veik hann frá sjálfráði, ok kaus aptr í sinn stað þóri son Gudmundar flaða, er þá var kórsbróðir at Hallvarðskirkju í Oslo; fór hann til Róms, ok tók vígslu, ok kom aptr annat sumarit eptir; hann var vitr maðr ok vinsæll, ok hafði mikla virðíng ok álit í Noregi.

Íngi konúngr ok Hákon jarl ok Pètr steypir sátu allir í þrándheimi um vetrinn. Konúngr lèt byggja skip þat, er var þrjátygi ok sex rúm, ok Pètr steypir annat er var þrjátygi ok tvö rúm; mörg fleiri skip voru þá bygð. Baglar fóru aptr til Björgynjar, þá er þeir höfðu tekit skip konúngs í Moldafirði; skiptu þeir þá liði sínu, hèlt Filippus jarl í Vík austr með stórskip öll, en Erlíngr var eptir í Björgyn med smáskip ok

Skibe oc Jacter, oc hand drog alt nord til Nordmör oc optog Leding oc Landskyld, ok ald Kongens rettighed, langst Lande, indtil hand kom til Sundhordland. Der lod hand nogne sine Tjenere blifve igjen, oc hand drog Öster til Tonsberg, nogit for Jul. Erling bleff i Tonsberg, men Philippus Jarl drog strax nord med nogne smaa Skib oc Skuder, oc hand kom til Bergen, oc töfvede der nogen stund. Baglerne spurde, at Birkebenerne lode bygge mange store skibe; thi lode de oc reise 3 store Skibe for Tonsberg, Erling Steenveg et, Reider Sendemand et, oc Philippus af Vegene et: de vaare större end nogen skib hafde værit för bygt i Norrig; thi de vaare dobbelt saa höie, oc imellem Österrummene vaare 24 Aarer, oc ofven paa vaare 48 Aarer, 20 Alne lange; Tjeldingen vaar 35 Alne lang, oc skulde 8 Mend være udi hvert halfve rum, oc skulde det være en aff de höyeste Mend som kunde staa paa Bonken, oc recke op til Seilebjelcken med sin Bredöxe.

Nogen stund efter Jul bleff Erling Stenveg kranck, oc döde den samme Uge: oc de lönde hans död i 7 dage i hans Sengekammers, oc siden baare de Liget i S. Olafs Kircke at forvare, oc de sende Olaff Toresön med et skib til Bergen, at före Grefven tidende, oc lode sig höre for Almuen, at Dane Kongen vilde tale med Grefven. Hand drog strax Öster, oc kom til Tonsberg i Faste, da obenbarede de Kongens Affgang, oc lode hannem hæderligen begrafve i Olafs Kircke i Chorit, norden for Altarit, oc Grefve Philippus

Ingi oc Bisp Niclaus, at Biskopen drog til Kongen oc Hagen Jarl, oc haffde de met sig de beste Mend aff Oslo. Hand bar sit ærinde op for Kongen oc Grefven, oc sagde: Kong Philippus vor Frende lader eder tilbjude, at hand vil opgifve oc affstaa all ueenighed mod eder, oc vil forbinde sig mod eder formedelst Svogerskab, om i ville gifve hannem Christin Kongens Dotter til hustru, da blifver hand eder oc Riget til bistand ihvor I hannem behöfver. Kongen oc Hagen Jarl svarede icke megit der til, uden sagde, at Bispen behöfvede icke at tale om anden Forligelse, end at Kong Ingi blifver ene Konge ofver Riget. Biskopen gaff sig icke ofver, men talede om denne handel saa viislige oc vel oc met gode Ord for Kongen, at det kom saa langt at Birkebenerne samtyckte, at Philippus maatte faa Kongens Daatter, om hun det sjelff vilde samtycke, oc saadan part aff Landet som Erick Jarl K. Sverris broder hafde haft, eller Philippus Jarl Byrie Brosis Sön, met saadan Naffn, som Kongen vilde unde hannem, oc sjuntis Birkebenerne at Biscopen tog oc forstod altingest ydermeere oc videre, end som de hannem bevilgede oc samtyckte.

Biscopen talede denne handel for Jomfru Christin Kongens Daatter, paa sin Frendis K. Philippi vegne. Jomfruen lod saare lidet der om oc sagde: Endog jeg sjunis være byrdig til at gifvis en Konge, som Land oc Riger hafver fore at staa, dog troer jeg icke at Birkebenerne under hannem dis störe Rige, eller ære oc mact, om hand end faar mig til Hustru. Bispen sva-

milli þeirra Ínga konúngs ok Nikoláss biskups. Fór þá biskup til fundar við Ínga konúng ok Hákon jarl, ok hafði með sèr hina beztu menn úr Óslo. Hann bar upp erindi sín fyrir konúngi ok jarli, ok mælti: Filippus konúngr, frændi vârr, lætr bjóða yðr þau boð, at hann vill uppgefa ok niðrleggja allan fjandskap við yðr; vill hann binda við yðr vináttu með mágsemd, ef þèr vilit gipta honum Kristínu konúngsdóttur, vill hann þá vera til stoðar yðr ok ríkinu, hvâr sem þèr kunnut hans at þurfa. Konúngr ok jarl lètu sèr fátt um finnast, en sögðu, at biskup þyrfti ei at nefna aðra sætt, en at Ingi væri einn konúngr yfir ríki. Biskup lèt ei fyrirvinnast, heldr talaði um mál þetta fyrir konúngi svâ vel ok viturliga með góðum orðum, at þar kom, at Birkibeinar gáfu samþykki til, at Filippus fengi konúngsdóttur, ef hún vildi því sjálf játa, ok slíkan hluta lands, sem haft hafði Eiríkr jarl, bróðir Sverris konúngs, eða Filippus jarl, sonr Birgis brosu, með þeirri nafnbót, er konúngr vildi unna honum; ok þótti Birkibeinum biskup taka ok skilja allt framar, en þeir játtu ok samþyktu.

Biskup talaði þetta mál fyrir júngfrú Kristínu konúngsdóttur, fyrir hönd frænda síns, Filippí konúngs. Hún var fáorð um, ok mælti: þó at ek þykkjumst hafa burði til þess, at vera gipt þeim konúngi, er lönd hefir til forráða ok ríki, þá þykjumst ek þó vita, at Birkibeinar munu ekki at heldr unna honum meira vegs eða ríkis, þótt hann fái mín. Biskup mælti: vel

rede: I kunde vel fornemme at eders Frender hafver liden omsorg eller vilie til at forfremme eder til nogit höyt Gifftermaal, thi hverken giffve de eder Kongen aff Danmarck eller Sverrig, men de gifve eder enten saa langt uden Lands, at eders Affkomme icke nogen tid kommer her til Riget, eller oc de gifve eder en Bondesön inden Lands. Om endog eder tyckis at Philippus icke er kommen aff Kongelig Slect, saa at hand bör met rette at være Konge, saa hafver hand dog gjort Birkebenerne fyldist nock, siden hand bleff Konge, oc veed jeg tilvisse, at hand aldrig affstaar sit Rige eller gjör Forligelse met Birkebenerne, uden det skeer for eders skyld. Jomfruen svarede: Jeg vil icke hafve den Mand som er ringere end min Fader eller ModerFader var, thi jeg hör, at Philippus skal aflegge sit Kongenafn, om hand skal blifve forligt met Birkebenerne. Bispen sagde: kjere Jomfru skjötter intet derom hvad de sige, vi ville altingist vel saa lempe, at Philippus skal icke ofvergifve sit Kongenafn, thi vi ville saa megit dis heller kalde hannem Konge, om hand faar saadan en Drotning. Her met endis deris Tale. Der Bispen kom til K. Ingi oc Hagen Jarl, holt hand det udult hvad Kongens Daatter hafde svarit hannem. Erckebispen gjorde oc sin fliid til at forligelsen kunde gaa for sig, oc bleff den Sag paa det sidste handlet paa Tinge, oc Bisp Niclaus talede Ordene. Men Birkebenerne falt hannem hadskelige i hans Tale, oc bad den Niding tie, oc sagde at hannem stod nu icke meere til troende, end tilforn, endog hand talede södelig. Biscopen svarede: Lader icke saa ilde, Niclaus kand altid saa lempe oc lafve sin Tale,

megu þèr þat skilja, at frændr yðrir muni lítinn hug eðr vilja hafa, at halda yðr til þess gjaforðs, er nokkur vegr sè at; munu þeir hvârki gipta yðr Danakonúngi eðr Svía, heldr munu þeir annathvârt gipta yðr svâ lángt úr landi, at yðar afkvæmi kemr aldrei híngat til ríkis, eðr gefa yðr einhverjum bóndasyni innlenzkum; ok þó at yðr þyki Filippus ekki af konúnga ætt kominn, þá hefir hann þó fengit Birkibeinum ærit at vinna, síðan hann varð konúngr; ok þat veit ek at vísu, at aldri uppgefr hann ríki sitt, eða gjörir sætt við Birkibeina, nema þat verði fyrir yðrar sakir. Júngfrúin svaraði: ekki vil ek þann at manni hafa, er ótignari er, en var faðir minn eða móðurbróðir; því heyrt hef ek, at Filippus egi at leggja konúngsnafnit, ef hann skal ná at sættast við Birkibeina. Biskup mælti: hirðit eigi um, kæra júngfrú, hvat þeir segja; allvel munum vèr fá því svâ komit, at Filippus skal eigi niðrleggja konúngsnafnit; munum vèr því heldr kalla hann konúng, sem hann fær slíkt gjaforð; lauk svâ tali þeirra. Þá er biskup fann Inga konúng ok Hákon jarl, lèt hann uppi, hverju konúngsdóttir hafði svarat honum. Erkibiskup gekk ok fast at, at sættin tækist; ok at lokum var þetta mál rædt á þíngi, ok hermdi Nikolás biskup, hver orð áðr höfðu þar um farit. Birkibeinar töluðu haturliga framm í, báðu níðinginn þegja, sögðu, at honum var nú ekki betr trúanda, en fyrr, þó hann talaði fagrt. Biskup svaraði: verðit eigi svâ illa við; Nikolás fær jafnan sínu máli svâ hagat, at allir vitrir menn munu góðan

at alle forstandige Mænd skulde behage den. Dersom jeg hafver tilforn samtyckt oc forfremmit Baglernis Folck, da skal jeg nu dis mere vind paalegge til Fred oc Forligelse, at her kand blifve god Rolighed i Landet, oc hand talede lenge oc viiselige der om, oc paa det sidste bleff det samtyckt oc besluttet, at Kongerne skulde findis udi Hvidingsö. Der efter drog Bisp Niclaus Öster igjen, oc gaff K. Philippus dette tilkjende. Hand gjorde sig ferdig at drage til det Möde eller Forligelse steffne met saa mange oc saa store Skib, som samtyckt oc berammet vaar, oc hves Skuder oc Jacter hand mere hafde, lagde hand igjen paa Agdesiden her oc der.

Birkebenerne komme sterckere til det Mode end som talit var, oc hver dag komme dennem mere Folck til. K. Ingi oc Hagen Jarl laa i Hvidingsö, oc K. Philippus laa uden ved Nödöen, oc deris gode Mend droge dennem imellem. Paa det sidste talede Kongerne sjelfve sammen, oc vaare da Birkebenerne megit flere end Baglerne. Oc der Kong Ingi sette sig ned, sad Erckebispen oc Bisp Niclaus tvert ofver fra hannem. Kong Philippus gick til Bencken, oc vilde sette sig hos Kong Ingi, men Hagen Jarl skjöd hannem fra oc sette sig imellem dem. Siden talede Erckebispen paa K. Ingis Vegne, oc Bisp Niclaus paa K. Philippi Vegne, om den Forligelse, som dennem var talit imellem, oc vilde hver gjerne nogit vige paa sin side. Efter lang samtale gaffve Birkebenerne den beskeden fra sig, at Philippus skulde hafve Opland at regere, oc der til Vigen, fra

róm at gefa. Í þann stað sem áðr hefi ek samþykt ok eflt flokk Bagla, skal ek nú því meiri hug á leggja, at friðr ok sættir megi takast, ok at góðar kyrðir megi verða hèr í landi. Hann talaði lengi ok vitrliga um þetta erendi; ok at lyktum var samþykt ok ályktað, at konúngarnir skyldu finnast í Hvítíngsey. Eptir þat fór Nikolás biskup austr aptr, ok sagði Filippus konúngi, hvar þá var komit; bjóst hann til sáttarstefnunnar með svâ mörgum ok stórum skipum, sem játað ok ákveðit hafði verit; en þær skútur ok smáskip, er hann hafði um þat fram, lèt hann eptir á Ögðum í ýmsum stöðum.

Birkibeinar komu fjölmennari til mótsins, en mælt var, ok á hverjum degi safnaðist fleira lið at þeim. Íngi konúngr ok Hákon jarl lágu í Hvítíngsey, en Filippus konúngr lá út við Nautey; gengu hinir beztu menn þeirra í milli, ok at síðustu töluðust sjálfir konúngar við, ok vǫru þá Birkibeinar miklu fleiri, en Baglar; ok þá er Íngi konúngr settist *niðr*, sátu þeir erkibiskup ok Nikolás biskup þvert yfir frá honum. Filippus konúngr gekk at pallinum, ok vildi setjast niðr hjá Ínga konúngi, en Hákon jarl skaut honum frá, ok settist niðr millum þeirra. Síðan talaði erkibiskup af hálfu Ínga konúngs, ok Nikolás biskup af hendi Filippus konúngs, um sætt þá, er áðr hafði rædd verit, ok vildi hvârr gjarna framm draga sinn lut nâkkvat. En er þeir höfðu leingi við ræðzt, gáfu Birkibeinar þann orskurð, at Filippus skyldi hafa Upplönd til forráða, ok

Svinsund oc Vester til Aaen Sire, eller Ryjarbödt, udi Metgift met Jomfru Christin Sverrisdotter, men hand skulde aflegge sit Kongenafn, oc antvorde fra sig sit Secret, som Kongens Nafn stod udi, oc hafve saadan Titel oc Nafn, som Kong Ingi vilde unde oc gifve hannem; der til skulde hand svere Kong Ingi lydighed, at fölge hannem uden Lands oc inden, met sin gandske mact til at verje Landet, om det behöfvedis. Kong Philippus sag at Birkebenerne hafde en stor Hær, oc det vilde icke hjelpe hannem at tale dennem imod, saa som hand da vaar sted, thi sagde hand: jeg vil nedlegge Ufred oc Urolighed, som nu længe hafver værit, oc tage de Vilkor, som jeg för hafver samtyckt, met den Part aff Riget, som mig undis, men hvad Naffn jeg hafver, da er jeg saadan som jeg vil blifve, oc maa K. Ingi vel hafve det at raade. Men mit Secret er icke her, men i Oslo hos min Canzler, der kunde I lade det hente. Da sagde K. Ingi: dette er det förste Naffn oc Titel at du skalt hede Philippus. Det bleff oc begrében i deris Forligelse, at hves skade som deris Undersaatter hafde faaet paa begge Sider, paa Folck eller Gods, skulde ingen kræfve Bod, Vederlag eller opretning fore. Denne Forligelse bleff statfest met deris Eed. Först svore K. Ingi oc Grefve Hagen. Derefter framginge 12 Höfdinger oc Befalingsmend af hver part, oc svore at de skulde tryggeligen holde den Forligelse. Gunner Grynbag Laugmand læste dennem Eeden fore, der met bleff Moden oc Tinget endet, oc Baglerne ginge til skibs igjen. Arnbjörn Jonssön

þar með Víkina, frá Svínasundi ok vestr til árinnar Sýru eðr Rygjarbits, skyldi þat vera heimanfylgja júngfrúr Kristínar Sverrisdóttur; en konúngsnafn skyldi hann niðr leggja, ok selja af hendi insigli sitt, þat er konúngsnafn stóð á, ok hafa þvílíka nafnbót, sem Íngi konúngr vildi unna honum; þar með skyldi hann sverja hollustu Ínga konúngi, at fylgja honum utan lands ok innan með öllum afla sínum, til at verja landit, ef þyrfti. Filippus konúngr sá, at Birkibeinar höfðu her mikinn, ok at honum mundi eigi tjá at mæla í móti, svâ sem hann var þá staddr; ok fyrir þá sök mælti hann: ek vil niðr leggja úfrið ok styrjöld, þá er nú hefir lengi verit, ok taka þann kost, er áðr hefir ek á sáttr vorðit, með þeim hluta ríkis, er mèr veitist; en um nafnbót ferr sem auðit verðr, em ek sá, er ek mun verða, ok má Íngi konúngr vel ráða því. En innsigli mitt er ei hèr, heldr í Oslo hjá kanselera mínum, ok megut þèr láta sækja þat þángat. Þá mælti Íngi konúngr: þat er þín hin fyrsta nafnbót, at þú skalt heita Filippus. Þat var ok skilit í sætt þeirra, at hverngi skaða er undirmenn þeirra höfðu fengit hvârratveggju, þá skyldi þar einginn bætr fyrir heimta. Var sú sætt eiðum bundin, sóru þeir fyrst Íngi konúngr ok Hákon jarl; síðan gengu fram tólf höfðíngjar ok lendir menn af hvârra hendi, ok sóru, at þeir skyldu halda sættina af fullum trúnaði. Gunnar grjónbakr lögmaðr stafaði þeim eiðinn; var þá slitið þínginu, ok gengu Baglar aptr til skipa sinna. Arnbjörn Jónsson gekk á aðra hönd Filippusi,

gick jefnsidis hos Philippus, oc hand pleiede at lede hannem, Philippus racte hannem sin Haand, men Arnbjörn sagde, men led Dig nu sjelf. Anden dagen trolofvede Philippus Jomfru Christin Kongens Daatter.

Der bleff et stort bulder baade blant Birkebenerne oc Baglerne, fordi der vaar mange ypperlige Mænd, som hafde mist alt deris Gods oc Pendinge i den Feide. Da bleff det Raad paafundet, at om Sommeren der efter skulde de drage Vester til Synder-Öer i Röfverii oc forhverfve sig Gods oc Pendinge igjen, oc de lafvede Skibe til paa begge Sider. Peter Steiper oc Reider Sendemand, som hafde Margreta K. Magni Erlingsöns Daatter, lagde Stalbrodrelag, at de vilde seile ud til Jerusalem den nestkommendis Sommer, oc her met skildis de at.

K. Ingi sende Dagfind Bonde öster til Tonsberg met 5 Jacter vel bemandede, met Breff oc Budskab, at hand skulde hente Philippi Kongelige Secret. Hand gaf Philippus sit ærinde tilkjende. Philippus svarede, at hand icke vilde faa sit Secret fra sig, förend hans Raad oc beste Mænd vaare til stede, oc bad Dagfind töfve der saa lenge. Nogle Dage der efter lod hand holde Hougating, der gaf hand sine Mænd, oc Borgerne oc Bönderne tilkjende, hvad Forligelse hand hafde gjort met K. Ingi, oc at hand hafde lofvit at skulde aflegge sit Kongenafn, oc antvorde sit K. Secret fra sig, oc at Kongens Sendebud vare der, som det skulde annamme, hvilcket hand sagde sig aldrig skulde haffve samtyckt, der som Birke-

ok var hann vanr at leiða hann. Filippus rètti honum höndina. Arnbjörn mælti: leið þú þik sjálfr. Annan dag eptir fastnaði Filippus júngfrú Kristínar konúngsdóttur.

Hvârirtveggju, Birkibeinar ok Baglar, gerðu kurr mikinn of þat, er margir ágætir menn höfðu mist allra eigna sinna ok penínga í ófriði þeim er verit hafði. Var þat þá ráðs tekit, at þeir um sumarit eptir fara vestr um haf til Suðreyja í víkíngu, ok afla sèr fjár; bjuggu þeir þá hvârirtveggju skip til þeirrar ferðar. Pètr steypir ok Reiðar sendimaðr, er þá átti Margretu, dóttur Magnús konúngs Erlíngssonar, bundu fèlag sitt at ráðast til Jórsalaferðar at sumri, ok við þat skildu þeir.

Íngi konúngr sendi Dagfinn bónda austr til Túnsbergs með brèfum ok eyrindum; hann hafði fimm skútur vel skipaðar, skyldi hann sækja konúngsinsigli Filippus. Bar hann upp erendi sitt fyrir Filippusi. Filippus kvaðst eigi mundu frá sèr láta insigli sitt, fyrr en ráðuneyti hans ok beztu menn voru við, ok bað Dagfinn þess at-bíða. Nokkurum dögum síðar lèt hann stefna Haugaþíng, sagði hann þar mönnum sínum, bæjarmönnum ok bændum, hverja sætt hann hafði gjört við Ínga konúng; lèzt því heitið hafa, at leggja niðr konúngsnafn ok láta af hendi insigli sitt, kvað komna vera sendimenn konúngs, er við því skyldu taka; kvaðst hann aldri mundu slíku játað hafa, ef Birkibeinar hefði

benerne hafde holdit deris Ord, oc icke kommet sterkere til det Mode, end som talit var. Da svarede Baglerne, at Birkebenerne hafde icke holdet deris Ord, oc bad dem aldrig skulle trifvis, som skulde lade henföre Kongens Secret, oc hvem som det vedtog, vilde de hugge Haanden aff.

Dagfind forstod at hand icke kunde faa K. Philippi Secret, thi gick hand til hannem, oc begjerede Orloff at drage hjem igjen, oc sige sin Herre svar. Philippus sagde: far hjem i Fred, oc sig din Herre, at mit Raad oc Tjenere vilde icke tilstede, at mit Secret skal henföris, men jeg er tilfreds, at de kalde mig som de vilde, baade her oc Nord i Landet, oc jeg begjerer ei större Part aff Riget, end som vi ere forligte om met Birkebenerne; thi gifver jeg dig forloff at drage Nord igjen, oc sige Kongen oc Hagen Jarl dette svar. Der Dagfind kom hjem igjen, oc gaff Kongen oc Grefven dette tilkjende, svarede Kongen icke megit der til, men Hagen Jarl var vred, bandede oc lod ilde, oc Birkebenerne fortröde storligen at Philippus lod sig endnu kalde Konge som tilforn, thi Baglerne oc Vigveringerne kallede hannem Konge, men Nord i Landet gjorde de det icke.

Nogen stund efter denne Forligelse, begjerede mange Orloff aff begge Parterne; somme droge hjem til deris Huus oc Gaard, oc somme i Kjöbfærd, oc om Vaaren der efter seilede baade Birkebenerne oc Baglerne met 12 Skib i Röfverii udi Vesterlandene, oc röfvede paa Suderöer, oc de omliggendis Öer, thi Kongerne i de Öer hafde inbjurdis Feide met hver andre.

haldit orð sín, ok eigi komit fjölmennari til fundarins, en mælt var. þá svöruðu Baglar, ok sögðu Birkibeina gengit hafa á bak orða sinna, báðu þá aldri þrífast, er lèti insigli konúngs á brott færa, kváðust mundu handhöggva þann er við því tæki.

Dagfinnr þóttist vita, at hann mátti eigi fá í hendr insigli Filippus konúngs; gekk hann því á fund hans, ok beiddi orlofs til heimferðar, at segja konúngi svâgjört. Filippus mælti: far þú heim í friði, ok seg svâ konúngi þínum, at ráðuneyti mitt ok menn mínir vilja eigi leyfa, at insigli mitt sè á brott fært; en vel læt ek mèr líka, at þeir nefni mik því nafni, er þeir vilja, bæði hèr ok norðr í landi, ok eigi æski ek meira hluta ríkis, en vèr höfum ásæzt við Birkibeina; gef ek þèr orlof til heimfarar norðr aptr, at segja svör þessi konúngi ok Hákoni jarli. En er Dagfinnr kom norðr aptr, sagði hann konúngi ok jarli erindi sitt, hversu orðit hafði; lagði konúngr fátt til, en Hákon jarl reiddist, ok bölvaði, ok mæltist illa um; líkaði Birkibeinum stórilla, at Filippus lèt sik konúng kalla nú sem fyrr: því Baglar ok Víkverjar kölluðu hann konúng, en eigi gekkst þat við norðr í landi.

Nokkuru eptir sáttargjörð þessa tóku margir menn orlof af hvârumtveggjum: fóru sumir til heimila sinna, sumir í kaupferðir; ok um vârit eptir fóru bæði Birkibeinar ok Baglar með tólf skipum í vestrvíkíng. þeir herjuðu í Suðreyjar ok önnur lönd, er þar liggja í nánd, þvíat konúngar þar í eyjunum áttu ófrið sín á meðal.

De röfvede Öen den Helge, hvilcken Norske Mænd altid hafve holdet Fredhellig, siden blefve de tvedrectige oc skildis ad, oc blefve saa slagne paa atskillige steder, oc de som igjen komme til Norrig, blefve haardelige tiltalit aff Bisperne for deris Röffverii.

Den samme Sommer lod K. Philippus hente Jomfru Christin K. Daatter, oc gjorde sit Bryllup met hende udi Oslo. Dronning Margrete hendis Moder kom ned aff Sverrig til Brylluppet, oc bleff hun kranck oc döde nogle Uger efter Brylluppet. Hun hafde megit Gods oc Eigendom, Pendinge oc kostelig Ting udi Vermeland oc Vester Gotland, oc Philippus sende en stor Hob aff sine Mænd op i Landene at beskicke oc forvare Dronningens Gods. Oc der de komme Öster paa Eidaskouf, kom en Mand i deris selskab som kaldede sig Haldvard Hvide, oc var den Mandeligste aff dem. Der de nu komme Öster i Wermeland, gick hand saa stille hen, oc lod sig intet mercke, men hvad som der skulde gjöris oc forhandlis om Dronningens Gods, da hafde hand mest Raad, oc det bleff der ved, som hand sagde. Oc der de komme tilbage i Norrig igjen, da bleff Halward borte, oc Kong Philippus kom hjem i hans Klæder oc drog ind i Oslo, oc hans Folck toge vel mod hannem.

K. Ingi var i Bergen, oc lod opbygge Kongens Gaard igjen, som Baglerne hafde brent hos Slottet, oc sette Salen der som den store K. Östens Sal hafde staaet, men Slottet lod hand icke opbygge.

þeir rændu eyna helgu, er Norðmenn höfðu jafnan látið friðhelga vera; síðan gerðust þeir ósáttir, ok skildust at; vâru þeir drepnir víða. En þeir er aptr komu til Noregs sættu hörðum skriptum af biskupum fyrir rán þeirra ok hernað.

þetta hið sama sumar lèt Filippus konúngr sækja júngfrú Kristínu konúngsdóttur, ok gjörði brúðkaup sitt til hennar í Oslo. Margret drotníng, móðir hennar, kom ofan or Svíaveldi til brúðkaupsins. Nokkru síðar tók hún sótt, ok andaðist fám vikum eptir brullaupit. Hún átti stórmiklar eignir, silfr ok dýrgripi, bæði í Vermalandi ok vestra Gautlandi; sendi Filippus konúngr marga menn sína austr í land, at sýsla um eignir hennar; ok er þeir komu austr á Eiðaskóg, kom maðr sá í för þeirra, er nefndist Hallvarðr hvíti, var hann þeirra fræknligastr. En er þeir komu austr í Vermaland, lèt hann fátt yfir sèr, en hvað sem skipa skyldi um eignir drotníngar, þá rèð hann einn mestu um, ok varð svâ at vera, sem hann lagði til; ok er þeir komu aptr til Noregs, þá var Hallvarðr horfinn, en Filippus konúngr kom heim í klæðum hans, ok fór til Oslo; tóku menn hans vel við honum.

Íngi konúngr sat í Björgyn, ok lèt húsa af nýju konúngsgarð, er Baglar höfðu brent hjá kastalanum; settu þeir höllina þar sem áðr hafði verit in mikla höll Eysteins konúngs; en borgina lèt hann ekki byggja.

Denne Sommer drog Peter Steiper, oc Reider Sendemand aff Landet med to store Skib oc megit Folck oc deris Hustruer, Ingeborg oc Margrete K. Magni Daatter fulde dennem; aff deris Reise er megit sagt. Peter Steiper oc Hans Hustru döde paa Reisen, men Reider kom til Jerusalem, oc drog tilbage igjen til Keyseren i Constantinopel, oc tjente hannem lenge, oc bleff der död.

Udi K. Sverris tid hafde Torald Jarl Maddersen i Örknöi, met mange flere der i Öen, opset sig mod hannem, oc lode de sig kalde Öieskjegger. Oc der Grefven blef forligt met K. Sverre igjen, da skulde ald Landgilde oc Sagefald aff Örknöi oc Hetland falde til Kongen i Norrig. Oc Kongen sette sin Fogit ved Naffn Arne Löria met Grefven i Örknöi, oc torde Harald Jarl intet sige hannem imod saa lenge som Kong Sverre lefvede; men strax efter hans Död lod hand forrædelige ihjelsla Arne Loria, oc lagde Örknöi oc Hetland under sig igjen met ald skad oc skyld, ligesom hand tilforn hafde det, oc döde hand to Aar efter at K. Ingi var blefven Konge i Norrig. Siden blefve hans Sönner Jonn oc David Grefver i Örknöi, oc de holt Landene ligesom deris Fader saa lenge som indbyrdis Feide var i Norrig. Men der de spurde at Kongerne vaare forligte, sende de Bisp Björn til Norrig. Hand fand K. Ingi oc Hagen Jarl i Bergen, oc gaff dennem Grefvernis ærinde tilkjende, at de begjerede at forligis met dennem, oc det kom saa langt, at hand tog Leide paa deris vegne aff Kongen oc Grefven, at Grefverne skulde komme

Þetta sumar fóru þeir or landi, Pètr steypir ok Reiðar sendimaðr, með tvö skip stór ok lið mikit, voru með þeim konur þeirra Íngibjörg ok Margrèt, dætr Magnúss konúngs; eru stórar frásagnir af ferðum þeirra. Í þeirri för andaðist Pètr steypir ok kona hans, en Reiðar kom til Jórsala, ok fór aptr til Miklagarðskeisara, ok þjónaði honum leingi, ok þar andaðist hann.

Á dögum Sverris konúngs hafði Haraldr jarl Maddaðarson í Orkneyjum, ok margir menn aðrir þar í eyjunum, hafit uppreisn í gegn honum, ok lètu kalla sik Eyjarskeggja. En þá er jarl sættist við Sverri konúng, þá skyldu allar landskyldir ok sakeyrir af Orkneyjum ok Hjaltlandi hverfa undir Noregs konúng; setti þá konúngr sýslumann sinn, er Árni lörja hèt, með jarli í Orkneyjum; þorði Haraldr jarl ekki í móti honum at mæla, meðan uppi var Sverrir konúngr. En þegar eptir andlát konúngs lèt hann með svikum drepa Árna lörju, ok lagði undir sik af nýju Orkneyjar ok Hjaltland með öllum sköttum ok skyldum, svâ sem hann hafði áðr haft, ok andaðist hann tveim vetrum eptir þat er Íngi konúngr var til konúngs tekinn í Noregi. Eptir þat voru jarlar í Orkneyjum Jón ok Daviðr synir hans, ok hèldu þeir löndunum, svâ sem faðir þeirra, þá stund alla er ófriðr var innanlands í Noregi. En er þeir spurðu, at konúngar voru sáttir vorðnir, sendu þeir Bjarna biskup til Noregs; fann hann Ínga konúng ok Hákon jarl í Björgyn, ok birti þeim eyrendi jarlanna, at þeir beiddu at mega sættast við þá; kom hann svâ máli

til dennem den Sommer der efter, oc forligis met dennem.

Den Sommer som Vikingerne (det er de Norske Sjöröfvere) droge Vester ofver Hafvet, efter Kongernis forligelse, da fore Kongens Befalningsmend met dennem til Örknöi oc Hætland, oc den anden Sommer der efter komme Grefverne oc Bispen met dennem til Norrig, at forligis met Kongen oc Grefven, oc sette de alt den Handel udi Kongens oc Grefvens egit gode tycke. De dömde dennem til at gifve en stor Summa Pendinge; dertil maatte de sette dennem Borgen oc Gissel, oc sverie dennem troskab oc lydighed. Men paa det sidste gjorde K. Ingi dennem til sine Grefver ofver Örknöi oc Hætland, met saadan vilkor, som siden bleff holdit indtil deris Dödedag.

Ragnwald Konge aff Möen i Syderö, oc Gudroder Konge paa Manö hafde icke udi lang tid gifvit Kongerne udi Norrig skat. Der de Norske Vikinger nu hafde sværmet der omkring Öen, oc röfvit oc brent, oc Kongerne fornomme at der var Fred gjort i Norrig, da fryote de sig, oc droge til Norrig, oc forligte sig met K. Ingi oc Hagen Jarl, oc betalede den Skat, som igjenstod, oc svore dennem troskab oc lydighed, oc toge deris Land udi Læn aff Norrigs Konning, oc droge saa hjem igjen.

Erling hed en Mand i Færö, hand sagde sig at være K. Sverris Sön; hans Moder var Astrid Röis Daatter; hand drog met nogen Forsamling hen paa Öerne, oc gjorde stor offvervold og uro. Hand hafde 7 Börn, oc drog hand siden til Norrig

sínu, at hann tók þeim grið af konúngi ok jarli, at jarlarnir skyldu koma at sumri á fund þeirra, ok sættast við þá.

Þat sumar, er víkíngar fóru vestr um haf eptir sætt þeirra konúnganna, fóru með þeim sýslumenn konúngs til Orkneyja ok Hjaltlands. Ok annat sumarit eptir komu jarlarnir ok biskup með þeim til Noregs, at sættast við þá konúng ok jarl; seldu þeir konúngi ok jarli sjálfdæmi; dæmdu þeir stór gjöld á hendr þeim, ok þar með urðu jarlar at selja þeim gísla at veði ok sverja þeim trúnað ok hollostu. En svâ kom at lyktum, at Íngi konúngr gjörði þá jarla sína yfir Orkneyjum ok Hjaltlandi, með þeim skildaga, er síðan hèlzt, meðan þeir lifðu.

Rögnvaldr konúngr af Mön í Suðreyjum ok Guðröðr Manarkonúngr höfðu eingan skatt goldit Noregs konúngum í lánga tíma. En er hinir norrænu víkíngar höfðu sveimat um eyjarnar, ok rænt ok brent víða landit, ok konúngar vissu, at friðr var orðinn í Noregi, þá urðu þeir óttafullir, ok fóru austr til Noregs, ok sættust við Ínga konúng ok Hákon jarl, guldu þeir skatta þá er ógoldnir voru, ok sóru trúnaðareiða, tóku síðan löndin í lèn af Noregs konúngi, ok fóru heim við þat.

Erlíngr hèt maðr í Færeyjum, hann kallaði sik son Sverris konúngs; móðir hans var Ástríðr Róadóttir. Hann fór um eyjarnar með sveit nokkra, ok gerði miklar úspektir; hann átti sjö börn. Hann fór síðan til Noregs á skipi

paa Einer Sysslemands Skib, oc gaff sig til Philippus oc Fru Christin. Hun tog vel imod hannem, ok kjende hannem for Broder, oc nogen Aar der efter bleff hand der död aff Blodlöb, der hand hafde ladet sig Aaresla.

K. Ingi hafde en uecte Sön ved Nafn Gutorm. Hans Moder hed Gyri, oc var hand födt andet Aar efter at K. Ingi tog ved Riget. Hagen Jarl oc Fru Christin hafde en Sön, ved Nafn Juncker Knud, oc var hand nogit yngre end Gutorm.

Hagen Jarl fortröd at hand icke hafde Kongenafn, efterdi at hand hafde alt andet lige ved sin Broder, oc hand undergick det hemmelige oc stille, met mange de ypperste Mænd i Landet, at de skulde gifve hannem Kongenafn, oc sagde at hans Broder skulde vel være tilfrids oc tilstede det. De svarede hannem alle vel, oc sagde hannem være duelig oc skickelig nock der til; thi holt hand det oc icke aldeelis forborget, saa at det kom for Kong Ingi, at hand fick vis kundskab der paa, desligeste hvem der mest bistand gjorde Grefven i den handel at forfremme. Thi stefnede hand alle sine Mænd til Hussting, oc der Tingit var sæt, sagde hand: Jeg er icke van at tale megit paa Tinge, eller i store Forsamlinger, oc det er icke en ringe Sag, som mig nu her til drifver, thi vilde jeg den gjerne framföre, at I alle kunde forstaa oc mercke hvad jeg taler oc meener: Jeg er kommen i vis Forfaring, at min Broder Hagen Jarl hafver lagt sig ind met mange Höfdinger oc Handgaade Mænd i Landet, at de skulde gifve hannem Kongenafn, oc at mange

Einars sýslumanns, ok kom hann á fund Filippuss konúngs ok frú Kristínar, tók hún vel við honum, ok gekk við frændsemi hans. Nokkurum vetrum síðar andaðist hann þar af blóðláti, er hann hafði látið slá sèr æðablóð.

Íngi konúngr átti einn son, ok var hann ekki skilgetinn; hann hèt Guttormr, móðir hans hèt Gyríðr, ok var hann fæddr á öðru ári eptir þat er Íngi konúngr tók ríki. Hákon jarl ok frú Kristín áttu ok son einn, sá var kallaðr júngherra Knútr, ok var hann nokkuru ýngri en Guttormr.

Hákon jarl kunni því illa, er hann bar ei konúngsnafn, en var at öllu öðru jafn við bróður sinn; fór hann þess á leit með launúng ok spakliga við ena beztu menn í landinu, at þeir gæfi honum konúngsnafn, kvað þat verða mundu með vilja ok orlofi bróður síns. Þeir svöruðu honum allir vel, ok kváðu hann hafa þartil kosti ok burði; fór hann því eigi at öllu leynt með því máli, ok komst þat fyrir Ínga konúng; ok er hann vissi, hver sannindi í því voru, svâ ok, hverir mest fylgðu jarli at um þetta mál, þá stefndi hann öllum mönnum sínum til hússþíngs; ok er þíng var sett, mælti hann: ekki hefir þat verit vandi minn, at tala mart á þíngum eðr mannfundum; eru þar eigi lítil efni í, er ek verð at bregða venju minni; vilda ek svâ koma máli mínu, at yðr yrði öllum kunnig ok auðskilin orð mín ok vili: ek em þar kominn at raun um, at Hákon jarl bróðir minn hefir farit þess á leit við marga höfðíngja, ok handgeingna menn hèr í landi, at þeir skuli gefa

hafve svarit hannem vel, oc sige som sant er, at hand icke er meere uskickelig eller ubeqvem der til, end jeg er: Hand lader sig oc höre at jeg skulde icke fortryde det, at min Broder kaldis Konge saa vel som jeg ofver sit Rige, efterdi jeg kand lide at Philippus kaldis Konge; saa er det alle vitterligt, at min Broder oc jeg hafver taget Kongenafn fra Philippus udi Hvidingsö, oc der paa hafver hand svorit os en Eed, oc er det hannem mere til spot end ære, om hand nu bruger det Nafn. Men jeg hafver tagit Kongenafn paa Öreting, oc alt Landsfolcket hafver svorit mig lydighed, saa vel Hagen Jarl oc Philippus som andre, men jeg hafver ingen svorit uden at holde Indbyggerne ved Low oc Ret. Thi skulle I alle vide at saa længe som jeg lefver vil jeg icke tilstede, at nogen anden skal kaldis Konge i Norrig end jeg, om I ville holde eders Eed, oc være mig fölgactige. Her til svarede de hannem alle vel, oc berömde hans Ord, oc Tale, oc sagde alle met en Röst, at de ville hannem fölge oc allene for Konge holde, oc de tackede hannem for hans Ord, oc sagde hannem være bedre talendis end de hafde tenckt. Der denne Handel bleff obenbare, maatte Hagen Jarl afstaa sin hemmelige Practicerelse om Kongenafn; thi begynte hand siden obenbare met sine Venner it andit Raad, oc hand fick Erckebispen, oc alle Bisperne paa sin Side, oc begjerede at gjöre en vis Contract met sin Broder om Riget, hvem det skulde hafve naar en aff dennem falt fra. De kaste K. Ingi fore, at hand var icke Ecteföd, fordi hans Moder Cecilia gifte sig met Baard Gu-

honum konúngsnafn, ok hafa þeir honum margir vel svarat, ok segja, sem satt er, at hann er at eingu síðr til þess fallinn, en ek; vænist hann ok þess, at eigi muni ek því illa kunna, þó bróðir minn kallist konúngr yfir sínu ríki, jafnt sem ek, með því ek þola, at Filippus sè konúngr kallaðr. Nú er þat öllum kunnigt, at við bræðr tókum konúngsnafn af Filippusi í Hvítíngsey, ok hefir hann unnit oss svardaga til þess; er honum þat nú framar til spotts, en virðíngar, ef hann eignar sèr nú þá nafnbót. En ek hefi konúngsnafn tekit á Eyraþíngi, ok hefir allt landsfólk svarit mèr hlýðni, svâ Hákon jarl ok Filippus, sem aðrir; hefir ek öngvum svarit, utan at halda landsfólki við lög ok rètt. Því skulut þèr allir vita, at meðan ek lifi, mun ek eigi þola, at nokkurr annar sè konúngr kallaðr hèr í Noregi, en ek, ef þèr vilìt halda eiða yðra ok fylgja mèr. Hèr til svöruðu honum allir vel, ok rómuðu mál hans, mæltu allir einum munni, at þeir vildu honum fylgja, ok hann einn at konúngi hafa; þökkuðu þeir honum fyrir orð hans, ok kváðu hann vera betr talaðan, en þeir hugðu. Þá er þetta kyntist, varð Hákon jarl af at láta upptekt sinni um konúngsnafnit; tók hann þá með vinum sínum annat ráð, ok fór með öngri launúng, fèkk hann í fylgi með sèr erkibiskup ok alla biskupa, ok beiddist at gjöra nokkurn ákveðinn skildaga við bróður sinn um ríkit, hvârr hafa skyldi, ef annarrhvârr fèlli í frá. Þeir brugðu því upp fyrir Inga konúngi, at hann væri eigi skírborinn, því Cecilía móðir

torm sön, hendis forne Ectemand lefvede. Men Kong Ingi sagde at hans Moder hafde gift sig med Erckebispens forloff. Bisperne sagde at den burde efter Lougen at være Konge, som ecteföd vaar oc Höybyrdig der til, oc drefve de saa fast paa den handel, at Kong Ingi maatte gjöre en Forligelse oc Contract met Hagen Jarl, at hvilcken som lengst lefvede, skulde tage Riget efter den anden, oc efter beggis deris död skulde da deris Sön tage alt Riget, som ecteföd vaar, oc der paa bleff gjort beseglede Brefve under Kongens oc Grefvens, oc Erckebisp Toris, oc Erckebisp Ericks, Bisp Niclausis oc Bisp Martens Secreter.

Hagen Jarl forttröd det storligen, at Philippus lod kalde sig Konge, oc talede der ofte om for K. Ingi. Kongen svarede lidet der til, men efter Grefvens begjering sende de en Skrifvelse öster til Philippum om samme handel, at hand met det Nafn ryggede oc opbröd den Forligelse, som gjort var i Hvidingsö. Philippus beraadde sig der om met sine gode Mænd; de raade hannem at beholde sit Kongenafn. Fru Christin var vred oc lod ilde, at hand torde icke hede Konge meden andre vilde kalde hannem det. Kong Philippus skreff dennem venlige tilbage igjen, hand icke vilde rygge nogen Forligelse, dog kunde hand ingen forbjude at kalde sig hvad de vilde, hand vaar oc vel til freds met dem, som icke kallede hannem Konge. Oc efter nogen Brefve oc Skrifvelser bleff det samtyckt, at de skulde atter findis udi Hvidingsö hver met 15 Skib, oc ingen större, end hver met 15 Sesser eller Rum.

hans hefði gipzt Bárði Guttormssyni, meðan fyrri maðr hennar lifði; en Íngi konúngr kvað móður sína gipzt hafa í orlofi erkibiskups. Biskupar sögðu, at sá ætti konúngr at vera at lögum, er skilgetinn væri ok af enum beztum ættum borinn, ok fylgðu þeir svâ fast því máli, at Íngi konúngr varð at gjöra sátt ok samníng við Hákon jarl, at sá þeirra, er leingr lifði, skyldi eptir annan taka ríkit; ok eptir dauða beggja þeirra, skyldi sá sonr þeirra, er skilgetinn væri, taka allt ríkit. Var þetta skrásett ok insiglat með insiglum konúngs ok jarls, þóris ok Eiríks erkibiskupa, ok Nikoláss ok Marteins ljóðbiskupa.

Hákon jarl eirði því stórilla, at Filippus lèt sik konúng kalla, talaði hann optliga þar um fyrir Ínga konúngi. Konúngr lagði þar fátt til, en eptir beiðni jarls ritaði hann austr til Filippuss um þetta mál, ok taldi hann með þessu nafni rjúfa þá sætt, er gjör hafði verit í Hvítíngsey. Filippus rèðst um við vini sína, ok var þat þeirra ráð, at hann skyldi halda konúngsnafni sínu. Frú Kristín reiddist ok mælti illa, er hann þorði ei konúngr at heita, meðan aðrir vildi hann svâ kalla. Filippus konúngr ritaði vináttubrèf aptr í móti, kvaðst hann einga sætt vilja rjúfa: en ekki má ek banna, at hverr kalli mik, þat er vill; kvaðst hann ok þeim vel eyra, er ekki kölluðu hann konúng. Ok eptir nokkur rit ok brèfagjörðir, er meðal fóru, kom þat ásamt, at þeir skyldu finnast aptr í Hvítíngsey, skyldu hvârir hafa fimtán skip, ok eingi stærri, en fimtánsessur.

Skule Kongens Broder hafde Forlæning i Sogn, hand lod bygge Skib met 15 Rum udi, de vaare saa store, som andre lang Skib paa 20 Rum. Der Baglerne det spurde, vilde de icke komme til det Mode, thi blefve de skib kallede Fredbrydere eller Forligelsespillere.

Droning Christin döde i Barselseng, oc lefvede Barnet nogen stund efter hende, saa döde det, oc lod Philippus det besee aff mange tro Mænd, oc opljuse paa Tinget, at Barnet lefvede efter sin Moder, thi hand meente sig der met at ville beholde alt hendis Gods.

Udi Trondelafven var dyr Tid, saa at Kongen icke kunde faa sin Rettighed aff Bönderne, det beklagede K. Befalningsmænd, oc synderlig Erick Foss, Befalningsmand paa Strind, tiit oc ofte for Kongen; paa det sidste bad Kongen hannem stefne Bönderne til Ting, ind paa Strind; hand stefnede dem aff alle Læner, oc drog ud til Kongen, oc gaff hannem det tilkjende. Kongen drog der ind til Lands oc Vands. Bönderne vaare komne met alle deris Vaaben, ligesom til en Strid, oc sette sig oppe under Bjerget. Kongen sende sin Broder Skule op til dennem, oc bad dem gaa ned oc sette Tingit met Kongen; men de vilde icke; da red Erick Foss op til dem, oc bad dem gaa ned oc Tinge met Kongen, oc der de fore senferdige, oc vilde icke afsted, da slog hand en Bonde met sin Spjudskaft imellem Hærderne. Bonden vende sig om, oc met en stor Öxe hug hand Laarit aff Erick, saa at hand falt half död til Jorden. Siden grebe de deris Öxer, Spjud oc

Skúli konúngsbróðir hafði lèn í Sogni, hann lèt byggja skip með fimtán sessum, þau voru svâ mikil sem önnur lángskip tvítugsessur. En er Baglar spurðu þat, vildu þeir ei koma til mótsins; voru þau skip því kölluð friðbrjótar.

Kristín drotníng andaðist af barnsförum, ok lifði barnit nokkuru leingr, ok dó síðan; lèt Filippus marga sannorða menn sjá þat, ok lèt lýsa því á þíngi, at barnit lifði eptir móður sína, því hann hugði, at hann mundi fá þar með haldit öllum eignum hennar.

Í þrændalögum var í þann tíma hallæri svâ mikit, at konúngr náði ei at fá skyldur sínar af bóndum; kærðu ármenn konúngs þat optliga fyrir honum, ok varð helzt til þess Eiríkr foss, er ármaðr var á Strind. At lyktum bað konúngr hann stefna bóndum til þíngs inn á Strind, stefndi hann þeim af öllum fylkjum, ok fór út til konúngs, ok sagði honum svâ búit. Konúngr fór inn þángat á sjó ok landi. Bændr voru til þíngs komnir með alvæpni, sem til orrostu, ok settust uppi undir berginu. Konúngr sendi Skúla bróður sinn upp til þeirra, ok bað þá ofan gánga ok halda þíng við konúng; en þeir vildu ekki. Þá reið Eiríkr foss upp til þeirra, ok bað þá gánga ofan ok þínga við konúng, ok er þeir seinuðu ok þveruðust við at fara, laust hann einn bónda með spjótskapti sínu meðal herðanna. Bóndi snerist við, ok hjó með öxi mikilli til Eiríks, ok undan honum lærit, fèll hann nær örendr til jarðar. Síðan gripu bændr öxar, spjót

Sverd, oc rusede hastelig ned aff Bjerget imod Kongen. Kong Ingi bad sit Folck före sit Banere tilbage, thi hand vilde icke stride mod sine egne Bönder, oc Kongen vigede tilbage met sit Folck, da forfulde Bönderne hannem, oc sloge nogne ihjel aff hans Mænd, thi raabte Skule Kongens Broder, at Kongen skulde vende om igjen, thi de sögte efter oc dræbte hans Folck, da vende Kongen om igjen, oc bad före fram sit Banere, oc blefve da Bönderne slagne, oc maatte de fly, oc Birkebenerne forfulde dennem baade til Lands oc Vands.

Denne Opreisning imod Kongen bleff Hagen Jarl oc Erckebisp Tore megit mistenckte fore, at de skulde hafve opvect hannem aff Bönderne.

Efter den tid at Baglerne hafde indtagit Trondheim, oc Kongen undkom saa neppelig, da vaar hand alltid tungferdig, oc icke vel tilpas, oc tyckedis hannem lefve best naar hand vaar til skibs, oc naar hand vaar i Kjöbsteden, oc der vaar Fred, da holt hand sig gjerne i sit Kammers, oc hafde nogen faa Mænd hos sig, aff de, som hand elskede mest, oc troede best, oc dennem holt hand saare vel met alting. Hand var en stille oc sactmodig Mand, icke dristig eller ofvermodig, men mild oc venlig, oc megit from oc god; hand kunde ingen bulder lide, thi kom hand icke ofte i Drick oc Selskab, oc var det en part af hans Mænd icke til tacke, som heller vilde være udi Selskab, dér som Drick oc store Ord vanckede. Hand hafde tre aff sine beste Mænd altid hos sig i Kammeret, som vaare Povel Droste, Arnfind Tjodesön, oc Henrich Scot, oc holt

ok sverð, ok þustu ofan frá berginu með æði miklu í móti konúngi. Ingi konúngr bað menn sína láta merkit fara til baka, kvaðst ei vilja berjast við bændr sína sjálfs; sneri konúngr þá aptr með lið sitt; bændr eltu hann, ok drápu nokkra menn hans. þá kallaði Skúli konúngsbróðir, ok bað konúng snúa í móti þeim, kvað bændr veita þeim eptirför ok drepa menn hans. Konúngr gjörði svâ, ok bað framm bera merki sitt, fèllu þá bændr, ok snerust á flótta, en Birkibeinar eltu þá bæði á sjó ok landi.

þessi uppreist, er bændr gerðu mót konúngi, var mjök eignuð Hákoni jarli ok þóri erkibiskupi, at hún hefði verit af þeirra ráðum.

Síðan er Baglar höfðu tekit þrándheim, ok konúngr hafði nauðugliga undan komizt, var hann jafnan með þúngu skapi, ok eigi með öllu heill; kunni hann því bezt, er hann var á skipum. En er hann var í kaupstöðum, ok friðr var, var hann optast í herbergi sínu, ok hafði fá menn hjá sèr, þá er honum voru kærstir ok hann trúði bezt. Hann var maðr rólyndr ok hógvær, ekki ofbeldissamr nè stórlátr, hann var blíðr ok vinveittr, ok mjök góðr sínum mönnum; hann kunni lítt við háreysti, kom hann því sjaldan þar er drykkjur voru ok samkvæmi; kom þat illa við suma menn hans, er heldr vildu vera at samkundum, þar er sleitur voru ok knífildrykkjur. Hann hafði jafnan hjá sèr í herbergi þrjá af hinum beztum mönnum sínum, Pál dróttseta, Arnfinn þjófsson ok Heinrek skot; virði

hand Povel i största verdighed, thi hand var hans Droste eller Hofmester, oc laa i Seng hos Kongen. En Aften som Povel kom i seng, saag Kongen at hand hafde en dragen Kniff i Haanden. Kongen greb fat om Haanden oc raabte paa de andre, oc de grebe Povel oc vilde dræbe hannem, men Kongen forböd dennem at gjöre hannem nogit ont; thi skjöd de hannem ud aff Dörren. Siden holt Povel til i Byen, oc Kongen lod Henrich Skot forvare Knifven, oc forböd dem alle som inde vaare, at sige det for nogen, förend hand sjelff aabenbarede det.

Nogen tidlang der efter kom Skule Kongens Broder oc Jon Östraat (som hafde Sigrid Kongens Syster); da aabenbarede Kongen denne handel for sin Broder, dog maatte hand tilforne lofve hannem, at hand skulde ikke blifve vred derfore, eller gjöre Povel nogit ont, ok sagde Kongen, at hand vilde sende Povel aff Landet.

Det stod saa hen nogen Aar, at Povel drog met Kongen som tilforn, oc Kongen vende altid nogit for, naar hans Broder atspurde hannem, hvorfor at Povel bleff icke sendt aff Landet. Paa det sidste sloge Kongens Broder Skule, oc Jon Östraat Povel ihjel i Trondheim, oc Kongen behagede den gjerning megit ilde, thi Povel hafde sagt hannem hvo der skyndede hannem til saadan ugjerning at gjöre, dog holt hand alting stille for fred oc roligheds skyld. Jon Östrat döde strax der efter i Bergen.

Den samme Vinter som nu er sagt, bleff Hagen Jarl kranck i Bergen, oc döde strax efter Jul,

hann Pál mest, því hann var dróttseti hans, ok bygði sama rekkju konúngi. Þat var einn aptan, er Páll kom í sæng, at konúngr sá, at hann hafði kníf í hendi, ok brugðit. Konúngr tók um höndina, ok kallaði á aðra menn; tóku þeir Pál, ok vildu drepa, en konúngr bannaði at gjöra honum nokkurt mein; skutu þeir honum þá út af dyrunum. Síðan hafðist Páll við í bænum, en konúngr lèt Heinrek skot geyma knífinn, ok bannaði öllum, þeim er inni voru, at segja nokkrum þenna atburð, fyrr en hann lýsti sjálfr.

Nokkru síðar komu þeir til konúngs, Skúli konúngsbróðir ok Jón austrátt, er átti Sigríði systur konúngs; sagði konúngr þá bróður sínum þenna atburð, varð hann þó áðr at heita því, at hann skyldi ei reiðast slíku, nè leita Páli nokkurs meins fyrir þá sök; kvaðst konúngr mundu senda Pál af landi brott.

Stóð svá um nokkur ár, at Páll var með konúngi, sem fyrr; hafði konúngr jafnan nokkurt undanbragð, þá er bróðir hans spurði, hví Páll væri eigi af landi gjörr. At lyktum drápu þeir Pál í Þrándheimi, Skúli konúngsbróðir ok Jón austrátt; líkaði konúngi þat verk stórilla, því Páll hafði sagt honum, hverr hann hafði eggjat slíks úgjörníngs; lèt hann þó allt kyrt vera fyrir friðar sakir. Jón austrátt andaðist þegar eptir í Björgyn.

Þann sama vetr, sem nú er frásagt, tók Hákon jarl sótt í Björgyn, ok dó þegar eptir jól;

oc bleff begrafven i Christkircke. Landsfolcket sörgede hannem storlige, oc sjuntiš de hafde faaet en stor skade, at de miste saadan en Höfding, ok vaar det alle Mands Ord, at ingen dueligere eller mandeligere Helt hafver tagit Vaaben i Haand udi hans tid i Norrig end hand var; der til var hand en god Regenter, oc alle Mand hafde hannem kjer, baade Krigsfolcket oc Landsfolcket.

Fru Christin hans Hustru drog strax Öster i Gotland met hendis Sön Juncker Knud, oc bleff der gifft med Askild Lagmand. Erckebisp Tore döde om Sommeren der efter, oc bleff Gutorm Erckebisp i hans Sted. Kong Ingi tog alt Riget efter sin Broder Hagen Jarl met alle hans Hofsinder, oc Lænshöfdinger under sig. Om Sommeren der efter drog Kongen til Bergen, oc lod kalde til sig alle Lænshöfdinger, oc forsamlede en stor Krigshær, baade Öster oc Vester ofver alt Landet, oc drog dermet ind i Trondelafven, oc tvingede Bönderne til at gifve hannem den Leding oc Kongelig Rettighed, som de udi nogen Aar hafde forholdet hannem, oc sette hand sine Befalingsmænd udi Lænene, oc gjorde Bönderne intet andet Ord, oc drog siden til Trondheim igjen oc gaff Krigsfolcket forloff.

Kong Philippus holt da sit Rige udi Fred oc Rolighed, oc kom hans Broder Anders Simensön til hannem fra Danmarck, oc Kongen tog vel mod hannem oc fick hannem store Forlæninger. Da tenckte Anders derpaa, at Tonsbergsmænd sloge hans Fader ihjel, oc gaff denne Sag paa Tollac Ulfgelssen, oc Ulf Svarte, oc alle de som

var hann jarðaðr í Kristskirkju. Hann var mjök harmaðr af landsmönnum, ok þóttust þeir beðit hafa stóran skaða í fráfalli slíks höfðíngja; var þat allra manna mál, at eingi kappi hefði vaskligar ok fræknligar vápn borit í Noregi, en hann, um hans daga; var hann ok góðr landstjórnarmaðr, ok mjök kærr bæði liðsmönnum ok bændum.

Frú Kristín, er átt hafði Hákon jarl, fór þegar eptir andlát hans austr á Gautland með son sinn júngherra Knút, ok giptist þar Áskeli lögmanni. Þórir erkibiskup andaðist um sumarit eptir, ok varð Guttormr erkibiskup í hans stað. Íngi konúngr tók allt ríki undir sik eptir Hákon jarl bróður sinn; hurfu ok til hans allir hirðmenn ok lendir menn, er verit höfðu með honum. Um sumarit eptir hèlt konúngr til Björgynjar, ok stefndi til sín öllum lendum mönnum, ok dró til sín her mikinn, bæði austan ok vestan af öllu landi; hèlt hann liði því inn í Þrándheim, ok kúgaði bændr til at greiða þann leiðángr ok konúngstekjur, er þeir höfðu um nokkur ár haldit fyrir honum; setti hann þar menn sína í fylki, ok gerði bændum ekki meira íllt. Fór hann síðan aptr til Niðaróss, ok gaf orlof liðinu til heimfarar.

Filippus konúngr hèlt þá ríki sínu í ró ok friði. Þá kom til hans úr Danmörku Andres Símonarson, bróðir hans, tók konúngr vel við honum, ok fèkk honum veizlur stórar. Þá mintist Andres þess, er Túnsbergsmenn höfðu drepit föður hans, kendi hann þat mál Þorláki Úlfgestssyni ok Úlfi svarta, ok öllum þeim er

hafde værit met i det slag for Brimsted. Der de det fornomme, sögte de hjelp oc tröst hos K. Philippum. Kongen tog dem i forsvar, oc sagde, at den tid de toge hannem til Konge, gaff hand dennem all den sag til, oc lofvede, at skulde holde dennem fri derfore. Anders meente, at efterdi de vaare to sambaarne Brödre til Fader oc Moder, kunde hand icke forhindre eller formene hannem Landslowen, at hand jo maatte saa vel tage bod efter sin Fader, som K. Philippus. Men Kongen forsvarede Böndernis sag saa heftelig, at hand tog alle Forlæninger fra sin Broder, oc lod hannem icke hafve uden to Tjenere, som hannem skulde föllie, oc maatte Anders da lade det være som Kongen vilde hafve det, oc fick K. Philippus stor yndist aff Almuen, for hand saaledis affstillede den store sag oc tvist, som ellers vilde hafve kostet mangen Mands Liff oc Velfart.

Den tredie Vinter efter Hagen Jarls affgang, bleff K. Ingi sjug i Trondheim, oc laa hand lenge kranck, oc Skule hans Broder sad ofte ofver hannem, oc der hans Mact formindskedis jo mere oc mere, begjerede hans Raad oc gode Mænd oc alle Hofsinder, at hand vilde skicke en Höfvitzmand ofver dennem, som de vaar hjulpen met. Oc der Kongen fornam deris Vilie oc begjering, lede hand sin Broder Skule til Sæde, oc gaff hannem Grefve Nafn, oc hand tog strax ved Regimentet ofver alt Krigsfolcket oc Hofsinderne. Nogen tidlang der efter döde K. Ingi, oc Skule Jarl lod hannem hederlig

verit höfðu í bardaganum fyrir Brimstöðum. En er þeir urðu þess varir, leituðu þeir fulltíngs ok trausts hjá Filippus konúngi. Konúngr tók at sèr mál þeirra, ok sagði, at þá er þeir tóku hann til konúngs, hafði hann gefit þeim állt þat mál upp, ok heitið, at þeir skyldu lausir þess máls. Andres hèlt á, at með því þeir voru tveir sambornir bræðr at faðerni ok móðerni, mætti konúngr ei varna honum landslaga, ok ætti hann því at taka jafnt bætr eptir föður sinn, sem Filippus konúngr. En konúngr varði sök bænda með svâ miklu kappi, at hann tók allar veizlur af bróður sínum, ok lèt hann eigi hafa utan tvâ menn til fylgðar, varð Andres þá at láta svâ vera sem konúngr vildi; varð Filippus konúngr stórliga vinsæll af alþýðu, er hann setti niðr þat hit mikla mál, er ella mundi líf ok heill margra manna við liggja.

Þriðja vetr eptir andlát Hákonar jarls tók Íngi konúngr sótt í Þrándheimi, lá hann leingi sjúkr, ok sat Skúli bróðir hans tíðum yfir honum. Ok er máttr hans tók óðum at þverra, beiddi ráðuneyti hans, gæðíngar ok allir hirðmenn, at hann setti höfðíngja nokkurn yfir þá, þann er þeir væri hólpnir með. Ok er konúngr skildi vilja þeirra ok beiðni, leiddi hann Skúla bróður sinn til sætis, ok gaf honum jarlsnafn; tók hann þá þegar forræði yfir öllum liðsmönnum ok hirðinni. Nokkuru síðar dó Íngi konúngr, gerði Skúli jarl vegliga útför

begrafve i Christkircke paa den Söndre side i Chorit, oc offrede hand i hans Sjælmesse et Guldkar, som Kong Jon i Engelland hafde skjencket K. Ingi. Desligeste gaff hand andre kostelige Gafver til Domkircken for hans Sjæl; hand lod oc gjöre it kostelige verck offver hands Graff udhuggit oc formalit, oc belagt med Guld, oc lod der udhugge oc maale hans Vaaben, oc hengde der hans Sverd oc Hjelm oc Skjold.

Kong Ingi vaar en deilig Mand, velvoxen met fuldkomne oc deilige Lemmer, oc var ljusgraa paa Haarit. Hand blundet gjerne met det ene Öye, naar hand vilde see noget grandgifvelig. Det siger baade hans Venner oc Uvenner, at ingen lycksaligere Konge hafver værit i Norrig, eller bedre mod Allmuen, siden K. Sigurd Jorsalafer döde. Ingi vaar Konge udi 13 Aar, oc döde 9. *Calendas Maji,* det 15. Aar efter K. Sverris Död.

hans, var hann jarðaðr í Kristskirkju, í sunnanverðum kórinum, ok offraði jarl fyrir sálu hans gullkeri því, er Jón Englakonúngr hafði gefit Ínga konúngi; hann gaf ok til dómkirkjunnar aðrar ágætar gjafir fyrir sálu hans; hann lèt ok gjöra virðuligan umbúnað yfir gröf hans; var þat verk bæði úthöggvit ok pentað ok lagt með gulli; lèt hann þar úthöggva ok mála merki hans, ok festi þar upp sverð hans, hjálm ok skjöld.

Íngi konúngr var manna fríðastr sýnum, vel vaxinn, þreklimaðr ok fagrliga limaðr, ljósgrár á hár, lukti mjök annat auga, er hann vildi gæta nokkurs grandgæfiliga. Þat er sögn bæði vina hans ok úvina, at eingi hafi konúngr verit í Noregi hamíngjusamligri eða betri alþýðu, síðan Sigurð konúng leið Jórsalafara. Íngi var þrettán vetr konúngr, ok andaðist 9 kalendas mají á fimtánda ári eptir andlát Sverris konúngs.

# NÝFUNDIN FORN BROT ÞRIGGJA SKINNBÓKA, ÚR HINNI LENGRI SÖGU HÁKONAR SVERRISSONAR OK FLEIRI NOREGS KONÚNGA.

## I.

*Á heilu kálfskinnsblaði í fjögrablaðaformi, en at miklu leiti algjörliga slitnu, máðu ok kolsvörtu, hefir, á meiri hluta tveggja dálka fyrri síðunnar, innihaldizt endir Sverris sögu, á þann hátt er hann finnst í Flateyjarbók, en með nokkrum orðamun; — neðri hluti seinna dálksins, sem nú er algjörliga afmáðr, að öðru leiti en því, að sumstaðar markar fyri bókstöfum ok línum, án þess að nokkuð lesið verði, sèst (af því fylgjanda), að hafa innihaldit upphaf sögu Hákonar konúngs Sverrissonar, hvörju hèr, að nokkru leiti, sýnist að hafa verið knýtt við enda Sverrissögu; sjá formála vorn fyrir henni (eðr 8da bindi af Fornmanna Sögum) bls. XXVI. Það lítið, er með mestu augnaraun lesið verðr, frá seinni síðu fyrra dálks efstu línu, ok ljósliga sèst að heyra til þess ofannefnda frumrits, hljóðar þannig:*

tíma er voru súngnar formessur; þeir rèru inn fyri konúngsgarð, en er þeir gengu upp af skipi, þá komu á móti þeim ofan liðsmenn ok hæilsaðu þeim ok spurðu þá tíðinda, ok helzt hversu skipaðist mátti konúngsins, þvíat þeir höfðu spurt at hann var sjúkr. Þeir Hákon sögðu at konúngi betraðist mjök, ok þeir kunnu engi tíðindi

at segja. Þeir spurðu . . hvar Hákon konúngsson var; þeim var sagt at hann var hæima í herbergjum. Síðan gengu þeir upp til Kristskirkju ok þaðan í garðinn, þar er konúngsson var. Þeir gerðu mann inn til hans, ok báðu hann gánga til tals við þá þar, til þess at þeir vildu honum einum segja tíðindin. Síðan gekk konúngsson fram í herbergin, ok lèt þá kalla til sín Pètr ok Hákon; gengu þeir þannig nokkurir menn, ok fagnaðu hvârir öðrum vel. Síðan sögðu þeir Hákoni konúngssyni tíðindin ok alla atburði um lát konúngsins; fluttu þeir þá fram brèf þau, er Sverrir konúngr hafði gjöra látit; talaðu þeir þá um hríð. Síðan lèt konúngsson blása til hirðstefnu, ok þá lèt hann þar segja tíðindin allri hirðinni; ok á þeirri sömu stefnu var Hákon konúngsson tekinn til höfðíngja yfir flokkinn.

*Hákon konúngr tók sèr hirð.*

Um vârit lèt Hákon konúngsson stefna Æyraþíng, ok sendi boð bændum í hèruð, en er Æyraþíng var sett, þá var Hákon Sverrisson þar tekinn til konúngs yfir lànd allt. Honum gaf konúngs nafn bóndi sá er Skervarðr hèt. Síðan tók Hákon konúngr sèr hirð; gekk honum til handa öll hin forna hirð, er verit hafði með Sverri konúngi; setti hann þá menn sína í sýslur; kom þá ok lið til hans sunnan or landi; lèt þá ok konúngrinn halda á skipabúnaði ok stefndi at sèr leiðángri, ok fór síðan (er) *hann var búinn* ok *var þat* um vakna skeið; byrjaði honum heldr seint. Fór hann suðr til Björgynjar. Baglar voru uppi á landi, ok fóru ýmsar sögur frá ætlan þeirra;

sögðu sumir, at þeir mundu snúast norðr til þrándheims, sumir sögðu at þeir væri ofan komnir suðr á Rogalandi. Gerði Hákon konúngr þá lið suðr í móti þeim; var þar Pètr steipr, ok þorgrímr af Ljánesi, Einarr konúngsmágr ok enn fleiri svæitarhöfðíngjar; þeir höfðu lið mikit; þeir lágu í Rotti, ok komu þar síð um kveld; var þeim þá sagt at Baglar væri í Stafángri. Eptir um morguninn sá Birkibeinar, hvar Baglar röru norðan, ok stefndu þángat til æyjarinnar; höfðu Baglar öngar frèttir af um ferðir Birkibeina, en er þ . . . mjök út . . . , þá röru Birkibeinar . . . *þeim*, en er Baglar sá þat, þá sneru þeir undan, en Birkibeinar eptir þeim; tóku þeir eitt skipit, ok vörðust Baglar vel, ok fèll þar flest allt af því skipi. Síðan ráku Birkibeinar þá. Baglar stefndu inn í *Fjörðu*, ok gengu af skipi hèr ok hvar, ok fóru síðan upp á land. Birkibeinar fóru aptr til Björgynjar. Hákon konúngr fór norðr, ok lá lengi um sumarit í Fjörðum.

*Frá Margrètu drottníngu.*

Margrèt drottníng Æiríksdóttir, er átt hafði Sverrir konúngr, fór þegar um vârit eptir andlát hans austr í Vík, ok hafði með sèr júngfrú Kristín, dóttur sína ok Sverris konúngs, ok aðra Kristínu Nicholásdóttur, systurdóttur sína, ok ætluðu þær upp á Gautland. Birkibeinum þótti ekki . . . . .

II.

## Heilt blað í fjögrablaðaformi, úr gamallri kálfskinnsbók.

(*Samanber hèr að framan frá bls. 2 til 4 ok bls. 62 til 72, ok þá þar fylgjandi útlegging.*)

er nokkr vöxtr var at þar í vatninu. En er bændr komu í eyna, sóttu þeir þegar til bæjar; varð þar ekki vart við, fyrr en þeir komu á bæinn. Konúngrinn sat í stofunni ok drakk, ok sveit hans. Þá kom inn einn varðmaðr ok mælti: þèr sitið snápliga, herra! úfriðr er kominn at bænum. Konúngr ljóp upp, ok greip vâpn sín, ok mælti: standit upp hart ok vâpnið yðr, ok leitum út á hendr þeim, ok látum þá eigi veiða oss inni. Fáir menn gengu fyrr út en konúngr. Þeir vörðust vel, ok varð þó skömm viðtaka; fèll þar Íngi, konúngr Bagla, ok flestöll sveitin. En er þetta spurðu Baglar, þeir er sveitir hèldu í öðrum stöðum, flýðu þeir í brott; sumir í Svíaveldi, sumir í Danmörk, sumir til frænda sinna; sumir leituðu griða til Hákonar konúngs. Raufst þá sá flokkr allr, ok var friðr góðr.

*Brèfamenn í Svíaríki.*

Hákon konúngr fór um haustið norðr til Þrándheims, ok sat um vetrinn í Niðarósi. Þann vetr eptir jól gerði hann menn til Upplanda með brèfum, ok allt í Vík austr, ok segir skipan þá, sem hann vildi vera láta um veizlur ok sýslur, hverir hafa skyldu, svâ ok, at konúngr mundi koma í Vík austr um sumarit eptir. Brèfamenn fóru allt austr í Svíaveldi, á fund Margrètar

drottníngar ok frú Kristínar, ok var þat á brèfum, at Hákon konúngr bauð þeim til sín, ok segir, at þær skyldu hafa þar hinn mesta metnað; voru þar mörg fögr orð á. þær gerðu ok brèf í móti; var þar ok um alla luti líkliga mælt, þá er konúngr hafði orð til sent. Komu þeir aptr til Hákonar konúngs, er með brèfum fóru.

*Hákon konúngr fór í Vík austr.*

Hákon konúngr bjóst um vârit eptir páska, ok hafði lið mikit; fór síðan, er hann var búinn, suðr með landi; kom um vakna skeið suðr til Björgynjar, dvaldist þar um hríð. Síðan fór hann suðr með landi, allt austr í Vík, ok dvaldist þar í kaupstöðum. Hann fór allt austr til Elfar; gekk allt landsfólk undir hann. Síðan sneri hann aptr norðr í Vík, ok fór inn til Oslóar, ok dvaldist þar um hríð. þá kom til hans Margrèt drottníng ok frú Kristín; tók konúngr við þeim allvel; fóru þær með honum, ok nokkurir þjónustumenn þeirra. Konúngr fór um haustit norðr til Björgynjar, ok lèt þar búa til vetrsetu.

*Erlíngr settr í járn.*

Um daga Sverris konúngs var sá maðr í Danmörk er Erlíngr hèt, ok kallaðist son Magnúss konúngs, en er Sverrir konúngr spurði þetta, gerði hann menn til Danmerkr, at leita at honum. Ok er Erlíngr vissi þat, flýði hann undan upp í Gautland. En er Sverrir konúngr varð þess varr, sendi hann brèf til Knúts konúngs, mágs síns, í Svíaríki, ok segir honum, at sá maðr var í ríki hans, er kallaðist son Magnúss

konúngs, ok mundi vilja efla ófrið í Noregi. Þegar Knútr konúngr heyrði þetta, sendi hann menn, at leita at honum, lèt taka hann, ok setja í steinvegginn austr í Vísinsey, ok sat hann þar nokkra stund. Nú með því at hann átti vingott við konu þá, sem mat bar til hans, vildi hún gjarna koma honum á brott, ok nú gerðu þau þat ráð, at hún bar til hans margar blæjur, ok reist hún þær sundr í doka ok knýtti saman endana, ok er hann hugði, at þat mundi vera ærit laung festr ofan fyri borgarvegginn, þá bar hann þá festi um sik, lèt hún nú síga hann ofan fyri borgarvegginn, ok náði eigi festin til jarðar með öllu. Leysti hann sik or festinni ok lèt fallast til jarðar. Þat fall varð svâ mikit, at kostaði lærlegg hans; gekk hann jafnan haltr síðan. Komst hann með þessu móti í brott, ok austr í Járnberaland. Þetta spurði Sverrir konúngr; gerði hann þegar menn austr þannig; tóku þeir hann í Járnberalandi, ok drápu hann þar, ok höfðu aptr til konúngs hálsbók, er hann hafði átt, ok nafn hans var'á, ok þá sömu hálsbók kendu margir síðan.

*Erlíngr steinveggr reisti flokk.*

Þat sama sumar er nú var frá sagt var sâ maðr kominn á Skáneyri, þá er þar var markaðr, er nefndist Erlíngr ok kallaðist son Magnúss konúngs Erlíngssonar. Hann lèzt verit hafa nokkra hríð í Vindlandi, ok þessi Erlíngr kvaðst setið hafa í steinvegg í Vísinsey. Þar á Skáneyri var mart Norðmanna; ok er þessi kurr kom fyri þá, at þar var sonr Magnúss konúngs, leit-

uðu þeir at honum, er verit höfðu fyrr með Böglum. En er þeir fundust, buðu þeir at reisa flokk ok taka hann til höfðíngja. Mun oss, segja þeir, ekki lið skorta, þegar þat frèttist, at vèr höfum þann höfðíngja, er sonr Magnúss konúngs er. Erlíngr svarar: svâ er mèr sagt, at flestir höfðíngjar, þeir er verit hafa með Böglum, eru nú með Birkibeinum, en allt landsfólk í Noregi er nú í vináttu við Hákon konúng; ber ek eigi traust til at hefja þetta ráð við eigi meira styrk, en ek veit enn vân til. Sleit svâ þeirra tali. Fór Erlíngr til Kaupmannahafnar.

*Hákon konúngr var í Björgyn.*

Hákon konúngr var í Björgyn, sem fyrr var ritað. Þar var þá ok Margrèt drottníng. Konúngrinn lèt halda henni borð, ok mönnum hennar; mataðist drottníng sjaldan með konúngi. Júngfrú Kristín var með drottníngu, móður sinni. Drottníng var heldr fá til konúngs ok heldr ókátt, en konúngr var vel til hennar. Frú (Kristín) bar opt orð milli þeirra, þau er þá var betr en áðr. Hakon konúngr lèt búa til jólaveizlu mikillar með öllum góðum föngum. Margrèt drottníng var af hinum mesta fjandskap til Pètrs steypis ok allra þeirra, er austr höfðu farit eptir meyjunni, en hún gerði sèr mjök kært við Hákon galin, ok hafði þar mjök sitt traust, er hann var, allt þat er henni þótti máli skipta. En er at leið jólunum, kom til konúngs fjölmenni mikit, lendir menn ok sýslumenn ok aðrir handgengnir menn. Jólaaptan, er fólk kom í höllina, var skipat mönnum eptir siðvenju. Þá sendi

konúngr eptir drottníngu ok júngfrú Kristínu; sagði at þær skyldi sitja í hásæti með honum. Drottníng svarar: lengi mun ek minnast þess, er ek sat í hásæti, jóla aptan, með mínum herra Sverri konúngi; seg svâ Hákoni konúngi at ek kem eigi þetta kveld í hans hásæti. Mælti hún þetta af hinum mesta móð. Ok er konúngi var þetta sagt, þótti honum illa, er drottníng vildi eigi þiggja vegsemð at honum: en þótt Margrèt drottníng vilì eigi vera svâ . . .

## III.

## Leifar af broti enn eldri lambskinnsbókar.

### *Fyrra blað.*

***Skaddað af smágötum, en þó helzt með því móti að hèrumbil sjöttúngr blaðsins er af því skorinn.***

***(Samanber hèr að framan frá bls. 10 til 13 svâ ok bls 104 til 110, ásamt þarfylgjandi útleggingu.)***

### *Fyrri blaðsíða.*

biskup blása til stýrimanna stefnu ok leitaði eptir, hvat *mönnum þætti* ráðligast til at taka. Erlíngr steinveggr taldi þat sitt ráð *at þeir biði* þar, ok hèldi orrostu við Birkibeina, ok fylgðu því ráði *flestir Baglar, en biskup* svaraði: villtu berjast við sæborgir Birkibeina, þá *muntu* eigi optar þurfa at gera ráð fyri liðinu ok þ . . . . tökum helldr . . . ok *setjum* upp segl vâr ok siglum í Vík austr; berjumst þar *við Birkibeina;* þeir tóku svâ eptir, ok var þat ráðit, áðr sleit stefn*unni* . . . undan, ok þegar lèt biskup fara tjöldin af sínu skipi *ok sneri út or* vâginum, ok síðan hverr eptir öðrum, fóru þá bæði *nætr ok daga* til þess

er þeir komu til Túnsbergs; fór biskup inn til Oslóar. *Birkibeinar* komu til Björginar litlu síðar en Baglar voru í brottu; þeir *höfðu* mikit lið ok stór skip; þóttust þeir ekki mega *halda ep*tir þeim á vetrardag; dvöldust í Björgin um hr*íð*, *ok fóru síðan* norðr aptr, ok sátu í þrándheimi um vetrinn, en *Baglar í Vík*inni, en hvárirtveggju á Upplöndum; voru af Birkibeinum Úl ... raldr kesja, Guðleikr flotbytta ok enn fleiri *sveitar-höf*þíngjar, en af Böglum þóralldi Avguson, Guðlei ... þúngr, en á Hríngaríki Benedict af Gumanesi; *á Vald*resi Jión griðmaðr. þeir felldu um vetrinn Narfa st[1] ... sveitina, en sum kom ofan í Sogn. Opt voru þar at fer ..., ok tóku hvárir menn fyrir öðrum. Sat Erlíngr steinveggr of vetr ... þenna sama vetr gerði Nikulás biskup sveit manna til Upp*landa á* Valldres, ok ætluðu at taka sunu Bár*ðar Gu*þormssonar, Guþorm ok Skúla. Erlíngr búandi fèkk *njósn af því* ok sendi sveinana á braut í markbygð *nokkra;* ok voru þeir þar, meðan Baglar voru á Valldresi, en er *Baglar voru í* brottu, þá sendi Erlíngr sveinana norðr til kau*pángs til* Ínga konúngs; voru þeir síðan með honum. þann sama vetr *var Eir*ekr, er síðan var konúngr í Svíþjóð, með Ínga konúngi, ok *þann vetr* eptir jól gerði Hákon jarl brullaup sitt; þá fè*kk hann frú Kr*istínar; en er vâraði, þá lèt Íngi *konúngr* bjóða út *leiðángr* um öll þrændalög ok allt fyrir norðan Stað. Íngi konúngr ok Hákon jarl fóru norðan um vârit, ok höfðu a*ll-mikinn* her ok stór skip, ok var mart ríkismanna í

[1]) *þannig.*

sýslum *sínum suðr* í landi. Einarr konúngsmágr var í Stafángri, ok hafði þa . . . Baglar gerðu skútna her, þegar eptir páska . . . skútur XXVII. þar voru fyrir Arnbjörn Jónsson, Nic . . .

*Síðari blaðsíða.*

. . . ari, Gyrðr Benteinsson, Atli griðkona, ok ætlöðu til Björ*gynjar* skyndiliga, en er þeir komu í Fjölbyrðu, spurðu þeir, at *Einar var með* sveit sína í Stafángri, ok hafði ekki spurt um þeirra . . . . . at þeim; þeir hlupu snemma . . . af ferð þeirra; var hann á sættarstefnu nokkurri, *ok hugði eigi at Bagla* mundi svâ skjótt at bera, en er þeir sá skipin, þá hljó*pu þeir í S*viðtuns kirkju ok upp í stöpulinn, en Baglar brutu *upp kirkjuna; þei*r buðu Einari grið, ok þat var at lyktum, at þeir gengu *or turninum* ok innar í kórinn; vann þá Einarr eið at Sviðtuns skríni *at hann sk*yldi aldri berjast ímót Erlíngi steinvegg. Eptir þat fóru þeir með hann út or k*irkjunni; þá vi*ldu höfðíngjar halda griðin, en liðsmenn rèðu. *Ok er Einar*r sá, hversu fara mundi, þá mælti hann: saurug munu nú verða *grið B*agla. þá var hann skjótt drepinn. Drepnir[1] höfðu áðr verit . . . *af* sveitinni, er fyrr höfðu teknir verit or kirkjunni; *grið* voru gefin nær fjórum tigum manna. þar tóku þeir lei*ðángr mí*kinn, er Einarr hafði saman dregit áðr um allt Ro*galand, ok mí*kit annat fè er Birkibeinar höfðu átt ok bæjarmenn. Sneru Baglar aptr til Túnsbergs. (*Kapítulaskipti.*)

*H*ákon jarl kom með herinn til *Björgynjar,* ok dvöldust þar litla hríð, ok fóru austr til Víkr.

[1]) *þannig leiðrètt; Drepiunir, Skinnbókin.*

Baglar *voru í Túnsbergi*, ok höfðu búit þá skip sín, ok ætlöðu at fara *norðr í land*. En er þeir spurðu til þeirra Birkibeina, þá áttu þeir tal sitt *hvat til ráðs skyldi taka;* sagði Nikolás biskup at ekki var annat ráð en fara suðr til Dan*merkr ok eigi* berjast við ofrefli; ok var þat ráð tekit at sigla *til Hal*lands, ok voru þar of hríð. Birkibeinar komu til Túnsbergs ok át*tu þar Haugaþí*ug; var þar Íngi til konúngs tekinn. Ok áttu (þeir) Borgarþíng; *var þar enn Íngi* til konúngs tekinn, en Hákon til jarls; fóru síðan aptr til Túnsbergs.

*(Kapítulaskipti.)*

*Þá er Baglar spurðu* þetta, þá gera þeir ráð sitt. Fór þá Filippus *jarl norðr* í Víkina; fóru með honum Arnbjörn Jónsson, Filippus af Veg*ini, Hreiðarr* sendimaðr, Nicolaus Bótólfsson, Atli griðkona, Helgi Birgisson; *þeir höfðu* XX skip. Steinveggr var eptir ok sumt liðit; *en áðr var farinn* Nikolás biskup suðr til Kaupmannahafnar. Baglar fóru n*orðr sem skjótast*, ok ætluðu til áhlaupa nokkurra ok koma á úvart; *en er* þeir komu í Hafsteinssund, þá lögðu þeir *þar at*, ok spurðu at Birkibeinar *voru ekki aus*tan fjarðar ok ætluðu at bíða nætr at sigla yfir fjör*ðinn; þá sigldi* kuggr einn sunnan at þeim ok fram í sundit, en Baglar *vöknuðu ok báðu* at þeir legði at þeim, en kuggrinn gekk fram or sun- . . .

2.

*Af síðara blaði.*

***(Samanber hér at framan, frá bls.* 30 *til bls.* 33 *ok enn fremr frá bls.* 138 *til bls.* 145 *með fylgjandi útleggíngu. Efst er nokkuð rifið af horninu.)***

Þorfinnr lúðrsveinn ok allir Birkibeinar þeir er

áðr höfðu verit . . . nú útí kyrkjuna, en er merkit . . . þá hljópu þeir út allir, er áþr höfþu inn hl*aupit; Þorfinnr* blès sem hann vildi . . . höfðíngjar; í Lafranz kirkiugarði fèll þórðr dokka, . . . af Gumanesi, Gunni lángi; fór þá flóttinn *ofan um Miklaga*rþ. En er þeir komu ofan at garðshlíðinu, Baglar, þá var þar þröng *mikil*, þvíat eigi máttu allir senn fara; þar fèll þá hverr um *þveran annan*, svâ at þar var köstr mikill; þá kom jarl at laupandi ok kleif upp yfir köstinn ok þaðan upp yfir húsin ok svâ fra*m* á . . . svâ ofan á bryggjur, ok hafði hann þá fengit áverka mikla; . . . *rèðu* þá Birkibeinar til at höggva köstinn; þá mælti einn þeirra: höggvit eigi . . . þá varð þeim staðara at höggva. Baglar hljópu þá *á fætr sem* þeir máttu skjótast; komst þá mart undan, en fjöll*di fèll*. þá hlaupa Baglar á skipin, en Birkibeinar á bryggjur*nar*, *ok hljópu* á kaf; náði sumt skipunum, en sumt *tók festarnar* ok drógu at sèr skipin. Lètu þá hvârirtveggju *gánga* allt þ*at er til* vâpna var. Baglar hjöggu festarnar, ok skutu við forkum, *ok kvomust út með þ*ví, sem þeir máttu taka menn sína marga af sundi. Baglar *lögðu út á* vâginn, en sumir yfir við Múnkabryggjur, *ok tóku menn sína, er h*öfþu hlaupit or bænum.

*B*aglar rèru þá út (*or*) vâginum, ok norðr, ok inn *í Arnarfjörð*, *en* Birkibeinar, þeir er jarl hafði þar eptir sett, hljópu til ok h*juggu skipin, þ*egar þeir sá ferð Bagla, hljópu þá í skóginn ok fálu s*ik; en er Baglar kvomu* at, þá tóku þeir skipin,

drógu upp ok bættu; sumir hljópu í skóginn, *at leita* reiðans, ok fannst hann flestr. þá rèru þeir braut þegar um *kveldit*... ftir, var þar á Filippus af Vegini, rèru þeir þá norðr... skipamönn um rèru í Víkíngavog; en þeir er á njósn (*voru*) í Úlfasundi, sem fyrr er ritat, rèru norðr, er þeir sá lið*it fara sunnan*, ok sögðu sínum mönnum, at fjórtán skútur fóru sunnan ok kend*u* at jarlinn hafði þær suðr haft. þeir reka af sèr tjölldin, ok róa inn á fjörþinn. þá sá þeir *skjótt at hinir sneru eptir þeim* ok svâ at ekki voru skildir við stafna; þóttust þá vita *at úfri*þr var, ok róa þá inn til Moldafjarðar, en skúturnar sóttu eptir brátt; *en er Birkibeinar komu at landi, þá hlaup*a þeir upp, en s*umir* á kaf[1].

*Hèr byrjar önnur blaðsíða, sem og að nokkru leiti er ólæsileg.*

... Andres dritljóð ok mart af Birkibeinum. Baglar tóku *skipin ok þat er á var;* fèkkst þar mikit lutskipti; fóru þá Bag*lar suðr a*ptr ok hittu Steinvegg í Víkíngavâgi.

*Hákon jarl fór þegar* or borginni, er hann spurði at Baglar höfðu no*rðr* f*a*rit; hræd*dist hann at konúngr mundi koma þeim á úvart; fór jarl þá* upp um Borg*arskar*ð ok ofan í Ost*rar*fjörð, svâ uppá Vors, þá *um* Rauðaf*ja*ll, ok ofan í Lærадal í Sogni, þá upp á Valdres, *ok þa*þan upp í Guðbrandsdali, svâ norðr um (*Dofra*)fjall til þrándhei*ms*, *ok hi*tti þar Inga konúng. Eiríkr erkibiskup kom

[1]) *það eptir er línunnar er skorið neðan af blaðinu.*

í Noreg, sem fyrr er ri*tat*; ok hafþi hann mist sjónar sinnar; hann sat at stólinum *í Niðar*ósi tvâ heila (*vetr*); ok (*á*) enum þriðja vetrinum bar hann þat mál *upp fyrir* kórsbræðrum, at hann vill gefa upp stólinn ok vill láta *kjósa* annan mann til erkibiskups, ok voru þar margar stefnur at áttar, *erkibiskup at* kjós*a;* þá sendi erkibiskup *menn* austr í Vík *til* Oslóar. Þórir, son Guðmundar flata, var þá kórsbróðir *í Hall*varðskirkju. Erkibiskup sendi honum orð at *kæmi* at *sèr, en Þór*ir lagði eigi þá ferð undir höfuð, fór *norðr til Þrándheims*, (*er vâra*)þi. En *er hann* kom á fund erkibiskups, þá sagði erkibiskup at *þeir* vildu kjósa *hann* til erkibiskups þar*; hann* mæltist undan, sagði at *hann mundi eigi* austan farit hafa, ef hann vissi þetta erindi áðr; *en at bæn* erkibiskups ok annara kennimanna, þá varð þat at lyk*tum at Þórir* játtaþist undir kosníngina. En eptir um sumarit fór *hann til Róms*, ok var í braut einn vetr, ok fèkk vigla (*vígslu*), ok kom aptr *annat* sumar, ok þat sama sumar er þat er erkibiskup kom í land ok Hác' . . . sk . . . í Björgyn ok nú er frá sagt um hríð. Erkibiskup var vitr maðr ok vinsæll.

*Þeir Ingi konúngr ok Hákon jarl lètu þá* hallda *uppi* skipagerþ; lèt konúngr gera þat skip er voru VI rúm ok XXX; (*Hákon jarl*) lèt gera *annat* skip, er voru II *rúm* ok *XXX, ok var þat* mikit *í sèr; Pètr* steipir lèt gera et þriþ*ja*[1] . . . vm . . . ok en . . . ok Há

[1]) *Hèr eru tvær linur nær ólæsiligar.*

k . . . Baglar fóru suðr eptir slagit í Moldafirði til *Björgynjar*, ok dvölþust þar um hríð, þ? skiptu þeir liðinu; fór *Filippus jarl* austr með öll stórskipin, en St*ein*v*eggr* hafði *tvítugsessur* ok smærri skip; fór hann norðr ok allt til Stíms, *ok lá* í Frekey*jarsundi*, *ok gjörði* s*kútur norðr á Mæri, ok bauð út* leiðángri *at mönnum ok vistum, ok tók af liðinu slíkt er honum sýndist; fór hann* þá suð-

# SAGA HÁKONAR KONÚNGS HÁKONARSONAR[1].

Á dögum Innocentií páfa [þess er hinn þriði var með því nafni í postuligu sæti[2], gerðust þau tíðindi í norðrlöndum, er saman eru sett um æfi Hákonar konúngs, sonar Hákonar Sverris sonar; þá var liðit frá holdgan vârs herra Jesú Christí[3] M ok CC ok III vetr; þá voru keisarar yfir Rómaborgar ríki Filippus af Svava[4] út á Púli; en Otta[5], son Heinreks hertoga af Brúnsvík fyri norðan fjall. Þeir stríddu sín á milli, þar til er Filippus var veginn, hertogi, af [sínum þjónustumönnum[6]. Þá var konúngr yfir Danmörk Valdimarr Valdimarsson, en Sörkver Karlsson í Svíþjóð; Jón Heinreksson í Englandi, er kallaðr (var) [sina terra[7]; en Hákon Sverrisson í Noregi. Þat var einum vetri eptir andlát Sverris konúngs. Þann vetr hafði Hákon konúngr setið norðr í Þrándheimi, [ok fór um vârit suðr til Björgynjar[8]. Hann dvaldist þar litla hríð, fór þaðan suðr

[1]) Hèr hefr sögu Hákonar k. Hákonarsonar hins krúnaða, *G*; ins gamla, sonarsonar Sverris kóngs, *H*; á þann hátt at (á dögum), *B*, *F*. [2]) *frá [ v. H.* [3]) Cristz, *G*. [4]) Svafaborg, *B*. [5]) Otto, *B*, *G*; Ottu, *F*. [6]) Philippo hertoga sínum undirmanni, *G*; þjónustumanni, *B*. [7]) sinakurta, *B*; (rèttast: *sine terra*). [8]) Björgvinar (*ok annars*) *F*.

með landi, ok allt[1] austr til landsenda, [var þar litla hríð[2]; þar voru þá með honum margir ágætir höfðíngjar, [Hákon galinn, systurson Sverris konúngs ok Pètr Steypir, annarr systurson hans, Sigurðr konúngs frændi, Hróarr konúngs frændi, Eyvindr prests mágr, Dagfinnr bóndi, Einarr konúngs mágr ok margir aðrir lendir[3] menn ok sveitarhöfðíngjar[4]. Þá er Hákon konúngr fór austan frá elfinni, dvalðist hann mjök lengi í Borg um haustið. Þar var hjá honum kona sú er Ínga hèt, góð kona ok trúlynd, hon var góðra manna ok frændkona Auðunar í Borg, ok marga átti hon góða frændr í Borgarsýslu, er kallaðir voru Várteigíngar, eðr Varteigsmenn. Ínga var í herbergjum Hákonar konúngs, ok samrekti[5] hann hjá henni, svâ at þeir vissi Hákon galinn ok fleiri trúnaðarmenn hans. Hákon konúngr fór [or Borg ok inn til Oslóar, ok síðan[6] norðr í land. Úr Oslu fór með honum Margrèt drottníng, er átt hafði Sverrir konúngr ok frú Kristín dóttir þeirra. Hákon konúngr fór til Björgynjar fyrir jólaföstu, ok efnaði þar til mikillar jólaveizlu. [Þann vetr í jólum fèkk Hákon konúngr sótt þá er leiddi til bana; hann andaðist átta dag jóla.

*Tekinn Guthormr Sigurðarson til konúngs.*

2. Tíunda[7] dag jóla tóku Birkibeinar sèr konúng, Guthorm, son Sigurðar lávarðar. Þá gaf konúngr jarls nafn Hákoni galni[8], frænda sínum, ok battst[9] hann þá fyri hirðstjórninni[10]. Um

---

[1]) *frá* [ konúngr fór um várit, *G.* [2]) *v. G.* [3]) ágætir, *B.* [4]) *frá* [ sem fyrr segir, *G.* [5]) rekti, *H.* [6]) eftir þat, *G.* [7]) Niunda, *B.* [8]) galinn, *F.* [9]) *þannig hin*; baðzt, *A.* [10]) herstjórninni, *hin.*

vârit eftir fara Birkibeinar norðr til Þrándheims, var Guthormr þar til konúngs tekinn, á Eyraþíngi, yfir allt land, sem lög stóðu til[1]. Þat sama sumar andaðist Guthormr konúngr í Niðarósi. Eftir andlát Guthorms konúngs höfðu Birkibeinar Eyraþíng, var þar talat um konúngstekju, vildu liðsmenn[2] taka til konúngs Hákon jarl, en þrændir mæltu í móti, ok vildu taka til konúngs Ínga Bárðarson Guthormssonar ok Cecilíu konúngsdóttur, bróður jarlsins sammæðra, sögðu þeir at hann væri eigi firr konúngdóminum í móðurætt [en jarlinn bróðir hans[3], en jarl væri þó útlendr at föður kyni, en eigi norrænn, en Íngi [væri þar ættborinn[4] í Þrándheimi, ok kominn af hinum beztum ættum, er voru í Noregi; liðsinnaði erkibiskup þrændum at þessu máli; kom þar ekki öðru við, en þeir skyldu ráða, hvern konúng þeir vildi hafa. Lauk því þíngi svâ at Íngi var til konúngs tekinn, en þeir bræðr gerðu þá skipan með sèr, at Íngi konúngr gaf Hákoni jarls nafn, en hálft ríki skyldi hafa hvârr þeirra við annán, en Hákon jarl skyldi bindast fyri flokkinn, þvíat hann var vanari hirðstjórninni, ok reyndr at harðfengi.

*Fæddr Hákon Hákonarson.*

3. Um sumarit eftir var Íngi til konúngs tekinn, sem fyrr var ritað. Þá hófu[5] þeir Beglínga flokk í Víkinni, Danakonúngr ok Nicholás

---

1) *frá* [ *í 1sta kapitula:* þenna vetr lèzt Hákon konúngr; var Guthormr þá til konúngs tekinn yfir Noreg, en Hákon galinn til jarls, eptir því sem segir i Böglúngasögum, *H.* 2) margir, *G.* 3) *frá* [ *v. G.* 4) *frá* [ norrænn ok þar óðalborinn, *F.* 5) höfðu, *F.*

biskup. þá[1] var Ínga, er fyrr var getið, austr í Borgarsýslu í [bygð þeirri[2] er Heggin[3] heitir á þeim bæ er Fólkberg[4] heitir, þar saung prestr sá er þrándr hèt. þar fèkk Ínga sótt, ok fæddi sveinbarn, en þrándr prestr vissi at Hákon[5] var faðir sveinsins, ok skírði sveininn, ok fór með leyniliga, svâ at hann trúði öngum til á at halda nema [sonum sínum II ok konu sinni[6]; hann fóstraði sveininn leyniliga. Erlendr hèt maðr á Húsabæ, hann var frændi Sverris konúngs, af ætt Guthorms grábarða. þrándr prestr fann Erlend, ok gerðu þeir ráð um mál sveinsins, ok (at) þeir skyldi sem leyniligast meðfara. [þá XII mánuði[7] var sveininn með þrándi presti, en annan vetr fyri jól byrjuðu þeir ferð sína austan or[8] Borgarsýslu, Erlendr ok þrándr prestr, þeir höfðu með sèr konúngs son ok móður hans, ok fóru leyniliga til Upplanda. þeir koma jólaaptan í Hamar kaupáng á Heiðmörk. þar voru fyri sýslumenn[9] II, hèt annar Friðrekr slafsi, en annar Gjafvaldr[10] gauti; þeir höfðu miklar sveitir ok sátu við mikinn ótta, þvíat þá voru Baglar um öll Upplönd. Ívarr biskup var þá í Hamri, hann var þá sem jamnan mikill óvin ætt(ar) Sverris konúngs, ok allra Birkibeina. Nú þótt þeir Erlendr færi leyniliga, þá varð þó biskup varr við, at konúngs son var þar kominn; bauð þá biskup sveininum til sín

[1]) Eptir um sumarit, *G.* [2]) því hèraði, *H.* [3]) Hægin, *F.* [4]) Fólkisberg, *F, G, H*; Folkasberg, *B.* [5]) konúngr Sverrisson, *b. F, G.* [6]) sèr ok sonum sínum, *G.* [7]) þau misseri, *H; v. G.* [8]) *b. hin.* [9]) Birkibeina, *b. F, G.* [10]) Gjafjaldi, *G*; Gjafaldr, *F, B.*

of jólin, ok svâ móður hans, ok taldi frændsemi við hann sem var, en Birkibeinum var engi trúnaðr á því, ok sögðu sveininn skyldu fara til hans eftir jólin, ok fundu þat til at konúngs son væri farmóðr, ok svâ móðir hans, at þau mætti ekki vera í fjölmenni. [En jafnskjótt sem leið jóladaginn, lètu þeir sýslumenn taka III hesta ok fluttu í brott sveininn, ok móður hans, norðr til Litlakaupángs. þau voru um jólin á einum litlum bæ mjök leyniliga. En meðan jólin voru, gerðu Birkibeinar orð yfir á þotn ok í allar þær bygðir sem í nánd voru, ok stefndu til sín öllum Birkibeinum, þegar eftir jólin. At liðnum jólum fóru þeir or Hamar kaupángi, til Litla-Hamars, þar sem sveinninn var, ok höfðu þau braut með sèr mæðgin, ok viku þá í Eystridali, ætluðu þaðan norðr til þrándheims[1]. Í þeirri ferð fengu þeir vâs mikit af illviðri, frosti ok snjáfum, þeir voru stundum úti um nætr á skógum ok óbygðum. Eitt kveld gerði[2] [svâ íllt veðr[3] at þeir vissu eigi, hvar þeir fóru, þá tóku þeir II menn, þá er bezt voru skíðfærir, at fara með sveininn, hèt annar þorsteinn slefa[4], en annar Skervaldr[5] skrukka; þeir fengu II bændr til leiðsagnar með þeim, [þá er kunnast var. þeir fara sem ákafligast, ok hittu þá eigi[6] til bygðar-

1) *frá* [ Annan dag jóla fóru þeir braut með sveininn leyniliga, ok hvildu eigi fyrr en norðr við Litla Hamar; voru þau mæðgin þar í litlum bæ leyniliga, *F, G, B.* At IX vikna föstu fóru Birkibeinar við þau mæðgin til Eystri Dala, *G* (í Austrdala, *F*). 2) *b. G.* 3) kafa fjúk, *H.* 4) skefla, *G, B*; skeifla, *F*; slefsa, *H.* 5) Skærvaldr, *F.* 6) *v. B.*

innar, ok komu[1] þar sem voru[2] úthlöður nokkurar, ok slógu þar eld, ok bjöggu um sveininn. Síðan fóru leiðsögumenn aptr í mót liðinu, ok komu um miðnætti aptr til hlöðunnar[3], var þar hörð vâsbúð, þvíat öll hlaðan draup, [þegar er snjárinn bráðnaði af eldinum. þótti þá flestum betra úti en inni[4]. Engi var önnur fæða sveinsins, en þeir bræddu snjá í munn honum. þat heitir Nafardalr er þeir voru þá í. þeir komu í svâ miklar ófærðir at þeir fengu eigi brotið snjáinn öðruvís, en þeir stöppuðu með spjótsköptum sínum. En hvar sem þeir komu í Eystridali, gerðu bændr þeim hinn bezta beina, ok lèðu þeim reiðskjóta, ok vísuðu þeim veg. Svâ hafa vitrir menn sagt, at þat hafi líkast verit vâs þat ok erfiði er Birkibeinar höfðu í þessari ferð, með ótta þeim er þeir höfðu af sínum óvinum, áðr þeir kvæmi konúngssyni norðr til þrándheims, því vâsi er Ólafr Tryggvason hafði, þá er þau[5] móðir hans flýðu or Noregi til Svíþjóðar[6], svâ [sem segir í Hákonar kviðu, er Sturla þórðarson orti[7]:

þá hefir í ætt
öðlíngr drepit[8]
Tryggva niðs
tírar höfði,
er framráðs
flýja þurfti

[1]) á bæ, *b. B.* [2]) *frá* [ þeir fundu, *G.* [3]) þeirra herbergja, *G.* [4]) *frá* [ er hon kendi eldshitans, *H.* [5]) Ástriðr, *b. hin.* [6]) fyri riki Gunnhildar konúngamóður ok sona hennar, *b. hin.* [7]) segir Sturla þórðarson, *G.* [8]) *A b.* er, *ofaukit.*

ýnglíngs barn
fyrir ófriði.

Erlíngr steinveggr[1] ok höfðíngjar Bagla, þeir er í Túnsbergi sátu, fengu njósn af Nikolási biskupi, um þat er þeir Erlendr af Húsabæ ok þrándr prestr höfðu farit úr Borgarsýslu til Upplanda. þeim var ok sagt at í ferð var með þeim son Hákonar konúngs[2]. Ok er þeir spurðu þessi tíðindi, sendu þeir VIII sveitarhöfðíngja til Upplanda með miklu liði, at leita at sveininum, ok báðu þá allan hug á leggja at þeir fengi náð honum. Ok er þeir komu uppá Heiðmörk, voru Birkibeinar, þeir er með sveininn fóru, í brottu ok í Eystridala, ok sóttu norðr af fjalli, spurðu Baglar, at mikit lið dreif til þeirra. [Ok með því at þá var veðrátta hörð, en færðir þúngar, báru Baglar eigi traust til at halda eptir þeim[3]; sneru þeir þá aptr á Heiðmörk; svâ segir Sturla:

En lofðúngs
leita fóru
á Upplönd
átta sveitir
Bagla liðs,
búnar rómu,
ef [þær fylki[4]
finna mætti.
Hafði Kristr
of [konúngs efni[5]

---

1) ok Philippus jarl, *b. hin.* 2) *A bætir hèr rángliga við:* Hákonarsonar; *B, F hafa rèttar:* Sverrissonar. 3) *frá* [ Vildu Baglar þá eigi fara lengra, *G.* 4) fólkvörð, *hin.* 5) konúngmenni, *H.*

huliðs hjálm,
heilli góðu,
þá er allvalds
úr ófriði
frægðar son
fagnandi kom.

Birkibeinar sóttu norðr eptir dalnum með sveininn. [En þótt erfitt yrði um ferðina, kom mart manna til móts við þá af mörgum bygðum, bæði Birkibeinar ok bændasynir úr Guðbrandsdǫlum, þeir sem fylgja vildu konúngssyni. Tveir sýslumenn komu í Eystridali, hèt annar Sæmíngr, ok[1] þorbrandr svarti [með IXtigi manna[2], ok um fram sveinar; þeir komu norðr af fjallinu í bygð þá er Ál heitir, í ofanverðum Gaulardal[3]; þóttust þeir þá komnir or öllum mannháska at sinni. [Er mönnum þat nú auðsætt, at guð hefir þenna konúngson marga vega mjök hafit til margrar nytsemdar, er hann framdi síðan í kirknagerð ok uppheldi heilagrar kristni[4].

---

1) en annarr, *F.* 2) ok höfðu á öðru hundraði, *H;* voru þeir nú XIIII tigir manna saman, *B, F.* 3) *frá fyrra* [ fjöldi manns kom í för með konúngssyni, ok er þeir komu norðr af fjalli, *G.* 4) Eigi mega menn nú undrast þó at allzvalldandi guð hafi framarla veitt sína miskun þessum konúngasonum Ólafi Tryggvasyni ok Hákoni, er hèr er nú af sagt, ok frelsta þá af valdi sinna úvina til svâ mikillar frægðar sem hann hafði hvârntveggja skipat, annan til þess at hefja af upphafi kristnina í Noregs veldi, en annan til þess at styrkja hana framar en engi annarr Noregs konúnga með enum helga Ólafi konúngi í kirkna gjörðum ok laga skipan ok mörgu öðru uppheldi guðs kristni, sem þeim mönnum var kunnigt er honum voru samtíða (uppi) í Noregi, *F, G, H;* ok gjörla vissu hans háttu ok atferði, *b. F, H.*

*Hákon kemr til Niðaróss*[1].

4. Íngi konúngr var þá í Niðarósi með miklu liði, hann fekk njósn af því at lið var komit austan of fjall, en þat fèkk hann seint spurt með sannindum hvat liði þat var, þvíat Birkibeinar fóru tómliga ofan eptir bygð, er þeir voru farmóðir. Sá kvittr fló í bygðinni at konúngs son væri í ferð, en þat kunnu öngir at segja, hvers konúngs son hann var; hugðu þat margir, at ófriðr mundi vera, þvíat þann tíma hófust margir óaldarflokkar bæði í Danmörk ok austr á Mörkum. Ínga konúngi var sagt, at lið þetta mundi brátt koma til bæjarins, ok meiri von at þeir hefði konúngsson með sèr[2]. Lèt konúngr þá blása öllu liðinu út til litlu borgar, en sendi II hirðmenn[3] upp á ásinn[4], mættu þeir þar þeim mönnum, er sýslumenn[5] höfðu sendt fyri sèr á konúngs fund. Sneru þá allir saman aptr til konúngs, ok segja honum allt um ferðir sínar, [ok þeir hefði með sèr son Hákonar konúngs frænda hans. Konúngrinn þakkaði þat guði ok allir er heyrðu; beið konúngr sjálfr þar, ok öll hirðin konúngs sonar[6]. Konúngr tók sveininn ok kysti[7], ok bað frænda sinn vel-

---

[1]) *þ. B, H,* Andlát Erlíngs steinveggs, *G.* [2]) ok fyri því at konúngr hafði engin sannindi (enga njósn) af þeirra ferð, *b. B, F.* [3]) Gunnar tind ok Eyvind Sámsson, *b. hin.* [4]) riðu þeir sem skjótast máttu þeir, *b. hin.* [5]) Birkibeinar, *G.* [6]) en allir aðrir sneru í bæinn, *b. H;* síðan vísaði hann öllu fólki til bæjarins, *b. B, F.* [7]) *frá* [ konúngr þakkaði þat guði er konúngsson, frændi hans, kom með heilu á hans fund. Konúngr beið þar til þess er þeir komu með sveininn, hann tók við honum af hesti, *G.*

kominn sèr ok allri hirðinni, fór síðan til bæjar; var konúngsson með konúngi í góðu yfirlæti, ok móðir hans. Allir hinir fornu Birkibeinar urðu fegnir konúngssyni ok fóru jafnan[1] at finna hann fyrir ástar sakir við [föður hans[2]. Um vârit eptir veittu Baglar slag í þrándheimi, [en um sumarit eptir var mikill ófriðr í landinu með Birkibeinum ok Böglum; þá gaf Hákon jarl slag í Björgyn. En um haustið fóru þeir konúngr ok jarl norðr til þrándheims, ok sátu þar um vetrinn[3]; þá tók Hákon jarl konúngsson til sín ok móður hans[4], ok lýsti því jafnan, at þeir jarl (ok) konúngr báðir sátu í föðurarfi þessa sveins. þenna vetr andaðist Erlíngr steinveggr, tóku þá Baglar til konúngs Filippus [jarls son[5]. Um vetrinn eptir, er konúngsson var þrèvetr, fóru þeir Íngi konúngr ok Hákon jarl or þrándheimi með miklu liði suðr til Björgynjar, ok allt austr í Vík. þá lèt Hákon jarl eptir í Björgyn[6] frú Kristín, konu sína, ok Hákon konúngsson ok móður hans; þar var ok frú Kristín, dóttir Sverris konúngs. þau voru í borginni of sumarit til þess er Baglar komu til Björgynjar, ok Birkibeinar gáfu upp borgina fyri Böglum með ráði þóris erkibiskups, er þá var í Björgyn. En er borgin var uppgefin, þá tók Filippus,

---

1) hversdagliga, *B*, *F*. 2) forellrit, *G*; ok eigi síðr við föðurföðurinn, *b. hin*. 3) *frá* [ þenna vetr sátu þeir konúngr ok jarl í þrándheimi, *G*. 4) þá var með honum frú Kristín, *b. F*, *G*; jarlinn unni mikit sveininum, ok var til hans ástsamliga, ok, *b. G*; at hann virði hann at öllu sem hans son, *b. B*, *F*. 5) jarl sinn, *F*. 6) borginni, *B*; bergi, *F*.

[höfðíngi Bagla[1], konúngsson til sín, ok var hann III mánuðr[2] með Böglum. Þat var einn dag, er Baglar báru konúngsson í [loptrið eitt[3] yfir bryggjum, þar sem lángskip [voru undir[4]; þeir mæltu við sveininn: sè lángskipin, konúngsson; sè ek, segir hann; hverr á? segja þeir. Herra minn, segir sveininn. Herra þinn er Filippus konúngr, segja þeir. Ekki er hann minn herra, segir sveinninn, Hákon jarl er minn herra, ok hann á skipin. Þeir hlógu at ok mæltu: eigi mun sveinn þessi oss vera tryggr Böglum. Reiðarr sendimaðr var þá einn[5] enn [mesti höfðíngi við[6] Böglum ok [ráðsmaðr fyri flokkinum[7]. Hann [mælti fyri ráðsmenn Bagla[8]: ef vèr skyldim storræði með höndum hafa, þá væri þat efni nú í voru máli eitt er aldri [var fyrr[9], ok vèr mættim skjótt allan styrk undan Birkibeinum (hafa) ok allt landsfólk mundi með oss vera. Þeir spurðu, hversu þat mætti. Hann sagði, vèr höfum hèr í voru valdi son Hákonar konúngs[10], þess höfðíngja er allt fólk elskaði; veit ek ok at allir[11] Birkibeinar unnu svâ mikit hans feðr, at þeir munu gjarna vilja þjóna hans afspríngi, ok þar líf sitt viðleggja. Nú ef vèr tækim hann til konúngs yfir vârn flokk, en gæfim þeim jarlsnafn, er [áðr er konúngr vâr kallaðr[12]; erum vèr svâ viti bornir, sem nú erum hèr á stefnunni, at vèr vitum lög hins heilaga Ólafs konúngs, at

1) Baglakonúngr, *G.* 2) vetr, *B, F.* 3) loptsvalir nokkurar, *hin.* 4) lágu fyrir, *hin.* 5) enn, *G, B.* 6) með, *G.* 7) mikils metinn, *G.* 8) kallaði til tals við sik nokkra sveitarhöfðingja af ráðgjöfum Bagla, ok mælti, *B, F.* 9) *b. F, G.* 10) Sverrissonar, *b. B, F.* 11) fornir, *b. B.* 12) vèr þjónum áðr, *G.*

sá er rèttr konúngr í Noreg, er konúngsson er, en eigi dótturson eðr systurson konúnga, sèm [vèr þjónum til hvârirtveggju Birkibeinir ok Baglar[1]. Þætti mèr sem þat væri mest sæmð vârs höfðíngja at hann heldi sína gæzlu yfir hvârutveggja, ríkinu ok konúnginum[2], þætti mèr þá sem hann væri bæði konúngr ok jarl yfir Noregi. Ráðgjafar Bagla, þeir er á stefnunni voru, segja þetta höfuðráð, en sumir köllu sèr ófallit, at (taka) konúngsnafn af þeim höfðíngja, er með þeirra styrk ok trausti hafði áðr konúngsnafn fengit. En þat var [mest er[3] at Baglar þorðu eigi upp at kveða, þvíat þeir hugðu at konúngr þeirra mundi þeim verða stórlega reiðr. Þenna tíma fengu Baglar njósn af því at Hakon jarl var sunnan á leið, ok hann mundi skjótt koma til bæjarins; en Baglar vildu með öngu móti bíða hans, ok bjöggust þeir brott skjótliga. Þá bað Þórir erkibiskup herra Filippus fá sèr konúngsson[4], ok hann gerði svâ; var konúngsson með erkibiskupi til þess er jarl kom sunnan; síðan tók hann við konúngssyni, ok þakkaði guði, er hann var heill kominn or valdi Bagla[5], fór hann síðan jafnan með jarlinum[6]. Þenna vetr eptir var konúngsson [IIII vetra[7], ok var sá kallaðr hinn illi vetr, en Birkibeinar kölluðu Seleyjavetr[8]; þeir lágu í Seleyjum[9] lengi um haustið, þá var konúngsson með

[1]) nú þjóna Noregs menn, G. [2]) konungdóminum, F. [3]) þó mest efni í, F. [4]) til gæzlu, b. H. [5]) ok sagði hann skyldi eigi við sik skilja, b. F, G. [6]) hvert sem hann var í kaupstöðum eðr á skipum, b. B, F. [7]) á fjórða vetr, B, F, G. [8]) Sóleyjavetr, G. [9]) Sóleyjum, G.

jarli, [hann hafði Ólafssúðina, hon var eitt rúm ok XXX[1]. Þá voru svâ mikil frost at fraus allan drykkinn, ok smjörit svâ hart at eigi mátti klína brauðit með fyri konúngsson; en hann vildi jafnan frammi vera með hirðinni[2]. Jarl gaf konúngssyni flúrbrauð[3], bakat svâ þykkt ok blautt at vefja mátti saman; konúngsson[4] mælti til Birkibeina: bindu vèr nú smjörit, Birkibeinar! En allir hlógu at, fór þetta um allan herinn með þessu orðtaki: bindu vèr smjörit, Birkibeinar! svâ býðr konúngsson. Sveinninn var sprækr[5], þó at lítill væri vöxtrinn, [ok roskinn mjök í orðum[6], svâ at jarl ok aðrir hlógu mjök at orðum hans hlægiligum[7]. Jafnan tóku Birkibeinar hann tveir senn ok toguðu hann í milli sín fyri gamans sakir, ok kváðu skyldu draga hann til munaðar[8], þvíat þeim þótti hann ofseint vaxa.

*Um einkamál konúngs ok jarls[9].*

5. Þá er Hákon konúngsson var VII[10] vetra, lèt jarl setja hann til bækr, en er hann [var at námi[11] um stund, spurði jarl, hvat nemr þú, Hákon? segir hann. Ek nem saung, herra. Jarl svarar: ekki skaltu saung nema, þú skalt hvârtki

[1]) *v. G.* [2]) þvíat allir voru vel til hans, *b. G*, (við hann *F*). Þeir allir bezt er ellztir voru, *b. B, F.* [3]) flaurbrauð, *G.* [4]) stóð fyri hirðinni, ok var mjök kallt; hann sá at menn sumir bitu annan bita af brauði, en annan af smjöri; hann tók smjörit, ok vafði í brauðinu ok, *b. B, F.* [5]) mjök spakr, *H.* [6]) ok hlægimáll, *b. B, H.* [7]) *frá* [ hann var mjök hlæðimálugr (hlæimálugr, *F*); varð at því mörgum mikit gaman, *G, F.* [8]) munar, *G, F, B.* [9]) *b. G.* Sætt Birkibeina ok Bagla, *B*; Hákon konúngsson til bækur settr, *H.* [10]) VIII, *B.* [11]) hafði numit, *G.*

vera prestr nè biskup. Mikla elsku hafði jarl á konúngssyni ok svâ frú Kristín; en þó var svâ hennar skaplyndi sem [flestra er kvenna[1], at stundum [mælti hon mjök harðliga til hans, er hon var reið[2], ok lèzt eigi vita, [hvers son[3] hann var. Jarl svarar, eigi skaltu svâ tala, þat vita allir menn at vèr sitjum í föðurarfi þessa sveins ok minn bróðir[4]. Baglar ok Birkibeinar sættust í Hvítíngseyjum [um sumarit eptir Seleyjavetr[5]. En er þeir voru sáttir[6], hafði Hákon jarl umleitan við vini sína, at hann vildi láta taka sik til konúngs [yfir þriðjúng lands[7]. En Íngi konúngr setti þar nei fyri. Síðan hóf jarl annan útveg; hann átti skilgetinn son, er[8] Knútr hèt, en konúngr átti friðluson, er Guthormr hèt; jarl bað at þeir gerði þau einkamál með sèr, at sá þeirra er lengr lifði, skyldi taka allt ríki eptir annan, ef hann[9] ætti eigi skilgetinn[10] son, en sá skilgetinn arfi þeirra, er lengr lifði eptir þá báða, skyldi hann eiga allan Noreg ok allan arf annan. Var þeim einkamálum lýst á Eyraþíngi, svâ at við var þórir erkibiskup[11] ok [Marteinn biskup, [Nikolás biskup[12], ok fjöldi annara manna; [var þetta fest[13] með innsigli konúngs ok jarls ok biskupanna.

1) margra kvönna, *G.* 2) var hún mjök stuttmælt við sveininn, *G.* 3) hverr, *G.* 4) þetta mælti hann jafnan (opt) öllum mönnum áheyrandi, *b. G, F, B.* 5) Sæleyja vetr, *F;* Seljuvetr, *B; frá* [ sem fyrr segir, *G.* 6) ok friðr vorðinn í landi öllu, *b. F.* 7) *v. G.* 8) júnkherra, *b. G, B;* júng herra, *F.* 9) konúngr, *G.* 10) skilfenginn, *F, B.* 11) Eiríkr biskup, *b. G;* ok Eiríkr erkibiskup, *b. B, F, H.* 12) *v. G; frá fyrra* [ Nicholás, Marteinn, lýðbiskupar, *B.* 13) þessi einkamál voru staðfest, *F.*

*Viðtal konúngssonar ok Helga*[1].

6. Einn dag er [þíng var í bænum[2] fèkk Hákon konúngsson leyfi at fara yfir til Bakka til Ástríðar sifkonu sinnar; hann kom heim um kveldit eptir mat. Sá maðr var í hirð jarls, er Helgi hvassi hèt, forn hirðmaðr[3] ok Birkibeinn; Helgi elskaði mjök sveininn[4]; nú gekk konúngsson til Helga, hann hratt sveininum frá sèr, ok bað hann í brott fara. Sveinninn svarar: hví ertu reiðr, Helgi minn[5]? Hann svarar: bröttu[6], í dag var dæmðr af þèr föðurarfr þinn, ok því hirði ek ekki um þik. Sveinninn spurr: hvar var þat gert, eðr hverìr gerðu þat? Helgi svarar: þat var gert á Eyraþíngi, segir hann, en þat gerðu þeir bræðr Íngi konúngr ok Hákon jarl. Sveinninn svarar[7]: ver mèr eigi reiðr, Helgi minn, ok gef eigi gaum at þessu, þvíat vant er at sjá at þessi dómr haldist, þvíat þar var engi minn umboðsmaðr[8]. Helgi svarar: hverr er þinn umboðsmaðr? Sveinninn mælti: guð ok [hin helga María, ok[9] hinn helgi Ólafr konúngr, þeim hefi ek fengit mitt mál í hendr, ok þau[10] skulu sjá lut til handa mèr um landskipti ok aðra hamíngju[11]. Hann tók til sveins-

[1]) *b. H.* [2]) þíngit var átt, *G.* [3]) Sverris konúngs, *b. B, F.* [4]) ok rann hann jafnan at honum, *b. G.* [5]) Hann veik (hratt) honum annat sinn frá sèr, þvíat hann var nokkut-stirðlyndr. Sveinninn mælti enn með sama hætti sem fyrr, *b. hin.* [6]) brauttu nú, sagði hann, þvíat, *G.* [7]) sem vitr vaxinn maðr, *b. G, B, H, F.* [8]) at svara af minni hendi, *b. hin.* [9]) *v. G.* [10]) þeir, *G.* [11]) Þetta heyrðu allir þeir er við voru ok fannst mönnum mikit um, *b. hin.*

ins[1] ok kysti hann, ok mælti: tala heill konúngsson, betra er slíkt mælt en eigi. Þetta var sagt jarli, ok [fannst honum[2] fátt um; en frú Kristín varð [reið við[3] ok mælti hart við sveininn. Jarl fór brátt eptir þíngit suðr til Björgynjar, ok konúngsson með honum. Allir hinir fornu Birkibeinar elskuðu því meir sveinninn, sem [hann þroskaðist[4].

*Svik Híða við konúngsson[5].*

7. Híði hèt maðr, bróðir Sigurðar skjálga, þeir þjónuðu báðir lengi Sverri konúngi. En þá er Filippus Baglakonúngr fèkk frú Kristínar, dóttur Sverris konúngs, fór Híði með henni. En eptir andlát hennar fór hann aptr til Hákonar jarls, hann var þenna tíma með jarli. Híði fann at frú Kristín var nokkut móti skapi til konúngssonar, ok hugði hann at svâ mundi jarli[6] gefit. Hann mælti einn dag fyri jarli: hèr er sveinn sá með yðr, er kallaðr er son Hákonar konúngs, ok kann þat vera, er[7] hann vex upp, at margir menn elski hann, bæði fyri sakir föður hans ok föðurföður, ok man yðrum syni eigi auðvelt at gánga[8] til ríkis eptir yðr, ef hann stendr ímoti; nú veit ek, ef svâ væri utanlands við vaxit, þá mundi þat ráð fyrigert, at eigi þyrfti lands höfðíngi at óttast of sitt afspríngi, ok mundi sveinn þessi vera sendr í önnur lönd,

[1]) bliðliga, *b. B, H.* [2]) hafði hann, *G, F.* [3]) mjök reið, *G, F.* [4]) þeir sá, at vit hans óx ok eljun, *G*; — ok afl, *F*; ok af því varð frú Kristin nokkut stirðari til sveinsins, en áðr hafði hon verit, *b. B, F*; en jarl hèlt hinu sama fram, *b. B.* [5]) frá Híða, er niðast vildi á konúngssyni Hákoni, *G.* [6]) um, *b. G.* [7]) ef, *G.* [8]) stiga, *B, F.*

til þeirra höfðíngja, er önga vináttu [átti við hann, eða hans mönnum[1] at gjalda, mundi hann þá vera annathvârt meiddr, eða [svâ inn kastaðr, at eigi þyrfti hann at hræðast optar[2], ok ef þèr vilìt svâ vera láta, bjóðumst ek til þessarar ferðar[3]. Jarl svarar[4]: vili eigi guð þat, at ek kaupa með því móti ríki syni mínum, at ek fyrikoma þess manns syni[5] er (ek) ætta bezt at launa. [þessa ræðu sagði jarl fám mönnum[6], en aldri var honum jafnvel til Híða sem áðr.

*Andlát Hákonar jarls.*

8. Þá var Hákon konúngsson X vetra, er Hákon jarl fèkk sótt þá er leiddi til bana, lèt hann konúngsson vera jafnan hjá sèr, ok þeim sinnum er jarl sat uppi, matast sveinninn með honum, ok fá menn kenni[7] jarl síðarr[8] í sóttinni, en konúngsson. Jarlinn andaðist, ok var ger virðulig útleiðsla hans. Eptir um vârit kom Íngi konúngr suðr til Björgynjar, fór þá konúngsson til hans, ok var með honum jafnan síðan í góðu yfirlæti. Þeir voru báðir saman í skóla, Hákon konúngsson ok Guthormr son Ínga konúngs, ok urðu [margar greinir með þeim í bernsku, þótt hèr sè eigi ritaðar[9]; var Guthormr jafnan bráð-

1) ætti honum, *G.* 2) inn (illa) settr, *G, F, B.* 3) ok munck svâ vel mega um sýsla (búa) at yðr líki, *b. B, H.* 4) hafði fátt um í fyrstu, en frú Kristín svaraði nokkurum orðum, en síðan jarl hafði þagat nokkura stund, tók hann svâ til orðs, *F, H, B.* 5) eða sonar syni, *b. G;* ok s. s., *B, F.* 6) *v. G.* 7) *þ. H;* kendi, *F, G, H.* 8) lengr, *G.* 9) margir ýmisligir atburðir um þeirra athæfi (hagi) ok bernsku, þeir er minniligir mundi þikkja ef ritaðir væri, *G, F, H.*

ari ok ákafari, en Hákon [fálátari ok spakari[1] ok þokkasælli; konúngr hèlt jafnt báða at klæðum ok öllum lutum öðrum.

*Sjúkr Íngi konúngr.*

9. Þat var eitt sinn at Íngi konúngr var sjúkr, þar var þá Skúli bróðir hans. [Voru menn mjök hræddir um sóttarfar konúngs, en með því at öll [ráð voru[2] þar sem Skúli var[3], kallar hann til sín þá menn er göfgastir voru þar við, Gregoríus Jónsson, Eyvind prestsmág, Ívar bodda, Dagfinn bónda; hann mælti[4]: þèr sjáit sóttarfár konúngsins, bróður míns, at megin hans er minna en vili vârr væri til; ok ef guð kallar hann frá oss, vârn ástvin, þá þurfu vèr heilla ráða, hvern vèr skulum til konúngs taka eptir hann. Þá svarar Dagfinnr bóndi: hver eru efni til? Skúli svarar: þèr vituð þat sjálfir, at hèr er fyrstr[5] son Ínga konúngs, er vel er tilfallinn eptir föður sinn. Þá eru við samfeðri bræðr ok báðir við skilgetnir[6], ok vitu þèr hversu lög mæla þar um. Þá er Hákon, son Hákonar konúngs Sverrissonar, en í Gautlandi austr er Knútr, son Hákonar jarls, [ok er hann lögliga tilkominn eptir sinn föður[7]. [En þó vænti (ek) at flestir þeir sem þjónat hafa Ínga konúngi at helzt vili þeir hans syni þjóna. Þeir töluðu þetta um hríð, ok lagði hverr til, þat er líkaði: Eyvindr[8] hafði fæst um.

---

1) hugarlátr, *G.* 2) stjórn hirðarinnar var, *B.* 3) næst konúnginum, *b. B.* 4) *frá fyrra* [ ok margir aðrir ágætir menn; hirðin öll var þá á stefnu, ok þá mælti Skúli, *G.* 5) Guthormr, *b. G, H.* 6) skilfengnir, *F, H.* 7) megut þèr ok vita hversu hann er til kominn, *G.* 8) prestmágr, *b. G, H.*

þeir spurðu, hví hann væri svâ fátalaðr; hann svarar: því tala ek hèr fátt um, at ek var eigi fyrr atspurðr, en þó lízt mèr þetta undarligt, er þèr vitrir menn [efizt svâ mjök um þetta mál, svâ sem[1] ljóst liggr fyrir augum öllum mönnum, þeim er rètt [vita, ok satt vilja sjá[2], at ef son Hâkonar konúngs væri fulltíða, er (hann) rètt kominn til alls Noregs eptir föður sinn, en eigi þú, Skúli, nè bróðurson þinn, eða son Hákonar jarls[3]. Ok er Eyvindr hafði þetta upp kveðit, urðu öngir til mótmæla[. Nokkuru síðarr batnaði konúnginum af sótt þessi[4].

*Íngi konúngr barðist við þrændi.*

10. Íngi konúngr varð missáttr við þrændi, þvíat þeir hèldu leiðaungrum fyri honum ok öðrum skyldum[5]. Konúngr barðist við þá á Raumaþíngi[6], sem ritað er í sögu hans, en hit næsta sumar eptir andlát Hákonar jarls, fór Íngi konúngr til Björgynjar, ok tók undir sik þat ríki, er jarl hafði fyri ráðit. Konúngr stefndi til sín öllum lendum mönnum, sunnan or landi, ok norðr til þrándheims[7], þar voru þá með honum sveitarhöfðíngjar [margir Birkibeina[8]. Ok er konúngr kom til þrándheims, hèlt hann her þeim öllum á hendr Innþrændum, ok fundust þeir inn

[1]) vefit þetta svâ mjök er, *G.* [2]) segja, *B, F; frá* [ vilja um tala, *G.* [3]) ok ef þeir bræðr báðir lifði, Hákon ok Íngi, ok þann dag er Hákon (konúngsson) vildi, ok væri hann fulltíða, þá mætti hann krefja yðr báða úr sinum föðurarfi, ok setjast sjálfr í staðinn, *b. B, F, G.* [4]) , þeir sem þar voru, ok fèll þessi ræða niðr, en konúnginum bættist, *b. G.* [5]) útvinnum, *F.* [6]) Runaþíngi, *B.* [7]) við miklu liði, *b. G, B, F.* [8]) allir Birkibeina, *F.*

við Vagsbrú; þeir sættust þar; þetta var kallat Vagsbrúarsumar. En er konúngr kom út aptr til Niðaróss, þá gengu frændr Hákonar konúngssonar til Inga konúngs, ok beiddu at hann skyldi fá konúngssyni nokkut[1] at halda sik við ok frændr sína. Konúngr spurði, hvers þeir beiddist; þeir segja at hann[2] beiddist Jamtalands, þvíat þat vann Sverrir konúngr föðurfaðir hans [með sínu sverði undir Noregs konúngsríki[3]. Konúngrinn sá til þeirra reiðuliga ok mælti svâ: stórum er Noregr þá[4] brytjaðr, ok munu vèr eigi fá honum svâ stór lèn, hafa áðr Beglíngar af austan, ok ekki fæ ek skipt landi víðara. Þeir báðu konúngr fá honum eina skipreiðu eða tvær. Ekki lèn fæ ek honum, þvíat hann er svâ vel haldinn hèr með oss, at hann skortir ekki. Undu frændr konúngssonar nú verr við en áðr. Fám dögum síðarr leiddu þeir konúngsson frændr hans hann á tal við sik fyri sunnan Krosskirkju[5]; þeir segja svâ: lítið þikkir oss, konúngsson, Inga konúng vilja miðla yðr af Noregi, ok sitr hann nú í öllu því ríki, er þinn faðir vann; svíma[6] þeir nú margir í fullsælu [ok í þínum föður arfi[7], er til engis eru komnir, en frændr þínir fara útlaga af öllu [því góðs sem þèr ættið[8]. Nú er þat vârt ráð, at vèr hlaupimst með yðr ok sömnum liði, þvíat vèr heyrum nú marga Birkibeina umtala, at minna gott þikkjast upptaka en til hafa þjónat. Spyrjum vèr slíkt sama austan or landi

---

1) lèn, *b. hin.* 2) þeir, *F.* 3) undir Noregsveldi, *G.* 4) *v. F.* 5) í Kaupángi, *b. B, F.* 6) sveima, *F*; sitja, *B.* 7) þeirri fullsælu er þú átt, *G.* 8) vâru góðsi, *G.*

frá Beglíngum at þeir mundi nú skjótt til snúast, ef þeir fengi nokkurn þann er fyri vildi bindast. Konúngsson hlýddi ok svarar öngu. Andres skjaldarband mælti: nú viljum (vèr) frændr þínir, konúngsson, hafa þik í brot með oss frá konúnginum, ok man [eigi lángt líða, áðr aðrir manu biðja þik sæmðarinnar, eigi síðr en þú þarft að biðja[1]; slíkt sama mælti hverr at öðrum frænda hans. Konúngsson svarar: mjök em ek bernskr undir slík stórræði at gánga, væri þat ok eigi sannligt at ek berðumst mót Birkibeinum, þvíat þat veit ek sannliga, at þar er mikill fjöldi af Birkibeinum at skildust frá Ínga konúngi, ok er þat óráðligt at etja þeim saman, er allir ætti einskjaldar at vera; vil ek heldr biðja at guð gefi mèr slíkt af mínum föðurarfi sem hans er mildi til, hvern tíma sem þat kemr fram. Ok er þess engi vân at ek reisa nokkurn herflokk í Noregi svâ búit; skildu þeir með þessu tal sitt.

*Andlát Ínga konúngs.*

11. Þá er liðnir voru II vetr frá andláti Hákonar jarls ok kominn hinn þriði, fèkk Íngi konúngr sótt, ok fór ekki mjök ótt í fyrstu; lèt konúngr jafnan vera hjá sèr konúngsson, þvíat hann hafði jafnan skemtan af hans orðum, er hann var gamansamr[2]; Nichulás hèt dróttseti konúngs, hann var kátr ok gamansamr; konúngr hafði þá hjá sèr um daga, ok lèt þá talast við, konúngsson ok Nicholás, ok hendi sèr gaman

---

[1]) skamt at bíða, at þeir muni inir sömu biðja yðr sæmdarinnar, er nú varna yðr, *G.* [2]) ok mjök hlæimáligr, *b. F, H*; hlægiorðr, *B.*

at orðum þeirra, ok þótti þá lèttari sótt. Konúngrinn lá lengi, ok svâ sem á leið sóttina mínkaði stórum megin hans. Skúli bróðir hans sat yfir honum. Vinir konúngs ok hirðin töluðu sín á milli, at konúngr skyldi þeim hirðstjóra (fá) þann er þeim væri styrkr at, ok kom þat samt með þeim at Skúli konúngs bróðir væri bezt tilfallinn. Ok er konúngr þóttist finna, at megin hans gerðist svâ lítið at hann mundi eigi stjórnat fá ríkinu, þá gerði hann eptir vilja frænda sinna ok vina, ok leiddi þá Skúla bróður sinn til sætis, ok gaf honum jarls nafn; tók Skúli jarl þá við allri hirðstjórn. Litlu síðarr andaðist Íngi konúngr IX kalend. dag maji.

*Talat um konúngs tekju.*

12. Þá var Hákon konúngsson XIII vetra, er Íngi konúngr andaðist, en Guthormr, son hans, IX[1] vetra; þá voru áttar hirðstefnur, ok talat um konúngs tekju.. Sömnuðust þá þeir saman, er þjónat höfðu Sverri konúngi, ok þar með mestr luti hirðarinnar. Kom þat ásamt með þeim at þeir vildu taka til konúngs Hákon, son Hákonar konúngs, en Skúli jarl ok hans frændr[2] vildu til konúngs taka Guthorm, son Ínga konúngs; þeir voru sumir vinir jarls, er því fylgðu, at Skúli[3] væri nærkomnastr konúngdóminum, þar sem hann væri [skírgetinn bróðir[4] konúngs[5]. En þótt þetta væri eigi hátt talat í fyrstu[6], þá varð

[1]) XI, *hin.* [2]) vinir, *G.* [3]) *þannig* (*leiðrètt*) *F*, son Hákonar jarls, *A.* [4]) arfi Ínga, *G* (*sbr F, P*); skilfenginn br., *F.* [5]) ok átti arf at taka eptir hann, bæði land ok lausa fè, *b. F.* [6]) þá fór þó hærra ok hærra, ok kom í fjölmæli um

hèrum hinn mesti sveitardráttr, en jarl vildi ekki mjök koma á stefnur, þvíat hann vissi vilja Birkibeina. Þá komu margir bændr or Þrándheimi; ok segja svâ allir hinir ellri menn[1], at þeir vildi þann konúng hafa, er konúngborinn væri at faðerni allt til heiðni, svâ at ekki kvennknè hafði á milli komit[2]. En Guthormr erkibiskup var farinn norðr á Hálogaland; Skúli jarl vildi bíða til þess er erkibiskup kvæmi norðan, ok höfðu Birkibeinar þat fyri satt, at hann vildi at erkibiskup yrði berr at því sem jarl vildi at framm gengi. Þeir voru ok [sumir kórsbræðr ok nokkurir lendir[3] menn[4], er gjarna vildu fyrikoma ætt Sverris konúngs, ef þeir mætti, ok þjóna svâ öðrum konúngum. En þá er jarl var á stefnum lèzt hann gjarna vilja gera ráð fyri með hirðinni, en þat dróst þó undan. Ok er hirðin[5] sá þetta, at svâ mjök var undan dregit, þá lètu þeir einn dag blása til hirðstefnu[6], ok báðu jarl þángat gánga. Ok er jarl kom þar, stóð upp Vegarðr veradalr[7], ok talar eptir því sem öll hirðin hafði rað fyri gert. [8]Jarl, segir hann, vèr viljum eigi lengr hafa undandrátt of konúngs tekjuna, viljum vèr hafa þenna morgin þíng í konúngs garði, ok

siðir, ok þar at áttar hirðstefnur (þingstefnur) ok gesta stefnur, *b. B, F, H.*

1) úr hèruðum, *G*; bæði Innþrændir ok Útþrændir ok sögðu svâ flestir ellri menn fyrir sik ok sína sonu, þá er heima voru (sátu), *b. B, F.* 2) margir af bændum fylgðu ok Skúla, *b. G, B*; jarli ok Guttormi konúngssyni (Ingasyni), *G, F.* 3) lærðir, *F.* 4) *frá* [ nokkurir af kennimönnum, *G.* 5) Birkibeinar, *G.* 6) í höllina, *b. F, G*; í hallinni, *H.* 7) or Veradal, *B*; í V., *H, F.* 8) Herra, *b. G, F.*

bjóðum vèr þèr, jarl, við Hákoni konúngssyni þángat, ok setið hann í háseti hjá yðr, ok kalli hann allir konúngs efni, þar til er Eyraþíng kemr. En ef þèr viljið eigi þenna kost, þá drögum vèr út skip var í morgin, ok förum til Björgynjar suðr[1], ok stefnum þíng um öll Gulaþíngslög, ok tökum Hákon þar til konúngs, leggjum vèr hans mál ok vârt á guðs vald ok hins heilaga Ólafs konúngs. En er hirðin var fastráðin í þessu, sagði jarl at svâ skyldi vera sem þeim líkaði. Eptir þetta kallar jarl sína menn á tal við sik, lærða ok ólærða, voru þeir á eintali allan dag ok nótt, en ekki urðu menn vísir af þeirra ráðagerðum. Um morgininn eptir [var blásit öllum mönnum út[2] í konúngsgarð, ok lèt jarl gera hásæti fyri sunnan Nícholáskirkju. Þá stóð upp Vegarðr, ok talar af sama efni sem fyrrum. Síðan mælti Gregoríus Jónsson, lendr maðr: vèr hugðum at þetta skyldi eigi gera með svâ stórum[3] áhlaupum; væri ráðligra at bíða erkibiskups, ok [híngat stefnt öllum biskupum ok höfðíngjum[4], ok væri þeirra ráð höfð við slík stórmæli. Þá svarar Önundr merkismaðr: eigi mun oss Birkibeinum hæfa at bíða lángræðu[5] biskupanna at þessu máli, því at lítið munu þeir fylgja lögum hins heilaga Ólafs konúngs, svâ[6] landsins þurft um þetta, þegar nokkurr á lut í af ætt Sverris konúngs; þá er sá annarr lutr í þessu máli er

[1]) til hirðar þeirrar er þar er, *b. B, G, F.* [2]) lètu hirðstjórar blása til þíngs öllu fólki upp (út), *F, G.* [3]) bráðum, *G*; *v. F.* [4]) annara biskupa, ok svâ allra inna vitrustu manna í landinu, *G*, (*B, F*). [5]) margræðu, *F.* [6]) eðr, *F.*

öllum er kunnigt, at Baglíngar sitja í Vík austr með miklum her, ok kallast hafa konúng yfir sèr, ok ef þeir verða þess vârir, at vèr sitjum við höfuðlausan her, ok þó eigi sáttir vâr í millum, þá mun þeirra eigi lángt at bíða, ok munu margir þá styrkja á hendr oss; en lærðir menn eru litlir vinir vârir, ok höfum vèr þá engi annan til allir, er fylgja viljum konúngaættinni, en fylgja oss sjálfir, meðan guð vill fylgja oss.

*Hákon konúngsson leiddr á þíng*[1].

13. Síðan voru nefndir XII menn af þínginu, ok gengu þeir í skólann upp frá Kristskirkju til konúngssonar, ok [mæltu svâ[2]: allir fornir Birkibeinar ok bæjarmenn [ok bændr[3] [senda yðr, konúngsson, kveðju guðs ok sína[4]; sitja þeir nú í konúngsgarði ok bíða yðar. Þeir leiddu þángat konúngsson á þíngit, ok at hásæti, þar sem jarl sat fyri[5]. Jarl segir, at hann mætti eigi svâ skjótliga setja í hásætið, þvíat þeir eru margir, segir hann, er eigi þikkjast sannfróðir [at því, hvârt hann er son Hákonar konúngs Sverrissonar[6]. Þá var svarat af hendi konúngssonar: þann fyrsta vetr er sveinninn kom til Inga konúngs, tók hann við honum sem sönnum sínum frænda, ok hafði hann aldri ef á, at hann væri son Hákonar konúngs. Slíkt sama gerði ok Hákon jarl, ok jafnan meðan þeir lifðu báðir, konúngrinn ok jarl, sýndu þeir þat í sínu yfirlæti

[1]) *þ. G.* Hèr er konúngsson settr í hásæti, *H.* [2]) þá mælti sá, er fyri þeim var, *G, B, F.* [3]) sem hèr eru staddir, *b. B, F*; *frá* [ öll alþýða, *G.* [4]) heilsa yðr konúngsson, *G.* [5]) á stóli, *b. F, G.* [6]) um hans faðerni, *G.*

at hann væri þeirra sannr frændi; man þetta vera komit af rótum ok ráðum þeirra[1], er fyrikoma vildu konúnga ættinni hèr í Noregi, en þá framdraga sem ekki eru hèr til komnir. Buðu síðan frændr konúngs, ok þeir sem kunnigast var, at gánga glaðliga til skírslu fyri konúngsson, heldr en hann misti sinnar föðurleifðar; slitu þeir við þat þínginu.

*Ínga konúngsmóðir fastaði til járns*[2].

14. Þá gekk Ínga konúngsmóðir til Pètrskirkju, ok fastaði þar til járns, sem siðr er til; en meðan þetta var, skorti eigi náttstefnur af jarli [við kórsbræðr ok lenda menn, þá[3] móti voru konúngs efni. En þá er járnit skyldi bera, var því á braut skotit leyniliga. Sumir korsbræðr sögðu at (þeir) þorðu eigi at láta bera járnit, fyrr en erkibiskup kvæmi til. Ok er hirðstjórar ok Birkibeinar sá, hversu fór, hèldu þeir fram eigi at síðr sínu máli, ok sendu menn um öll þrændalög, ok stefndu Eyraþíng á mánaðar[4] fresti. Þeir [lètu ok mann fylgja konúngsefni hvern dag[5], ok lètu hann sitja í hásæti hjá jarli, [hversu er honum líkaði[6].

*Brèf lendra manna úr Gulaþíngslögum ok Hávarðar biskupsefnis*[7].

15. Í þenna tíma kom sunnan or landi Dag-

[1]) sem nú hafa verit um rið, *b. G, F;* ok af fornum fjandskap þeirra, *b. B, F.* [2]) *b. G.* [3]) ok nokkurum kórsbræðrum ok enn fleiri lærðum mönnum, þeim sem, *G, F.* [4]) hálfs mánaðar, *B.* [5]) nefndu menn ok til er fylgja skyldu konúngssyni dag ok nótt, ok kölluðu hann æ konúngsefni, *F, G.* [6]) þó at honum væri þat eigi mjök at skapi, *F.* [7]) *þ. H;* frá Dagfinni bónda, *G.*

finnr[1] lögmaðr[2] hann hafði brèf frá Hávarði, er þá var biskupsefni í Björgyn, ok [öðrum lærðum[3] mönnum[4], [þau er svâ sögðu[5]: vèr höfum spurt fráfall vârs herra Ínga konúngs, var þat miklum mun fyrr en vârr vili stóð til [ef vèr mættim ráða[6]; svâ höfum vèr ok heyrt getið, at nokkut leikr á tveim túngum, hverr í konúngs stað skal koma; ok er þat undarligt, er vitrir menn, svâ sem þèr erut, skulu vera tvídrægir um þat er vèr hugðum at öllum skyldi auðsýnt vera; segjum vèr því svâ at öngan vitum vèr tilfallinn konúngs nafn at bera nema Hákon, son Hákonar konúngs[7], þvíat hans ætt hefir jafnan fyri Noregi ráðit, maðr eptir mann. Nú viljum vèr at þèr vitið sannliga vârn vilja um þetta, at vèr manum engum konúngi þjóna nema honum, ok sjálfa oss ok allt þat er vèr eigum fram at leggja fyri hans sakir ok hann at verja ok hans föðurleifð, en hvern annan þèr takið til konúngs, skulu vèr í móti vera, bæði liðsmenn ok allir aðrir þeir sem *Gulaþíngslög* byggja. En ef þèr, þrændir, vilið nokkura þá menn fram draga, sem eru yðrir frændr eða fóstbræðr, þótt þeir eigi nokkura frændsemi eða ættartölu til konúnga, ok skulu svâ hverir sínum frændum[8] fylgja, þá munu margir vera neskonúngarnir brátt; en vèr hugðum þat, þóat nokkurir væri tvídrægir um konúngstekjuna, þá skyldu[9] þrændir þó vera

[1]) bóndi ok, *b. G.* [2]) ok stallari, *b. G*; ok st konúngs, *b. F.* [3]) frá lendum, *G, H, F.* [4]) or Gulaþingslögum, *b. B, G.* [5]) var þá blásit til hirðstefnu, ok brèf upp lesin, þau er þetta stóð á, *hin.* [6]) *v. G.* [7]) Sverrissonar; *b. G, H.* [8]) ok fóstbræðrum, *b. F.* [9]) þèr, *b. F.*

einarðir, ok svâ væntum vèr at sè hvat sem [hvergi segir[1]. Dagfinnr bóndi ok Hróarr konúngsfrændi kunnu at segja yðr allan vârn vilja um þetta mál, ok þeir menn aðrir sem brèfum vârum fylgja.

*Tala Dagfinns*[2].

16. Ok er brèfit var lesit, stóð upp Dagfinnr bóndi, ok talar mörgum orðum af sama efni, ok lauk svâ: ef eigi verðr, segir hann, Hákon skjótt[3] til konúngs tekinn, þá munu vèr Birkibeinar fylgja honum suðr til Björgynjar, ok höfum vèr þetta eyrindi af hendi allra Gulaþíngsmanna. Þá varð rómr mikill af hendi Birkibeina sem fyrr, ok segja at ekki skyldi annat framgánga en þetta, hvat sem hvergi segði[4], ok lauk svá stefnunni[5].

*Upphaf konúngdóms Hákonar konúngs*[6].

17. Þann dag er [þíngit var sett kom[7] fjöldi mikill[8] or hèroðum, sem siðr er til, þá er konúng skal taka. Var blásit eptir fornum sið öllu liði út á Eyrar. Síðan voru menn gjörvir til korsbræðra, at út skyldi bera skrín hins helga Ólafs konúngs; ok er menn komu til kirkju var hún í lási, en klukkarar segja svâ, at kórsbræðr lögðu bann við hverjum manni, er bryti upp kirkju, eða bæri út skrínit; en er þetta spurðist á þíngit, þá var Hákoni[9] gefit konúngs nafn

1) hverigir segja, *G.* 2) *b. G.* 3) hèr, *G.* 4) legði til, *F.* 5) ok er þetta var tidinda, þá fór þingboð um hèruðin, *b. G, B, F;* ok svâ ráð fyri gjört, at sem flestir skyldu þingit sækja, *b. B, F.* 6) *b. G.* 7) Eyraþing var stefnt, kom til bæjarins, *G.* 8) bænda, *F.* 9) eigi at siðr, *b. G.*

eptir rèttum siðum[1], ok gerði þat sá maðr er Skervaldr hèt or Gaulardal, var honum þá dæmt land allt ok þegnar. Játuðu allir þrændir honum[2] hlýðni ok lýðskyldum[3] svâ fulliga[4] sem bæði hefði hann svarit þeim eið, ok þeir honum; sleit því þíngi svâ. Annan dag eptir var blásit til hirðstefnu[5], sóru menn þá eiða báðum þeim Hákoni konúngi ok Skúla jarli[6], hverr með slíkum nafnbótum sem áðr hafði haft með Ínga konúngi.

*Deila Ásólfs ok Eilífs*[7].

18. Brátt eptir þetta bjöggust þeir Hâkon konúngr ok Skúli jarl suðr til Björgynjar, ok höfðu [eina tvítugsessu[8], [en Eilífr kapalín stýrði Súðinni[9]. Ásólfr frændi jarls [hafði hit þriðja skip[10]. En þá er brott var lagit or bænum, var jarl eptir, en konúngr fór með skipinu[11]. Veðr var á lítið, ok lögðu þeir at við Hattarhamar; þá deildu þeir um lægi, Eilífr ok Ásólfr, hann hafði marga menn með sèr, en gestir vildu þröngva Ásólfi or læginu, er hann hafði komit fyrri, ok gengu þá fyrst árar ok forkar, síðan tóku hvârirtveggju til vâpna sinna, ok varð hörð svipan um hríð, þvíat skipin lágu jafn fram. En er konúngsskipit rendi at, sá þeir at sverðum var brugðit á hinum skipunum; kallar konúngr á

1) ok fornum maldögum, *b. G.* 2) allri rèttri, *b. G, F.* 3) þegnskyldu, *G.* 4) fullkomliga. *G, F.* 5) komu þángat lendir menn ok hirðin öll, *b. B, F.* 6) ok gerðust sverðtakarar þeirra, *b. B, F, H.* 7) *b. H.* 8) eitt skip báðir, *G, H.* 9) Gestaskútunni, *B, F, H; frá* [ *v. G.* 10) þat var átjánsessa, *b. F, H.* 11) skipunum, *F, H.*

þann er stýrði, bað hann stefna beint milli skipanna, ok róa sem mest mætti, lèt svâ skjótast skilja mundu mega með þeim. En er konúngsskipit rendi milli skipanna, máttu hvârigir öðrum mein gera; þar urðu margir menn sárir á hvârutveggja skipinu. Síðan kallar konúngr þá á land, ok sætti þá, kom jarl þá innan or bænum, ok sigldu síðan út or firðinum; þeim byrjaði vel suðr til Björgynjar, ok lögðu at um kveldit við Hegranes. Um morgininn í dagan kom til þeirra Dagfinnr bóndi or bænum, ok segir at brèf voru komin frá kórsbræðrum norðan til biskupsefnis ok kórsbræðra í Björgyn, at þeir skyldi önga tign veita Hákoni konúngi; sagði Dagfinnr at þeir þóttust við vant um komnir, því þeir óttuðust reiði erkibiskups ok kórsbræðra, en annarri hendi vildu þeir gjarna veita konúngi lýðni, ok alla sæmð er þeir mætti. Jarl svarar fá um, en segir þat mundu litlu varða, hversu þeir gerði. Dagfinnr segir: ef þeir fara með slíku hèr fram, sem þeir hófu[1] í þrándheimi, þá mun brátt af þvâst öll sú sæmð er konúnginum heyrir til. þá mælti konúngr: Dagfinnr bóndi, far inn til bæjar, ok seg svâ kórsbræðrum, at ek vænti af þeim einna manna bezt, þeirra sem eru í landinu, en ef þeir gera öðruvís, þá skal eigi lángt til at þeir skulu vita, hvârt oss líkar vel eðr illa. Dagfinnr reyri þá inn til bæjar, ok segir kórsbræðrum orð konúngs, ok svâ hvat jarl mælti.

[1]) gerðu, *F.*

*Frá konúngi ok kórsbræðrum*[1].

19. Kórsbræðr svöruðu svâ, at þeir vildi gjarna gera [sæmð konúngi[2]; kváðust eigi því skyldu því kaupa vingan erkibiskups eða kórsbræðra í þrándheimi, at týna þar í mót vingan konúngs. Síðan reyri konúngr inn til bæjar, ok var þá hríngt um allan bæinn, en lærðir[3] menn gengu sem sæmiligast[4] í mót honúm. þángat var þá stefnt öllum lendum mönnum ok hirðstjórum þeim er í Gulaþíngslögum voru[5] á Seljumanna vöku[6], at allir skyldu koma til bæjarins[7] fjölment. En meðan [þeirra var beðit[8], voru þeir í bænum, konúngr ok jarl; konúngrinn var úngr, ok fyri bernsku sakir sinnar gáði hann meirr leiks síns en landráða, en jarl var þessar stundir allar í ráðagerðum við sína menn[9], ok sendi brèf bæði[10] suðr ok norðr í landit. Var þat flestum mönnum ókunnigt, hvât á þeim var, en fá voru konúnginum sýnd. þá voru menn sendir austr í Vík til Filippus Baglakonúngs, ok leitaði jarl þángat vináttu ok fèlagsskapar. En er vinir konúngs kærðu slíkt fyrir honum, at slík umleitan væri undarlig, at leita þángat vináttu sem jafnan hefði fjandskapr verit, þá svarar konúngr at jarl var svâ vitr maðr, at hann mundi sjá kunna sèr vini: ætla ek mèr þat meinlaust, at hann eigi sèr marga vini, þvíat hann má þó

[1]) *þ. G;* Ráðagerðir skóla, *B.* [2]) konúngi alla sæmd er þeir kunnu, *G.* ) *þ. G*; lendir (*varla rètt*) *A.* [4]) með prósessiu, *b. H.* [5]) ok nefndir menn til or hèruðum fjölmennt, *b. F.* [6]) vökudag, *F.* [7]) Björgvinar, *F.* [8]) þessi biðvángr (biðángr) væri, *G, H.* [9]) vini, *F.* [10]) í Svíaveldi, ok, *b. B.*

vel halda vâr einkamál af sinni hendi, ætla ek ok eigi fyrri at bregða þeim.

*Brèfagerð Skúla jarls vestr um haf*[1].

20. Skúli jarl lèt gera brèf vestr um haf til Jóns jarls af Orkneyjum, ok voru þar fyri konúngs innsigli, ok vissi konúngr ekki til þess, ok eigi hvat á var brèfunum. Sá maðr fór með brèfin er Jósteinn þömb hèt, hann var gestr, ok er brèfin komu út til hafs, urðu menn varir við á skipinu, ok gerðu menn inn til Ívars bodda ok Dagfinns bónda, ráðgjafa konúngs, ok segja at konúngs innsigli var fyri brèfum þeim er send voru með Jósteini[2]. Ívarr segir betr vera at konúngr sæi þau brèf, er með konúngs innsigli voru send í önnur lönd. Hákon konúngr gerði þá menn eptir brèfunum til Herðlovers. En er jarl varð þessa varr, gerði hann sendimenn á öðru skipi, urðu þeir skjótari, ok náðu brèfunum, áðr en konúngs menn kvæmi til; ok þegar er þeir komu inn til bæjar, lèt jarl blása til hirðstefnu, ok kærði[3] á Ívar bodda[4], ok aðra konúngs ráðgjafa, segir at þeir vildi koma sundrþykki milli konúngs ok jarls, en [mistrúa jarli[5] í sínum ráðum. Þá mælti[6] Gregoríus Jónsson, frændi jarls[7], með þeim orðum til Ívars bodda: ek var[8] á tali með þeim mönnum, er fyrst[9] sóru eiða Hákoni konúngi ok jarli til trúnaðar, ok hugðu

[1]) *b. G, H.* [2]) Ivarr gekk þá til konúngs ok spurði ef hann vissi nokkut til þessara brèfa; hann kvaðst þat eigi vita, *b. B, F, G.* [3]) hafði miklar kærslur, *F.* [4]) ok Dagfinn, *b. B.* [5]) mistryggja jarl, *F.* [6]) stóð upp, *F.* [7]) hann var þá enn lítill vin konúngs; hann mælti ákafliga, *b. F.* [8]) fyrst, *b. F.* [9]) *v. F.*

vèr at allt [eitt skyldi[1] vera, en nú vill einn prestr spilla voru samþykki Birkibeina allra, ok skal þat aldri lýða; tökum hann ok refsum þessum[2] fyrst, svâ at allir sjái við síðan. Eptir þetta ljóp upp mikill fjöldi frænda jarls ok vina[3], ok sögðust skyldu rífa í sundr prest kvikvan. Ívarr stóð þá upp, ok beiddi sèr ljóðs, ok fèkk eigi, þá hljópu fram fyri hann vinir konúngs[4], ok vörðu hann, svâ at hann sakaði ekki, ok var þá kurr mikill í hirðinni. Síðan stóð konúngr upp ok mælti: ek[5] kann fátt at tala, en þó vil ek þess biðja yðr at þèr hlýðit Ívari fóstrföður[6] mínum, ok svarit síðan sem yðr líkar [ok svâ var gert[7].

*Ræða Ívars bodda*[8].

21. Síðan mælti Ívarr prestr svâ: þat er fornum Birkibeinum kunnigt, at ek kom þat vâr, segir hann, til Sverris konúngs, áðr en barizt væri â Strindsjó, hafða ek[9] gott yfirlæti meðan hann lifði, ok ek þjónaði honum svâ, at [ek vissa mörg leynd mál með honum[10], ok þótt hann hefði hjá sèr ráðgjafa sína hina hæstu, þá var ek eigi útibyrgðr, ok mundi hann eigi svâ hafa gert, ef hann hefði reynt[11] mik at nokkurum falsara eðr údygðrmanni. Slíkt sama gerði Hákon konúngr son hans, ok hinn sama hátt hafði Guthormr konúngr, en síðan þeir tóku ríki Íngi kon-

---

1) skyldi eins, *F.* 2) *Hèr byrjar 1ta brot.* 3) þeir sem inni voru, *b. G.* 4) hans, 1 *br.* 5) *þ. hin;* enn, *A* (*máskè rèttast:* enn kann ek *o. s. frv.*) 6) fóstbróður, *G*, 1 *br.* 7) Róarr konúngsfrændi kvað svâ vera skyldu, *F, G, B*, 1 *br.* 8) *b. H.* 9) af honum, *b.* 1 *br.* 10) um síðir (*b. F*); vissi ek flestöll (öll, *G*) leyndarmál, *B, F, G*, 1 *br.* 11) fundit, *G.*

úngr ok Hákon jarl, gerðu þeir enn með sama hætti, ok því framar, er mèr var mjök í móti skapi, at þeir hlíttu mèr mjök til brèfagerða, ok var ek jafnan um þat hræddr, at mínir óvinir mætti þar nokkut til finna, er mèr stæði háski af, þvíat þá var sem nú at eigi skorti öfundarmenn, þá er mèr vildu fyrikoma; ok því vil ek skjóta til allra manna vitnis, er nú eru hèr, at aldri varð því enn á mik sannat, [at ek væri falsari[1] við minn höfðíngja[2]; en ek veit sjálfr sök mína, at þessi hinn úngi konúngr vârr er bernskr, ok þarf[3] heilla ráða[4] ok tryggva návistumenn, þvíat þeir sitja ærit nærri, er þá vildu frá honum spenja[5], sem honum væri hollir[6], ok mætti [þeir þá í[7] sjálfræði um leika at skipa konúngs máli sem þeim líkaði; nú [með því at[8] þessi er svâ mikil mín sök at ek sè [hèr fyri[9] rifinn kvikr í sundr, sem þú segir, Gregoríus Jónsson, ok þú, Páll fliða, fyri þat er ek bað konúnginn sjá brèf[10], þau er send voru í önnur lönd, með hans innsigli, [skal ek[11] mik skilja or konúngsgarði, ok spilla eigi samþykki konúngs ok jarls; gefi guð at þeir einir sè eptir, er báðum þeim sè hollir[12] ok þat ráði at þá sæmð hafi hverr sem til er borinn. Laúk svâ þessari stefnu at [konúngsmönnum líkaði minnr[13].

---

[1]) er til fals eðr flærðar væri, 1 *br.* [2]) herra, *G.* [3]) í heldra lagi, *b.* 1 *br.* [4]) ráðgjafa, 1 *br.* [5]) spenna, *F.* [6]) heilráðir, *G;* heilir ok hollráðir, *F,* 1 *br.* [7]) *frá* [ jarl, *F.* [8]) ef, *G.* [9]) þess verðr, at vera, 1 *br.* [10]) sín, *b.* 1 *br.* [11]) þá skal eigi optar þess við þurfa, þvíat ek skal, 1 *br.* [12]) ok heilráðir, *b. G.* [13]) konúngsmenn voru úglaðir, en öfundarmenn kátir, *hin.*

*Frá fjárskipti Hákonar konúngs ok Skúla jarls*[1].

22. Hákon konúngr kom svâ til ríkis, at hann fèkk eigi meira lausafè af föðurarfi sínum, en eina sylgju ok fíngrgull, en Skúli jarl hafði [tekit allt þat lausa fè[2] sem Íngi konúngr hafði átt ok hann hafði tekit eptir Hákon konúng[3]. [Ok einum dégi fyri þíngit[4] hittast þeir konúngr ok jarl, ok ráðgjafar þeirra; sögðu svâ konúngs ráðgjafar at þeir vildi at jarl sværi konúngi eiða[5] eptir fornri siðvenju, en jarl sagði at hann vildi þat eigi fyrri, en hann vissi hvat hann skyldi fyri taka, ok beiddist þegar hálfs [Noregs, ok hálfra allra skattlanda[6]; en ráðgjafar konúngs buðu þriðjúng af Noregi, en ekki af skattlöndum; [jarls menn[7] segja at hann skyldi hit minnsta hafa þriðjúng af [Noregi ok skattlöndum[8], ella [skyldi hann þángat snúa við sinn styrk, sem[9] fengi þat er honum líkaði[10]. [Nú sá ráðgjafar konúngs, at honum var ofrefli at standa í móti Skúla jarli ok Filippo Baglakonúngi, er þá hafði Víkina ok Upplönd með miklum styrk[11]. Ok var þetta ráð

1) *b. H.* 2) komizt at öllu því, 1 *br.* 3) ok svâ Sverri konúng, *b. F, B,* 1 *br.* Sem atleið þíngstefnu þeirri er Gulaþingsmenn höfðu sett at Seljumannavökudegi, komu fyrst til Björgynjar lendir menn ok hirðstjórar ok inir beztu menn or landinu um öll Gulaþings lög, *b. B, F, H,* 1 *br.* 4) inn næsta dag fyri Gulaþíng, *G,* 1 *br.* 5) trúnaðareiða, *G, F, B.* 6) *frá* [ alls rikisins, *G.* 7) Gregoríus Jónsson ok Páll fliða, *G, F, B,* 1 *br.* 8) öllu, *G.* 9) mundi hann braut leitá við öllum sínum styrk, ok þángat sem hann, *G.* 10) hugnaði, *G.* 11) Birkibeinar sá at þat var konúnginum vâðvænt, ef þeir jarl ok Filippus snerust at einu ráði, *G.*

fyrì gert[1], at Skúla jarli var játað þriðjúngi at Noregi ok svâ skattlöndum[2].

*Tala Dagfinns*[3].

23. Annan dag eptir var blásit til þíngs út í Kristskirkjugarð[4]; þángat var borit skrín hinnar heilögu Sunnifu, ok margir aðrir helgir dómar. [Þá stóð upp Sigurðr af Onarheimi[5] af hendi allra Gulaþíngsmanna, ok fagnaði konúngi ok jarli, ok fór þar um mörgum fögrum orðum; ok þar eptir talaði Dagfinnr bóndi ok hafði þat í sinni ræðu, (at) þóat þeir í Þrándheimi læsti inni skrín hins heilaga Ólafs konúngs, þá var þat ekki ráð eða vilì bænda; nú skulu Gulaþíngsmenn gera glaðliga alla þá sæmð, sem megu, Hákoni konúngi, bæði lærðir ok ólærðir[6].

*Um eið konúngs*[7].

24. Eptir þat stóð upp sá maðr er Steingrímr stryllr hèt, snjallr maðr ok vitr; hann gaf Hákoni konúngsnafn[8]. Síðan sór konúngrinn eið at halda landsrètt[9], en jarl hafði skipat áðr eiðinn sem honum líkaði, ok þat í eiðinum at konúngr skyldi halda við jarl öll einkamál, þau sem ger voru millum þeirra; en jarl sór at hann skyldi halda lög við landsfólk, ok vera hollr ok trúr Hákoni konúngi, svâ lengi sem hann [vildi þau einkamál halda[10], sem millum þeirra voru

---

[1]) af konúngs hendi ok hans ráðgjafa, *b.* 1 *br.* [2]) lauk með því þessari stefnu, *b. G, F,* 1 *br.* [3]) *b. H.* [4]) var þingit skipat norðan at kirkju, *b. B, F,* 1 *br.* [5]) Unnarheimi, *B.* [6]) leikmenn, *F,* 1 *br.*; *frá* [ var fyrst fagnat konúngi ok jarli eptir fornri siðvenju, *H.* [7]) *b. H.* [8]) ok þökkuðu flestir allir hans verk, *b. B, F,* 1 *br.* [9]) landslög, 1 *br.* [10]) hèldi þau einkamál, 1 *br.*

ger[1]. Síðan stóðu upp lendir menn Gregoríus Jónsson, Páll fliða, Brynjólfr Knútsson, Gautr Jónsson, Árni storka[2], ok aðrir hirðstjórar, ok sóru eið konúngi; [eptir þat sóru bændr, ok lauk svâ því þíngi[3].

*Um ár í landinu*[4].

25. Þá er Hákon var til konúngs tekinn, var ár mikit í landinu. Sumar þat var svâ gott, at þat var víða um landit at aldinviðrinn bar tvennan ávöxt, ok útifuglarnir urpu tvisvar; svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

Mærir glöddust miklu ári,
menn, báru þá ávöxt tvennan,
veglig sýndist, viðr ok fuglar,
[vísa grein[5] á sumri einu.

Svâ [kvað Sturla í Hákonarkviðu[6].

Bar tállaust
tvinnan[7] blóma
aldinviðr
einu sumri,
ok úkallt
útifuglar
öndvert ár
urpu tysvar.
Þá er allvaldr
við jöfurs nafni
tírar gjarn
of tekit hafði,

[1]) en jarl sór, at hann skyldi vel gjöra til konúngs, *b.* 1 *br.* [2]) Sturla, *B*, *F*, 1 *br.* [3]) þá handgengnir menn, þá gestir, þá bændr, *G.* [4]) *þ. G*; um árferð i Noregi, *H.* [5]) vísis rein, *H.* [6]) segir Sturli, *G.* [7]) tvennan, *hin.*

ok hans gipt
hæstrar tírar
[vegi[1] valit[2]
vaxa knáði[3].
Sá hverr maðr
at höfuðskepnur
fylkis tign
falla[4] vildu,
[ok göfugla[5]
gjálfri kríngðu
á vindkers[6]
víðum botni.

*Um brèf Bagla konúngs*[7].

26. Litlu eptir þíngit komu austan menn or Víkinni frá Filippus Baglakonúngi, með brèfum til Skúla jarls, ok var þat á, at Filippus beiddist helmíngs[8] af Noregi við Skúla jarl ok Birkibeina, en at öðrum kosti mundi hann reisa ófriðarflokk á móti þeim; en konúngs er ekki getit í [þessum brèfum[9]. Jarl gaf þau andsvör þeim mönnum, er brèfin báru, með ráði hirðstjóra, at[10] Filippus skyldi hafa [þann luta lands, þá XII mánuðr[11], sem hann hèlt áðr, en þeir skyldi finnast at sumri, ok skyldi þá vera stefna meðal allra biskupa ok hinna vitrustu[12] manna í landinu. Fóru nú sendimenn með þeim brèfum austr aptr.

---

1) *þ. B, F*; veg, *A, G*, 2) *frá* [ vegilát, 1 *br.* 3) næði, 1 *br., sem endar með þessu orði.* 4) fagna, *hin.* 5) göfugláts, *B, H*; *frá* [ göfuglast, *F.* 6) vinkers (vinkers), *hin.* 7) *b. G.* 8) skiptis, *b. G.* 9) *þ. G.* þessu brèfi, *A*; en þess er getit at fleiri brèf ok orðsendingar hafi farit austr, *b. B, F.* 10) herra, *b. F.* 11) Víkina, vetrlángt, *H.* 12) beztu, *G.*

*Andlát Filippuss Baglakonúngs*[1].

27. Sigurðr konúngsfrændi var settr til gæzlu í Víkinni af Birkibeinum[2], ok fór hann þetta sumar til Jórsala. [En þessir voru sveitarhöfðíngjar af Birkibeinum eptir í Víkinni, Loðinn Pálsson, Hallvarðr bratti, Bárðr brimsteinn[3], Karl svángi; þeir sátu við mikinn (ótta), þvíat Baglar hètu þeim hversdagliga[4] afarkostum[5]. En áðr sendimenn komu austr með brèfin jarls, fèkk Filippus Baglakonúngr sótt í Túnsbergi; síðan var hann fluttr inn til Laufeyja[6]; hann lá litla hríð áðr hann andaðist; en Baglar leyndu andláti hans[7], en Loðin Pálsson varð varr við, ok sendi menn sem skyndiligast á skútu norðr, ok fyri mann[8], Gunnar banamaðr. Hann var eigi lengr á leið en III nætr til Björgynjar; hann hafði brèf til konúngs ok jarls, þau er sögðu andlát Filippuss; ok þeir Birkibeinar, sem í Víkinni voru, báðu konúng ok jarl skynda suðr þannig, þvíat Baglar leituðu sèr hvervetna konúngsefnis; þeir gerðu ok menn til Danmerkr, ok kölluðust þat spurt hafa, at þar sè sá maðr er Sigurðr hèt, son Erlíngs steinveggs: nú ef þèr komit skjótt austr híngat, munut þèr slitit fá flokki Bagla[9].

*Um ferðir konúngs ok jarls*[10].

28. Þegar er konúngr ok jarl höfðu lesit brèfin, bjöggu þeir ferð sína sem skyndiligast, ok höfðu vel XL skipa ok flestöll stór; þeir

1) *b. B.* Andlát Sigurðar konúngsfrænda (*rángt*) *H.*
2) hendi Birkibeina, *F.* 3) brísteinn, *F.* 4) dauða ok, *b. B, F.*
5) *frá [ v. G.* 6) Laufeyjar, *F.* 7) sem mest, *b. F, H.*
8) stýrði sá maðr er hèt, (*rèttar*) *F.* 9) ella mun verða meira fyri ef þèr komit síðarr, *b. B, F.* 10) *b. G, H.*

konúngr ok jarl höfðu eitt skip báðir, þat var Ógnarbrandrinn, hálfþrítugr at rúmatali; þeir fóru austr eptir Maríumessu hina fyrri, ok gaf þeim vel. Baglar voru[1] austan fjarðar, þá er þeir konúngr komu í Víkina; þessir voru höfðíngjar Bagla:[2] Andres, bróðir Filippuss konúngs, Rögnvaldr Hallkelsson, systurson Magnúss konúngs, Arnbjörn Jónsson; margir voru aðrir góðir menn með Böglum. Nicholás biskup hafði lagt allt norðr í Svínasund[3], ok nokkurir sveitarhöfðíngjar með honum; en er Hákon konúngr ok Skúli jarl sigldu austr í Víkina, þá reyri í móti þeim Nicholás biskup, ok hittust þeir inn við Hrossanes; voru þá sett grið milli Birkibeina ok Bagla. Síðan komu Baglar austan um fjörðinn, herra Andres ok Rögnvaldr[4], ok margir aðrir, þeir lögðu skipum sínum við Gunnarsbæ, ok gengu svâ til bæjar; fundust þeir í Maríukirkju í Túnsbergi. Þar voru margir lutir talaðir milli þeirra Hákonar konúngs ok jarls. [Baglar buðust ok at gerast handgengnir jarli, ok hafa slíkar sæmðir sem þeir höfðu áðr, beiddust ok þeirra luta af landi, sem þeir höfðu áðr; kölluðust varla trúa Birkibeinum fyri sakir fornra vandræða. En þessar urðu málalyktir þeirra í millum, at Baglar skyldu hafa þann vetr allar þær sýslur hálfar, er Filippus hafði áðr[5]; en hvârirtveggju skyldu

1) allir, *b. G, B, F.* 2) herra, *b. H.* 3) Lúasund, *F;* Ifasund, *B, v. G.* 4) Arnbjörn, *b. F.* 5) *frá* [: bauð konúngr ok jarl Böglum at gerast sér handgengnir ok hafa slikar nafnbætr (sæmðir) sem áðr. Baglar vildu hafa slikt af landi sem áðr; en svâ lauk, at þeir skyldu hafa hálft allt þat sem Filippus hafði haft, *F, G.*

senda menn norðr til erkibiskups, ok skyldi hann [semja með þeim[1] um sumarit eptir. Ok fóru þeir af hendi Birkibeina Gregoríus Jónsson ok Dagfinnr bóndi, en af Böglum Endriði bekill[2] ok Grundi fèhirðir. Þeir Hákon konúngr ok Skúli jarl skipuðu þær sýslur, sem [til þeirra heyrðu[3]. Síðan var stefnt Haugaþíng, ok var [Hákon þar til konúngs tekinn[4]. Eptir þat vísuðu þeir konúngr ok jarl flestu öllu liðinu norðr aptr, en þeir fóru austr yfir Foldina, ok áttu Borgarþíng, ok þaðan í Vættarhèrað[5] til Stofna ok áttu þar þíng, ok þaðan til Hornboruþíngs[6], ok svâ austr til Elfarbakka. Var Hákoni gefit konúngsnafn á öllum þeim þíngum, ok gerðu menn út allan almenníng með góðum vilja, ok enn þó gjafir um alla Víkina á ofan; þeir sátu í Konúngahellu um haustið lengi.

*Frá giptíng frú Kristínar*[7].

29. Sumar þat er þeir voru í Víkinni, var gipt frú Kristín, er átt hafði Hákon galinn, austr í Gautlandi. Hennar fèkk Áskell lögmaðr, son Magnúss minniskjaldar, bróðurson Birgis jarls[8]. Þar fæddist upp með honum júnkherra Knútr[9], son Hákonar jarls ok frú Kristínar. Um haustið er þeir Hákon konúngr ok jarl voru í Konúngahellu, sendu þeir brèf upp í Gautland til lögmanns, at hann skyldi senda þeim júnkherra Knút, ok sögðust þeir til hans skyldu sæmiliga

[1]) staðfesta þetta ok setja frið milli þeirra, *F.* [2]) bækill, *F.* [3]) þeir höfðu lotit í Víkinni, *G.* [4]) Hákoni þar gefit konúngsnafn, *B, F.* [5]) Vettrar hèrat, *G, F;* Vestra hèrat, *B.* [6]) Hornbora þíngs, *B.* [7]) *b. H.* [8]) brosu, *b. B, F.* [9]) Hnútr (*ok annars*), *F.*

gera, ok var fundr lagðr með þeim, ok kom jarl[1], en eigi lögmaðr, þvíat hann trúði varla Birkibeinum. Eptir þetta fóru þeir Hákon konúngr ok jarl norðr til Túnsbergs ok þaðan norðr í land.

*Frá Hróari konúngsfrænda*[2].

30. Þetta sumar er þeir konúngr voru í Vík, fór Hróarr konúngsfrændi út í Jórsalaheim; hann hafði mikit skip ok frítt. Erlendr Þorbergsson hèt maðr er fór við honum, hann stýrði öðru skipi, þat höfðu bæjarmenn gera látið af sínum kosti. Þat skip er Hróarr átti kom til Akrs[3], en bæjarmanna skip kom allt til Garmarar[4], ok sýsluðu hvârirtveggju vel í þeirri ferð.

*Frá lendum mönnum*[5].

31. Áðr Hákon konúngr ok Skúli jarl fóru or Túnsbergi, stefndu þeir til sín öllum lendum mönnum um Víkina; var þeim varygð mikil á boðin at þeir skyldi vera varir um, at Baglar hefði öngan óróa uppi[6]. Síðan sigldu þeir konúngr norðr, ok komu VII nóttum fyri jól í Björgyn, ok sátu þar um vetrinn; ok um jól gerðu þeir II lenda menn, Jón stál ok Ívar nef; [þótti þá flestum mönnum líkligt, at vel mundi fara með konúngi ok jarli[7].

*Dráp Rögnvalds á Foldinni*[8].

32. Baglar skiptu með sèr sýslum þeim er

[1]) at stefnu degi, *b. F.* [2]) *b. H.* [3]) Akursborgar, *G.* [4]) Damarrar, *H;* Darmatar, *G, F, B.* [5]) *b. H.* [6]) ok at þeir gætti sjálfra sinna vel, at engum svikum væri komit at þeim, *b. B, F.* [7]) fèll þá vel milli konúngs ok jarls, *H.* [8]) *b. H.*

þeir höfðu hlotið um haustið á Upplöndum ok í Víkinni. Rögnvaldr hlaut [sýslu á Foldinni ok í[1] Oslu, en hann hafði áðr haft sýslu á Raumaríki. Raumar sögðu hann heldr harðan í sýslunni, þurfti hann ok mikils við, því at hann hafði sveit mikla. En er Foldúngar spurðu þetta, kurruðu þeir illa, sögðu at eigi mundi hann þeim góðr, ef hann var hinum illr. Rögnvaldr fór út í Haugsvík, ok stefndi Foldúngum þíng, sem siðr er til sýslumanna; en er þíngboðit fór í bygðina, þá sneru bændr því í herör, ok stefndu saman [hverjum manni[2], er vâpn mátti bera; ok sóttu bændr þíng með alvæpni. Rögnvaldr fór með fá menn til þíngs[3]; en þegar er hann vildi nokkut tala, æptu bændr í mót ok báðu hann þegja, sumir brugðu sverðum ok veittu honum atgöngu. Rögnvaldr vildi þá undan leita, en bændr sóttu eptir, ok drápu hann, en særðu nokkura menn, en allir hans menn leituðu til skips, ok fóru í brot. Foldúngar fóru heim, en [lík Rögnvalds var fært[4] til Oslóar[5].

*Hèr hefr af Slittúngum*[6].

33. Um sumarit þá er þeir Hákon konúngr ok jarl voru í Víkinni, var prestr sá með Rögnvaldi, er Benedikt hèt, hann var kallaðr Beni[7]; hann lèt þat orð yfir fara, at hann væri son Magnúss konúngs Erlíngssonar; Beni var ættaðr austan af Mörkum, hann fór með leika, ok var

1) Foldar sýslu ok um, *B, H.* 2) múga manns, *G.* 3) hann bað bændr setja þíngit, *b. B, F.* 4) bændr fluttu l. R., *F.* 5) ok var þat jarðat þar, *b. F.* 6) *b. B.* Upphaf Bena ok Slittúnga, *H;* Frá Bena skinnknif, *G.* 7) skinnknifr, *b. G.*

kátr maðr; en Rögnvaldr hafði hann með sèr, ok virði hann meirr fyri dára en frænda. En er Rögnvaldr var fallinn, fór Beni austr á Markir, ok samnaði sèr þar liði, ok sneri síðan nafni sínu, lèzt þá heita Magnús eptir föður sínum; dreif þá lið mikit til hans; sá maðr styrkti hann mest at öndverðu, er Haraldr[1] hèt, á Rakkastöðum; Beni hafði verit leiguprestr hans. Þat fólk, er Bena fylgði, var fátækt mjök, þeir voru bæði lítt klæddir ok illa vâpnaðir, þeir voru kallaðir Slittúngar; þeir ljópu um markir ok úbygðir, en sjaldan um hèruð, voru þeir óspakir í ránum ok launstuldum. Um vetrinn rèðust þeir í lið með honum, Þorbjörn af Limalöndum[2] ok Helgi bróðir hans, þeir voru bæði ættstórir ok fèríkir[3], rèðst þá mart í flokkinn með þeim af bændum ok bændasonum, hugðu þeir allir at Beni höfðíngi þeirra væri sannr son Magnúss konúngs, sem hann sagði sjálfr, fóru þeir þá víða um bygðir[4] með rán ok stuldi ok marga aðra óspekt. Beglíngar voru í Víkinni um vetrinn, ok gættu bæjarins; voru þeir fyri, herra Andres ok Arnbjörn Jónsson[5].

*Um orrostu Bagla ok Slittúnga við Gunnarsbæ*[6].

34. Á föstu fengu Baglar njósn af því, at Slittúngar voru á skip komnir, ok ætluðu til bæjarins. Baglar bjöggust at verja bæinn, ok litlu síðarr hèldu Slittúngar skipum sínum aust-

[1]) þ. (prestr), *b. F.* [2]) Sumalöndum, *F, H;* Lumalöndum, *G;* Linnalöndum, *B.* [3]) mikilsverðir, *H;* ok sjálfir vel mentir, *b. B, F.* [4]) *þ. F.* óbygðir (*líklega rángt*), *A.* [5]) ok enn fleiri, *b. F.* [6]) *b. H.*

an yfir Foldina til Túnsbergs, ok lögðu inn at Skeljagrunni[1], ok gengu upp of Gunnarsbæ. Baglar fengu njósn af þeim, ok lètu blása öllu liðinu uppá Hauga[2] með vâpnum. En er myrkva tók, fór mart liðit fyrir ofan Thómasskirkju, ok svaf þar um nóttina. Beni sendi menn á fund Arnbjarnar Jónssonar, ok sagði svâ at hann mundi eigi þess vænta af honum, at hann mundi berjast ímóti bróður Erlíngs steinveggs, er hann hafði fyrr þjónat. Arnbjörn segir svâ: rètt segir Beni þat, at mèr samir illa at berjast móti bróður Erlíngs, ok þat mun ek eigi gera, ef ek spyr með sannindum at hans bróðir er, en ek hygg at Beni þessi sè í annari ættartölu; skulut þèr svâ segja Slittúngum, ef þeir leita híngat til bæjarins, at vèr Baglar munum koma mót yðr ok halda upp orrostu; fara sendimenn aptr til Bena við þeim eyrindum. Nokkuru fyri dag urðu Baglar varir við at Slittúngar voru á Gunnarsbæ, ok höfðu nær V hundruð manna; þá lètu Baglar blása, ok gengu uppá Hauga, ok höfðu[3] CCC[4] manna. Þeir mættust [á akrinum[5] við Gunnarsbæ; þar varð hörð orrosta, fèllu hvârirtveggju, ok miklu meir Slittúngar; Beni var á hesti ok eigi í orrostu; Arnbjörn fèkk sár, var hann lagðr í hálsinn fyri neðan eyrat; herra Andres varð ok sár í kinninni; en er hann fèkk sárit, kastaði hann skildinum, hann var manna sterkastr, hann tók vinstri hendi í skjölduna, ok dró af þeim[6], en hjó

1) Skeljasteins grunni, *B*, *F*. 2) um kveldit, *b*. *B*, *F*. 3) nær, *b*. *B*, *F*. 4) CCCC, *B*. 5) *v*. *F*. 6) skjölduna, *b*. *F*.

með hægri hendi hvern mann til bana með sverði því er Skarði hèt, allra sverða bezt[1]. Arnbjörn gekk þá hart fram, ok sóttu at merki Slittúnga. Þar fèll Þorbjörn af Lumalöndum[2] ok Helgi bróðir hans ok [meirr en[3] XIIII[4] tigir manna; en allir flýðu aðrir, þeir sem eptir voru af Slittúngum. Beni komst undan við lítinn orðstír. Lík Þorbjarnar ok Helga bróður hans voru flutt til kirkju, en öll önnur lík af liði Slittúnga voru þar reyrð[5], sem þeir fellu. Eptir ósigr þenna, sneri Beni austr á merkr, ok dró þá lið[6] at sèr á nýja leik. Herra Andres ok Arnbjörn rituðu til Hákonar konúngs ok Skúla jarls, báðu þá skunda í Víkina, ok segja at [Beni efldist at liði miklu[7].

*Fall meistara Stefnis*[8].

35. Um várit eptir páskir komu Slittúngar ofan af landi til Oslóar. Ívarr [í[9] Vík[10] hafði þá Oslóarsýslu af hendi Hákonar konúngs ok jarls. Ívarr ok Birkibeinar ok bæjarmenn ok biskupsmenn fóru í móti Slittúngum, ok hittust þeir við Frysju[11], ok skutust á yfir ána; þar fèll meistari Stefnir af biskupsmönnum, en fáir menn aðrir, en mart varð sárt, ok flýðu bæjarmenn[12], en Slittúngar ljópu í bæinn, ok ræntu mörgu; þeir tóku lángskip, er biskup átti, ok nokkur skip önnur, ok fóru síðan út eptir firði, ok svá suðr í Víkina, ok ræntu hvar sem þeir máttu. En er þeir komu suðr [um Elfarbakka[13], lögðu þeir í hina

1) bitrast, *F.* 2) Þorbergr ok, *b. H.* 3) nær, *H.* 4) XV, *G.* 5) grafin, *F.* 6) mart illþýði, *G.* 7) lið dreif hversdagliga til Bena, *B, F.* 8) *b. H.* 9) or, *H.* 10) *frá [ v. G.* 11) forsinn, *H.* 12) í bæinn, *b. B, F.* 13) fyrir Elfarvíslir, *B, F.*

eystri kvíslina; Áskell lögmaðr var þá í Ljóðhúsum, hann fèkk njósn af ferð Slittúnga at þeir ræntu víða; hann skipar skútur[1] ok reyri út or ánni, ok ætlar at banna þeim ránin; þóttist vita at hann mundi eigi lið skorta af hèruðum, ef hann þyrfti; þar var með honum júnkherra Knútr; þeir lágu við land út í ánni; þeim var sagt, at lángskip [reyri upp[2] eptir ánni, lèt lögmaðr þá júnkherra Knút á land, ok rann hann í skóg. Síðan renndu at þeim skip[3] Slittúnga; tók lögmaðr ok hans menn á land upp undan, en Slittúngar tóku þar skip hans ok[+] landtjald ok messuklæði[5] ok marga aðra góða gripi, ok fóru síðan út[6] til sjáfar, ok svâ suðr á Halland, ok fóru heldr óspakliga.

*Er Birkibeinar tóku skip Slittúnga*[7].

36. Birkibeinar þeir er í Víkinni voru spurðu, hvat Slittúngar höfðust at, ok stukku þeir á skip sín, ok fóru suðr at leita þeirra. Þar voru þessir sveitarhöfðíngjar, Guthormr Gunnason[8], Loðinn Pálsson, Loðinn Gunnason[9], Hallvarðr bratti, Ívarr útvík[10], Karl svángi; þar voru ok Baglar Andres ok Arnbjörn. Ok er þeir komu suðr í Víkina, spurðu þeir at Slittúngar höfðu farit til Hallands; fóru þeir suðr eptir þeim, ok hittu þá þar sem heitir Barðafjörðr; fundu Slittúngar

1) nokkrar skútur, *G*; skútu eina, *F*. 2) nokkur færi út, *B*, *F*. 3) skútur, *F*, *G*. 4) gott, *b. F*. 5) messuföt, *B*, *G*, *H*. 6) leiðar sinnar, en menn lögmanns leituðu lengi sveinsins Hnúts, áðr þeir fundu hann, en Slittúngar fóru síðan, *b. F*; menn Áskels tóku júnkherra Knút, *G*. 7) *b. H*. 8) Gunnarsson, *F*. 9) Gunnarsson, *F*; or Vík, *b. G*, *H*. 10) or Vik, *F*.

S 2

eigi fyrr en skipin rendu fyri höfnina; tóku þeir þá uppá land, ok flýðu undan; en Birkibeinar[1] tóku skip þeirra, ok allt þat er á var, en fengu ekki af mönnum.

*Andlát herra Andres*[2].

37. Herra Andres lagðist sjúkr litlu síðarr, ok opnaðist sár þat, er hann fèkk á Gunnarsbæ, tók þá at svella ok þrútna. Ok er hann [kenndi, at mjök leið at honum[3], lèt hann gera brèf, ok sendi til Skúla jarls; ok voru þar á vingjarnlig orð, sem þeir höfðu áðr talat; hann sendi jarli sverðit Skarðann ok skjöld gulllagðan; litlu síðarr andaðist herra Andres; var lík hans flutt til Oslóar, ok jarðat í Hallvarðskirkju[4]; hann var mjök harmdauði[5].

[*Frá Sæmundi Jónssyni, er hann gerði norrænum*[6] *mönnum úfrið*[7].

1214. 38. Vetr þann er Slittúngar voru í Víkinni, sat Hákon konúngr í Björgyn; þessi var hinn fyrsti vetr konúngdóms hans. Áðr um sumarit var þat tíðinda á Íslandi, at Sæmundr Jónsson (í) Odda gerði norrænum mönnum ófrið á Eyrum; hann fór at þeim með[8] CCCCC[9] manna, ok tók fyri þeim CCC hundraða vaðmála, ok fann þat til saka, at Páll son hans hafði týnzt áðr um vetrinn[10] fyri Staði; þá týndist Áslákr Hauksson, ok nokkur VI skip eða VII; en Sæmundr þóttist spurt hafa, at Björgynjarmenn héfði gert

[1]) ok Baglar, *b. B, F.* [2]) *b. H.* [3]) var mjök dreginn, *H.* [4]) garði, *b. B, F, G.* [5]) í Víkinni, *b. G.* [6]) austrænum, *G.* [7]) *frá* [ *b. G; H.* [8]) nokkur (*ofaukit*) *b. A, F.* [9]) *D, B,* D hundruð, *F, G.* [10]) norðr, *b. G.*

honum únáðir, ok hefði hann af því norðr farit, en eigi af fýsi sinni. Margan úfrið annan gerðu þá Oddaverjar [norrænum mönnum[1].

*Viðtal konúngs ok erkibiskups*[2].

39. Hákon konúngr ok Skúli jarl bjöggu ferð sína um vârit norðr í Þrándheim, ok komu til bæjarins [hálfum mánaði fyri páska[3]. Ekki var hríngt móti þeim, ok önga prócessíu vildi erkibiskup láta gera móti konúngi. En þótt þeir mættist, veitti hann önga blíðu konúngi, en jarl ok erkibiskup fundust jafnan[4], ok var með þeim hin mesta blíða; ok þá er jarl var[5] í Kristskirkju, var honum veitt höfðínglig tign. Pálmsunnudag[6] voru þeir báðir, konúngr ok jarl, í Kristskirkju, ok sátu í hásæti, ok var [konúngi engi[7] tign veitt. Ok er þeir voru leiddir til altaris at ofra, þá [vildi erkibiskup eigi taka við ofri konúngsins[8], lagði konúngr ofrit á altarit, ok gekk utar til sætis síns. [Birkibeinum þótti ger svívirðíng til sín ok konúngs[9]; litlu síðarr höfðu þeir stefnu í erkibiskups garði, ok[10] spurði konúngr erkibiskup, hverja sök hann gæfi honum, er hann vildi eigi veita honum konúngliga tign. Erkibiskup segir svâ: þetta er eigi míns eins ráð, heldr allra vâr biskupanna, ok[11] [fleiri

1) kaupmönnum, *B.* 2) *b. H.* 3) Pálmsunnudag, *F.* 4) hversdagliga, *F.* 5) einn, *b. F.* 6) Pálmadag, *H.* 7) þá hvârigum þeirra nein, *B, F, H.* 8) snerist eigi erkibiskup á móti konúngi ok eigi vildi hann mót konúngi nè við hans offri taka, *B, F, G.* 9) Birkibeinar voru þá fjölorðari um en áðr, at þeim þótti sín svívirðíng mikil allz kostar, *B, F, H.* 10) um morgininn eptir, *H.* 11) þeir sumir eru innan hirðar *b. B, H.*

annarra[1]; finnum vèr þat til, at vèr höfum heyrt nokkurn [pata af[2], hvârt þú sèr[3] konúngsson eðr eigi. Konúngr svarar: eigi var þetta öllum biskupum at kenna, ok fám [mínum mönnum[4]; [af þeim er þetta komit, er mèr vildu niðra, en sjálfa sik til míns föðurarfs[5] draga. þegar er vèr erum sannfróðir at þessu, segir erkibiskup, er vèr efumst nú í, skulu vèr veita þèr alla tign er vèr megum. Skúli jarl þagði hjá. þessi stefnu lauk svâ at eptir um sumarit skyldi koma til Björgynjar Hákon konúngr ok Skúli jarl, erkibiskup, ljóðbiskupar[6], lendir menn ok lögmenn, ok allt hit bezta mannval; skyldi þá gera[7] af þessu máli þat sem líkast þætti. Dagfinnr bóndi var þá næst konúngi um alla ráðagerð. Erkibiskup[8] bað[9] at Dagfinnr skyldi finna hann leyniliga, ok mælti svâ: guði er þat kunnigt at ek vil gjarna vera vin konúngs, ok eigi væri þessir lutir talaðir, sem nú eru, ef ek rèði; en þó skaltu þat ráða konúngi, at hann taki þessu vel, ok beri þolinmóðliga fyri guðs sakir, þvíat svâ segir mèr hugr um, at þetta verði honum mest til sæmðar, en þeim til vanvirðíngar, er honum hyggjast niðra í þessu.

*Ráðagerð um skírslur konúngs*[10].

40. Hákon konúngr ok jarl dvöldust í þrándheimi um vârit, en er sumraði bjöggust þeir.

---

1) *v. B, F, H.* 2) íra á, *G*; ymt af, *B*; tillat, *F.* 3) Hákonar, *b. F.* 4) mönnum innan hirðar, *B, F, G, H.* 5) mun þetta enn komit undan túngurótum þeirra er minn föðurarf vilja undir sik, *F, H.* 6) hljóðbiskupar, *F*; lýðbiskupar, *B.* 7) taka, *F.* 8) fann Dagfinn bónda ok, *b. H.* 9) gerði Dagfinni bónda orð, *F.* 10) *b. H.* **Greinir milli konúngs ok jarls,** *B.*

norðan, ok fóru til Björgynjar sem ætlat var. En er þeir komu til bæjarins, urðu margar greinir millum þeirra, ok gengu Birkibeinar mjök [í sveitir[1]; en þá var sem fyrr, at sá hafði fólk fleira, er fèit átti meira. [Konúngs menn geymdu hans vel, ok[2] lètu [hvern dag[3] fylgja honum XII menn vâpnaða[4], um þá fram [sem vandi var til[5]. [Ok er áleið sumarit[6], [kom erkibiskup norðan til Björgynjar, ok aðrir biskupar allir, ok lendir menn[7], ok allir aðrir þeir sem þannig voru nefndir; voru biskuparnir jafnan á tali við jarl, en lítt við konúnginn.

*Talat um járnburð*[8].

41. Einn dag er konúngr var á tali við [ráð sitt[9], komu þar sendimenn erkibiskups ok jarls, Hávarðr biskup af Björgyn ok meistari Bjarni [or þrándheimi[10], ok segja svâ: erkibiskup ok Skúli jarl báðu yðr þess, herra, at járnburðr, sá er boðinn var af yðvari hendi, þat vâr er þèr vorut kosnir til ríkis, skyldi fram koma nú, til þess at þeirra sögn sè ónytt, er áðr hafa nokkurn efa á um yðart faðerni; nú ef þèr vilìt svâ gert hafa,

[1]) sveitum, en er lendir menn komu, þá voru þeir flestir at snerust (viku at) með öðrum hverum, konúngi eðr jarli, *b. F, H.* [2]) Birkibeinar gættu konúngs með mikilli varhygð, svâ at þeir fóru út í konúngsgarð með sveitum sínum at sofa, Andres skjaldarband ok Vegarðr veradalr, *b. B, F.* [3]) dag ok nótt, *H.* [4]) alvâpnaða, *G, H, F.* [5]) er fylgð hèldu, *F, G.* [6]) þetta sumar, *H.* [7]) komu allir biskupar til bæjarins, Guthormr erkibiskup, Nikulás biskup, Heinrikr biskup af Stafángri, Ifar biskup af Hamri, Bjarni biskup af Orkneyjum ok margir aðrir lærðir menn, ok lögmenn, ok allir inir beztu menn í landinu, ok hinir beztu böndr, *hin.* [8]) *b. B.* [9]) lenda menn sína ok ráðgjafa, *F.* [10]) *v. G.*

ok berr guð yðr gott vitni um þetta mál, þá vilja þeir yðr tigna sem sinn sannan herra, ok veita yðr alla [konúngliga virðíng[1]. Konúngr svarar svâ: ek veit eigi, hvârt mèr[2] þikkir því kaupandi tignan yður, at gánga undir nokkura[3] afarkosti. En lendir menn ok ráðgjafar ræddu mjök misjafnt um þetta mál[4]. Ok um morgininn eptir fundust þeir[5] allir, konúngr ok jarl ok erkibiskup, ok [aðrir höfðíngjar[6], ok töluðu þetta mál. Dagfinnr bóndi mælti þá: varla manu dæmi til finnast, at bóndasynir ok kotkarla skulu gera einvaldskonúngi slíka afarkosti úfriðarlaust, ok þraungva honum til járnburðar, síðan er hann varð konúngr gerr yfir allt landit, ok allir menn honum eiða svarit; ok ætla ek þikkja oss litlu verra at bera ekki járn nema þeim kallt, er hans óvinir eru, ok láta guð skipta [millum hans ok úvina hans, sem hann skipti meðal Sverris konúngs ok hans mótstöðumanna[7].

*Af tölu Hákonar konúngs*[8].

42. Síðan mælti konúngr: þat er víst satt, Dagfinnr bóndi, at þetta mundi víst þikkja mikill afarkostr mörgum konúngi, at taka nú járnburð á hendr sèr eptir tekit[9] ríki; en þá er ek bauð þetta af minni hendi[10], var því öllu niðrdrepit, ok voru þeir hinir sömu, er því volldu ok þessu nú; voru þeir þá við hinn sama góðvilja sem

[1]) hæversku, *H.* [2]) mönnum, *G.* [3]) slíka, *F, G.* [4]) en þær lyktir fèllu á, at um morguninn eptir skyldi þeir finnast, *b. B, F.* [5]) í skrúðhúsi, *b. B, H, G.* [6]) ljóðbiskupar, *F:* allir biskupar, *G.* [7]) honum því, sem hans miskun er til, *H.* [8]) *b. F.* [9]) staðfest, *B, F, G;* staðfestu, *H.* [10]) ok móðir min, var ek ok eigi fastliga þá til konúngs tekinn, *b, B, F.*

eru þeir; kunnigt var þat ok öllum mönnum, þeim er þá voru með Inga konúngi, er ek ok móðir mín komum fyrsta sinni til hans norðr til þrándheims, ok svâ er hún fann Hákon jarl, bauð hún af sinni hendi þessar sömu skírslur fram færa, ef þeim væri nokkurr mistrúnaðr á mínu máli, en þeir vildu þat með öngu móti heyra[1]. Jafnan mælti Hákon jarl mörgum mönnum heyrandi, at þeir bræðr sæti í mínum föðurarfi; nú skulum vèr þetta þó eigi til afarkosta virða, þvíat þenna járnburð vil ek gjarna láta fram fara þegnum mínum til sæmðar. Sá lutr gengr ok annar til, at [margir menn megu þat hyggja, at þat sè því undandregit[2] at vèr sjálfir[3] hafim nokkuð efa á [um vârt faðerni[4]; en þessi er hinn þriði lutr, er [til berr[5], at ek em úruggr[6] um þann dómandann, er þetta mál er undir skotit, er aldri brást nokkurum[7] til rèttinda sinna, ok hann óttast öngan[8] satt at segja, geng ek því svâ glaðliga undir hans rèttdæmi[9].

*Hèr fastar konúngsmóðir til járns*[10].

43. Eptir þessa stefnu gekk konúngsmóðir til kirkju, ok fastaði til járns; þessir menn föstuðu með henni, Sigurðr konúngsfrændi, Dagfinnr bóndi, Andres skjaldarband, ok enn fleiri aðrir[11], en XII menn voru fengnir til at gæta

---

1) ok Hákon jarl kvað sèr slikt allt áðr kunnigt, *b. F, G.* 2) *frá* [ þá þikki sem vèr dragim undan, *G.* 3) hafim því undan dregit, at vèr sjálfir, *líklega ofaukið i A.* 4) vâru máli, *G.* 5) mest dregr til, *F; v. G.* 6) orugr, *F;* örugr, *G.* 7) manni, *b. F.* 8) at, *b. F.* 9) þetta eirendi vottuðu (rómuðu, *G*) allir vel er við voru, *b. B, F, G, H.* 10) *b. H, F, G.* 11) bæði lærðir ok leikir (ólærðir), *b. B, F.*

utan kirkjunnar[1], at eigi kvæmi umspillendr til. Skúli jarl var miklu blíðastr þá daga til konúngs, en eigi vissu menn hvat því volldi[2].

*Frá vèlum Sigars*[3].

44. Sá maðr var með jarli, er Sigar hèt, vitr[4] ok menntr vel[5], ok lèzt vera vin konúngs mikill; hann gekk [til Dagfinns bónda Óðans[6] dag, áðr en járnit skyldi bera, ok mælti: veit ek at þèr erut hugsjúkir mjök of yðart mál, en með því at ek vil konúnginum gott, þá vil ek fá til eina list, þá er ekki skal til skaða; ek hefi þat eitt gras, ef ek ríð því á hönd konúngsmóður, at ekki skal saka, ok hún skal óruggliga[7] bera mega þetta járn ok skír verða. Dagfinnr bóndi svarar: guð þakki þèr sannan góðvilja, þú [ert vitr maðr[8], eðr hvar vex þetta gras, er svâ [mikinn krapt[9] hefir með sèr? Sigar svarar: þetta gras vex á þínum húsum [í Björgyn[10] ok hvers annars. Dagfinnr svarar: engi lyf[11] eðr lækníng skulu vèr til þessa hafa, nema þær einar, er Jesús Christus vill gera við sinni miskun[12]; en þú far í brott með skrum þitt, ok skaltu fara vânda ferð, ef þú mælir þetta optarr. Dagfinnr bóndi

1) bæði nætr ok daga, *b. hin.* 2) olli, *F;* volli, *H.* 3) *þ. F.* Frá Sigurði ok vèlum hans, *H.* 4) hann var vitr maðr, vel hagr ok ráðagerstr, (greindastr?) *F;* mart kunnandi ok vitr til ráðagerða, *B.* 5) hann var ættaðr af Brabranz, *b. H;* Brabrand, *B;* Brabant, *F.* 6) einn myrgin snemma til Dagfinns, ok kallar hann á eintal. Þat var Óðins, *B, G, H.* 7) örugg, *F;* örugliga, *G.* 8) ert v. ok skynsamr, *F;* þú munt vera skynsamr maðr, *G.* 9) mikla náttúru, *H.* 10) hèr í borginni, *H;* h. í Björgyn, *G.* 11) hlíf, *P (rángt).* 12) með (ok) árnaðar orði guðs móður Marie, ok hins helga Ólafs konúngs, (ok sællrar Sunnife,) ok allra guðs heilagra manna, *b. hin.*

[það konúngsmóður þess, er Sigar kvæmi, at hún trýði honum eigi, kvaðst þat víst vita, at hann ferr sannliga með fals ok svik[1].

*Ínga konúngsmóðir berr járn*[2].

45. Um daginn eptir[3] príma[4], bar konúngsmóðir járn[5], ok [fór þat et bezta til vegar[6]. þar var við konúngr ok erkibiskup[7] ok aðrir landshöfðíngjar, þar var ok jarl af Orkneyjum. En þann dag er höndina skyldi leysa, var konúnginum sagt, at jarlsmenn [nokkurir mundu[8] bera vâpn um dáginn leyniliga; ok af því bauð konúngr Jóni stál, Guthormi G(unna)syni, Vegarði Veradal, Bárði brimstein[9], at þeir lèti vâpnast sveitir sínar ok svâ gestum, ok væri út við Kristskirkju[10], meðan höndin væri leyst. Um daginn kom þar konúngr ok erkibiskup ok jarl ok aðrir[11] höfðíngjar allir til Kristskirkju. Ok er leyst var hönd konúngsmóður, þá gerði guð þar miklar jarteinir með sinni miskun, ok hún var vel skír; ok sögðu þat allir[12], at hönd[13] hennar var nú miklu fegri, en áðr hún tók undir járnit, sönnuðu þat bæði vinir ok óvinir.

---

1) fór þá til konúngsmóður (ok þeirra manna er hjá — næstir, *F* — henni voru, *H*) ok mælti við hana leyniliga: ef Sigar (Sigurðr, *B*) kemr hèr ok býðr yðr nokkut lyf (eðr aðrar vèlar, *b. F*), þá varist þèr hann sem hinn versta andskota, því ek veit sannliga at þar er fals ok flærð undir þessu máli, ok opinber svik, *B, F, H*; skulu vèr þar við sjá, sem vèr megum, *b. G.* 2) *þ. G.* Skírsla frú Íngu, móður Hákonar konúngs, *B.* 3) einn dag, *B.* 4) mál, *b. B, F, H.* 5) eptir rèttri setníngu, *b. H.* 6) gerðist þ. hit b. af hennar hendi, *F, G.* 7) jarl, *b. F.* 8) hefði kurr nokkurn á at, *F, G*; (hótuðust, *H*). 9) bristeini, *F; v. G.* 10) at rèttum tima, *b. B, F, G.* 11) allir biskupár ok, *F.* 12) þeir er sá, *b. F, G.* 13) *b. F, G.*

*Sætt konúngs ok Skúla jarls*[1].

46. Eptir þetta voru [áttar sættarstefnur[2] millum konúngs ok jarls; drottinsdag[3] var þíng í Kristskirkjugarði, ok voru þar þá allir höfðíngjar; lýsti[4] erkibiskup þá skírslu konúngsmóður, ok lagði þar bann við hverjum manni, er nokkurn mistrúnað legði þar á; þá lýsti hann ok endrnýjaða sætt meðal konúngs ok jarls. Hèr eptir bjöggu þeir ferð sína, konúngr ok jarl, með miklu liði, þvíat þá hafði komit brèf austan frá Birkibeinum ok Böglum, at Beni ok Slittúngar styrktust mjök, ok drógu saman mikit illþýði, ok gerðu mikinn ófrið. Þeim konúngi byrjaði vel austr; ok er þeir komu til Túnbergs[5], var þeim sagt, at Slittúngar voru í Oslú, ok öngar njósnir foru fyri Birkibeinum. Þeir vildu þá þegar hafa siglt inn (til) Óslóar, þvíat byrr var á góðr; var þá þegar blásit til brottlögu, ok sum skipin lögðu út. Jófreyr hèt prófastr í Túnsbergi, hann gekk þá til konúngs ok jarls[6], ok kvað sèr komna njósn frá Nikuláss biskups, at Slittúngar ætluðu [út til bæjar. Sumir[7] Birkibeinar sögðu þetta mundi vera prett biskups, at hepta svâ ferð þeirra. Prófastr ok bæjarmenn báðu eigi konúng fara or bænum svâ skjótt, ok

1) *þ. B;* frá Jófrey prófasti, *G.* 2) á nýja (leik) leit gervar sættir millum, *B, F, G.* 3) eptir, *b. F.* 4) jarl ok, *b. B, H.* 5) *hèr ok optar:* Túngsbergs, *F.* 6) ok hafði með sèr svein einn ok (er) lèzt vera mjök móðr, sagði at Nikulás biskup hafði sent hann út til Túnsbergs, til bæjarmanna, at vara þá við, at Slittúngar ætluðu (o. s. f.). Sveinninn kvaðst hafa skilizt við þá er þeir fóru sumir or Osló, *b. B, F.* 7) *frá* [ Þanninn, *G.*

þeir dvöldust þann dag, [ok var hleypt mönnum á hestum, ok mættu þeir mönnum þeim, er rakleitt höfðu farit or Oslú, ok segja at þetta var hègómi ok uppslátta biskups[1].

*Hèr flýja Slittúngar undan konúngi*[2].

47. Ívarr útvik ok Ásbjörn kópr lágu þá við Höfuðey; þeir höfðu Oslóarsýslu af konúngs[3] hendi; þeir höfðu gert lèttiskútu[4], at vita of ferð konúngs ok jarls, sögðu þeir konúngi at Slíttúngar voru í Oslú, ok höfðu ekki frètt til ferða konúngs ok jarls. En er þeir konúngr vissu þetta, skunduðu þeir ferð sinni sem mest, en byrr var góðr. Ok er þeir komu til Höfuðeyjar, kom þar Ívarr til þeirra[5] með III skip, ok segir at Slittúngar voru í Oslú, ok lètu kyrt um sik; síðan var heflat á konúngsskipunu, ok var sagt á önnur skipin, at öll skyldu sigla jafnfram, ok leggja svâ at bænum. Síðan sigldu þeir sem mest; en þau skipin, er þúngfærri voru, gerðu bæði, sigldu ok reyru. Slittúngar höfðu vörð uppi í Hallvarðs kirkjustöpli, ok sá þeir skipin, er utan fóru fyri Nesodda; skundaði Beni[6] þá or bænum. En er Birkibeinar komu inn um Höfuðey, þá sá þeir Slittúnga[7]; var þá lagt at bryggjum sem ákafast, bæði norðr ok suðr, hljópu menn þá upp í bæinn, ok voru þá allir Slittúngar brottu or bænum. Sumar sveitir Birkibeina hljópu eptir þeim allt norðr til Frysju, ok fengu ekki af mönnum í því sinni.

---

1) *frá* [ *v. G.* 2) *b. H.* 3) *þ. hin*; hans, *A.* 4) leypiskútu, *B.* 5) ok þeir fèlagar, *b. F.* 6) Böni, (*hèr ok optar*) *G.* 7) gjörla, at sumir Slittúngar fóru inn á leið, *F.*

*Baglar [gerast handgengnir*[1].

48. Baglar sátu margir í kastala biskups, ok gættu sín þar, en hvártki voru þeir þá með Slittúngum nè Birkibeinum[2]. En þegar er Hákon konúngr kom [jafnfram kastalanum[3], gengu þeir ofan ok buðu honum sína þjónustu. Nicholás biskup var í bænum, ok [lèt blíðliga við Birkibeina[4]. En um morgininn eptir gerði hann processíonem móti konúngi með allri sæmð. Eptir þetta voru brèf ger til Arnbjarnar Jónssonar ok allra Beglínga, komu þeir þá til Oslóar, ok [gerðust handgengnir Hákoni konúngi ok ok jarli, ok gáfu upp nafn þess flokks, er þeir höfðu við farit[5]. En þessir voru sveitarhöfðíngjar með Böglum, er til handa gengu: Arnbjörn Jónsson, Gunnbjörn Jónsbróðir[6], Símon kýr, Eysteinn Hróason, Guðólfr á Blakkastöðum, Eindriði bekill[7], Finnr Kálfsson[8], Eilífr kembir, Þórir Ámundason.

*Farit eptir Slittúngum*[9].

49. Nú spurði Hákon konúngr at Slittúngar voru uppi í Eyjavatni[10]; lèt þá konúngr draga XIII[11] skip uppí vatnit, ok fèkk þar mikit lið til,

---

1) *frá* [ sátu í kastala, *G.* 2) móti, *G;* móti þeim, þvíat þeir voru þá handgengnir Birkibeinum, *F.* 3) nær stöplinum, *H.* 4) ok gerði þegar bát til konúngsskipsins ok lèt fara Ingu konúngsmóður í garð sinn ok hèlt hana sæmiliga (gerði vel við hana); við Birkibeina var hann hinn blíðasti, *B, F, H.* 5) *frá* [ gáfust í vald með öllu, *G.* 6) Jónsson, *H.* 7) bækill, *F, G.* 8) Sigurðr sæpill, *b. G* (sæfill, *F*; sefill, *B*); Finnr Bergdórsson, (Berdþórsson, *F*); Guðleikr skreiðúngr; Gunnar Ásuson; Bótulfr Aufurs (Ófússon, *F*), *b. B. F.* 9) *b. H.* 10) Reyja vatni, *H.* 11) XIIII, *hin.*

ok þessa sveitarhöfðíngja, Guthorm, Ólaf mók, Gunnbjörn, Harald stángarfylju[1]. Slittúngar fengu njósn af ferð þeirra, ok flýðu þegar [upp[2] á Markir. En Birkibeinar skipuðu skip sín, þegar er þeir komu til vatzins, en sumir sneru út aptr til Oslóar til konúngs, voru þá drykkjur miklar í bænum, ok gerðust þar mörg tíðindi.

*Frá Gunnólfi ok Eilífi*[3].

50. Hákon konúngr átti móðurbróður er Gunnólfr hèt, hann var ekki vitr maðr við drykk; hann mætti eitt kveld góðum manni er síra Eilífr hèt, kurteis maðr ok vel siðaðr, hinn mesti vin jarls ok ráðgjafi; Gunnólfr brá sverði, ok hjó til Eilífs, ok mjök svâ af hina hægri höndina. Þetta var skjótt sagt jarli, en þeir höfðu eitt skip báðir[4], konúngr ok jarl; hèt jarl þegar á sína menn, ok bað þá vâpnast, en Gunnólfr komst [á konúngs skip[5] til hirðmanna, ok skutu þeir yfir hann skjaldborg, ok vörðu hann. [Skipin lágu við konúngs bryggjur[6] umhverfis, ok þegar er þeir heyrðu brakit á konúngsskipit, tóku þeir til vâpna. Jarl vildi gánga fram at Gunnólfi, en hirðin gætti hans; ok er jarl sá, at hann kom því eigi fram, sneri hann aptr til fyrirúms með sína menn. Ok er hirðin sá, at hann fór [með alvâpnaða menn þannig[7], þá óttuðust þeir at hann mundi vilja til konúngsins, ok hljópu þeir[8] allir aptr til konúngs; en jarl sneri þá upp eptir skutbryggjum[9] með sína menn; en þar lágu næst

[1]) ok enn nokkura aðra, *b. F.* [2]) austr, *G.* [3]) særðr Eilífr, *F.* [4]) *v. G, H.* [5]) miðskipa, *b. F, H.* [6]) skipit lá við konúngsbryggju (biskupsbryggju, *B*) ok mörg skip, *B, F.* [7]) svâ ákafliga þángat alvâpnaðr, *B, F.* [8]) *b. F.* [9]) skutbryggjunni, *F, G.*

skip þeirra [Ásólfs jarlsfrænda[1] ok Þórðar drafla ok Þorfinns illa[2], ok er þeir (komu) uppá bryggjur til jarls með sína menn, spurði hann, hvat er til ráðs væri; sagðist hefna vilja Eilífs. Maðr hèt Reiðúlfr [Barða bróðir[3], sá hólp[4] Ínga konúngi, er hann svam yfir ána Níð, þá er slagit var í Þrándheimi; hann var engi vin konúngs; hann mælti til jarls: vèr munum slíkar farar fleiri hafa, ok því næst þèr, herra, ok er þat ráð, at vèr verðim fyrri at bragði, ok drögum upp skipin undir þeim, ok drepum konúnginn ok alla þá er fyri honum standa. Ásólfr[5] svarar: ofhefnt mun þá einnar handar. [Margir svöruðu at þeir vildu eigi níðast á konúngi: því at hann er saklaus of þetta mál[6].

*Áverki við Vegarð*[7].

51. Þá komu þeir ok á bryggjur upp, Dagfinnr bóndi, Guthormr G(unna)son[8], Vegarðr Veradalr, Andres skjaldarband með sveitum sínum mjök fjölmennum, ok viku þegar at[9] konúngsskipinu. Ok er jarl sá þat, sneri hann móti Vegarði ok lagði með sverði í kinnina. Vegarðr bar af sèr, ok skar út or kinninni. Eptir þat gekk jarl [til Eilífs[10], ok var þar um stund. [En er þeir Arnbjörn Jónsson vissu harkit, fóru þeir til konúngs ok sögðust honum fylgja vilja.

---

1) Á. konúngsfrænda, *B, G*; Ólafs konúngsfrænda, *F.* 2) fleiri skip lágu nærri þeirra, sem allir voru viljaðir jarli, *b. B, F.* 3) *þ. A, F, B*; Bárðar bróðir, *P; v. G, H.* 4) help, *F;* ljóp með, *B;* hjálp, *G.* 5) Á. jarlsfrændi, *B, G*; Ólafr jarlsfrændi, *F.* 6) *frá* [ er þú vill at vèr niðimst á konúnginum, *G.* 7) *b. G.* 8) *v. G.* 9) *þannig F;* á, *A.* 10) af bryggjum ok þángat sem Eilífr lá, *B, F.*

[1]Þá kom jarl út á skip reiðr mjök; konúngr stóð upp móti jarli, ok bauð boð fyri Gunnólf, frænda sinn, bæði jarli ok svâ Eilífi; jarl æmti því lítt; þá mælti Dagfinnr bóndi: ef þèr, herra jarl, vilit eigi láta vera grið á þessu máli í nótt til allra manna, þá [megut þit eigi báðir vera á einu skipi, konúngr ok þèr, ok skal konúngrinn oss fylgja[2]. Konúngr svarar: fyri öngan mun vil ek flýja skip mitt í nátt nè sveitúnga mína. Hirðin segir at þeir vildi þar vera sem konúngr væri. Jarl svarar þá vel, sagði allt þetta skyldu standa í griðum til morgins, en vörðu höfðu hvârirtveggju um nóttina sem sterkasta.

*Frá Vegarði*[3].

52. Um morgininn eptir formessur gekk konúngr til Eilífs, ok bauð honum boð fyri Gunnólf. Eilífr svarar vel, ok seldi grið til þess er menn sæi, hversu mál hans skipaðist. Konúngr lèt þá blása til hirðstefnu, ok sagði þá þetta mál lögðu menn mjök misjafnt til. Vegarðr segir[4] hirðinni, hverja vanvirðíng hann hafði fengit saklauss, sagði at hann mundi þetta ekki kæra, ef honum væri nokkur sæmð[5] boðin. Lendir menn ok hirðin segja, at þeir vildu [með öngu móti

[1]) Nú vissu þetta Arnbjörn Jónsson, Loðinn Pálsson ok mestr þorri liðsins, tóku nú til vâpna sinna, þvíat allir höfðu skjöldu fyri stöfnum fyri ófriðar sakir; þeir gerðu menn á bátum til konúngs ok sögðust honum allir fylgja vilja. Dagfinnr bóndi ok Guthormr með sinum fèlögum gengu út á skip til konúngs, en lètu (sínar) sveitir með vâpnum, *b. B, F, G.* [2]) viljum vèr eigi at konúngr sè á skipinu, ok skal hann með oss fara, *B, G, H.* [3]) *b. H.* [4]) veradalr stóð þá upp ok birti fyri, *F, G.* [5]) fyri, *b. F.*

at svâ búit stæði[1]. Kom þá svâ, at jarl festi ⌊góðra manna dóm; var Vegarði dæmt[2] fè fyri[3], en hann gaf⌋ upp jarli fèit[4], ok undi þó jarl verr við[5], ok lagði mikinn fjandskap á Vegarð, sem enn mun síðarr sagt verða.

*Frá Gauti Jónssyni*[6].

53. Hákon konúngr ok Skúli jarl skipuðu sýslur allar á Upplöndum; en með því at ófriðar vænt var þar mjök, þá völðu þeir mjök menn til. Var þeim skipat yfir Haðaland Gunnbirni Jóns[7] bróður ok þorgeiri biskups manni[8]; en yfir Raumaríki Harald stángarfylju, ok þóralda[9] Ognrssyni; en yfir Heiðmörk Ólafi mók ok Friðreki slafsa; en í Guðbrandsdölum Eindriða bekil ok Bárð hala. Hákon konúngr ok Skúli jarl fóru til Túnsbergs, en sendu menn til Björgynjar, at segja at þeir ætla at sitja á[10] Túnsbergi um vetrinn. Skipaði konúngr[11] Dagfinni bónda at ætla[12] til jólavistar af sinni hendi, en jarl Grunda fèhirði fyri sik. En þeir fóru í Víkina, ok austr til Elfar, at rannsaka eptir fornum málum konúngsins[13] ok nýjum. Síðan fóru þeir norðr til Túnsbergs, ok sátu þar um jólin. Þat sama haust varð Gautr Jónsson aptrreka or Jórsalaferð; konúngr gerði vel til hans, ok fèkk honum Elfarsýslu hálfa, ok var hann með konúngi um vetrinn.

1) þat m. ö. m. þola bóta-laust, *G.* 2) bæði, *b. F.* 3) ok eiðar eptir þat til bókar, *b. F;* ok eiðar, *B, G, H.* 4) hvârttveggja, *B. G, H;* bæði fè ok eiða, *F.* 5) sinum hlut, *F.* 6) *b. H;* Frá konúngi ok jarli, *G.* 7) jarls, *P; skammstafað í A, v. H.* 8) efni, *B.* 9) Þóralla, *F.* 10) at, *F.* 11) þar, *b. F.* 12) búa, *F.* 13) konúngdómsins, *B, F.*

*Frá hirðmönnum Hákonar konúngs*[1].

54. Þessi var annarr vetr ríkis Hákonar konúngs, þá gerði hann lenda menn: Guthorm Gunnason, Pál vâgaskálm[2]. Þenna vetr [brann bær í Niðarósi[3]. Þessir voru þá ráðgjafar konúngs, Marteinn konúngsfrændi, Gunni Loðinsson, Guthormr [son hans[4], Dagfinnr bóndi, Bárðr brísteinn[5]; konúngr var þá XV[6] vetra; þessir menn gerðu orð Arnbirni Jónssyni ok Gunnbirni bróður hans, [ok Páli vâgaskálm, ok mæltu svâ[7]: oss þikkir mál konúngsins vera mjök hættligt[8] svâ búit, þar sem jarl hefir bæði forsjá fyri honum sjálfum ok ríkinu; en þeir eru margir, er þeirra gánga verr í millum en vera ætti, ok stundum verða þeir eigi við staddir, er konúngi eru öruggir, ok því vildu vèr gjarna fá svâ saman komit þeirra vináttu[9]. [Sögðu þeir þat líkast til[10], at konúngr bæði[11] dóttur jarls, frú Margrètar, sögðu at þá mundi allt tryggt vera, ok jarl mundi þá unna konúngi sem sínum syni. Þeir töluðu þetta fyri konúngi, ok hafði hann fátt um í fyrstu, en [kvaðst þetta þó vel líka[12],

---

1) *b. B;* Gervir lendir menn, *G.* 2) vaðaskálm, *F.* 3) var fyri Þrændalögum Gregorius Jónsson af konúngs hendi; hann ritaði til konúngs (ok jarls, *b. F*) um vetrinn eptir jól ok sagði at (Upplendingar hefði brunnit, *rángt, H*) upp hefði brunnit bærinn í Niðarósi, *B, F.* 4) konúngs son, *F.* 5) brimsteinn, *F.* 6) XII, *F.* 7) *frá* [ þeir (þau) töluðu (mæltu) á þessa lund, *F, G.* 8) harðligt, *F.* 9) at þeir þyrfti engan mistrúnað á at bera, *b. F*; at hún værí með öllu örugg, *G.* 10) þess, *b. F; frá* [ nú sjáum vèr þat vænst til, *G.* 11) fengi, *G.* 12) lèzt þetta vilja, *F, H.*

ef þá væri [trútt þaðan af[1]: en um þat em ek hræddr[2] at allt komi til eins; en [bað þá[3] fyri sjá. Síðan fluttu þeir þetta fyri jarli, en hann tók [vel á[4], ok skaut þó til [móður hennar ok frúinnar[5]; en þær fèllu lyktir á, at konúngrinn festi sèr júngfrú Margrètu; [þótti þá vænligt um þeirra vináttu[6].

*Getit Snorra Sturlusonar*[7].

55. Um haustið áðr kom utan af Íslandi Snorri Sturluson, ok þá komu þeir Sörli ok Grímarr með knörr þann hinn mikla, er þeir höfðu haft í Vestmannaeyjum, ok sögðu þau tíðindi, at þeir hefði tekit af lífi göfgan mann Orm Jónsson, bróður Sæmundar í Odda, [ok son hans ok prest[8], fyri þann ójafnað, er Sæmundr hafði gert Austmönnum[9], ok var þó Ormr þess óvaldr[10], því at hann hafði jafnan bætt [með honum[11].

*Hèr er frú Margrèt púsuð við Hákon konúng*[12].

56. Hákon konúngr ok Skúli jarl fóru um vârit or Túnsbergi til Björgynjar, ok sátu þar um sumarit. Þá kom Jón stál til Björgynjar með skip þat, er hann hafði látit gera konúnginum, hálfþrítugt[13] at rúmatali; þat skip hafði konúngr lengi síðan[14]. [Nær Maríumessu[15] fór konúngr

1) allt trútt ok traust um alla hluti, *F*, *H*. 2) sagði hann, *b. F.* 3) *frá* [ þat líkar mèr vel, sem þèr vilit, *F.* 4) þessu vel, *F.* 5) hennar sjálfrar ok annara þeirra frænda, *B*, *F*; þeirra mægna, *H.* 6) sögðu þá bæði vinir ok úvinir at nú mundi alldri skilin verða þeirra vinátta, *b. hin.* 7) *b. G*; af Íslendingum, *F.* 8) mest, *F*; *frá* [ *v. G.* 9) á kaupmönnum, *H.* 10) eigi valdr, *F.* 11) um með þeim, *F*; meðr þeim, *G*; fyri þeim, *H.* 12) *b. B.* 13) hálfertugt, *G.* 14) allra skipa bezt, *b. F.* 15) um M. m. skeið, *B*, *F.*

ok jarl norðr [í land[1], ok höfðu fjölmennt ok góðmennt or Gúlaþíngslögum. En Mikjalsmessudag var júngfrú Margrèt pausut[2] konúnginum, ok var veitt í höllinni sæmiliga. Sátu þeir konúngr ok jarl þann vetr í þrándheimi, ok fóru allir lutir með þeim sæmiliga[3]. þessi var hinn þriði vetr konúngdóms hans, þá var þeim skiput sýsla [í neyrðstu[4] þínghá Vegarði veradal ok Andresi skjaldarband, [því at þeir voru mestir[5] vinir konúngs[6].

*Upphaf Ribbúnga*[7].

57. Eptir þat er Baglar höfðu sæzt við Hákon konúng, sem fyrr (er) ritat, var engin sýsla fengin Guðólfi á[8] Blakkastöðum, því at hann var [illa þokkaðr[9] af bóndum, þar sem hafði hann sýslu haldit. Ok er Guðólfr sá, at hann fèkk öngar sæmðir af Birkibeinum[10], settist hann of kyrt. En vetr þenna, sem nú var frá sagt, sendi Guðólfr son sinn Eilíf krúnu[11] suðr á Halland, at leita sveins þess er Sigurðr hèt, ok kallaðist son Erlíngs steinveggs; þeir fundu hann, ok tóku hann sæmiliga; dreif þegar lið til hans; Guðólfr var þá höfuðráðgjafi[12] hans, [en Erlíngr rúmstafr merkismaðr; en þessir sveitarhöfðíngjar hans[13]: Sunnólfr[14] Hauksson, þorleifr brúðr, Erlíngr

[1]) til þrándheims, *G.* [2]) púsut, *F.* [3]) vel ok likliga, *F*; vel, *G.* [4]) næstu, *F*; *frá* [ in neyrzta, *G*; neyrðzta, *H.* [5]) höfuð, *B, F.* [6]) *frá* [ voru þeir báðir kærir konúngi, *G.* [7]) *b. H.* [8]) af, *G.* [9]) illu kendr, *F.* [10]) mislikaði honum ok, *b. F.* [11]) ok með honum Eirik panna (farra, *B*; pana, *H*) ok Jón rauð (rödd, *F*; raudd, *H*), *b. B, F, H.* [12]) formaðr, *G.* [13]) til þeirra, *F*; *frá* [ ok E. rúmstafr, *G.* [14]) Sandólfr, *F, B*; Sundólfr, *G, H.*

hríngr, Helgi á Sólbjörgum, Gauti gottsmjör[1], Gási[1] undan fjalli[2], Grimarr svángi; þeir höfðu mikit lið ok frítt, ok voru kallaðir Ribbúngar.

*Frá Ívari útvík ok Guðólfi*[3].

58. Nokkuru áðr höfðu þeir gerzt eiðbræðr Ívarr útvík ok Guðólfr[4]. Ívarr hafði hinn vestra lut Oslóar sýslu, ok sat í sýslunni, ok varði einkis[5] annars en góðs. Guðólfr samnar liði á laun, ok fór at Ívari til Höfuðeyjar um nótt, ok kom á úvart ok elti Ívar af skipi; þar fèllu margir röskvir menn ok fornir Birkibeinar, Smiðr sleppa[6], Hallvarðr kutr[7]. Ívarr komst brott á báti einum, en sveitúngar hans komust í kirkju. Guðólfr tók skipin ok öll vápn, ok mart annat.

*Um ráðagerðir jarls til Íslands*[8].

59. þenna vetr voru þeir í þrándheimi, konúngr ok jarl; en er váraði fóru þeir suðr til Björgynjar, ok sátu þar lengi um sumarit. þá gerði jarl orð á því, at hann mundi senda[9] her til Íslands, þá hafði Björn son þorvalds Gizurssonar dregit mann norrænan or kirkju í Miðfirði, ok látið drepa; þóttist hann þat gera í hefnd Orms Jónssonar, þvíat hann átti Hallveigu dóttur hans. Skúli jarl ætlaði mörg skip til ferðarinnar, en menn voru mjök ófúsir til þessarar ferðar. þá kvað Guðmundr Oddsson skáld jarls[10]:

Hvat skal ek fyri mik byrjar
hreggmildr jöfur leggja

1) gassi, *F.* 2) fjallinu, *F, G.* 3) *b. H.* 4) smjörtik, *b. F* (blakkr, *B*); ok voru góðir fèlagar, *b. F.* 5) *b. B, F.* 6) kipa, *B.* 7) kurt, *B, F*; hvitr, *P.* 8) *þ. H*; búinn hernaðr til Íslands, *B.* 9) gera, *F. H.* 10) *v. F.*

gram fregn at því gegnan,
geirnets sumar þetta;
byrjar hafs at herja,
hyr-sveigir mèr eigi,
sárs vinnr jarl á orar
ættleifðir[1], [svâ reifðan[2].

Snorri Sturluson ok þeir íslenzkir menn, sem þá voru í Noregi, báðu Dagfinn bónda flytja við konúng, at þessi ætlan fèlli niðr. Kom þá svâ, at stefna var til lögð, [ok mælti konúngr til jarls[3]: ætlan sú sem hèr hefir verit í sumar sýnist [ráðinn ekki vitrlig[4], at herr sè gerr til Íslands, þvíat þat þikkir torsóttligt, en land þat hefir heðan bygðzt, ok vârir frændr ok forellrar hafa kristnat landit, ok veitt landsmönnum mikil[5] hlunnindi; eru þar ok flestir menn saklausir við oss, þótt sumir hafi illa gert til vârra þegna, en þat man verða allra skaði, ef[6] landit er herjat. Nú vil ek biðja yðr, herra, at þèr látið niðr falla ætlan þessa fyri minn flutníng. þetta fluttu ok margir aðrir; gaf jarl þá upp þetta ráð. En Snorri var sendr til Íslands út, at friða fyri kaupmönnum[7]; gaf Hákon konúngr honum lends manns nafn[8]; talaði jarl þá í fyrsta sinni um, at Snorri [skyldi koma landinu[9] undir konúng. En um haustið er Snorri kom út, urðu þeir [sjálfir missáttir[10] Sunnlendíngar; ok um vârit eptir drap Loptr í

1) ættleifðar, *H.* 2) reifðar, *G*, *F*; reifða, *H*; *frá* [ svanreifðar, *B.* 3) talaði konúngr á stefnunni, ok hóf svâ: herra jarl, segir hann, *F.* 4) *frá* [ ráðin sumt ekki vitrliga, *F.* 5) *v. F*, 6) á, *b. F.* 7) Austmönnum, *hin.* 8) töluðu þeir jarl mest um mál Islendinga, *b. F.* 9) myndi vinna landit, *H.* 10) *frá* [ sáttir, *H.*

Skarði Björn þorvaldsson[1] á Breiðabólstað. þat sumar sendi Snorri utan Jón son sinn til jarls, sem mælt var með þeim; en öngu kom Snorri á leið við landsmenn, [ok lítt flutti hann[2], en þó höfðu kaupmenn góðan frið [út hèr þann tíma[3].

*Brèfsendíng til konúngs ok jarls or Vík*[4].

60. Um sumarit eptir, er Hákon konúngr sat í Björgyn, kom brèf austan or Vík frá lendum mönnum, at þeir konúngr ok jarl skundaði austr þángat, þvíat Ribbúngar styrktust mjök; bjöggust þeir skjótt ok urðu þeir [síðbúnir nær[5] Mikjalsmessu með XXX skipa; [þessir voru[6] lendir menn, Páll vâgaskálm, Jón stál, Ívarr nef. þeir fengu harðan byr fyri Jaðar, síðan lágu þeir í Lykri[7] hálfan mánað, gekk þá upp drykkr mjök ok svâ vist, var þá höggvit bú fyri[8] mönnum í bygðinni, gerðist þá illr kurr í herinum, ok leiddist mörgum lánglegan. Var þat þá til ráðs tekit, at þeir skiptu liðinu; sneri konúngr norðr aptr til Björgynjar með stórskipin, en jarl fór austr í Víkina með hin minni skipin, ok hann hafði meira lið. Svâ var skilit með þeim, at jarl skyldi taka landskyldir ok leiðángra um alla Víkina, ok flytja norðr til jólaveizlu ok málagiptar. þá er Hákon konúngr kom norðr í Eikundasund, fann hann þar Heinrek biskup, ok töluðu þeir marga luti sín á milli, ok staðfestu sína vináttu[9];

1) *þ. B, F, G;* Þorvarðsson (*rángt*) *H, P.* 2) *frá* [ enda flutti hann litt, *H.* 3) *frá* [ þann tíma á Íslandi, *F.* 4) *b. G.* 5) búnir at, *F.* 6) þeir voru þar, *F.* 7) Lukri, *F.* 8) mörgum, *b. F* 9) at nýju, þá mælti biskup við konúngr at skilnaði: þat vil ek at þèr vitit, herra, át öngan áttu þèr

var Heinrekr biskup síðan hinn mesti vin Hákonar konúngs. Konúngr fór síðan norðr til Björgynjar, ok hafði lítið fè í skipum, þat er hann mætti halda sik við, en með öllu var ekki fyri. Þá kallar konúngr Dagfinn bónda til sín, ok [bað hann[1] búa til jólavistar; voru þá tekin stór lán[2], þá voru ok ger útboðabrèf til allra sýslumanna, ok varð þat at litlum skilum, þvíat sýslumenn hræddust lítt konúng, ok jafnan[3] ef hann talði á þá, [sögðu þeir annars staðar skyldu til stunda[4].

*Frá Skúla jarli[5].*

61. Nú er at segja frá Skúla jarli: honum byrjaði seint í Vík, ok er hann kom fram, bauð hann út leiðángra [ok landskyldir konúngs allar[6] um Víkina; hann tók af slíkt er hann fèkk, ok sneri norðr aptr, ok fór V nóttum fyri jól or Túnsbergi; honum byrjaði vel, ok kom hit fjórða kveld jóla til Björgynjar[7]. Sátu þeir konúngr báðir saman um jólin, ok fór sem blíðast allt með þeim. Þessi var hinn IIII vetr ríkis Hákonar konúngs. [En er áleið vetrinn[8] komu þau orð austan[9], at Ribbúngar styrktust mjök,

röskara (meira, *G*) úvin i litlum manni en mik, en héðan af skal yðr engi traustari vin af oss biskupunum, þótt þèr vegit þat litit (þó þat megi litit, *F*), *b. F, H.*

[1]) tók hann við fèhirðslu, at, *F.* [2]) bæði borðhalds (borðs) ok jólabúnaðar, *F, H.* [3]) hverju sinni, *F.* [4]) var því þegar svarat, at þeir skyldu a. st. t., *F.* [5]) *b. B.* [6]) *v. F*; allt af fè, *H.* [7]) Hann gerði menn (til Björgvinar fyrir, *b. B*) til konúngs, en konúngr gerði menn móti honum, ok bauð honum með sèr alla kosti, *b. B, F.* [8]) um vorit á föstu, *H.* [9]) or Víkinni, *b. F.*

ok gerðu margar úspektir; voru þeir Beni ok Slittúngar komnir þá til Ribbúnga; var Beni sveitarhöfðíngi í herinum, en ekki vildi Sigurðr [hann meirr tigna[1].

*Um leiðángr Hákonar konúngs*[2].

62. [þá er vâra tók[3] gerðu þeir konúngr ok jarl þat ráð, at jarl skyldi fara[4] [norðr til þrándheims[5], ok eflast þaðan[6], ok fara hit efra ofan í Vík at Ribbúngum, en konúngr skyldi fara með skipaliði austr, ok skyldu þeir þar finnast. Ok er jarl kom í þrándheim, stefndi hann til sín lendum mönnum, Gregoríus Jónssyni, Páli vâgaskálm, Pètro Pálssyni; fóru þeir síðan á land upp, sem ætlat var; hafði jarl frítt lið ok mikit. Hann fór hit beinsta til þess er hann kom suðr á Heiðmörk til Hamars; þá komu til móts við hann allir sýslumenn Birkibeina af Upplöndum; hafði hann þá frèttir, [at Ribbúngar[7] höfðu litlu áðr verit í Oslú, ok tekit þar tvö skip, er biskup átti, ok hvervitna drógu þeir skip at sèr ok ætluðu at fara til Túnsbergs at Arnbirni Jónssyni ok þeim lendum mönnum sem voru á[8] berginu; ok er jarl spurði þetta, skundaði hann ferð sinni [til Oslóar[9], ok sýslumenn með honum.

*Frá konúngi ok Ribbúngum*[10].

63. Nú er at segja frá Hákoni konúngi, hann

---

[1]) tigna hann við sèr, *H.* [2]) *b. B;* Frá Skúla jarli, *H.* [3]) um vârit á föstu, *b. H.* [4]) landveg it efra, *b. H.* [5]) til Vikinnar, *H.* [6]) at liði, *b. F.* [7]) austan or Víkinni, at Ribbúngar voru þar ok styrktust mjök, *b. F.* [8]) [ þar; þeir Arnbjörn gættu sín á, *F, G, H.* [9]) or Hamri, *F.* [10]) *þannig G, F.*

fór um sumarit, sem ráð var fyrir gert, ok hafði mikit lið, þar var Gautr Jónsson, Jón stál, Dagfinnr bóndi. Ok er þeir komu í Vík, sigldu þeir[1] til Grindhólmarsunds; þá lágu Ribbúngar austan fjarðar við Vörnu, ok höfðu mörg skip ok mikit lið; þá voru þeir Arnbjörn Jónsson[2] albúnir ok (ætluðu) at leggja at Ribbúngum. En er þeir komu út[3] um Skeljasteins grunn, sigldi byrðíngr einn[4] at[5] þeim ok[6] sögðu þeim Arnbirni, at Hákon konúngr var norðan kominn, ok lá í Grindhólmasundi við mörgum skipum, urðu þeir þessu fegnir, ok sneru þegar liði sínu[7] um Smjörbjörg til móts við konúng, ok segja honum um ferðir Ribbúnga.

*Af Hákoni konúngi*[8].

64. Þegar er Hákon konúngr spurði til Ribbúnga, [voru látin tjöld af skipunum[9], ok reyru þegar suðr eptir sundum; vildu þeir Gautr ok Dagfinnr þegar láta róa á fjörðinn[10] um nóttina, en [þeir Arnbjörn vildu róa[11] á fjörðinn móti degi; reyru þeir þá undir Jarlsey, ok lágu þar um nóttina. Öndverða nóttina kom skúta austan, ok voru á sveitúngar Hallvarðs bratta, ok höfðu Ribbúngar elta þá, ok reyru þeir þá aust-

---

[1]) inn eptir Víkinni, *b. F.* [2]) ok þeir lendir menn er í Túnsbergi höfðu verit, ok dregit lið at sèr ok skip, *b. B, F.* [3]) inn, *H.* [4]) á norðan, *b. B.* [5]) móti, *F.* [6]) Arnbjörn rèri til á báti ok spurði tiðinda; þeir, *B, F.* [7]) inn, *b. F.* [8]) *þ. G*; Hák. k. hèlt til Víkinnar, *B*; *v. G.* [9]) lèt hann blása, (*b. B, F,*) ok báru þegar landtjöld á skipin, *B.* [10]) suðr, *b. F.* [11]) Arnbjörn ok þeir Víkverjar sögðu at þá var liðit degi, ok kváðu ráðligra at taka út, *b. B, F.*

an at Rúgey[1], ok ætluðu þeir þá at lendum mönnum í Vík, þvíat þeir höfðu[2] skip bæði fá ok smá. En Ribbúngar hafa XL[3] skipa[4], en ekki vita þeir at konúngr sè norðan kominn. Þá var kallat liðit af skipum, ok talaði Dagfinnr bóndi fyri liðinu, ok sagði ætlan konúngs, at menn skyldu liggja tjaldlausir um nóttina í herklæðum sínum: þvíat oss þikkir vân at Ribbúngar komi hèr í nótt með her sínum.

*Loðinn kom til konúngs ok sagði til Ribbúnga*[5].

65. Loðinn Gunnason[6] fór á njósn[7] með III skútur; menn vöknuðu fyri dag[8], ok bjöggust þegar. Þá kom Loðinn aptr er lýsti, ok hafði tekit skútu af Ribbúngum, [ok fluttu til konúngs. Þeir segja mart af ætlan Ribbúnga, ok þeir höfðu[9] spurt, at Skúli jarl væri kominn [í Víkina[10] í Oslú, ok því þorðu Ribbúngar ekki þángat at fara[11].

*Af stefnu*[12].

66. [Þá gerði konúngr þat ráð fyri[13], at smáskipin skyldu fara [fyri, en lángskipin þegar

---

[1]) er vèr skildum, *b. B, F, G.* [2]) hafa spurt at lendir menn hafa, *F.* [3]) meir en L, *F;* m. e. LX, *G;* m. e. XL, *B.* [4]) ok nær öll smá, *b. G;* ok svâ þikir oss at þeir muni híngat róa á fjörðinn í nótt, *b. F.* [5]) *b. B.* [6]) Gunnarsson, *F, H.* [7]) um nóttina, *b. F, H.* [8]) þvíat nokkut var kalt, *b. B.* [9]) en þeir ætluðu til Túnsbergs, þvíat nú höfðu þeir, *G.* [10]) af landi ofan með mikinn her, ok var þá, *b. F.* [11]) spurt hafa þeir ok at lendir menn eru í Túnsbergi með smáskipum, ok ætla þeir fyrst at þeim, en ef þeir fá unnit þá, ætla þeir at fara á móti jarli, *b. B, H.* [12]) *þ. F;* Frá Hákoni konúngi, *B.* [13]) konúngr kallaði til sín ráðgjafa sína, ok bað ráð fyri gert, *F.*

eptir[1], ok skyldi standa trèit[2] á þeim, ok mundi Ribbúngar ætla at allt væri smáskip ok byrðíngar, ok var svâ gert; reyru þeir þá á fjörðinn sem ákafligast. Ok er þeir komu skamt suðr um eyjarnar, sá þeir at Ribbúngar reyru austan[3] hit beinsta móti þeim, væntu Birkibeinar þá, at saman mundi bera fundi þeirra. Logn var á veðrs, ok skein sól fagrt; á stórskipunum spenntu II eina ár, ok gengu skúturnar lítt[4] undan; konúngsskipit var mest, ok þó voru mörg skipin seinni en þat. Konúngr bað Sigurð skjálga[5] róa fram ok segja at aldri reyri hinir fornu Birkibeinar svâ slæliga, þá er slíkt lá við. Síðan gengu skúturnar betr fram. Ribbúngar hugðu at byrðíngar einir færi á móti þeim, ok [stefndu rètt á þá[6]. Ok er þeir tóku at skjóta á þá af smáskútunum, þeim er næst fóru, sá Ribbúngar at [veðrvitar glituðu við á stórskipunum, er sólin skein á[7]; þóttust þeir þá vita, at fleira var [í ferð með Birkibeinum[8] en lendir menn einir; viku þeir þá stöfnum, ok vildu snúa inn eptir firði; ok er konúngr sá þat, stefndi hann fyrir þá, svâ at þeir áttu þess eigi kost; viku þeir þá[9] til lands þannig sem skemst var; gengu þeir af skipum sínum, þar sem Jólund[10] heitir, ok hjöggu af brandana; Birkibeinar hljópu eptir þeim[11], en brú var millum þeirra, tóku Ribb-

1) *frá* [ *v. H* (*er hèr breytir meiningu sögunnar*). 2) trè, *F.* 3) sunnan, *F.* 4) seint, *F.* 5) stiga á bát, ok, *b. B, F.* 6) röru sem beinast á móti, *F.* 7) skein á gyllta veðrvita, *G.* 8) *frá* [ innanborðs, *G.* 9) aptr, *b. F.* 10) Gólönd, *B*; Jórslund, *F.* 11) þeir sem næstir voru, *b. F.*

úngar hana af, ok komust svâ undan, fèllu þar nokkurir menn af þeim, en margir[1] urðu sárir. Svâ kvað Sturla þórðarson:

Ern lèt austr til Vörnu[2]
allvaldr skipum haldit,
rínfura vann rýrir
Ribbúnga hlut þúngan;
ok óstilltan[3] ellti
örþíngaðr víkínga
rönd klauf ræsir steinda
reiðr á land af skeiðum[4].

*Frá Nikolási biskupi ok jarli*[5].

67. Skúli jarl var í Oslú, sem fyrr var ritat; hann bað Nicholás biskup ljá sèr skipit Skeggjann[6], en biskup vildi þat eigi, ok hèt þeim stórmælum, ef þeir [tæki skip ins helga Hallvarðs[7]. þá svarar jarl: eigi var löng stund síðan liðin, er Sigurðr Ribbúngr tók skip þín II, ok bannsettir[8] þú hann ekki fyri þat, [munu vèr fyri því djarfliga taka til þessara skipa; en ef þú bannsetr oss fyrir þat, er vèr tökum skip þín til landvarnar[9], en hinum þoldir þú er áðr voru bannsettir fyri sín illvirki, þá verðr þat bann alkeypt þèr ok svâ þeim er þèr þjóna[10]. Síðan lèði biskup skipin jarli með [höfðum ok öllum reiða[11]; Gregoríus Jónsson tok Stokka-

[1]) sumir, *F.* [2]) Vænis (*rángt*) *F*; varnar, *H.* [3]) ústillta, *G.* [4]) Ribbúngar höfðu haft II skip Nicoláss biskups úr Oslo, *b. H.* [5]) *þ. H.* [6]) *þ. hin*, Seggjann, *A* [7]) rænti hinn helga Hallvarð, *H*; rænti staðinn, *G.* [8]) bannsaungt, *G.* [9]) landhreinsunar, *F.* [10]) *frá* [ ferr hann með rifs ok rán á cristnu landi, en vèr vildum friða landit ok halda eiða vâra á þvi, *H.* [11]) öllum höfðum ok veðrvitum, *H.*

búzuna; Páll vâgaskalm [Hásaugabúzuna[1]; [þeir sveitúngar[2] tóku öll hin stærri skip í bænum, ok víggyrðluðu stafna í milli; fóru síðan sem ákafast út eptir firði. Ok er þeir komu út til Jólundar, hljóp bóndi einn á nesit ok kallar á þá, sagði at [þeir berðist út á firðinum, Birkibeinar ok Ribbúngar[3]; vænti ek at Birkibeinar þurfi nú liðs við, þvíat þeir hafa bæði færri skip ok smærri. Bóndi sagði því svâ, at hann vissi eigi at konúngr var í ferð með þeim. Ekki hafði jarl spurt til konúngs.' [Síðan tóku II eina[4] ár ok reyru sem ákafast[5], var þá allt senn at þeir reyru fyrir Stallinn[6] ok Ribbúngar hljópu af skipum sínum[7]. Konúngs menn tóku skip Ribbúnga, ok mikit herfáng, ok [skiptu liðsmenn með sèr[8]. Síðan fundust þeir konúngr ok jarl, ok fagnaði hvârr öðrum blíðliga.

*Frá Ribbúngum ok Birkibeinum*[9].

68. Síðan er Ribbúngar voru eltir, sneru þeir austr hit efra; en er þeir konúngr ok jarl vissu þat, sneru þeir inn eptir Oslúarfirði, ok sigldu um kveldit til Haugsvíkr, en um morgininn inn til Höfuðeyjar; lagði konúngr þar at ok

---

1) Hásauguna, *H.* 2) aðrir sveitarhöfðingjar, *F*; Birkibeinar, *H.* 3) lendir menn ok Birkibeinar færu úr bænum Túnsbergi ok ætluðu til móts við jarl, en þá komu Ribbúngar á móti ok berjast þeir nú sem ákafast, *B, F.* 4) spenntu tveir hverja, *F, H.* 5) *frá* [ menn spenntu þá hverja á (ár) sem þoldi, *G.* 6) staðinn, *F.* 7) konúngr sendi þá skútu á móti jarli, ok lèt segja hvat fram fór ok svâ at þeir rèri eigi meira en þeim væri hægast; rèru þeir jarlsmenn þá meir af tómi, *b. B, F, H.* 8) *frá* [ settu menn til at gæta þartil er skipt var, *F.* 9) *b. H.*

flest allt liðit; en þessir sveitarhöfðíngjar lögðu þegar til bæjar, Páll vâgaskálm, Ásólfr konúngsfrændi, Kolbeinn kettuhryggr, Hákon kávís ok flestir allir sýslumenn á Upplöndum. Um kveldit kom njósn til konúngs ok jarls, at Ribbúngar mundu leita til bæjarins um nóttina. Konúngr[1] lèt blása öllum mönnum or bænum, en þeir gáfu lítinn gaum at því, ok dvöldust eigi at síðr, en sumir lögðu út um akkeri. Um morgininn í dagan kom Sigurðr Ribbúngr í bæinn með her sinn; þeir ljópu ofan um stræti ok svâ á bryggjurnar, ok ráku þar nokkura menn á kaf, ok særðu. En áðr Birkibeinar komu út skipunum frá bryggjum, urðu menn mjök sárir af skotum. Hákon kávís hafði gengit upp í bæinn, ok ljóp hann á kaf, var hann skotinn í fótinn, ok dreginn við þat í skip[2]; IIII menn voru drepnir af Birkibeinum. En þeir Birkibeinar, sem á skipunum voru, herklæddust ok lögðu at bryggjum; en er Ribbúngar sá þat, viku þeir undan upp um stræti, ok svâ norðr or bænum, en Birkibeinar eptir þeim.

*Af Birkibeinum, ok Ribbúngar flýðu*[3].

69. Hákon konúngr lá við Höfuðey ok jarl með herinum, ok er þeir heyrðu [at blès[4] í bænum, herklæddist allr herinn, ok reyru til bæjarins; urðu þau skipin seinbúnust er stærst voru, konúngsskipit ok búzurnar. Þá mælti Ögmundr merkismaðr til konúngs: herra, nú má sjá hvar

1) gerði (sendi) lúðrsvein sinn til bæjarins ok, *b. B, H.* 2) ok enn fleiri voru af sundi teknir, *b. H.* 3) *b. F.* 4) lúðragánginn, *H.*

Ribbúngar[1] hlaupa norðr or bænum, [ok sýslum vèr nú þar[2] ekki at sinni; er nú þar betra ráð at vèr snúim [yfir Gjúlanda[3] ok gengim þar upp, ok svâ austr [yfir Akrshaga[4] í móti Frysju, ok mætim þeim þar við brúna, ok fám vèr þá meira sýslat, ef guð vill. Konúngr lèzt þat gjarna vilja, ok kallaði á skipin, þau er næst lágu. En Barna-Pètr ok þeir er þúngfærastir voru, kvoðust eigi til þess færir at eltast eptir víkíngum, ok fylgðu honum margir at því, ok sneru þá öll skipin at bryggjunum, en þær skútur, er fyrst fóru undan eyjunni, komu fyrst at bryggjum, ok hljópu þegar upp, ok í því bili komu III sveitir[5] Ribbúnga í bæinn; en er þeir mættust ok hinir[6] skútna mennirnir, hugðu Ribbúngar at þeir væri þeirra menn, ok spurðu hvar Sigurðr konúngr þeirra var; kendu þá Birkibeinar at þetta voru Ribbúngar, kom þá skjótt högg í liðit, viku þá Ribbúngar undan norðr eptir stræti, en sumir á akrana; þar fèllu LXXX manna af Ribbúngum. Birkibeinar fylgðu þeim norðr til ár þeirrar er Fað[7] heitir, ok skutust þeir á um hríð, tóku þá Ribbúngar undan, en Birkibeinar sneru [til Oslu[8]. Svâ kvað Sturla:

Lögðu[9] til
litlu síðarr
öðlíngs menn

---

1) *þ. F, G*; Birkibeinar, *A.* 2) *frá* [ höfum mer (vèr) þeirra nú, *G.* 3) Gyljandi, *F.* 4) á Konúngshaga, *B.* 5) *þ. B, F*; skútur, *A.* 6) *v. F.* 7) *þ. A, F*; Fað, *B*; Paþ, *P.* 8) aptr, til Oslóar, *F.* 9) *þannig F, H*; lögðut, *A, G.*

Oslu[1] bæjar;
ok þar stökk
fyri stálhvötuð
á glapstig
grýtlínga[2] lið.

[Ok enn kvað hann þetta[3]:
Hólmreiðar[4] gekk hilmir[5]
Hörðavaldr [und faldi[6],
enn sá er úthlaupsmönnum
auðmildr sakar gildi,
fèllu fjandmenn stillis
fèkkst[7] tafn blá(u)m[8] hrafni
en sigrgæði síðan,
sumir skundaðu undan.

*Frá Skúla jarli*[9].

70. Hákon konúngr ok jarl bjöggust or bænum, ok skipuðu sýslumönnum áðr um Upplönd. Þeir sigldu út til Haugsvíkr[10], ok höfðu þar hirðmanna[11] stefnu; sagði jarl at hann vill fara [á Upplönd[12], at hefna Rögnvalds, er þeir drápu saklausan, ok brenna bygðir þeirra. Konúngr svarar: öngar [hefndir á[13] ek at gera eptir Rögnvald, þvíat heldr hafa hans frændr niðrat mínum ættmönnum, en[14] því at bændr drápu hann saklausan, þá mæli ek eigi í móti, at þèr farit við liði ok hefnit þeim. Fór þá jarl upp ok

[1]) Oslo, *F*; Auslu, *G*. [2]) gratlinga, *H*. [3]) *b. F, H.* [4]) Hólmrýrar, *F, G;* Hólmreyrar, *B*; Hólmrýrir, *H*. [5]) hjálmi, *B, F, H*. [6]) um faldinn, *F, G*; of faldinn, *B, H*. [7]) fèkk, *B, H, G*. [8]) gefit, *B*. [9]) *þ. H*; konúngr ok jarl brendu bygð, *G*. [10]) Hauksvíkr, *F*. [11]) stýrimanna, *H*. [12]) upp á Fold, *B*. [13]) *þ. F, G;* hefðir at (*rángt*) *A*. [14]) fyri, *b. F*.

Gregoríus[1] föðurbróðir Rögnvalds, ok margir Birkibeinar[2]; þeir brendu [víða bygðina[3], en bændr tóku ekki í móti. Síðan fóru Birkibeinar til skipa sinna; þá var þetta kveðit:

Rekit var Rögnvalds dauða
þá er randviðir brenndu,
þurru[4] hús fyri harra
harða austan fjarðar;
vara[5] tal at skaut Skúli
skjalþrúngnum[6] Foldúngum,
eldr lèk hús fyri höldum,
híngat, skelk í bríngu.

*Hákon konúngr ok Skúli fóru til Björgynjar.*

71. Síðan sigldu þeir konúngr ok jarl út til Jarlseyjar, ok bjöggust þaðan norðr til Björgynjar. Loðinn Pálsson var eptir á berginu, en Guthormr Gunnason á Grænlandi ok sýslumenn austr við Elfina. Arnbjörn Jónsson ok Loðinn Gunnason[7] fóru norðr með konúngi; þeir lágu nokkurar nætr norðr í Hornborusundi[8], ok tóku þaðan út eitt kveld, ok voru mjök drukknir. Um nóttina gerði veðr hvast ok regn mikit í móti þeim; sigldu þeir þá inn til hafna, ok vissu þá eigi hvar þeir fóru; um morgininn í dagan sigldu þeir inn um Tregasund[9]. Þeir komu við sker ok brutu[10] stýri sín[11], þeim fórst síðan vel [til

1) Jónsson, *b. F.* 2) ok þeir flestir, er Beglingar höfðu verit, *b. B, F.* 3) mikinn hluta af bygðinni, *F, G*; mikla bygð, *H.* 4) þyrru, *B.* 5) var, *F.* 6) skýþrýngnum, *H*; skýþrúngnum, *F, G*; skýþrúnginn, *B.* 7) (*ok síðar*) Gunnarsson, *F.* 8) Hornberasundi, *B.* 9) Tregðasund, *B, F, H*; *v. G.* 10) margir, *b. G.* 11) sitt, *B, H.*

Björgynjar[1]. Þá voru þær norðan komnar [Margrèt drottníng[2] ok frú Ragnhildr[3], móðir hennar, ok Sigríð jarls systir, er[4] síðan var abbadís á Reini. Þeir fóru síðan norðan, ok þá fèkk Loðinn Gunnason Íngibjargar systur jarls. Var þá gert brúðlaup þeirra í konúngsgarði.

*Dráp Vegarðs Veradals.*

72. [Í þenna tíma[5] komu norðan af Hálogalandi sveitúngar Vegarðs Veradals; þeir sögðu þau tíðindi at Andres skjaldarband[6] hafði látið drepa Vegarð, hinn mesta vin[7] konúngs ok mág. Konúngr spurði, hvat til saka var. Þeir segja at hann gaf honum öngar sakir, [ok þeir sátu norðr í Hinn[8]; sat Andres þar sem Höfn heitir, en Vegarðr litlu ofar í bygðinni. Vegarðr kom þá til Hafnar ok bauð Andresi til borðs, en Andres játtaði því; þá sendi Vegarðr heim sveina[9] sína at setja borðit. Andres bað Vegarð gánga til húss þess, at finnskattr var í, ok hyggja at at eigi spilltist. Vegarðr gekk at húsinu, þar var fjöl ein sígin ofan; hann tók af sèr stálhúfuna ok sá inn; þá hljópu fram sveinar Andress tveir, Botólfr[10] ok annarr[11], ok særðu hann banasárum. Þetta verk líkaði konúnginum stórilla, ok þóttist í þessu verki hafa látið II [menn, þá er honum voru hollastir[12]; en vita þóttist hann, af hverjum rótum þetta hafði risit. [Þat fannst

1) norðr til Þrándheims, *H, F.* 2) frú Margrèt, *G*; jumfrú Margrèt, *H*; júngfrú M., *F.* 3) *v. G.* 4) *þ. F, G*; en, *A.* 5) þessu næst, *H.* 6) frændi konúngs, *b. F.* 7) höfuðvin, *F.* 8) Hyn, *B*; *frá* [ sögðu þá hafa setit mjök báða saman, *H.* 9) suma menn, *B.* 10) limr, *b. G, F.* 11) Avzurr gnit', *G*; *v. A.* 12) vini sína, *G.*

ok[1] í orðum jarls, at honum þótti eigi verr at[2] þessa væri hefnt á Andresi.

*Gefin grið Andresi.*

73. Konúngr spurði nú vini sína ráðs of þetta mál, ok sýndist mönnum at Andres misti sæmða sinna af konúngi, en lèti eigi líf sitt, þótt þess væri vert[3]. Litlu síðarr kom Andres til bæjarins með XXsessu[4], hann iðraðist mjök þessa verks, ok þóttist sjá hverjar snörur voru fyri hann lagðar. Konúngr tók af honum sýsluna, en gaf honum sætt; fèkk konúngr Ívari útvík sýsluna, en jarl fèkk Andresi sýslu um vetrinn af sinni hendi.

*Drepnir Ribbúngar nær níutígvo.*

74. þá er á leið haustið, gengu þeir til konúngs Arnbjörn Jónsson, Hallvarðr bratti, Loðinn Gunnason[5], ok sögðu at þeir höfðu spurt, at Ribbúngar styrktust mjök í Víkinni, ok er konúngr ok jarl heyrðu þetta, bjöggu þeir ferðir sínar skyndiliga[6], en er þeir komu austr fyri Agðir, spurðu þeir at sveitir nokkurar af Ribbúngum voru austan komnar þar í nánd. [þá lètu þeir[7] fara á lèttiskútum, at leita Ribbúnga; þar fèllu nokkurir menn af þeim, en aðrir flýðu undan[8]. þeir konúngr ok jarl sigldu þann dag

[1]) konúngr gekk þá til ok sagði þessi tiðindi, ok fannst honum svá, *F.* [2]) þó, *F.* [3]) þvíat þeir fundu at þess völd gengu til eigi minnr, er báða þá vildi dauða, *b. hin.* [4]) vel skipaða nýja, *b. F.* [5]) ok aðrir Víkverjar, *b. F.* [6]) tók konúngr tvítugsessu, er Ivarr nef hafði gera látit, en jarl tók biskups skip, *b. B.* [7]) tóku þeir menn af skipum sínum, ok lètu, *F.* [8]) Þeir (Birkibeinar) tóku þar upp bú gott ok báru á (þrjá, *G*) byrðinga, ok vildu svá sigla út til skipanna. Þeir

inn of Grenmar ok inn fyri Nesjar, ok höfðu allmikinn storm; var veðrit bæði [mikit ok hvast[1], ok var ausit bæði aptr ok fram, ok var búit við váða miklum[2]. Konúngs skip ok jarls ok Arnbjarnar skip, þau ein drógu sik fram, en öll önnur viku inn til hafna[3] af leiðinni. þeir lögðu at við Rýgjar[4], ok spurðu at [Sigurðr ok Beni ok Ribbúngar[5] voru uppi á Raumaríki með miklu liði, en sumar sveitir Ribbúnga voru suðr í Víkina. [En er lið kom til konúngs, gerðu þeir ráð fyri at jarl skyldi fara suðr í Vík, ok leita Ribbúnga[6], en konúngr var eptir í Túnsbergi með sínu liði. Gunnarr hèt maðr, Ásuson, hann hafði verit forn Beglíngr ok mikill úvin Birkibeina; hann gerðist handgenginn Hákoni konúngi, þá er Beglíngar gáfust upp. En því at hann fèkk önga sæmð af konúngi, þá sem hann vildi, hljóp hann til Ribbúnga, ok tók þegar lèn af þeim, ok fèkk mikla sveit manna, ok gerði [engi einnhverr meira íllt[7] en hann. Jarl sigldi austr ok spurði, at Gunnarr var í Vætta[8] hèraði, ok fèkk jarl njósn af [hvar hann var[9], ok II sveitir aðrar af Ribbúngum. Ok er sem myrkv-

sigldu í boða, ok fórst þar (einn, *G*) byrðíngrinn, ok margir góðir menn. Slitandi hèt einn forn Birkibeinn er þar lèzt, (hjaltlenzkr maðr, *b. B, F*), en þeir er af kvomust (hjálpuðust með því at þeir, *F*) lögðust á nautabúka dauða ok fluttust svá til lands, *b. hin.*

1) þvert ok stórt, *B.* 2) sjálfum, *F.* 3) háfnar, *F.* 4) Áreyjar, *F, G*; Hereyjar, *B.* 5) Rifbúngar ok Beni, *F.* 6) *frá* [ jarl sneri þá þángat á vit þeirra, *H.* 7) maðr engi verr, *F.* 8) Vetta, *G, H*; Vettar, *F.* 9) *þannig F*; honum, *A*; *v. G, H.*

ast var nætr, komu þeir jarl at þeim Gunnari, þar sem heitir Apaldrssætr[1]. Birkibeinar kríngðu bæinn þegar, ok komust fáir einir menn út, ok voru þegar drepnir; en þeir Gunnar bjöggust um vel ok menn hans; hann hafði mikla sveit. Ámundi ákafr var merkismaðr jarls, hann var lostinn öru í óstinn[2], ok fèkk þegar bana. Þar var hörð svipan, þvíat Ribbúngar vörðust vel ok drengiliga. Þar fèll Gunnarr Ásuson ok IXtigir manna með honum; svá kvað [Snorri Sturluson[3]:

Stála kenndi stökkvi lundum
styrjar valdr rauðu at[4] falda,
rekkar stýrðu rètt til jarðar
roðnu barði austan fjarðar;
oddum renndi eljun strindir
íta ferðar hrínga skerðir,
hilmir stærði hvössu sverði
heila grundar megin-undir.

Vafði lítt er virðum mætti
vegrækjandi fram at sækja,
skerðir gekk í skúrum Hlakkar
Sköglar serks fyri roðnum merkjum;
ruddist land, en ræsir þrænda
Ribbúngum skóp bana þúngan,
Gunnar skaut und gera fótar
grimmsetta il hjarna kletti.

*Ófriðr Ribbúnga um Upplönd.*

75. Eptir þetta sneri jarl norðr til Túnsbergs, ok fann þar Hákon konúng; var þá þat ráð fyri gert, at jarl var eptir í Víkinni, en kon-

1) Apaldssetr, *B*, *F*, *G*; *v*. *H*. 2) hóstinn, *G*, *H*; hóstir, *F*. 3) Sveinn Sturluson í háttatali, *F*. 4) *v*. *B*, *H*.

úngr fór norðr til Björgynjar, ok kom þar fyri jól, ok sat þar um vetrinn; þessi var hinn V vetr ríkis Hákonar konúngs. [Litlu síðarr en[1] þeir konúngr ok jarl höfðu skilit, þá spurði jarl at Guðólfr blakkr var í Oslóar hèraði, ok hafði mikla sveit: hann var í bænum of daga, en um nætr í [ýmsum stöðum[2]. Jarl tók skútur nokkurar, ok fór inn til Höfuðeyjar, hann spurði þá at Guðólfr var at Forsi at múnka[3] skamt frá bænum, kom jarl í dagan at Guðólfi, ok kríngðu þeir bæinn, ok skipaði jarlinn til atgöngu; þar fèllu LXX[4] manna af Ribbúngum, en Guðólfr komst undan. [Jamnan gerði[5] jarl til Ribbúnga, ok drap menn af þeim um vetrinn; svâ kvað Snorri[6]:

Eyddi úthlaupsmönnum
ítr hertogi spjótum,
súngu stál of stillis
stóð ylgr í valdylgjum;
hal margan lèt höfði
hoddgrimmr jöfurr skemmra
svâ kannt[7] rán at refsa
reiðr oddviti þjóðum[8].

Haðar ok Heinir[9] höfðu hafit samnað ímót Ribbúngum, síðan þeir hófust, ok varizt svâ drengiliga hvárttveggja fylkit, at Ribbúngar þrifust þar ekki. þeir Gunnbjörn ok þorgeirr biskups maðr[10] höfðu þá sýslu á Haðalandi ok um þotn. Sigurðr

[1]) vonu bráðarn er, *F.* [2]) hèraði á ýmsum bæjum, *B, F.* [3]) Múnkabúi, *F*; *v. G.* [4]) LX, *H.* [5]) optliga gjörðist; *F.* [6]) Sveinn Sturlason, *F;* St. (Sturla), *H.* [7]) knátt, *H.* [8]) skeiðum, *F.* [9]) Heimir, *F.* [10]) mágr, *H.*

Ribbúngr hafði fengit Bergðóri[1] ok Eysteini eng[2] sýslu á Haðalandi af sinni hendi. Ribbúngar drógu[3] skip [or Dröfn[4] upp í Rönd; en er þat spurðu sýslumenn Birkibeina, fóru þeir í móti þeim, ok bændr, ok mættust þeir [þar er Lena heitir[5], ok tókst þegar með þeim bardagi; gekk Ribbúngum betr í fyrstu, en síðan sneri mannafallinu á hendr Ribbúngum, ok fèllu þar vel CC manna, en Sigurðr flýði. Birkibeinar tóku þar öll skip þeirra. Eptir þetta dreifðust bændr mjök ok höfðu öngar gæzlur á bygðum sínum[6]. Ok er Sigurðr Ribbúngr spurði þetta, fór hann upp á Heiðmörk[7], ok kom á óvart at Jóni kur[8] á bæ þeim er Hlunnar[9] heita, ok drápu hann þar[10]. Eptir þat sættust þeir, ok guldu bændr stór gjöld. Sigurðr lèt þá búa fyri sèr á eyjunni Forþúng[11] í Thýri[12], ok tók gíslir[13] af bóndum, ok skipaði sýslum[14] um Haðaland. Þilir gengu þá mjök til handa Sigurði, ok svâ Verdælir. Þá er Heinir[15] spurðu þetta slag sem Haðar höfðu fengit, þá gættu þeir því betr sinna bygða, svâ at Ribbúngar komust þar ekki fram, heldr riðu bændr eptir þeim uppá Raumaríki, ok gáfu þeim mörg slög. Hèr eptir urðu margir þeir lutir milli Birkibeina ok Ribbúnga, er ýmsir

---

1) Berþóri lokк, *F*; Bergþóri sókn, *G*. 2) hring, *F*, *G*; ring, *B*. 3) mörg, *b*. *H*. 4) sín uppá Tíri ok svâ, *B*; or Drafni ok upp Tyri o. s. f. *F*; í Týri ok svâ, *G*. 5) við strönd þá er Leina h., *F*; við straund', *G*. 6) eða (nè) skipum, *b*. *G*, *H*. 7) Haðaland, *F*. 8) kú, *b*. *H*; kút, *F*. 9) Leina, *B*. 10) við nokkra menn, *b*. *G*. 11) Fjórðúng, *F*, *H*; Froðúng, *B*, *v*. *G*. 12) *þ*. *A*; Týri, *hin*. 13) gislar, *H*; gisla, *F*. 14) sýslu, *F*. 15) Heimir, *F*.

[höfðu betr[1]. Um vârit eptir kyndilmessu spurði jarl, at Ribbúngar voru í [vestra hlut[2] Oslóarsýslu með nokkurar sveitir; jarl gerði inn Eirík siriz[3] við sveitúngum sínum ok [Harald stángarfylju, at leita Ribbúnga, ok fundu þá við Svans[4], ok börðust þeir, ok gengust at svâ fast, at merkismennirnir mættust, ok fengu Birkibeinar tekit merkismann Ribbúnga, er Herbjörn hèt; en þar fèll Ásti er verit hafði merkismaðr Sigurðar, ok sveit mikil[5] af Ribbúngum; eptir þat flýðu Ribbúngar, en Birkibeinar fóru út til jarls, ok höfðu Herbjörn við sèr, var hann síðan merkismaðr[6] Skúla jarls.

*Hakon konúngr sigldi storm mikinn fyri Staði*[7].

76. Um vârit í föstu bjóst Hákon konúngr norðr til þrándheims, ok með honum Dagfinnr [bóndi, Bárðr brimsteinn[8], Hákon kâvis; [konúngr hafði IIII[9] skip; um páskir lá hann í Leirgula, ok sigldi þaðan fjórða dag páska fyri Stað mikit ofviðri; þrim nóttum síðarr sigldi hann inn um Agðanes, svâ mikinn storm, at allt tók segl frá þeim, ok skipin sneru hèr ok hvar undir nesit. Konúngr fèkk öngu öðru viðkomit, en haldit inn [at ánni[10]; þá var flóð er þeir komu [at ánni[11], ok mátti öngum festum við koma fyri

1) urðu (brögðum) fegnir, *B, F, H.* 2) í vestri bygð í, *G.* 3) cirizo, *F;* sitizfu, *B.* 4) *frá* [ gerði orð til Oslóar (Oslu) Haraldi stángarfylju ok þeim sveitarhöfðingjum er þar sátu, at þeir færi at Ribbúngum. Þeir Eirikr ok Haraldr fóru at leita þeirra ok mættust þàr sem Svans heitir, *F, H.* 5) nokkr, *F.* 6) hirðmaðr, *F, G, H.* 7) Um storm ok stórviðri, *G.* 8) bristeinn, *F; frá* [ *v. G.* 9) þeir höfðu VII, *hin.* 10) um ána, *H.* 11) í ármynnit, *B, F.*

straumi[1], rak þá uppá sandinn fyri Bakka; fór þá til [allt fólkit[2] or bænum, ok báru strengi á konúngsskipit, ok [varð nauðuliga útdregit[3].

*Tal Hákonar konúngs ok erkibiskups.*

77. Guthormr erkibiskup var þá í bænum; hann fagnaði konúngi í öllum lutum sem sæmiligast; þeir höfðu jafnan tal milli sín. Konúngr spurði erkibiskup eitt sinn, hví hann sneri svâ mikilli óvináttu til hans, meðan hann var í bernsku sinni; erkibiskup segir, at þar gengi eigi miðr til þess annarra manna skap[4], en [sjálfs hans illvili[5]; fór[6] þá upp allt hit sanna fyri konúngi; hèt erkibiskup [því þá, at hann skyldi annat sumar koma til Björgynjar[7], ok gera þá sæmðir konúngi í öllu því sem hann mætti[8], Hákon konúngr skipaði Gunnbirni Jónssyni at gæta allra þrændalaga, fyri sakir mikils ófriðar, er þá var á Upplöndum. Konúngr bjóst norðan, er á leið vârit, ok sigldi til Björgynjar, ok sat þar um sumarit.

*Bardagi Ribbúnga ok Birkibeina í Mjörs.*

78. Skúli jarl sat í Túnsbergi, en Arnbjörn Jónsson var austan fjarðar, ok varði þar landit. Ribbúngar voru á landi uppi, ok höfðu [mikinn styrk; þeir höfðu [mörgum skipum komit upp í vatnit[9]. Sýslumenn Birkibeina sâtu[10] í Mjörs, ok höfðu mikit lið, var fyri þeim Haraldr stángar-

[1]) stormi, *F.* [2]) fjöldi manns, *G.* [3]) uppdregit, *F; frá* [ komu menn nauðuliga af grunninu, *G.* [4]) völd, *F, G, H.* [5]) *frá* [ sín, *H.* [6]) kom, *F.* [7]) *þ. A*, Björgvinar, *F;* bæiar, *H; v. G.* [8]) *frá* [ þá konúngi fullum sinum trúnaði, *G.* [9]) mörg skip í vatninu eyja, *G;* upp (i) vatn eyja, *F.* [10]) lágu, *F.*

fylja, Ólafr mókr, [Friðrekr slafsi, þorgeir biskupsmaðr[1]. [Ribbúngar komu upp í Mjörs skipum sínum[2], ok leituðu Birkibeina um vatnit[3]; þeir fundu þá [við Kornahólma[4], ok varð þar bardagi; höfðu Ribbúngar meira lið ok voru mjök ákafir, en Birkibeinar tóku við drengiliga, ok lauk svâ at Birkibeinar fengu sigr, en Ribbúngar flýðu. þar [fèll framarliga af Ribbúngum á öðru hundraði[5], ok þessir sveitarhöfðíngjar, Styrr prestr, Örnólfr af Folavelli, Auðun austansjór, þorbjörn hríngr[6]; fátt fèll af Birkibeinum. Sigurðr flýði þá uppá þotn, ok stefndi þaðan til fjalls. þetta[7] spurði Arnbjörn Jónsson, at Beni skinnknífr var á Raumaríki með mikla sveit manna, ok gerði þar margar úspektir. Arnbjörn sendi til hans Helga fleskhún[8] ok þá menn með honum sem fræknastir voru; þeir fundu Bena við Eyjavatn[9], ok hljóp hann á skip. þeir fengu haldit skipinu, ok [gengu at honum[10]; [Beni hljóp á kaf ok leyndist hèr ok hvar undir skipinu[11]; lengi var áðr þeir fyndi hann, en þó varð hann fundinn, ok [lèzt Beni þar við lítinn orðstír[12].

1) *frá* [ ok margir aðrir ágætir menn, *H.* 2) *frá* [ Sigurðr Ribbúngr kom upp mörgum skipum í Mjörs, *H.* 3) Sigurðr konúngr þeirra var fyri þeim ok margir aðrir sveitarhöfðíngjar með honum, *b. F.* 4) þar sem heita Kornhólmar, *H*; Kornahólmar, *B*; Kornafjörðr, *G.* 5) fèllu CC manna af Ribbúngum, *G.* 6) rígr, *F, G, H.* 7) sumar, *b. H, F. G.* 8) fleskon, *H*; flenzon, *F*; fleskun, *G*; flekkhún, *B*; ok margir aðrir ágætir menn, *b. H.* 9) vatnit eyja, *F, G, H.* 10) drápu flesta alla menn, *F, G.* 11) *frá* [ *b. v. F, G*; *v. A.* 12) var þá Böni drepinn ok allir hans menn, *G, H.*

*Guðmundr biskup kom af Íslandi ok sagði Hákoni konúngi Grímseyjar bardaga*[1].

79. Hákon konúngr sat í Björgyn um sumarit, [ok hafði alla lenda menn norðan or landi ok Gulaþíngs lögum[2]; en er hann spurði ófrið af Upplöndum, bjó hann ferð sína austr í Vík. [Nær Maríumessu komu norðan or þrándheimi sendimenn Gregoríus Jónssonar, ok sögðu at Ribbúngar voru komnir norðr yfir[3] fjall, ok ætluðu í þrándheim, báðu þessir menn konúng skynda norðr[4]. Konúngr lèt þegar blása til hirðstefnu, ok sagði þessor[5] tíðindi, ok lýsti því at hann mundi norðr snúa, en allir lètust honum fylgja vilja[6]. þórsdaginn sigldi konúngr norðr með XXX[7] skipa; ok er hann sigldi um Sognsæ, þar mætti hann kneri þeim, er kominn var af Íslandi; þar var á Guðmundr biskup, ok sagði konúngi mörg tíðindi af Íslandi. þat vâr höfðu þeir barizt í Grímsey, Sighvatr Sturluson ok biskupsmenn, en áðr um vetrinn var Tumi drepinn at Hólum af biskupsmönnum. Kon-

1) Frá konúngi ok jarli, *F*, *H*; Sigling Hákonar konúngs, *B*. 2) við miklu liði, *G*. 3) norðanm (*rángt*) *A*. 4) *frá* [ þá komu menn (sendimenn *F*) Guthorms jarlssunar (*Gunnbjarnar Jónssonar?* *H*; Gregoríus Jónssonar, *B*, *F*, *G*) norðan or Þrándheimi á leypiskútu, ok segja at Ribbúngar hefði komizt norðr (upp, *B*) um fjall, ok þeir gerði mikit illt, *F*, *B*; þar er þeir komu. Þeir fóru norðr allt í Sóknadal til bús þess, er átti Ívarr í Berudal (Heruð, *H*) ok gerðu þar marga ferliga luti, *F*, *B*, *H*. 5) þessi, *hin*. 6) konúngr sendi menn ok brèf eptir Gregoríus Jónssyni ok Ívari nef, ok bjuggust þeir sem ákafast eptir honum, *b*. *B*, *F*. 7) fjóra tugu, *G*, *H*; hálfan fjórða tog, *B*, *H*; hálfan XXXV, *F*.

úngrinn ætlaði at sigla norðr um Alreyrarsund[1]. Þar spurði konúngr at Ribbúngar höfðu komit norðr um fjall með mikinn her, ok gerðu þar mart íllt, þar sem þeir komu, þeir fóru allt í Sóknadal. En er bændr í Gaulardal spurðu þetta, skáru þeir upp herör, ok hvervetna var samnaðr fyri þeim. Ok er Ribbúngar frèttu þetta, sneru þeir aptr austr um fjall, ok sögðu sendimenn konúngi at eigi væri minni vân at þeir kvæmi ofan í Raumsdali[2]. Konúngr sigldi norðr til Leirgula, þvíat honum þótti eigi ólíkligt, at þeir kvæmi ofan á Mæri, beið hann þar til þess er hann frètti at Ribbúngar höfðu snúit í Eystridali.

*Hákon konúngr sat í Björgyn.*

80. Hákon konúngr sneri suðr aptr, ok kom fyri[3] Mikjalsmessu til Björgynjar, gaf konúngr þá lendum mönnum heimferðarleyfi, en hann efnaði þar til vetrsetu. Hann hafði boðit út leiðángri um sumarit áðr í hvârumtveggja[4] helmíngi Egðafylkis, en Skúli jarl hafði áðr[5] tekit drjúgum allan leiðángrinn, fèkk konúngr or neyrðra helmíngi nokkut, en ekki or hinum syðra. Konúngr kallaði til sín ráðgjafa sína, ok segir þeim þetta, ok virðist svâ öllum sem jarl vildi gera sinn þriðjúng mikinn af Noregi, er hann vildi hafa alla Víkina ok Upplönd, ok allt [norðr til Rýgjafylkis[6]; en [Eiríkr jarl, bróðir Sverris konúngs ok Filippus Baglakonúngr hlíttu þeim

[1]) Allreyjar sund, *G*; Áleyjar sund, *F*, *B*, Áleyrar sund, *H*. [2]) Raumsdal, *B*. [3]) eptir, *F*. [4]) *ofan yfir er viðbætt í A með fornri hendi:* luta. [5]) um sumarit, *H*. [6]) norðan til Rýgjarbits, *H*.

þriðjúngi at hafa[1] millum Svínasunds ok Rýgjabits, ok svâ höfðu hinir fyrri höfðíngjar skipt meðal sín. Hákon konúngr gerði þá menn til jarls með brèfum, ok sagði svâ at honum mislíkaði þetta landaskipti lengr, ok jarl mundi eigi við Ribbúnga eina eiga ófrið, ef hann hèldi þessu fram.

*Herferð til Bjarmalands.*

81. Sumar þetta fóru þeir herferð til Bjarmalands Andres skjaldarband (ok) Ívarr útvík, þeir höfðu IIII skip. En sú sök var til þessarar ferðar, at þeir höfðu farit[2] til Bjarmalands nokkurum vetrum áðr, Andres af Sjömælíngum[3] ok Sveinn Sigurðarson[4], Ögmundr[5] af Spanheimi[6] ok margir aðrir. þeir höfðu II skip, ok fóru þeir aptr um haustið, Andres ok Sveinn; en þeir sátu eptir [meðan, Helgi[7] Bográngsson[8] [ok skiparar hans[9]. Ögmundr var ok eptir, ok fór um haustið austr í Suðrdalaríki við sveinum sínum ok varnaði; en Háleygir urðu missáttir við Bjarmakonúng, ok um vetrinn fóru Bjarmar at þeim, ok drápu alla skipsavgina[10]. En er Ögmundr spurði þetta, fór hann austr í Hólmgarða, ok þaðan hit eystra út til hafs, ok lètti eigi fyrr en hann kom til Jórsala; fór hann þaðan aptr til Noregs, ok varð hans ferð allfræg. þeir Andres ok Ívarr fóru til Bjarmalands, ok gerðu þar hit mesta her-

1) *frá* [ hinir fyrri jarlar höfðu, *G.* 2) kaupferð, *b. B, F, G.* 3) Smælingum, *H*; Sannmelingum, *F, B.* 4) Sigriðarson, *hin.* 5) Sigmundr, *H,* 6) Spángheimi, *B*; Spaunheimi, *H.* 7) *b. G.* 8) *frá* [ með annat skip Helgi Bogranssynir, *B, F. v, G.* 9) *v. G.* 10) skipsöguina, *G*; skipshöfnina, *B, F.*

virki í manndrápum ok ránum, ok fengu [stórfè í grávöru ok brenndu silfri[1]. Ok er þeir komu[2] norðan, sigldu þeir í röst norðr fyri Straumneskinnum, ok bar or III skipin, en [þat skip[3] er Ívarr var á, bar sjóinn í seglit, ok hallaði þá svâ skipinu at inn fèll sjórinn, ok því næst velti[4]. Jógrímr hèt maðr er Ívari kom á kjöl, ok [hinn þriði maðr komst á kjölinn[5]; þeir skutu báti til af skipi þorbergs, ok gekk stafninn or bátinum, ok kom Jógrímr [í bátinn Ívari[6], ok þá kvaðst Jógrímr eigi sjá þorstein fèlaga sinn, ok lagðist úti röstina, ok þar lèzt hann[7], ok allir þeir sem voru á skipinu, nema þeir II einir, Ívarr ok annarr maðr; þar týndist stórfè. Andres fór um haustið til Hálogalands[8].

*Dráp Tobbusona*[9].

82. Nú er at segja frá Skúla jarli at hann sat í Víkinni, ok hafði þar mikit lið ok kostnað mikinn. Arnbjörn var austan fjarðar, ok varði þar landit, svâ at Ribbúngar hèldust þar ekki við. Sýslumenn voru þá enn uppi við Mjörs með mikinn styrk, en Ribbúngar fóru þá mjök sundrlaust, ok komu fram hèr ok hvar. Þeir fóru þá uppá Haðaland, ok settist Sigurðr í eyna Forðúng[10] í Rönd. Þá er Skúli jarl spurði þetta, býr hann ferð sína inn í Travfn[11], hann hafði mikit[12] skip, VI rúm ok XX, ok mörg smá skip, hann

1) *frá* [ ofafè, *H.* 2) fóru, *F, G, H.* 3) á því skipi, *F.* 4) hvelfði, *G.* 5) *frá* [ sá hèt Helgi er á kjölinn komst, *G.* 6) þeim þá í bátinn, *F, G.* 7) við mikinn hraustleik, *b. B.* 8) ok hefir ekki verit (farit) síðan af Noregi til Bjarmalands, *b. B, F.* 9) Ribbúngar flýðu, *F.* 10) Froðúng, *B, F.* 11) Dröfn, *F*; Draufn, *B*; Draumn, *G.* 12) lið ok, *b. B.*

hafði [áðr látið[1] draga skipin upp í Thýri ok svâ í Rönd. En er jarl kom í Trömn, skyldu þeir leiða upp skipin hinn ytra strauminn, þá komu Ribbúngar ok skutu á þá um hríð, varð þá laust skipit. Svâ lauk þar at Ribbúngar flýðu allt austr á Markir, en jarl fór til Túnsbergs, ok litlu síðarr austr í Vík, at leita þeirra[2]. Þeir Tobbusynir höfðu Elfarsýslu af hendi Ribbúnga; jarl gerði til þeirra Símon kú ok Þórð drafla ok Þorfinn illa, ok fundu þeir Tobbusyni við Hlèssey[3] ok drápu þá. Ribbúngar höfðu mikinn afla austan fjarðar, svâ at þar var eigi minna lið en XIIII hundruð manna, er Sigurði var handgengit. Þessir voru í Borgar[4]sýslu af Ribbúngum, Herjólfr dyntill, Eiríkr dregill. Þeir áttu mart við Arnbjörn Jónsson, ok veitti Ribbúngum jafnan þýngra. Jarl dvaldist III vetr[5] í Víkinni, ok [áttust þeir mörg slög ok skipti við, Ribbúngar ok Birkibeinar, þau sem hèr eru eigi rituð[6].

*Skúli jarl drap Ribbúnga.*

83. Skúli jarl sat lengstum í Túnsbergi. Litlu síðarr spurði jarl til Ribbúnga, ok sendi þá enn menn til þeirra, ok sagði at þeir sem voru húðfasts fèlagar II skyldi hluta með sèr, hvârr fara skyldi. Þeir voru hvílufèlagar, Þórir flík ok Jatgeirr skáld, ok hlaut Jatgeirr at fara. Þeir fundu Ribbúnga þar sem Kurfjall[7] heitir, ok

[1]) ætlat at, *B, F.* [2]) *þ. G*; Ribbúnga, *F, B, H*; Birkibeina (*rángt*) *A.* [3]) Lèsey, *G.* [4]) *v. F.* [5]) *þ. F, G, H*, nætr (*án efa rángt*) *A, B.* [6]) voru þar jafnan atfarir með Ribbúngum ok Birkibeinum, þótt hèr sè eigi ritaðar, *H.* [7]) Kýrfjall, *hin.*

börðust; þar fèllu nokkurir menn af Ribbúngum, en sumir[1] flýðu, en Birkibeinar fóru aptr til jarls. Þórir spurði fèlaga sinn Jatgeir, hversu tekizt hefði; hann kvað vísu:

Rjóðr sá ek blækinn hèðna[2]
hjalldrdrifs á Kurfjalli[3]
stirðan aurriða storða;
stór fjarri mèr Þórir[4],
[þat frá[5] líkn, þá er lèkum
lúngtorgs[6] við Ribbúnga,
dasinn lá[7] við dísi
dvergranns í Túnsbergi.

Jarl lagði mikla stund á at eyða Ribbúngum, ok sendi æ menn til þeirra, hvar sem hann spurði at þeir voru. Um haustið sendi jarl orð Nicholási biskupi, at hann legði ráð til at eyða flokki Ribbúnga, en biskup fèkk til konu þá er Ása blóþ[8] hèt, friðla Guðólfs, at eggja Ribbúnga til sætta við jarl.

*Frá sætt Sigurðar Ribbúngs við jarl[9].*

1223 84. Um sumarit fèkk Sigurðr Ribbúngr menn til at leita, hverja sætt jarl mundi unna honum, ef hann vildi gefa upp alla mótstöðu við Birkibeina. Ok er þetta var flutt fyri jarli, tók hann því vel, ok vildi vita, hvers Sigurðr beiddist[10]. Lýsti þá Sigurðr sínum áhuga, ok beiddist þriðjúngs af Noregi, ok jarl skyldi gipta honum dótt-

[1]) aðrir, *G*; flestir, *H*. [2]) hæðna, *G*. [3]) Kýrfjalli, *hin*. [4]) *þ. B, F, H*; Þóri, *A*. [5]) þar fèkk, *B, H*. [6]) líntorgs, *H*; lýngstorgs, *B, F, G*. [7]) at, *b. F, G*. [8]) blaukk, *B, H*; blokk, *F, v. G*. [9]) *b. H.* Sigurðr Ribbúngr gekk á vald Skúla jarli, *G*. [10]) hófust þá upp brèfsendíngar ok millumferðir, *b. B, F, H*; fóru þá jafnan menn millum þeirra, *G*.

ur sína. En er jarl heyrði þetta, svaraði hann svâ: Hákon konúngr á völd á, hvat hann vill miðla Sigurði af landi[1], en ekki væntir mik, at ek gipta dóttur mína út í skóga, en ekki mun ek miðla minn þriðjúng af landi; en hinu vil ek heita honum, ef hann ríðr[2] á minn fund, at hann skal hafa grið ok allir hans menn; ek skal ok því ráða[3], at hann finni konúng í griðum, má hann þá flytja sitt mál við konúnginn[4]; skal ek þá ekki vera móti honum, at konúngr geri sæmiliga til hans[5]. En er þetta kom til Ribbúnga, þótti þeim þessi kostr harðari, en þeir hugðu til. En með því at þá var þraungt kosti þeirra svâ mjök at þeir [máttu hvergi vera í frelsi, reið Sigurðr[6] á vald Skúla jarls í griðum, ok gaf upp konúngsnafn, en flokkinn í vald jarli, ok skildi sèr í móti vináttu jarls ok fluttníng við konúnginn[7], tók jarl honum þá sæmiliga. [þótti þessi[8] inn fegrsti sigr, er jarl hafði unnit, þar sem hann hafði orrostulaust eydt svâ styrkum flokki, sem Ribbúngar voru; [var þá[9] friðr of allan Noreg. Þetta vâr, er Sigurðr var með jarli, fór jarl til Danmerkr[10], ok er hann kom til Kaupmanna-

---

1) ríki sinu, *H.* 2) ferr, *F.* 3) valda, *F.* 4) með þeirra manna fulltingi, sem hans mál vilja, um landaskipti eðr aðrar sæmðir, *b. F.* 5) Nú skal hann um kjósa, hvört hann vill þenna kost, eðr halda stríð við oss Birkibeina, *b. F, H.* 6) áttu hvörki vist nè vörn í Vikinni nè Úpplöndum, þótti þeim ok ekki hægt norðr í land at sækja, þar konúngrinn var fyrir, tóku þeir þat ráð, at Sigurðr reið, *F.* 7) sèr til sæmðar, *b. F.* 8) en sá orðrómr fèll á í Vikinni, at þessi væri, *F.* 9) ok kom því áleiðis at þá var, *F.* 10) með XIII skipum, *b. B, F, G.*

hafnar, þá hafði greifi Heinrekr fengit[1] Valdimar Danakonúng; fór jarl þá aptr, er hann spurði þessor[2] tíðindi.

*Stefndr höfðíngjafundr*[3].

85. Hákon konúngr sat í Björgyn [þenna vetr[4]; þessi var hinn sètti[5] konúngsdóms hans. Um vârit fóru menn í milli þeirra Skúla jarls, ok var þá mælt, at höfðíngjafundr mundi vera um sumarit í Björgyn, ok skyldu þar koma[6] allir hinir beztu menn or landinu[7], þvíat þá var góðr friðr, en þó var mikit ákall í ríkinu til föðurleifðar konúngs af þeim mönnum, er sik vildu framdraga til ríkis. En með því at konúngr var úngr, ok áðr höfðu aðrir lengi setit í hans föðurleifð, þá var þar mikill fjöldi manna, er mjök voru tvídrægir[8], hverjum þjóna vildi; voru þeir sumir er gjarna vildu fyri koma konúnga ætt ok afsprígi Sverris konúngs, fyri fornan fjandskap er þeir höfðu til hans haft, ok mest af stórmenni, en [[9] allr múgr var vel viljaðr[10] Hákoni konúngi, bæði norðr í landi ok suðr.

*Frá konúngi ok biskupum ok lendum mönnum*[11].

86. Þessi stefna hófst at Ólafsvöku; var konúngr fyri í Björgyn, ok Hávarðr biskup[12] af Stafángri, Sörkver biskup af Færeyjum, ok þessir lærðir[13] menn: Nikolás erkidjákn, Sigurðr ábóti, en lendir menn: Páll fliða, Pètr son hans, Brynjólfr

1) fángit, *hin.* 2) þessi, *F, H, B*; *v. G.* 3) *b. G.* 4) þessar stundir, *H.* 5) vetr, *b. F, G.* 6) þeir, er nokkut tilkall þóttust eiga til Noregs; skyldu þenna fund-sækja, *b. H.* 7) bæði lærðir ok úlærðir, *b. H.* 8) tviræðir, *H.* 9) flestr, *b. H.* 10) *frá* [ flestir allir böndr í Noregi voru velviljaðir, *G.* 11) *b. H.* 12) ok Heinrekr biskup, *b. F, G.* 13) lendir, (*rángt*) *B, F.*

Knútsson, Jón stál, Gautr á Meli, Ívarr nef. þar var ok Jón jarl af Orkneyjum, ok Bjarni biskup, Gregoríus kíkr af Hjaltlandi; þar voru ok lögmenn or Gulaþíngslögum: Dagfinnr bóndi, Ámundi remba[1]; or þrændalögum komu þessir: Guthormr erkibiskup, Sveinn príor af Elgisetri, Ásgautr ábóti af Hólmi, Sigurðr ábóti af Totrn, meistari Bjarni, Pètr af Húsastöðum, Eysteinn ráðsmaðr; þessir lendir menn: Gregoríus Jónsson, Páll vâgaskálm, Ásólfr af Austrátt; þessir lögmenn: Gunnar grjónbakr, Bjarni Marðarson, þorsteinn Ásmundarson; or Víkinni austan kom Skúli jarl, Arnbjörn Jónsson, Loðinn Gunnason[2], Loðinn Pálsson[3], Símon kýr, Eysteinn lögmaðr, þórðr skolli; af Upplöndum voru þessir lögmenn: Saxi af Haugi, þórðr Guðmundarson, ok sýslumenn: Hallvarðr bratti, Gunnbjörn Jónsbróðir[4], Kolbjörn rauði, Haraldr veseti[5]. Svâ var sagt at þessir flestir hefði þat tjáð ok ráðit Skúla jarli, at hann væri [rètt kominn til Noregs[6] eptir Ínga konúng. þar kom Nicholás biskup af Oslu, Áskatín ábóti af Höfuðey, Ormr ábóti af Túnsbergi[7], Ámundi af Grænlandi, Ólafr af Konúngahellu[8], Haraldr stángarfylja[9], þor-

[1]) ok inir beztu bændr or hverju fylki, ok ábótar ok allir sýslumenn or þrándheimi, *b. G.* Nefndir voru or hverju fylki inir vildustu bændr ok inir beztu. Ábótar komu þar allir ok sýslumenn, *B, F, H.* [2]) Gunnarsson, *F, H.* [3]) Petursson, *F.* [4]) Jónsson bróðir, *H.* [5]) (*annars Vesetason*) *v. G.* [6]) nærkomnastr konúngdóminum, *H.* [7]) þessir prófastar (sýslumenn, *G*): Ívarr geslíngr (gæslíngr) af Oslo, Jófreyr af Túnsbergi, *b. B, F, G.* [8]) þorgeirr erkidjákn af Upplöndum, meistari þorleifr, Bárðr prófastr, ok þessir sýslumenn; Ólafr mókr, *b. B, F.* [9]) Áslákr, *b. F.*

geirr biskupsmaðr, Hávarðr í Sundbúi, Friðrekr slafsi, Eindriði bekill[1], Eilífr kikr[2].

Svá hafa vitrir menn mælt[3], at eigi hafi á þeirra dögum betra mannval saman komit í Björgyn[4]; [áttu höfðíngjar jafnan stefnur[5]. þessir voru ráðgjafar konúngs[6]: Marteinn í Kinnzarvík[7], Sigurðr af Onarheimi, Áskell kapalín[8], er síðan var biskup, [ok Ívarr boddi. · þessir báru boð[9] af konúngs hendi til erkibiskups, at þeir skyldu finnast í trèhöllinni, ok allir aðrir höfðíngjar, lendir menn ok lögmenn. þessi stefna skyldi vera sunnudag eptir Maríumessu hina fyrri. Ok er þeir komu í höllina, ok höfðu setið um hríð, þá [mælti konúngr[10]: herra erkibiskup! yðr er kunnigt, ok svâ öðrum biskupum ok flestum góðum mönnum, þeim sem hèr eru komnir, at þeir eru hèr, er þræta vilja til Noregs ríkis, en ek hugða at þat væri minn föðurarfr, ok væra ek sannr óðalsmaðr[11] til Noregs; en með því at þessi stefna er híngat lagit[12], berr yðr vel, herra, [at sjá sannindi á þessu máli[13], þvíat (þ)èr erut

[1]) bækill, *F, G.* [2]) keikr, *B, F, G.* [3]) er þá voru i Björgyn, *b. B, F, H, G.* [4]) Noregi, *G, B, H*; Noregs konúngs ríki, *B, F.* [5]) Höfðingjar finnast iðuliga, en stundum áttu þeir stefnur sin i milli, hverr við sína ráðgjafa, *B, F, G*; (sitt ráðuneyti), *H.* [6]) með lendum mönnum hans, *b. F.* [7]) Kinnztrarvík, *F.* [8]) hans, *b. B, F.* [9]) *frá* [ þessir báru boð, ok Ívarr boddi, *F.* [10]) hóf Hákon konúngr sína ræðu með þeim hætti, *H.* [11]) at fornu ok nyju, *b. B, F, G.* [12]) af öllum enum vitruztum mönnum er i eru landinu, *b. B, F.* [13]) erkibiskup, at hafa nokkura orðferð á þessu máli, þá er bæði mætti (væri) til stunda (skunda), ok þó með sannindum til skinsemðar, *b. B, F*; at hafa þá framferð á þessu máli er veri til skynsemðar, *H.*

bæði skipaðir höfðíngi af guðs hálfu ok manna, en jafnaðarmaðr eiguð þèr at vera manna í milli, ok óttast öngan at því at segja þat er þèr vituð satt[1], þvíat þèr vituð tilkall manna of ríki þetta.

*Tala erkibiskups*[2].

87. Erkibiskup svarar[3]: þat er víst satt, herra konúngr, at vèr [værim skyldir millum allra manna rètt at gera, ef vèr kunnum[4]; vèr höfum heyrt margra manna tilmæli, er sik telja til Noregs, ok eru oss kunnig[5] þeirra málaefni, ok þó viljum vèr enn gjarna til hlýða, ok þat til leggja sem guð kennir oss með góðra manna ráði, er hèr eru viðstaddir; ok þess biðjum vèr ok bjóðum af guðs hálfu, at allir menn segi þat, er þeir vitu sannast[6] hèr um; þèr sitit nú, Hákon konúngr, í ríkinu, ok segja svâ allir yðrir vinir, at þèr erut erfíngjar til Noregs eptir föður yðarn ok allt yðart forellri; hefir þessu ríki ráðit maðr eptir mann, [ok aldri[7] kvennknè í[8] komit; væntir mik, at flestir fylgi því[9], at þat sè satt er þèr segit. Skúli jarl er austan kominn ok margir góðir menn[10] með honum, ok kallast hann erfíngi Ínga konúngs, bróður síns; marga höfum vèr heyrt hans vini sanna þat með honum; hèr er ok Guthormr, son Ínga konúngs, ok kallar til Noregs eptir föður sinn; hèr er ok Sigurðr Ribbúngr við jarli, son Erlíngs steinveggs, ok

1) hvört sem er ljúft eðr leitt, *b. B, F, H.* 2) *b. G.* 3) á þessa lund, *b. F.* 4) erum skyldir til at leggja með öllum mönnum þat sem vèr vitum at satt er, *G*; ok svâ vili guð at sè, *b. F, G.* 5) flestra, *b. F, G.* 6) fyri guði, *b. F*; f. g. ok mönnum, *b. G.* 7) svâ at aldri hefir, *F, H.* 8) milli, *b. F, H.* 9) norðr í land, *b. B.* 10) drengir, *B, F.*

kallast kominn til Noregs eptir Magnús konúng, er hann kallar föðurföður sinn; menn eru hèr komnir austan or Gautlandi frá júnkherra Knúti, syni Hákonar jarls, ok flytja af hans hendi, sem menn vitu at satt er, at hann er skilgetinn arfi jarls ok svâ Ínga konúngs, eptir einkamálum þeim, sem ger voru á Eyraþíngi milli þeirra; [eru hèr nú brèf þau[1] er þetta vátta, at sá þeirra, er skilgetinn erfíngja ætti eptir, þá skyldi sá taka arf eptir báða þá[2]. [En þó at vèr vitim, hverjum vèr viljum fylgja um þetta mál, þá viljum vèr þó heyra fleiri manna tillögur[3].

*Tala Skúla jarls*[4].

88. Skúli jarl mælti svâ: þat er víst, herra erkibiskup, at ek em bróðir Ínga konúngs samfeðri ok skilgetinn, ok sannr erfíngi at lögum hins heilaga Ólafs konúngs. Hákon konúngr svaraði: þú ert víst arfi Ínga konúngs til alls þess er þit tókut rèttliga eptir föður ykkarn, en eigi til Noregs ríkis, því at Íngi konúngr var settr til [at gæta mèr til handa minnar föðurleifðar[5]. Jarl svarar: ek köllumst víst hans arfíngi[6] til alls þess rèttar, er hann hafði. Konúngrinn svarar: þat skaltu nú vita[7], hvárt hann

[1]) ok innsigli þeirra bræðra ok Þóris erkibiskups ok annara biskupa, *b. F.* [2]) *frá* [ bræðra, eptir því sem fyrr er ritat, *H*; nú er þat at mæla til allra manna þeirra er hèr eru nú, lendra manna, lærðra manna ok úlærðra (leikmanna) at þat leggi hvárr til þessa máls þat er hann veit sannast fyri guði, *b. B, F, H*; eptir sinni samvitsku, *G.* [3]) *frá* [ *v. G.* [4]) *b. G, H*; Af orðum Sk. j., *F.* [5]) til geymslu, til handa rèttum eptirkomanda, *G.* [6]) arfi, *G.* [7]) rannsaka fyri goðum mönnum, *B*; í dag, *b. H.*

erfði Noreg eptir föður minn eða var hann settr í ríkit, at gæta með góðra manna ráði[1]. [En er erkibiskup fann, at [nokkur styttni fór[2] í með þeim, bað hann lètta af þesshàttar orðum, lögðu þá [til hvârratveggja vinir svâ sem líkaði[3].

*Tala Jóns stáls*[4].

89. Síðan stóð upp Jón stál ok mælti: þat hugðum vèr, Birkibeinar fornir, þá er vèr helltum út [blóði vâru[5] ok þoldum mest erfiði með Sverri konúngi, at eigi mundi þurfa þessa tals, þvíat allir börðumst vèr til þess at frelsa honum sína föðurleifð ok hans afkvæmi; en þó er þat eigi undarligt[6], at Skúli jarl fylgi þessu máli, þvíat vèr[7] höfum heyrt, at þeir lögmenn eru hèr inni, er þat tjáðu jarli opinberliga, at hann væri rèttkominn til Noregs eptir Ínga konúng, ok er þetta mælt til þín, Ámundi remba ok Eysteinn Hróason[8], þar sem þit sitið á pállinum. Ámundi hljóp upp ok svarar: hvar vartu þá[9], er ek mælti þetta fyri þèr, eða finn[10] mèr þann, er ek mælta þetta fyri. Eysteinn [duldi ok[11] þeirra orða fyri sik. Arnbjörn Jónsson mælti þá: vera kann, at lögmenn vârir hafi þetta mælt, ok hafi [meira verit í þeim af mjaðarlegi en[12] lögum hins helga Ólafs konúngs, má ok vera at fylgt hafi mútugjafir.

1) skipan, *B, F, G, H.* 2) styttingar fóru, *B, F.* 3) *frá síðasta* [ ok margir gott til, *G; frá þriðja* [ (erki)biskup bað þá hætta, ok kvaðst eigi vilja, at neinar greinir rinni í með þeim, *H.* 4) *b. G, H.* 5) flestum sveita vorum, *B.* 6) sumkostar, *b. B, F.* 7) mèr, *G.* 8) Róason, *G, H.* 9) Jón stál, *b. B, F.* 10) seg, *F.* 11) stóð þá upp ok duldi, *F;* (synjaði), *H.* 12) hafi úeinurð verit nærr þeim en lög hins helga Ólafs, *B.*

*Ræða Hákonar konúngs við Gunnar*[1].

90. Hákon konúngr[2] mælti: eigi skulut þèr svâ at fara um [próf þessa máls[3]; vèr skulum fyrst taka[4] þann lögmann, er [fyrstr á at vera or þrændalögum[5], þar sem konúngstekjan[6] er með rèttu; hann er ok ellztr lögmanna í landinu, þvíat hann tók við lögsögu um daga Sverris konúngs ok Eysteins erkibiskups. Eigi hafa menn ok hèr til fundit með honum fals nè flærð eða rángyndi, ok því hafa allir þat fyri satt, at hann sè hinn vitrasti maðr í landi. Ok með því, Gunnar bóndi, at til þín er skotið, þá seg nú öllum áheyrandi[7], þat er þú veizt sannast fyri guði um vârt mál er til Noregs köllum.

*Orskurðr Gunnars bónda lögmanns*[8].

91. Gunnarr tók seint til orða, ok mælti: þèr ánefnit mik til þessa, herra konúngr, at ek skyla segja meðal[9] höfðíngja, hverr yðar Noreg á; er þat mikil byrðr einu kotkarlsbarni at skipta svâ miklum ríkdómi, ok segja af einhverjum enn til annars, ok kenni ek á mèr þat sem ek vænti at fleirum fylgi, at skjálfandi ok hræddr mun ek þat gera; þvíat þá er Sverrir konúngr fèkk mèr þetta starf, bauð hann mèr at skipta milli kotkarla, en eigi höfðíngja, allrahellzt er þeir heyra á sjálfir er varðar; ek heyrða nú um hríð, at lögmennirnir duldu þess er þeim var kennt, ok

[1]) *b. H.* [2]) stóð þá upp ok, *b. F.* [3]) ransak þetta, *G*; r. þ. m., *H.* [4]) láta segja, *G.* [5]) yfir býðr öll Þrændalög, *G.* [6]) konúngs setr, *F, H*; konúngssætit, *B, G*; k. sétit, *H.* [7]) áheyrendum, *G, H.* [8]) tala G. l., *b. G, H.* [9]) yðar, *b. F, G.*

með því at flestir hníga[1] fyri valdinu, þá vil ek eigi þessa byrði á mik leggja[2] at leysa[3] þetta mál; en með því at vèr flestir kotkarlasynir kunnum litla skynsemð til at skipa svâ stórum málum fyri sakir kunnáttuleysis, má ok[4] at sumir sè vinhollir[5] nokkut, þá látum þann fram segja, er veit hvat satt er, ok satt segir hvârt er á heyrir, ríkr eðr óríkr, ok öngan óttast þó at einhverjum mislíki: en þat er lögbók hins heilaga Ólafs konúngs, er eptir hans skipan var ger um allan Noreg, ok allir Noregs konúnga hafa síðan samþykt[6], þeir er rèttu vilja fylgja; en ef ek skal gera til fyri fram, hvat er hún segir[7] mèr, sem framast hefi ek föng[8] til, þá segi ek svâ at Hákon konúngr er einn rètt kominn til Noregs af öllum þeim mönnum er nú kalla til í dag; ok þótt þeir sæti báðir í ríkinu í dag, Íngi konúngr ok Hâkon jarl, þá segða ek svâ, at[9] hvârtki Skúli jarl eptir Ínga konúng bróður sinn, ok eigi júnkherra Knútr eptir Hákon föður sinn, nè Guthormr eptir föður sinn Ínga konúng, á at kalla til Noregs, meðan Hákon konúngr lifir; en syni Erlíngs steinveggs segi ek engi lög, ok engi kann ek; segi Víkverjar honum lög, þeir hófu hann ok hans föður, munu þeir vita hvârt hann skal til síns föðurarfs leita; man ek fella mína ræðu nú at sinni.

---

[1]) eru hræddir, *B, F, G.* [2]) binda, *F, G, H.* [3]) um, *b. F.* [4]) vera, *b. F, H.* [5]) vinhallir, *B, F, G, H.* [6]) haldit, *F.* [7]) skírir, *F.* [8]) skyn, *F, G.* [9]) hann ætti at stiga til föðurleifðar sinnar, ok krefja hann or ríki, ef hann skyldi lögum ná, ok því segi ek svâ at, *b. B, F.*

*Frá Dagfinni bónda*[1].

92. þá [bað konúngr Dagfinn bónda segja[2], er næst hafði lögsögn í Gulaþíngslögum, þat er hann vissi sannast fyri guði. Dagfinnr [mælti svâ[3]: ek kom úngr til Sverris konúngs, ok var ek í nokkurum bardögum með honum, þeim tveim, er hann barðist í Flóravâgum[4] við Eyjarskeggja, ok annan á Jónsvöllum við Bagla, ok skildi hann svâ fyri, áðr hann barðist: guð gæt[5] vâr ok heilög María, ok hinn heilagi Ólafr konúngr, ok gefi guð mèr svâ sigr[6], sem ek hefi rètt at mæla, ok at verja mína föðurleifð, en þeir rángt er í móti[7] eru. Ok þvíat[8] hann ok hans afspríngi eru rètt komnir til konúngdóms, ok þat segi ek lög, ok því vil ek guði svara, at Hákon konúngr er rètt kominn til Noregs, en engi annarra, sá er nú kallar til; ok þat legg ek til þessarar lögsögu, at ek vil við honum berjast, ok við honum lífit láta, ef þörf gerist. þetta mâl rómuðu flestir vel.

*Frá Ámunda rembu*[9].

93. Hákon konúngr mælti þá til Ámunda rembu, lögmanns af Rýgjafylki: með því, Ámundi bóndi[10], segir hann, at svâ er sagt at þú hafir nokkurum orðum til hallat, at ek væra eigi rètt kominn til Noregs, þá seg nú þat er þú veizt sannast fyri guði. Ámundi svarar: margar fagrar

1) *b. H*; Dagfinns orskurðr, *G*. 2) orti konúngr á Dagfinn bónda, *F, G, H*. 3) hóf svâ sína ræðu, *B, F*. 4) Flóruvâgum, *B, F, G*; *v. H*. 5) gæti, *F, G, H*. 6) í dag, *b. F, G*. 7) mèr, *b. F, H*. 8) þat veit ek at, *B, F*. 9) *b. H*. Um þat er Ámundi remba runar, *G*. 10) lögmaðr, *G*.

gjafir á ek at launa Skúla jarli, ok opt hefi ek verit svå vel haldinn við honum, at ek fæ eigi tölu á komit; en eigi hefi ek [svâ drukkit vit frá mèr nè einorð, at ek hafa fyri því[1] látit manndóminn eðr sannyndin; þvíat þat veit ek fyri guði, at Hákon konúngr er rètt kominn erfíngi eptir[2] föður sinn, ok borinn til alls Noregs eptir sitt forellri; en þat hefi ek opt mælt, at Skúli jarl er rèttr lögarfi eptir Ínga konúng, bróður sinn, ok borinn til alls þess arfs, er hann fèkk rèttliga; en til yðar, biskupanna sumra, at mæla, ok sumra lendra manna, gángit nú við þeim bermælum, er þèr hafit mælt, þá er vèr höfum [allir setið[3] hjá jarli ok verit vel haldnir, ok þegit af honum góðar gjafir; þèr hafit ok nafnbætr með miklu valdi, ok [skyldut þèr eigi undan smeyjast af sannyndunum[4]; þvíat þèr hafit optarr ok með fleirum fortölum eggjat Skúla jarl at kalla til Noregs, en lögsögn Ámunda, ok löngu mundi hann úfrið hafa uppi haft, ef þèr hefðit ráðit; en guð gefi konúnginum ok jarli [góðan frið[5], ok eigi kann ek hèr fleira til leggja þessa máls at sinni; en þess vil ek guð biðja, at hverr sá sem verra hefir lagit til þessa máls en Ámundi remba, hafi nú horn í höfði, ok eigi sem biskups mítr. Arnbjörn Jónsson mælti þá til Eysteins Hróasonar: Eysteinn fóstbróðir ok lögunautr[6], vèr erum báðir fornir Beglíngar[7], ok höfum lengi í búð saman verit, látum nú þat uppi, sem vèr höfum

---

1) fènu, *G.* 2) *b. hin.* 3) drukkit, *G.* 4) látit þèr nú eigi undan gánga sannindin, *G.* 5) góða sætt, *G, H.* 6) lögmaðr, *H.* 7) Baglar, *B, G, H.*

jafnan mælt fyri jarli. Eysteinn svarar: ek vænti at margir vèr hafim þau orð mælt fyri jarli, at eigi gángi nú allir við, en þat veit ek sannliga, at eigi mælta ek þetta fyri þèr, nè honum, at eigi væri Hákon konúngr rètt kominn til Noregs[1].

*Hvat þórðr skolli segir*[2].

94. þá bað konúngrinn þórð skolla[3] segja lög of þetta mâl; hann hafði lögsögn austr frá Svínasundi. [þórðr mælti[4]: ekki em ek því lögmaðr kallaðr[5], at ek kunna nokkut í lögum, en opt hefi ek skipat málum milli kotkarla, en fátt kann ek um konúnga at tala, ok ekki ætlaða ek at þat væri mín yfirseta, at dæma milli þeirra; en þórðr faðir minn hèt lögmaðr, ok sagði hann mèr svâ, at hans faðir sagði honum [ok aðrir forellris menn[6] vârir[7], at æ skyldu allir Noregs menn fylgja konúngs syni, meðan hann væri til; þat lètu þeir ok fylgja, at þeir mundu aldri þrífast er í móti þeim[8] væri.

*Sögn Saxa lögmanns*[9].

95. Eptir þat bað konúngrinn Saxa á Haugi segja hèr lög um; hann var á[10] Heiðmörk. Saxi mælti svâ: ek var við Hákoni konúngi, feðr þessa konúngs, ok heyrða ek þat alla segja bæði [biskupa ok alla alþýðu[11], þá er konúngrinn var [frá fallinn[12], at gjarna vildi hans syni þjóna, ef til

[1]) eptir föður sinn ok forellri, *b. F*; eptir Ólafs konúngs lögum sem síðan hafa samþykkt verit, *b. B.* [2]) *þ.* G. Frá þórði Skollasyni, *H.* [3]) Skollason lögmann, *H.* [4]) hann hóf svâ sitt erendi, *F.* [5]) *v. F.* [6]) *b. B, F.* [7]) *frá* [ *v. G, H.* [8]) honum, *H.* [9]) *b. H.* Framsögn Saxa, *B*; Lögsögn S., *H.* [10]) af, *B, F.* [11]) leika ok lærða, *H.* [12]) allr, *G.*

væri, ok eigi segi ek önnur lög, en hann er rètt kominn til alls Noregs eptir feðr sinn.

*Tillaga Þóris*[1].

96. Þá bað konúngrinn Þóri lögmann birta sína lögsögu; hann var af [hinum syðra luta Upplanda[2]. Þórir segir svâ: Þóat ek væra svâ vitlauss eðr illviljaðr, at ek vilda annat segja, en þessir menn[3] hafa áðr sagt, mundi mín orð engis virð[4]; en nú veit ek þat fyri guði, at aldri hefi ek [annat mælt hèr til, ok þat segi ek enn guði[5], at Hákon konúngr á allan Noreg með rèttum erfðum, ok þat legg ek til, at vèr allir Noregs menn fylgim konúngs syni, meðan hann er til, þvíat [þá ferr Noregr vel, [hversu er síðarr ferr[6].

*Ræða Guthorms erkibiskups*[7].

97. Guthormr erkibiskup mælti, þá er lögmenn höfðu lokit sínum eyrindum: nú höfum vèr heyrt, hvat lögmenn vârír hafa sagt, en þótt sína leið hafi hverr þeirra greint, þá hafa þeir þó allir eitt sagt, sem vèr vissum áðr at satt var, ok því játum vèr gjarna, at Hákon konúngr er einn rètt kominn til alls Noregs [með rèttum erfðum[8], af þeim er nú lifa; en þó viljum vèr, at sú skipan standi öll ok sættar gerð milli Hákonar konúngs ok Skúla jarls, sem áðr var mælt um landa skipti, þvíat þat er líkast til friðar at þeir

1) *þ. G;* Lögsögn Þóris, *H;* Lögsaga Þ., *B.* 2) Löndum, *H.* 3) lögmenn, *B, F.* 4) metin, *G, H.* 5) til, *b. F; frá* [ tvídrægr verit um þat, *H.* 6) meðan svâ er, *H; frá fyrra* [ ella gerum vèr rángt allir; *G.* 7) *b. H, G.* 8) eptir föður sinn ok forellri, *F.*

sè sem bezt sáttir sín á milli; ok þess biðjum vèr konúnginn at hann geri sem bezt til Guthorms, frænda síns; en um Sigurð Ribbúng kunnum vèr ekki[1] at tala. [Margir menn fýstu þá mjök góðra sætta[2].

*Viðtal konúngs ok jarls um fjórðúngaskipti*[3].

98[4]. Eptir þetta töluðu[5] þeir konúngr ok jarl; sagði konúngr at hann vildi þá fara austr í Vík[6], en hann vildi at jarl færi norðr í Þrándheim. Ok er þessi kostr kom upp[7], mælti konúngr at [þriðjúngaskipti mundi á landinu vera, ok væri hinn neyrðsti[8] þriðjúngr norðan til Sunnmæris, en jarl vildi at hann væri allt suðr til Sognsærs, ok skorti hann þá X einar skipreiður at hann hefði hálft landit. Konúngrinn sagði,

---

1) færra, *F, H.* 2) *frá* [ Eptir þetta talaði sitt eyrendi hverr þeirra, Gunnarr grjónbakr ok Dagfinnr bóndi, ok um þat mest at fýsa sætta ok samþykkis milli konúngs ok jarls, ok lauk svâ þessi stefnu, *b. B, F.* 3) *b. H.* 4) Eptir þetta fundust þeir (hversdagliga) konúngr ok jarl, ok töluðu um ráðagerðir sínar. Ok þá er um þriðjúnga skipti skyldi tala, vildi jarl inn synnzta þriðjúng allt norðr til Saltsýru (Saltsyrju, *B;* Sallsúru, *H*); en konúngr sagði at þó væri meira en fyrr væri dæmi til, þótt hann hefði frá Rýgjarbiti ok austr til landsenda, en kvaðst þó þat vilja (sæma, *b. G*) fyri sakir fèlagskapar ok friðar (þeirra teingða, *H*). Skildust þeir at því sinni. Hèr eptir gengu til lendir menn, Andres Jónsson, Loðinn Gunnason ok sýslumenn or Víkinni, ok báðu konúng at hann skyldi sjálfr hafa austr þángat, en skipa jarli norðr um Þrændalög. Nikolás biskup bað ok þess ins sama ok hèt konúnginum, at hann skyldi í öllum lutum hans vin (honum trúr) vera bæði leyniliga ok opinberliga, *b. hin.* 5) finnast, *b. F.* 6) land, *B, F.* 7) ok um þriðjúnga skipti var talat, þá orðaði, *F.* 8) hèr skyldi lagaskipti á (landinu, *b. H*) vera, ok skyldi hinn nyrðri, *F, H.*

at eigi mátti svâ vera. Þá bað erkibiskup með jarli, at þat skipti skyldi standa með þeim, sem skildi erkibiskups ríki ok Björgynjar biskups. Með ráði erkibiskups var svâ staðfest. Ok eptir þessari skipan voru brèf ger, ok sett fyri innsigli konúngs ok erkibiskups ok jarls ok ljóðbiskupa, at þessi skipan skyldi standa þeirra í milli[1]; ok ef ófriðr gengi á ríki konúngsins, þá skyldi jarl slíkt skyldr til at fara austr í land sem norðr, þegar konúngr þyrfti. Síðan bjöggust biskuparnir heim ok lendir menn. Tók konúngr menn norðan or landi, þá er honum þóttu sèr traustastir ok setti austr í Víkina; en jarl hafði sína vini við sèr. Konúngr tók Gullbrínguna, er hann átti mest skipa, ok sendi austr fyri sèr, ok stýrði Björn móðurbróðir hans ok Ólafr Íngu-son, en konúngr bjóst nokkuru seinna, [ok bað Sigurð Ribbúng fylgja sèr austr í Vík, ok Sigurðr[2] játtaði því[3].

*Frá Skúla jarli ok Sigurði Ribbúng*[4].

99. Ok er jarl vissi þat, talaði hann fyri Sigurði, at eigi mundi allt trygt[5] vera, ok síðan fór Sigurðr með jarli norðr í land. Hákon konúngr mælti til jarls, áðr þeir skildu: meðr því at þèr, jarl, villt Sigurð með yðr hafa, þá haldit hann sæmiliga, ok sjáit svâ fyri, at hann geri oss [öngar ónáðir[6]; jarl sagði at svâ skyldi vera. Ferr

---

[1]) at þessum lutum skipuðum, *b. F, G, H.* [2]) *þ. B*; konúngr, *A.* [3]) *frá* [ Sigurðr, er verit hafði Ribbúnga konúngr, bað konúng at hann skyldi fylgja honum í Vík austr; konúngr játaði honum því, *F, G, H.* [4]) *b. H.* [5]) trútt, *G, H.* [6]) öngan úmaka, *H*; önga afarkosti, *B, F.*

nú jarl norðr í land með lendum mönnum sínum ok liði, en konúngr fór austr í Víkina, ok kom þann sunnudag til Túnsbergs er upphóf adventus domini; þar tóku allir menn vel við honum. Nicholás biskup var fyri í Túnsbergi, ok fagnaði konúnginum sæmiliga[1], ok gaf honum margar gjafir; en konúngr veitti honum hinn neyrðra hluta Oslúar sýslu, ok gaf honum XV sessu[2] við öllum reiða; fór biskup or Túnsbergi III nóttum fyri jól, ok lá í Laufeyjum jóladaginn. Þá sendi konúngr til hans Jófrey prófast ok Dagfinn bónda, at bjóða honum til sín um jólinn; en biskup [fór III dag inn til Oslóar, því at þá byrjaði vel, en þakkaði þó konúngi boð sitt[3]. Hákon konúngr gerði þá lenda menn um jólin: Hallvarð[4] bratta, Símon kú. Þessi var hinn VII vetr konúngdóms hans.

*Andlát Guthorms erkibiskups*[5].

100. Hákon konúngr fór í móti páskum inn til Oslóar, ok var þar mjök lengi um vârit[6], þá komu menn norðan frá kórsbræðrum ok jarli með brèfum, ok segja andlát Guthorms erkibiskups, ok þat með at þeir höfðu keyrit í stað hans [ábóta Sigurð or[7] Tötru; hann var þá utan

[1]) með hinum mesta blíðskap, *H.* [2]) XVIIIsessu, *F, H, B;* tvítugsessu, *G.* [3]) *frá* [ lèzt þenna kost gjarna taka mundi, ef honum byrjaði eigi fyrir hinn þriðja dag, en biskupi gaf þá byr til Oslóar, *F, H;* biskup sendi þá Ívar (Gunnar) prófast með mörgum fögrum sendingum til konúngs, *b. F, H, B.* [4]) Hávarð, *H.* [5]) *b. H.* Grein um biskups kosning, *G.* [6]) í garði Þorleiks spaka, *b. G;* því at konúngsgarðrinn var þá eigi uppsmíðaðr, síðan brunnit hafði, *b. B, F.* [7]) Sigurð er verit hafði ábóti í, *B, F, H.*

lands. þeir báðu konúng leggja þar til samþykki sitt, ok rita við honum til páva. Konúngr [ansaði því ekki, en þeir biskup báðir[1] rituðu brèf til páva, þau er á móti stóðu[2] Sigurði, en þeir báðu at Pètr [at Húsastöðum[3] skyldi vera erkibiskup, er þá fór með brèfum jarls ok kórsbræðra til páva, at flýtja mál Sigurðar, ok varð svâ með guðs[4] miskun.

*Um brèf konúngs í Vermaland*[5].

101. Austr á Vermalandi hafði Sigurðr Ribbúngr löngum verit, þá er hann stríddi við Birkibeina, ok gert þar ófrið á ríki Hákonar konúngs. Konúngr sendi brèf austr[6], ok stefndi til sín betr en XX mönnum, þeim er [þar voru ríkastir[7]. Vermar lögðu allt á konúngs vald; en konúngr lagði á þá mikit gjald, ok gaf þeim upp fyri miskunnar sakir; en eiða sóru þeir konúngi, at þeir skyldi honum tryggvir vera, ok láta aldreigi hans úvini þrífast í sínu landi[8]. Hákon konúngr bjóst um vârit or Oslu[9], ok til Túns-

1) *frá* [ ræddi þetta mál við Nikolás biskup, ok fannst þeim svâ í (þótti þeim eigi svâ standast mega) þar sem hann var appellaðr, því er áðr hafði hann, þótti þeim hann eigi fallinn til svâ stórra luta, bar þat ok til at hann var litill vin konúngs; konúngr ok biskup, *F, B, G.* 2) mæltu, *G.* 3) *þ. hin*; af Húsabæ, *A.* 4) pávans, *B.* 5) *b. G.* Vermar svörðu eiða, *B*; Orðsending konúngs í Vermaland, *H.* 6) um vârit, *b. F.* 7) beztir voru þar til umbóta þessa máls. Þeir komu til konúngs í Túnsbergi; þá komu þar ok margir bændr, ok kærðu á Verma, þeir er mest höfðu orðit fyrir ránum, *F, H, G.* 8) konúngr gerði menn austr með brèfum, ok var þessum sættum lýst á öllum þingum, *b. F, G, H*; um allt Vermaland, *b. G.* 9) *hèr er cyða fyrir einu orði í A.*

bergs; ok Trinitatisdag, er hann veitti sveitúngum sínum, [gerðist þar hark nokkut[1] í bænum með hirðinni ok gestum ok húskörlum[2], ok fèllu V menn, en margir urðu sárir; konúngrinn kom þar í mikinn háska, áðr hann fengi skilit þá. Eptir þetta fór konúngr norðr til Björgynjar; þar kom til móts [vestan við hann[3] Gillikrist ok Óttarr Snækollsson ok margir Suðreyíngar, ok höfðu mörg brèf [ok eyrindi síns lands[4]. Þá kom ok Jón jarl af Orkneyjum, ok sættist við konúnginn um þau mál, sem þeirra voru í milli, ok setti Harald son sinn í gislíng, ok var um sumarit við konúnginum.

*Víg Árna hirðmanns*[5].

102. Þetta sumar fór Skúli jarl norðr á Hálogaland, ok kom á stefnu í Vâga; við honum var Sigurðr Ribbúngr. Ívarr útvik var á skipi jarls í stafni, hann lagði at í Kirkjuvâgum. Um morgininn, er jarl vaknaði, þá voru í brottu allir menn af skipi hans fyri framan siglu[6], hann spurði hvar þeir væru. Honum var sagt at þeir höfðu stefnur [út í Vâgum[7], ok voru flestir með vâpnum. Jarl ljóp upp við sverði í línklæðum[8] einum; þeir fóru við honum, er eptir voru á skipinu; ok er jarl kom út í Vâga, var þat þar tíðinda, at Bárðr flekkr ok Þórðr prestr, son [Eiríks bagga[9] höfðu vegit Árna, systurson

1) mikit, *F.* 2) *frá* [ tuskuðust húskarla ok gestir, *H.* 3) við hann, vestan um haf, *G.* 4) um nauðsyn þeirra landa, *F, G, H.* 5) *b. H, G.* 6) austrúm, *H, G, B*; austrrúm, *F.* 7) í Vogi, *F.* 8) línbrókum, *H.* 9) baga, *F*; *frá* [ prests bága, *B.*

Páls vâgaskálms ok hirðmann, fyri þat er hann hafði vegit Auðgrím[1], lögunaut þeirra, saklausan; jarl varð illa við þetta. En Ívarr hafði til farit með þeim, ok hèlt upp svörum af hendi hirðarinnar; [2]um morgininn er þíngit var, bauð Ívarr boð fyri vígin[3], en Páll svarar, kvað Ívari meiri nauðsyn at hafa betr gætt siglíngar sinnar, er hann fór af Bjarmalandi, ok hafa eigi þar týnt hinum beztum bændasonum[4], en gerast fyrimaðr at þessu at drepa hirð konúngs ok jarls, en lögunauta sína; ok kvað eigi mundi boð þegin af honum, ok lauk[5] svâ þínginu.

*Brotthvarf Sigurðar Ribbúngs[6].*

103. Þá er Skúli jarl hafði lokit eyrindum sínum á Hálogalandi, hèlt hann norðan; ok er hann kom til Niðaróss[7], voru komin leyndarbrèf af Vermalandi til Sigurðar Ribbúngs frá þeim sumum Vermum, er áðr höfðu svarit Hákoni konúngi trúnaðareiða, ok þeim er Sigurði höfðu þjónat fyrr, at hann skyldi leita braut [frá jarli[8] ok austr til þeirra. Erlíngr rúmstafr[9] var þá ráðgjafi Sigurðar, er fyrr hafði verit merkismaðr hans. Þeir gerðu þat ráð, at um morgininn snimma fyri Ólafsvökuaptan fengu þeir sèr kórkápur[10] af klerkum, ok gengu svâ út um akra, ok út um Steinbjörg, ok svâ uppá Gaularás, ok leyndust þar of hríð. [Þá er[11] súngnar voru tíðir

1) Agðanes, *b. F, G, H.* 2) Páll bóndi hafði komit út um nóttina; líkaði stórilla við þetta, *b. F.* 3) vígit, *F.* 4) mönnum, *H, G.* 5) sleit, *B, F.* 6) *b. B, H;* Frá illum verkum Skúla jarls, *G.* 7) Þrándheims, *H.* 8) or valdi jarls, *F.* 9) rómstafr, *B.* 10) kórkápu, *H.* 11) meðan, *H, F.*

í bænum, var jarli sagt at Sigurðr var í brottu; lèt jarl þá menn fara alla vega frá bænum, at leita hans, bæði á skipum ok hestum, ok fannst hann eigi. Jarl lèt taka einn íslenzkan mann, er verit hafði við Sigurði, Andres þorsteinsson, bróðurson Sæmundar í Odda, ok segir at hann mundi til vita nokkut hvar hann var, en hann [vildi ekki frá[1] segja, ok lèt jarl hengja hann. Jarl gaf ok sök klerk þeim, er Bárðr hèt, ok [kápurnar hafði lèð þeim[2]. Guðmundr biskup var þá í bænum, ok gaf hann mörg hörð orð jarli fyri aftöku Andress, þvíat hann hafði jafnan áðr verit með biskupi. Jarl gerði brèf til konúngs, ok sagði at Sigurðr var í brott hlaupinn, með því móti[3] at hann vildi hefja úfrið; konúngr [sendi þá brèf[4] [í Vík austr[5], ok bað menn gæta sín.

*Frá Sigurði Ribbúng ok Ólafi konúngs-frænda mók*[6].

104. Sigurðr Ribbúngr fór austr yfir fjall, ok kom í Eystridali; þá kom í mót honum mart manna hans, eptir því sem þeir höfðu áðr ráð fyri gert, ok hóf þá flokk[7], ok fóru svâ austr á Vermaland, dreif þá mikit lið til hans, ok þessir sveitarhöfðíngjar: þórðr austmaðr, Eiríkr lati, [þórðr[8] son hans, Hallvarðr svaði[9], þorbjörn

---

[1]) vissi ekki frá at (*máskè rèttara*) *G.* [2]) kápuna hafði átt, *B, H.* [3]) at hann hafði áðr jafnliga kyrrliga ok spakliga með sèr verit, ok kvaðst þat hyggja, *b. B.* [4]) boð, *G*; *frá* [ lèt þá gjöra brèf bæði it efra ok it ytra, *F.* [5]) um allt riki sitt, *G.* [6]) *b. H.* [7]) ok reisti merki, *b. F, H, G.* [8]) Oddr, *F, G.* [9]) svaddi, *G*; *frá* [ Oddr Hallvarðsson, *H.*

krígr[1]; þeir voru alls XII sveitarhöfðíngjar, ok höfðu allir marga menn með sèr; þeir komu ok til móts við hann Haraldr af[2] Skótun[3], Álfr Styrsson[4] ok Gjarðar bróðir hans, ok Ámundi á Folavelli við miklu liði. Vermar tóku við öllum þeim er þángat komu, ok gerðu honum mikinn styrk[5]. Síðan [fóru þeir Sigurðr[6] í Noreg, ok komu fram á Raumaríki. Þeir komu á úvart at Ólafi mók, frænda konúngs, í Skaun[7]; þeir tóku hús á honum[8]; Ólafr hafði mikla sveit ok [marga röska menn[9]. Ribbúngar buðu Ólafi grið, en öngum öðrum, en hann kvaðst eigi grið vilja, nema þeir hefði allir fèlagar; þessu játuðu þeir honum; en er Ólafr gekk út, hèldu þeir honum, en drápu hvern hans manna sem út gekk. Þar fèllu LX manna ok XX hirðmenn Hákonar konúngs; [svâ kvað Sturla:

Hljóp sá er hersum steypa
hyr gildandi[10] vildi
ýgr[11] frá allvalds mági
járn sveims[12] or Þrándheimi;
endr lèt Erlíngs frændi
Upplönd farit bröndum,
stríð lutu[13] stála meiðar

1) ríngr, *B*, *H*; ok Þorgeir rígr, *b. F*, *G*. 2) *v. G*. 3) Skotyn, *B*; Skotum, *H*. 4) Haraldr snaddr, *b. B*. 5) ok alla liðveizlu sem þeir máttu framast, *b. F*. 6) lyptu þeir ferð sinni, *F*, *G*. 7) í bygð þeirri er Skaun heitir, á bæ þeim er Lýrin (Leorin, *F*; Leyríng, *B*) heitir; hann var þar at brullaupi, *B*, *F*, *G*. 8) ok byrgðu hann inni, *b. B*, *F*, *H*. 9) góða, hirðmenn konúngs ok gesti ok marga aðra góða menn, *F*. 10) hyrgjaldandi, *B*, *F*, *G*, *H*. 11) *þ. F*, *H*; uggr, *A*. 12) járnseims, *H*; járnsveins, *F*. 13) *þ. hia*; luta, *rángt*, *A*.

[stór þúng[1] af Ribbúngum[2].

Ribbúngar báðu Ólaf sverja sèr eiða, at hann skyldi aldreigi[3] móti þeim vera, ella dræpi þeir hann; hann sór þeim eiðinn, ok sagði þó at eigi mundi vel særr vera. Ok þegar er Ólafr komst í brott sömnuðust menn til hans, ok fèkk hann sèr mikla sveit ok góða, ok fór at Ribbúngum, ok drap af þeim nokkura menn, en fyri því at Ribbúngar áttu frændr[4] í hverju húsi á Raumaríki, þá urðu þeir skjótt varir við Ólaf, ok komu þeir á óvart honum. Ólafr komst út, ok fèll skamt frá húsunum; þeir drápu flesta alla sveitúnga hans, er hann hafði þá nýfengit.

*Frá Friðreki slafsa[5].*

105. Þessir menn höfðu þá sýslu á Heiðmörk af hendi Hákonar konúngs: Ívarr af Skeðjuhofi[6], Friðrekr slafsi. Heinir lýstu mikinn drengskap, ok skáru upp herör, ok nefndu menn or þriðjúngum, ok hèldu vörð á sèr nótt ok dag, ok tóku samheldi sitt um alla Heiðmörk[7], at sá skyldi landráðamaðr (vera) við konúng, er eigi [væri þegar uppi er nauðsyn krefr[8]; þeir höfðu C manna or hverjum þriðjúngi at gæta bygðanna. Komust Ribbúngar þar aldri fram, heldr reistu þeir ferð or bygðum sínum at Ribbúngum austr á Vermaland ok út á Raumaríki, ok gerðu þeim marga bakelda.

*Frá Hákoni konúngi[9].*

106. Hákon konúngr ok Skúli jarl höfðu svâ

---

1) stórðúngar, *F.* 2) *frá fyrra* [ *v. G.* 3) *b. F.* 4) ok vini, *b. H.* 5) *b. H.* 6) Skeruhofi, *F;* Skeiðahofi, *B.* 7) Heiðmarka sýslu, *F.* 8) verði fè sitt ok fjör ok færi með þeim at Ribbúngum, *H.* 9) *b. H.*

mælt sín á milli, at þann sama vetr skyldi konúngr[1] gera brúðlaup sitt í Björgyn, ok skyldi þeir þar finnast. Konúngr gerði svâ áðr ráð fyri, sem þeir höfðu áðr talat, fyrst um jólaveizlu, ok[2] brúðlaups veizluna; en konúngr fór um haustið austr í Vík, ok fèkk hörð veðr, þá er hann sigldi or Rotti fyri Jaðar; konúngr kom í dagsetr í Seleyjar, þeir höfðu storm veðrs, en þó hèlt konúngr heilu skipi sínu, hann hafði Sættaspillinn. Þegar er konúngr kom til hafnar, þá reyri hann í móti skipunum á eptirbáti; Hákon kávís kom fyrstr eptir, ok vísaði konúngr honum til hafnar, hann hafði látið flesta skjöldu sína, þá er [við framstafn[3] voru, ok mjök lekat skipit[4] af siglíngu. Konúngrinn beið til þess í sundinu, er öll komu skipin. Um morguninn sigldi hann[5] í Hornborusund, þá lágu fyri honum byrðíngar, ok sögðu menn konúngi at Ribbúngar voru komnir austan af Vermalandi við miklu liði, ok höfðu drepit Ólaf mók; þat þótti konúngi skaði mikill[6]. Síðan fór konúngr til Túnsbergs, ok þar kom til hans Arnbjörn Jónsson ok Símon kýr[7]; konúngr sagði þeim fyrirætlan sína ok hann ætlar norðr til Björgynjar, þegar hann [yrði búinn[8]; þeir segja at hann

1) *þ. F*; hann, *A.* 2) síðan, *b. B, F.* 3) fyri framstafni, *H.* 4) *þ. hin*; skipat, *A.* 5) inn um nesit, ok er hann kom í, *b. B, F.* 6) þviat Ólafr var góðr drengr ok frændi konúngs, svâ at föðurmóðir Ólafs var dóttir Haralds konúngs gylla. Óli óargr (úargr) hafði heitit föðurfaðir Ólafs, lendr maðr á Raumariki, *b, B, F, H, G.* 7) ok aðrir lendir menn ok sýslumenn or Víkinni, *b. F, H.* 8) hefir sýst eyrendum sinum, at gjöra brúðlaup sitt eptir einkamálum þeirra jarls, *F.*

mætti með öngu móti brott fara fyri ófriði þeim er þar[1] var[2]. Þá gerðu þeir þat ráð at konúngr sendi norðr Dagfinn bónda ok Hákon kávís, at segja hvat tálmaði ferð hans; þá gerði hann ok[3] brèf til Svíakonúngs, ok minnti á, hvern skaða hann hafði fengit af Vermum, ok bað hann eigi láta úvini sína styrkjast í hans ríki, taldi þau einkamál verit hafa hinna fyrri konúnga, at hverr skyldi reka annars úvini or sínu ríki.

*Frá konúngi ok Áskeli*[4].

107. Hákon konúngr sigldi austr til Konúngahellu, en allir Ribbúngar, er þá voru í Víkinni, stukku undan uppá Markir; var þá kyrt í Víkinni, meðan konúngr var þar. Þá kom til hans Áskell lögmaðr er átti frú Kristín, móður júnkherra Knúts; konúngr bauð þá Knúti frænda sínum til sín, ok lèzt hans sæmðir skyldi miklar gera, ef hann væri við honum; lögmaðr tók því vel, en beiddist þó þeirra kosta, er konúngr mátti varla játta. Þeir töluðu mart um [ófrið þann[5], er [Ribbúngar gerðu; segir konúngr, at hann hafði send tvenn brèf til Svíakonúngs, ok komu engi á móti[6]; lögmaðr bað hann gera [hin

1) í Víkinni, *F.* 2) sögðust þegar brott skyldu fara, ef hann færi, *b. F.* 3) annat sinn, *b. B, F, G.* 4) *b. H.* 5) rán þau ok illvirki, *G.* 6) *frá* [ Vermir ok Markamenn gerðu í Noregi með Ribbúngum. Hèr voru ok lendir menn konúngs (bændr, *H*) er kærðu fast hvern skaða þeir höfðu fengit af Vermum ok Gautum, sögðu þeir svâ at Noregsmenn máttu með öngu móti þenna skaða lengr þola. Lögmaðr svarar svâ: þat er ekki mitt ríki eðr vald, en þó vil ek at þèr ritit austr til Eiriks konúngs með mèr, at hann segi sínum umboðsmönnum, at þeir reki her þenna or landi ok leggi þeim við afarkosti. Hákon konúngr svarar: vèr höfum ritat tveim

þriðju[1] brèf[2], ok lèzt hjá vilja vera, er lesin[3] væri, ok leggja [til slíkt er honum líkaði[4]; Hákon konúngr gerði þá brèf með því móti, at Eiríkr Svíakonúngr skyldi fyri átta dag jóla hafa rekit óvini hans or sínu ríki, ella segir hann efanarlaust, at hann mundi sjálfr hefna síns skaða. Lögmaðr hèt at hann skyldi sönn tíðindi hafa til konúngs fyri hinn átta dag jóla; hann var II daga í sæmiligri veizlu; síðan skildu þeir, ok fór konúngr norðr til Túnsbergs, ok kom þar VII nóttum fyri jól, ok stefndi til sín [lendum mönnum[5] af Raumaríki ok Haðalandi, ok [kom þar mikit lið til konúngs[6].

*Frá ráðagerð Hákonar konúngs*[7].

108. Hákon konúngr hafði mikla rausn um jólin[8]; jafnan komu þeir menn til hans, er kærðu um rán ok stuldi er fengit höfðu af Ribbúngum ok Vermum ok Markamönnum. Á jólunum komu austan brèf frá Svíakonúngi, ok fannst Hákoni svâ í orðum hans, sem hann[9] mundi litlar bætr á ráða um þat er konúngr taldi at. Síðan lýsti konúngr því, at þegar eptir jólin mundi hann ríða austr at Vermum ok Ribbúngum, ok

sinnum til Eiríks konúngs, ok hafa sömu svör móti komit, at hann skyldi um bæta, en þó hefir þat ekki orðit, því æ er verr ok verr, ok þeirra afli vex hversdagliga í vorum skiptum, en vèr höfum látit marga góða menn af þeirra völdum, *F, G, H.*

1) hit þriðja, *F.* 2) til Svía konúngs, *b. F.* 3) lesit, *F.* 4) þat er bæri, *F.* 5) sýslumönnum, *F, G.* 6) ok öðrum þeim er voru á Upplöndum, ok kom þar mikit fjölmenni, *F, H.* 7) *b. H.* 8) ok þessa ráðagjafa hversdagliga á tali með sèr: Eystein lögmann, Simon í Vervikum (Vetrvikum, *B*) *b. B, F.* 9) Sviar, *H.*

hefna þess skaða, er þeir höfðu gert honum. Gerði konúngr þá orð Arnbirni Jónssyni at hann kvæmi í mót honum við Eiðaskóg; en Símon kýr ok Bárðr brimsteinn ok Hallvarðr bratti skyldi koma til móts við hann á Mörkum[1]. Hann átti [jafnan þíng[2] við menn sína, ok bað þá búa[3] vâpn sín; konúngr sendi ok menn á Foldina, at þeir skyldi búa honum reiðskjóta; en Vestfyldir [færðu honum[4] CC hesta, ok gáfu honum fyri sakir góðvilja.

*Frá Hákoni konúngi*[5].

109. Hákon konúngr fór or Túnsbergi III nóttum eptir jól; þessir voru formenn með honum: Nicholás Pálsson, Gunnbjörn bóndi, Haraldr stángarfylja. En konúngr skipaði eptir á berginu Ólaf Ínguson, Eystein Hróason[6], ok CC vaskra manna, þeirra er þúngfærastir voru. Hákon konúngr fór [hit ytra[7] or bænum á skútu; þessi var hinn átti vetr konúngdóms hans[8]; ok er hann kom til Hauksvíkr, komu þar reiðskjótar móti honum, ok reið hann þar upp með öllu liði sínu[9]; en er konúngr kom undir Eikabergsskóg[10], komu þeir í mót honum, er hit efra höfðu farit, ok margir bæjarmenn or Oslu. Þá átti konúngr tal[11] við lið sitt, ok [segir at hann mundi II nætr dveljast í Oslu, bað menn svâ búa

1) ok allir Vikverjar; hann stefndi til sin öllum sýslumönnum er á Upplöndum voru, *b. B, F.* 2) hversdagliga stefnur, *F.* 3) sik ok, *b. F.* 4) gerðu svâ mikiliga at þeir fluttu, *F.* 5) *b. H.* 6) Önund Brynjólfsson, *b. F.* 7) *v. H.* 8) hann var þrjár nætr á leið inn til Haugsvikr, *b. B, F.* 9) inn í fjörðinn, *b. H*; ok svâ inn í fjörðinn Skjaldz, *b. F.* 10) Eikabergs skor, *F. H*; Eikuberg, *G.* 11) þing, *F.*

ferð sína[1]. Nicholás biskup var í bænum, hann hafði spurt at konúngr ætlaði á Vermaland. Prestr einn var kominn af Vermalandi austan, er Jón hèt; biskup[2] sagði honum at Hákon konúngr ætlaði á Vermaland með allan Noregs her, ok brenna bæði konur ok börn, en presta alla skyldi leggja á stiga ok hýða. Prestr ferr nú skjótt í brott, ok segir þessi tíðindi, hvar sem hann kom; hann fór II daga í Vermaland or Noregi[3]. Konúngr sendi Harald stángarfylju [í bæinn, ok sagði at hann vildi vera í biskupsgarði, meðan[4] hann væri í bænum. Biskup segir svâ, at ekki mátti vera allt saman kálfar ok úlfar, en þó reið biskup móti honum, ok bauð honum sæmiliga[5]. En konúngr fór í garð Hallvarðs sýslumanns síns[6]. [Konúngr talaði marga luti fyri Dagfinni bónda, ok svâ hvat ráði hann gerði fyri Sigurði syni sínum, ef hann kvæmi eigi aptr, ok hann ætti þá öngan annan son; þau voru börn Kaungu úngu ok Cecilía konúngsdóttir[7]. Dagfinnr bóndi

1) setti grið, ok lýsti því at hann mundi eigi lengr dveljast í Osló en II nætr, bað menn svâ við búast, *F.* 2) lèt kalla hann til sín ok, *b. B, F.* 3) ok fór þessi njósn fyri konúnginum, *b. F.* 4) fyri sèr til biskups, ok bað konúngr, at hann skyldi (kvaðst vilja vera, *B*) í hans garði ok kostnaði (hafa kostnað) þær tvær nætr er, *hin.* 5) alla sæmiliga hluti af sinni hendi, *F.* 6) en hafði kost af biskups garði, *b. G*; ok var konúngr á biskups kostnaði, *B, H*; en hversdagliga sendi biskup honum kost af sínum garði, *F.* 7) Dagfinnr bjóst skyndiliga, ok fór jóla aptan or Björgvin (hafði farit bæði nætr ok daga, *G*) í Haugsvik, ok fór með honum inn til Oslóar, *F*; (Dagfinnr bóndi kom til móts við konúng, *B*) ok bauðst at fara með honum á Vermaland, en konúngr vildi þat eigi, ok þakkaði honum fyrir sinn góðvilja er hann sýndi (hafði þá

sneri þá þegar aptr, ok er hann kom austan fyri Nesjar, rak at honum ísa, ok varð hann at snúa inn til meginlands, en þar voru fyri Ribbúngar í flestum stöðum með stórum sveitum, en Suðrmenn lágu fjölmennt á kuggum í Sandafirði[1]. Ok er þeir spurðu til Dagfinns, lètu þeir hann fara til sín, ok hèldu hann vel, en lögðu skip hans meðal kugganna. Ísakr í bæ hafði sýslu í Sogni, hann hafði verit með konúngi um jólin, ok hafði fengit orlof til norðrferðar; hann kom í [þenna ísreka hinn sama[2]; [sneri hann ok[3] til Suðrmanna, ok tóku þeir [vel við honum. Biðu þeir Dagfinnr[4] þess, er mínkaði ísana, ok fóru síðan norðr til Björgynjar.

*Lýgikvittr um ófrið*[5].

110. Hákon konúngr fór or Oslu[6] mánadaginn; hann fór uppa Raumaríki, ok var um nótt at Gunnars á Bergi, en liðit[7] var umhverfis í bygðinni. Aðra nótt var hann uppi [við Elfi á Fýri[8]; ok nær um miðnætti komu menn til hans af hestverði, ok segja at ófriðr fór at þeim. Konúngr klæddist skjótt ok [ljópu menn út, en

birt með miklu erfiði, *F*). Konúngr talaði þá mart um nauðsyn landsins, ok bað hann hjálpa Sigurði syni sínum, ef honum auðnaði eigi aptr at koma ok Ceciliu dóttur sinni. Hann átti þá engan annan son, en þau börn Kaungu úngu ok Ceciliu konúngsdóttur, *B, H*; eigi átti konúngr þá fleiri börn, *H*.

1) Sandasundi, *G*. 2) þetta ísrek, *G, H*. 3) en fyri sakir Ribbúnga átti hann öngvan kost annan en snúa, *F*. 4) við honum sem bezt, ok setti hann þar upp skip sitt, ok fór inn til Túnsbergs, en Dagfinnr beið til, *F, G*. 5) *b. G*. 6) Auslu, *G*. 7) *þannig B, F*; hann (*rúngt*) *A*. 8) at Elve, at þess manns er Kolbeinn á Fýri hèt, *F*.

túnglskin var á bjart, ok máttu menn víða sjá; vildi konúngr því eigi blása láta, at mönnum sýndist ekki ófriðligt, en þó gerði konúngr menn alla vega á hestvörð. En nokkurir menn höfðu riðit af Haðalandi, ok hugði því hestvörðrinn ófrið[1]. Um morgininn reið konúngr með herinn austr með ánni til þess bæjar, er Nes heitir, mikill kirkjubær; þar komu til hans sýslumenn af Heiðmörk, Friðrekr slafsi, Ívarr af Skeðjuhofi með [hálft annat[2] hundrat[3] manna vel búit. Um daginn eptir [fór konúngr austr til Elfar; þar var honum sagt, at Vermar höfðu samnað mikinn, ok þeir höfðu spurt um ferð konúngs. Annan dag fór konúngr í þá bygð[4] er Víngr heitir, ok eru þat[5] II rastir, dvaldist konúngr þar um nótt, þvíat hann hugði at nokkurir menn mundu koma á mót honum[6], af hendi Verma. Þat sama kveld ljópu Ribbúngar á nokkurar sveitir konúngs, ok drápu nokkura menn fyrir honum.

*Tala Hákonar konúngs*[7].

111. Hákon konúngr kallar til sín sveitar-

---

1) *frá* [ allt liðit, ok vöktu til dags; um myrgininn prófaðist þetta hègómi, *G.* 2) hálft þriðja, *H.* 3) *frá* [ CCC, *G.* 4) fóru þeir austr með konúngi við Elfi, ok var konúngr á þeim bæ er Straumr heitir, en herinn umhverfis. Þá var konúnginum sagt, at Vermar höfðu samnat (her) mikinn, ok höfðu sannspurt um ferð hans. Þá kallaði konúngr til sín alla sveitar höfðingja, ok voru þá skipaðir verðir ok njósnir í brottu. Klemens (Klemetr, *B*; Klæmet, *G*) af Hólmi fór á fyrstan vörð (njósn, *G*) með áttatigi manna, (LX, *G*) alla ríðandi, hann hèlt hálfa röst frá konúnginum. Annar vörðr var nærri, ok voru þrír tigir manna á þeim, en þar næst voru sjö, svâ at sjá mátti til bæjarins. Um morgininn eptir fór konúngr austr í bygð þá, *B*, *F.* 5) þángat skammar, *B*, *F*, *G.* 6) at bjóða boð nokkur, *b.* *F*, *H.* 7) *b.* *G.*

höfðíngja sína, ok skipaði með hverju móti herinn skyldi ríða í Vermaland, því at þau orð fóru þaðan, at bæði mundi í móti standa lands herinn ok Ribbúngar. þeir menn voru ok er afeggjuðu, at hann skyldi ríða í annars konúngs ríki, ok sögðu at mikill herr væri í Vermalandi, en ef Svíakonúngr[1] stæði í móti, segja þeir til meira háska standa. Hákon konúngr talar þá fyri herinum: engi ofkæti dregr mik[2] til þessarar ferðar, en þó at Ribbúngar ok Vermar standi í móti oss, þá óttumst ek[3] ekki þeirra mótstöðu, því at vèr mælum eptir voru fè ok frelsi; kemr ok sjálfr Svíakonúngr móti, þá verðr annathvârt at vèr sættumst skjótt, ella [skulu vâr skipti fara, sem guð vill[4]; en at vísu skulu vèr hefna þeirra skaða, er oss hafa gervir verit or Svíaveldi, utan vârrar tilgerðar. þessi[5] skipan var höfð á ferðinni, at konúngsmerkit skyldi fyrst fara, ok þar með LXXX[6] manna, skutilsveinar ok hirðmenn vel vápnaðir, ok allir ríðandi, ok fylgði hverjum hesti laupandi sveinn; njósnarmenn fóru fyrstir, ok hafði hvârr þeirra II hesta; hèr eptir fór CC [manna, en eptir þeim sleðamenn af Upplöndum, ok voru þeir DC[7] manna; en[8] þar næst reið Nicholás Pálsson ok Haraldr stángarfylja, ok höfðu CCC[9] ríðandi manna; þar næst fóru allir sleðamenn utan frá sjó, [meirr en DCCC[10] manna;

---

1) sjálfr, *b. F.* 2) oss, *F, H.* 3) vèr, *F;* mèr, *G.* 4) *frá* [ fara vâr skipti svâ sem guð hefir fyri sèð, *G.* 5) þessor, *G.* 6) X tigir, *G.* 7) VI C, *F;* DCC, *G.* 8) lendra manna af Upplöndum, en þá riðu sex hundrut manna, en, *H.* 9) IIIC, *F.* 10) VIII C, *F; frá* [ ok voru IX C, *G.*

síðast reið Loðinn Pálsson ok Erlíngr ljóðhorn, [Haraldr veseti[1], Gunnólfr hvíti, Guthormr Erlendsson, ok höfðu D manna[2]. Hákon konúngr hafði í Vermaland [V hundrut ok XX[3]; liðit sýndist þó miklu meira en var fyri sleðanna sakir; en þótt ís væri á vötnum II rasta lángr, þá var fyrri annar endir hersins af ísinum, en annar kvæmi á.

*Er konúngr kom í Vermaland[4].*

112. Um kveldit er sveitarhöfðíngjar[5] skildu við konúng, [bað hann alla metta[6] at miðri nótt; þá lèt konúngr blása, ok fluttist þá herrinn, sem áðr var ráð fyri gert; veðr var vindlítið[7] ok mjök kallt. Í móti degi gerði konúngr menn fram á skóginn miðjan; þar var [mikit sæluhús[8] við kirkjuna; hann bað gera elda stóra í garðinum; þat var allt senn, at dagrinn rann upp ok konúngr kom til eldanna, ok vermdu menn sik þar um hríð, þvíat flestir menn voru nokkut frosnir[9];

---

1) Vesetason, *B, H.* 2) *frá* [ við DCC manna. Þá var þessi skipan á ger, at ríðandi menn fóru fyrst ok þá sleðamenn, ok ef ófriðr kæmi í móti þeim, þá skyldu ríðandi menn verjast, meðan sleðamenn tæki vápn sín. Skyldu hvárittveggi sleðamenn hjálpa, ef á aðra yrði hlaupit, þeir sem fyrir færu ok eptir, *b. B, F.* 3) á þriðja tigi hundrat manna, ok voru þó hestar miklu fleiri, *H;* níu hundrut ok tuttugu vildarliðs, en allt annat umfram, *G.* V hundrut ok X vildar liðs, ok vel D vopnaðra manna. Þar var ok fjöldi reiðskjótamanna, þvíat þar var fjöldi liðsins er II höfðu III hesta ok fylgði hverum hesti reiðskjótamaðr, *B, F.* 4) *b. H.* 5) menn, *F, H.* 6) þá var svá fyri sagt, at allir skyldu vera mettir, *F.* 7) vinnligt (*vindligt*), *F.* 8) sæluhúss-stofa, *B, F*; sálu h. st., *G*; sálustofa, *H.* 9) á höndum eða fótum eðr andliti, *b. F.*

konúngr reið þaðan, fyrr en alljóst var, með allan herinn. Eiðaskógr er XII rasta lángr, ok er kirkja á miðjum skóginum; þat er góðr vegr ok slèttr þá er ísar liggja. Ok er konúngr kom af skóginum í Vermaland, komu njósnir hans á móti honum, ok sögðu at engi samnaðr væri fyri í landinu, ok allt fólk hafði flýit á markir fyri konúngi or bygðinni; svâ vǫru ok allir Ribbúngar í brottu. Þá fluttist herrinn til bæja þeirra, er Mórastir heita, þat er [híngat næst[1] í landinu; þar var allt fólk heima; [lýsti konúngr þá því[2], at hann vildi með friði fara til bænda[3], ef þeir vildi á hans vald koma, ok til miskunnar festa sitt mál[4].

*Um þat er konúngsmenn börðust[5].*

113. Konúngrinn dvaldist þar litla hríð, ok gaf þar grið öllum mönnum, en andvirki gekk þar upp fyri hestum. Konúngr kom[6] um kveldit til bygðar þeirrar, er Eiðar[7] heita, ok var hann á bæ þeim um[8] nótt, er Meðalbær heitir, er átti Oddr Eiríksson; þetta var frjádaginn fyri IX-vikna föstu; konúngr hafði marga sveitarhöfðíngja í boði sínu um kveldit[9], [þvíat hann hafði [vel vín[10] norðan[11] með sèr, ok var[12] ekki lengra

1) norðast, *F.* 2) þar beið konúngr til allr herinn kom saman, ok var þat um nónskeið; þá talaði konúngr við sveitarhöfðingja, ok siðan var hlásit til þings, ok lýsti konúngr ráðagerð sinni fyri hernum, *B, F.* 3) allra bænda í landinu, *F.* 4) ok með því, segir hann, at vârir óvinir eru hvergi fyri oss, þá viljum vèr hvergi ákafliga fara, ok vita ef landsfólkit vill gánga til yfirhóta við oss, *b. F.* 5) *b. G;* Kastað verplum, *F.* 6) reið, *F.* 7) *þ. F*; Eldar, *A.* 8) aðra, *G, H.* 9) daginn, *H.* 10) atta (*eðr átta*) *líkliga rángt, en þessi tvö orð vantar í F; frá* [ mikit vín, *H.* 11) or Noregi, *H.* 12) varð, *H.*

flutt fyri frosta sakir[1]. [þá gerðist sá atburðr um nóttina, at öllum[2] verplum[3] var kastað út í garðinn, ok var drjúgum þriðjúngr frosinn[4] af hverjum; reiðskjótamenn[5] tóku verplana til sín ok brutu í sundr; síðan tóku þeir jöklana ok bræddu, en suma átu þeir; af þessu urðu þeir svâ drukknir, at þeir börðust um nóttina, ok urðu þar XIIII[6] menn sárir, en margir lamdir; [sætti konúngr þá um morgininn[7] þegar; vildu sýslumenn gefa þeim sakir á, en konúngr gaf þeim upp.

*Eydd bygðin fyri konúngi[8].*

114. Laugardaginn komu allir sveitarhöfðíngjar til konúngs, ok var herrinn mjök ákafr, ok vildi brenna bygðina, en konúngr frestaði á morgininn fram ok hugði at bændr mundu koma til hans, ok[9] bjóða yfirbætr; ok er þeim þótti sú vân þrotin, þá tóku menn ok brendu allar bygðir, þar sem þeir fóru; en svâ vandliga[10] voru allir menn á brottu or bygðinni, at á öngum bæ[11] fannst nokkurr maðr; svâ kvað Sturla:

Vara[12] landráð
litlu goldit
við allvald
austan markar[13];
þá er lofðúngr

1) *frá fyrra* [ ok drukku menn bæði bjór ok vín; þá voru frost mikil, *G.* 2) *frá* [ þeir köstuðu, *G;* var kastat, *H.* 3) berlum, *H.* 4) freyrinn, *G.* 5) hestasveinar, *H.* 6) XII, *H.* 7) var þar fyrst gert um morguninn, at konúngr fèkk menn til at setja þetta niðr (semja, *G*) í millum þeirra, *B, F, G.* 8) *b. G.* 9) biðja miskunnar ok, *b. F, G, H.* 10) endiliga, *F.* 11) *þannig hin;* manni, (*ritvilla*), *A.* 12) Varat, *F.* 13) marka, *H.*

leystan hafði
elris garm
eski[1] mettan[2].
[Svalg hvert hús[3]
heitum munni
viðar hundr[4],
Verma bygðar;
ok svipgárr[5]
selju rakki
um garðs hlið
grenjandi fór.

Svâ segir Ólafr hvítaskáld:

Vígstorma namt Vermum
valdr fláræði gjalda;
lèztu ræsir gim[6] geisa,
gekk eldr um sjót rekka;
bændr lutu kvöl, þá er kyndist
kapps hár logi sára[7],
gegn lètuð hyr hegna
hjörels[8] frömuðr vèlar.

Nær vatni nokkuru ljóp út kerlíng ein gömul, ok spurði: hvar er konúngr Norðmanna? henni var sagt; hún gekk fyri hann djarfliga, ok bað[9] at eigi skyldi brenna bæ dóttur hennar, fyri þat er hún þorði [heima at vera[10]; konúngr kvað svâ vera skyldi, ok kallar til sín gest einn, er Jón ómagi hèt, ok aðra þrjá, ok bað þá [geyma svâ

[1]) egi' *B.* [2]) *þannig B*; mættan, *F, G*; mælan, *H*; mætran (*rángt*) *A.* [3]) haust, *G.* [4]) *þannig hin;* lundr, (*rángt*) *A.* [5]) svipkárr, *G.* [6]) *þ. G*; ginn, *A, F*; gunn, *H.* [7]) *b. hin; gleymt i A.* [8]) hjaldr els, *G, H*; hjaldr elz (elds), *B.* [9]) hann fyri guðs sakir, *b. G.* [10]) ein at bíða, *G.*

til bæjar þeirra, at eigi væri brendr[1], fyri því er þessi ein kona vildi biðja hann miskunnar af[2] Vermum, ok[3] sagði[4] at fleiri myndu bygðir óbrendar, ef nokkurir menn hefði á hans fund komit, miskunnar at biðja.

*Frá brota fyri konúngi[5].*

115. Eptir þetta komu menn til konúngs, ok segja at Vermar höfðu fellt mörk fyri hann skamt frá kirkju þeirri, er Nýjakirkja heitir, þá sendi konúngr fram C manna ríðandi ok bogmenn; ok er þeir komu til brotans, voru þar fáir menn fyri, ok stukku þegar í brot, var þá brotinn með bolöxum höggvinn, en konúngr lèt gæta á meðan, at öngar væri gervar bakslettur. En þeir[6] sem fyrstir riðu yfir brotann við konúnginum, komust skjótt fram, en síðan leiddu menn tómliga hesta sína [yfir brotann[7]. Þat var sagt þeim, er síðar fóru at konúngr væri fyri framan brotann; ok berðist við Verma, geystist þá fram múgrinn at brotanum, ok varð af því mikill gnýr er sleðarnir brotnuðu. En er [konúngr heyrði harkit[8], hugðu þeir at ófriðr væri, ok sneru þá aptr sem skjótast[9], ok hafði þar nær miklum vâða, áðr menn kenndust; þeir fóru þá í bygð þá er Auvíkr[10] heita, út í landit.

---

[1]) *frá* [ þar vera, til þess er allir Norðmenn væri umfarnir, *F, G, H.* [2]) öllum, *b. F, G.* [3]) bað hana fara eptir hjúm sínum, ok hafa þau heima hjá sèr ok, *b. F.* [4]) segja svâ, *F.* [5]) *b. G*; Um brota Ribbúnga, *H*; Sagt konúngi at Vermir felldu mörk, *F.* [6]) flestir, *b. F.* [7]) þar yfir sem þynstr var brotinn, *b. B, F.* [8]) þeir komu ok heyrðu gnýinn, sá hleypingarnar, *G.* [9]) ákafast, *B.* [10]) Aumerkr, *H;* Árvikr, *B.*

*Um hersögu*[1].

116. Konúngr kom þar snimma um kveldit ok þat fólk er honum fylgði; ok er hann var afklæddr, var blásinn herblástr, ok var sagt at Vermar væri komnir ok börðust við liðit aptr[2] á skóginum. Konúngrinn ljóp upp[3], ok sá herrinn er honum fylgði, ok riðu [af á skóginn[4], kom þá herrinn í móti þeim, ok höfðu ekki heyrt ófriðligt, en þeim [var búit til[5] dauða[6], er [þessu höfðu uppslegit[7]; fóru menn þá til búða, sem ætlat var. Fyri dag komu VI menn til konúngs af bygð þeirri, er Strönd heitir, sá hèt Gæirr[8] er fyri þeim var; þeir báðu konúng miskunnar, ok lögðu allt á hans vald; konúngr játaði þeim griðum ok sættum, ok gaf honum[9] þat mark yfir alla þá bæi, er í þeirri bygð voru, at þeir skyldu taka eina mikla[10] stöng ok binda við hvíta blæju, ok reisa á þat hús, er hæst var í bænum, ok skyldu allir af[11] því kenna þá bæi, er grið voru gefin; en í þeirri bygð voru eigi meirr en XIIII[12] bæir, en þó gerðu fleiri [menn slíkt[13] mark, ok fengu allir grið.

*Um hernað konúngs í Vermalandi*[14].

117. Síðan reið Hákon konúngr við allan herinn út í Vermaland, ok var brend bygðin, hvar sem þeir fóru, en menn voru hvergi heima í bygðum. Þeir fóru allt í þá bygð er Glaða-

1) *þ. G*; Frá konúngi ok Vermum, *H.* 2) *v. F.* 3) *b. F.* 4) *frá* [ aptr, *F.* 5) við, *F, H.* 6) mestu refsíngum, *H*; *frá* [ hèlt við våða, *G.* 7) upplostit, *H*; *frá* [ þetta höfðu kveykt, *G.* 8) Geirr, *F, H*; Geit, *G.* 9) þeim, *F, H, G.* 10) háfa, *H.* 11) *b. F.* 12) XX, *H.* 13) bændr slikt sama, *F.* 14) *b. G.*

þors[1] heitir ok brenndu; ok er konúngr var[2] â þeim bæ er Knollr[3] hèt, þá komu bændr til hans ok beiddu miskunnar af hendi landsmanna, ok buðu allt á konúngs vald; en með því at Ribbúngar höfðu ekki verit[4] út í landit[5], tók konúngr sætt af þeim, ok seldu þeir honum VIII gísla, þá er konúngi fylgði heim í landit[6]. Hákon konúngr sneri þá heim aptr[7], ok var um nótt á Strönd at [Gils[8] bónda þar sem óbrennt var[9]. Svâ segja Vermar, at þar hvíli heilagr maðr er þorgeirr hèt. Konúngr fór þaðan um morgininn[10], ok var þá brennt[11], hvar sem þeir fóru, þvíat öngir komu miskunnar at biðja. Um nóttina eptir var konúngrinn þar sem Saurvíkr[12] heita við Kjölinn, ok fóru um morgininn í þá bygð, er [Hólmadalir heita[13]; ok áðr þeir komu þar, var gerr samnaðr móti þeim, þar sem helzt voru kleifar ok skógar þraungvastir, ok skutust menn þar á um hríð; þá ljópu menn[14] af hestum sínum ok í skóginn at þeim, en Vermar tóku undan, ok var(ð) af því þeirra lutr harðari en hinna er eigi höfðu í móti tekit; ok þar var svâ vandliga brennt, at þar stóð ekki kot eptir; þessi[15] bygð var skipuð[16] Ribbúngum, ok flestir bændr voru Sigurði handgengnir; svâ kvað Sturla:

[Éim lèk[17] hyrr með himni[18],

1) Glaðaþorp, *F*; Glaðaþros, *B*, *G*. 2) *b.* *F*. 3) Kvollr, *B*. 4) lengra, *b. F*, *G*. 5) en þar, *b. F*. 6) Noreg, *H*, *G*. 7) ferð sinni, *b. F*. 8) Gisl, *F*. 9) *frá* [ Þorgilsbæ, *H*. 10) eptir landinu, *b. H*. 11) uppi við Hólmadali, *b. H*. 12) Saurbæir, *B*. 13) Hólmadalr heitir, *F*. 14) Norðmenn, *B*, *F*. 15) *b. F*. 16) skipat mjök, *F*. 17) Eun lèk, *H*; Emleg, *G*; Armleg, *F*. 18) hifni, *G*; himin, *B*.

hljóp elldr í sal felldan
vítt hykk ek þegnum þóttu
þeim markar böl[1] sveima;
eyðust[2] allar þjóðir
eiðvandar[3] konúngs reiði,
baugsendir[4] rauð[5] brýndan
brand í Vermalandi.

þá er konúngr reið [at vestra[6] Hólmadali, þá komu bæði í móti honum prestar ok bændr, ok báðu miskunnar. Konúngr [lýsti þá því, at hætta skyldi at brenna[7], ok lagði við hverjum líflát eðr lima, ef bryti boð hans. Um nóttina var konúngr í vestra[8] Hólmadali at prests eins í góðum fagnaði, en ekki var at drekka nema blanda, ok hvergi fengu þeir munngát at drekka í Vermalandi, en slátrvist[9] skorti eigi, þvíat búit var hvergi undan rekit. Um morgininn eptir fór konúngr vestr á skóginn, ok kom á miðjum degi í sitt ríki, ok var um nóttina[10] í Borgarsýslu á Fólkisbergi, hafði hann alla luti[11] þar nóga með góðvilja.

*Frá Arnbirni Jónssyni*[12].

118. Arnbjörn Jónsson hafði CCCC manna, ok ætlaði at mæta konúnginum við Eiðaskóg, sem áðr var ráð fyri gert, ok [nú kom herr af

1) *þ. H*; bol, *A, G*; kjöl, *F*; ból, *P.* 2) *þ. F;* eyðist, *H*; eyddust, *G, B*; óðust, *A.* 3) *þ. F;* eiðvandr, *A, G, H;* eiðvaldr, *B.* 4) böðsendir, *H;* hauksendir, *F, G.* 5) hrauð, *F.* 6) á vestari, *F; v. G, H.* 7) lèt þá blása liðinu út á vatzísinn, ok sagði þá engum liða skyldi at brenna bygðina, *B, H.* 8) *v. G.* 9) kjöt, *G;* slátr, *H.* 10) í bygð þeirri er Ánsmörk heitir, *b. B, F, H.* 11) *b. F.* 12) *b. H, G.*

Ribbúngum[1], ok snerist hann aptr þegar eptir þeim, en þeir fóru hinn beinsta veg út til Oslóar. Ok er þeir komu þar, vǫru öngir Birkibeinar í bænum, ok því dvöldust þeir þar ekki, sneru út til Túnsbergs hit vestra. Arnbjörn kom um kveldit til Oslóar, en Ribbúngar höfðu áðr um morgininn í brott farit[2]. Nicholás biskup var fóstrfaðir Arnbjarnar ok kærr vin, biskup dvaldi hann[3] um daginn, ok lèzt kenna mundu honum heilræði. En þat segja flestir[4], at því gerði hann svâ, at hann vildi at Ribbúnga drægi sem lengst undan. Arnbjörn [varð síðbúinn[5] or bænum, þvíat fólk hans var mjök drukkit, ok því fór hann skamt um nóttina, en Ribbúngar skunduðu ferð sinni sem mest[6]. Ok er þeir komu út í Hlíðir[7], var þar fyri bóndi einn or Túnsbergi, er Reiðúlfr gullkroppr hèt. Ok er hann spurði til Ribbúnga, þá [fór hann út skjótt[8] til Túnsbergs; var þá þegar blásit í bænum[9]. Þeir Ólafr höfðu hálft þriðja hundrat manna á berginu. Varla var trúat orðum Reiðúlfs, ok var því lítill gaumr at gefinn. Pálsmessuaptan[10] komu Ribbúngar í bæinn. Eysteinn Hróason komst nauðugliga uppá bergit, ok er hann kom upp í kleif-

---

1) *frá* [ er hann fór austr af skóginum, kom hann á farveg Ribbúnga, *F*, *G*. 2) þar kom til móts (við) Arnbjörn meir (en) C manna velbúit, en hann sendi aptr annat hundrat manna af sínu liði þat sem lakast var, *b. F.* 3) lengi, *b. F.* 4) Birkibeinar, *G*, *H.* 5) reið seint, *B.* 6) ok komu at miðjum degi til Túnsbergs, *b. B.* 7) Liðir, *G.* 8) *frá* [ skundaði hann sinni ferð sem mest aptr, ok kom at miðjum degi, *F*; ok bar njósn, *b. G.* 9) ok sagt von ófriðar, *b. F.* 10) at kveldi, *b. F.*

ina, felldu þeir skutilsvein konúngs er Runólfr[1] hèt, þar fèll ok Grímr hvíti, ok enn fleiri konúngsmenn voru drepnir hèr ok hvar í bænum; XIIII menn fèllu þar. Ketill staurr[2] hèt hirðmaðr ok Eilífr dvergr, hann var gestr; þeir voru í lopthúsi einu, ok vörðust þar alla nóttina svâ drengiliga, at varla finnast dæmi til at II menn hafi betr varizt en þeir. En Ribbúngar rufu húsin yfir þeim, ok lögðu þar inn spjótum, ok fèllu þeir þar með drengskap.

*Ribbúngar brendu skip ok tóku leiðángra*[3].

119. Um nóttina er Ribbúngar höfðu rannsakat bæinn, fóru þeir undir bergit norðr, ok brenndu þar skip konúngs, tvítugsessu ok Sættaspillinn, ok alls brenndu þeir XVI skip; þeir drápu II kaupmenn saklausa. Þegar er dagr kom fóru þeir á brott, ok vestr á Foldina; þeir tóku leiðángra konúngs, hvar sem þeir náðu, ok ræntu bændr ok kaupmenn, hvar sem þeir fóru. [Um daginn at miðjum degi[4] kom Arnbjörn í bæinn, var honum þá sagt at hann mundi ekki[5] fá af Ribbúngum at sinni; sneri hann þá[6] aptr til Valdishólma við öllu liðinu.

*Af Símoni kýr*[7].

120. Símon kýr ok Hallvarðr[8] bratti [höfðu farit uppá Markir með DC manna eptir boði konúngs, ok er þeir komu þar, var konúngrinn

---

1) Arnólfr, *H*; Gunnólfr, *B*; Reiðúlfr, *G*. 2) straumr, *H*. 3) *b. G*. 4) *frá* [ annan daginn eptir, *G*; um daginn eptir Pálsmessu, *H*. 5) *b. F, G*. 6) austr, *b. G, H*. 7) *b. F*. Liðs skipan konúngs, *G*; Ráðagerðir konúngs, *H*. 8) *þannig B, F*; Bárðr (*líkliga rángt*) *A, G*; *v. H*.

norðr farinn, sneru þeir þá[1] aptr. Hákon konúngr sneri hinn [beinsta veg[2] til Oslóar af Fólkisbergi; ok síð um kveldit komu menn or Túnsbergi ok sögðu honum þau tíðindi sem þar höfðu gerzt[3]. Um morgininn átti konúngr stefnu: ek hefi þat spurt at Ribbúngar ætla at snúa uppá Heiðmörk í móti samnaði þeim er bændr höfðu[4] þar; nú vil ek skipta herinum í þriðjúnga, skal Loðinn Gunnason ok Gunnbjörn ok Upplendíngar hafa einn þriðjúng, ok snúa upp á Raumaríki eptir Ribbúngum[5], en ek mun fara[6] uppá[7] Haðaland, ok skulu þessir[8] við mèr fylgja: Nicholás Pálsson, Haraldr stángarfylja, Friðrekr slafsi; en Eiríkr[9] ljóðhorn[10] ok Klæmit[11] af Hólmi, Haraldr Vesetason ok nefndar menn af Foldinni skulu fara[12] til Túnsbergs ok eigi lengra, nema þeir spyrì [nokkut til Ribbúnga[13].

*Frá sendimönnum*[14].

121. [Sendimenn, þeir er fóru á landit upp[15], spurðu at Ribbúngar voru ekki upp[16] um farnir,

---

1) *frá* [ skyldu hafá farit austr í Vermaland með konúngi; höfðu þeir orðit of seinir ok sneru þeir, *G.* 2) bezta veg ok beinsta, *F.* 3) konúngr var um nóttina í bygð þeirri er Leirheimsskógr heitir. En um morguninn fór hann út til Oslóar, ok átti þar stefnu við sveitarhöfðíngja, ok sagði svâ, *b. B, F.* 4) hafa, *F.* 5) ef þeir hafa stefnt á Heiðmörk eðr þaðan austr, en ef þeir hafa eigi komit á Haðaland, þá skulu þèr snúa vestr á Ásaskóg móti þeim, ok út eptir Haðalandi, *b. B, F.* 6) (við) annan þriðjúng, *b. F, G, H.* 7) í Hakadal, ok it beinsta upp á, *F, G*; í Hattadal ok svâ upp á, *H.* 8) sveitarhöfðingjar, *b. F, G.* 9) Erlingr, *G.* 10) hljóðhorn, *G.* 11) Klemet, *F.* 12) sem skjótast, *b. F, G.* 13) *b. F, G; v. H, A.* 14) *b. F*; Frá njósnarmönnum, *G.* 15) Sýslumenn þeir er fyrstir fóru, *H.* 16) *v. G.*

ok því sneru þeir vestr um Ásaskóg[1], ok fengu harðan veg[2], ok lágu uti um nóttina; ok er þeir komu af skóginum, sneru sýslumenn uppá Heiðmörk, en lögmenn ok Gunnbjörn fóru hit beinsta út eptir konúngi. Þá er konúngr kom á Haðaland[3], komu þar njósnir í móti honum, ok sögðu at Ribbúngar höfðu [farit af Vestfold[4] upp á Hríngaríki, en síðan vissu þeir eigi, hvert þeir höfðu snúit[5]. [Ok er konúngr[6] kom[7] á Haðaland, spurði hann[8] at Ribbúngar höfðu ekki[9] upp [snúit um[10]; sneri konúngr þá aptr ok út eptir bygðinni; konúngr var um nóttina þar sem Grattagref[11] heitir, hann sendi Ögmund Ölmoðsson út í bygðina á njósn við hinn XII mann, ok höfðu góða hesta. Um kveldit er matr bjóst, sagði sá er við ljóran sat ok vörð hèlt, at njósnarmenn hleyptu aptr í garðinn, ok sögðu at ófriðr var; þeir er fyrstir ljópu til vâpna höfðu í lás leypt hurðunni, ok var því sein útgángan; snjór var mikill, ok bað konúngr menn snúa á hæð nokkura[12], ok troða sèr gadd, þar til er sveitir kvæmi til hans, þær er umhverfis voru í bygðinni. Þá kom Ögmundr til konúngs ok sagðist mætt hafa Ribbúngum, er þeir fóru utan,

1) Ásuskóg, *G.* 2) þvíat skógrinn var eigi brotinn, *b. F*; eigi vel ruddr, *B.* 3) út í Hakadal, *B, F, G*; Hatadal, *H.* 4) *frá* [ snúit, *G.* 5) konúngr lèt segja öllum sveitarhöfðíngjum, at þeir væri búnir í óttu, ok svâ var. Konúngrinn kom snimma í Uppdal, *b. F.* 6) hann, *F.* 7) *frá* [ konúngr kom snimma, *G.* 8) þá, *b. G*; *frá* [ í Hakadal, komu njósnir hans á móti, ok sögðu honum, *F, G.* 9) *b. F, G, H.* 10) farit, *F*; hjá farit, *G*; snúit á Ringariki, *H.* 11) Grattaberg, *G*; Brattagröf, *B*; *v. H.* 12) er þar var hjá þeim, *b. G.*

en eigi vissi hann, hversu fjölmennir þeir voru. Konúngr mælti styggliga til njósnarmanna, sagði at þeir höfðu fyrr flýit, en þeir þurftu, er þeir vissu eigi sönn tíðindi at segja, voru þá [gervir aðrir njósnarmenn styrkari með[1] Ögmundi. Hann mælti, áðr hann skildi við konúng: guð láti mik svâ aptr koma, at ek kenni einhvern Ribbúng, ella kenni þeir mik[2].

*Ribbúngar fóru af Vestfold*[3].

122. Þá er Ribbúngar fóru af Vestfold, [fóru þeir[4] á Upplönd, ok komu utan á Hríngaríki, ok stefndu svâ[5] í móti Birkibeinum, en hvârigir höfðu njósn[6] af öðrum, áðr en þessir njósnarmenn[7] er nú var frá sagt. Ribbúnga njósn sneri ok aptr, ok sögðu at þeir höfðu sèt vâpnaða menn, en eigi[8] vissu þeir, hversu margir voru. [Sigurðr var á bæ þeim, er Suttángr[9] heitir, hafði hann þá frètt, at Hákon konúngr var á Haðalandi, lèt hann[10] þá gera orð í bygðina, ok lèt saman kalla lið sitt; þeir voru á haugi einum, ok höfðu þar illa búð. Hann gerði V menn á njósn, þá er kunnast var, ok mættu þeir

---

1) fengnir fleiri menn, *G*; aðrir m., *H*. 2) nema bæði sè, *b. H.* 3) *b. F*; Frá njósnum Ribbúnga, *G*; Frá Ögmundi Úlfssyni, *H*. 4) stefndu þeir it beinsta, *F, G*. 5) it beinsta, *F, G, H*. 6) sannar njósnir, *F*. 7) höfðu farit, *b. F*. 8) *v. F*. 9) Suntángr, *H*; (Sótrángr, *F*). 10) *frá* [ Sigurðr sendi þá Erling rúmstaf á njósn við VI mann; hann reið upp í bygðina ok spurði at Birkibeinar voru komnir á Haðaland mjök margir, en Erlingr sneri þá út aptr til Sigurðar; hann var á bæ þeim er Sótrángr heitir; sagði hann Ribbúngum at Hákon konúngr var á Haðalandi: ok því hefir njósnin svâ djarfliga farit í nótt, at hann hefir verit nær. Sigurðr lèt, *F, B*.

Ögmundi ok hans fèlögum á bæ þeim er Jafnakr[1] heitir, þat var í öndverða dagan; þar fèllu allir njósnarmenn Ribbúnga við kirkjugarðinn.

*Frá Hákoni konúngi ok Ögmundi*[2].

123. Hákon konúngr reið í óttu af bænum við allt liðit, þá mætti hann Ögmundi[3]; konúngr spyrr, ef hann vissi nokkut til Ribbúnga; hann [svarar[4]: hèr bíðr njósn Ribbúnga yðar [við kirkjugarðinn[5]; konúngr segir hann hafa vel sýst. Birkibeinar hugðu þá gott til, at fundr þeirra Ribbúnga mundi þá verða brátt, þvíat þeir vissu glögt til, hvar þeir höfðu verit um nóttina, ok fóru þá ákafliga. Ribbúngar höfðu farit[6] um nóttina ok snúit ofan-til vatsins Thýri[7], ok voru þeir í brottu, er konúngr kom þar sem þeir höfðu verit. Sneru Birkibeinar þá eptir farveg þeirra, ok fóru mikinn. Ok er þeir komu at vatninu, fóru Ribbúngar af ísinum, ok stefndu vestr á dala. Konúngr reið þá eptir þeim, þvíat þá var eigi lángt í milli þeirra. Snjór var mikill, ok svâ mjór[8] farvegr, at eigi máttu meir en II ríða jafn fram[9]. Ribbúngar þeir sem seinstir voru höfðu bæði kastat klæðum ok vâpnum á ísinn; þeim var kunnigt uppá dalina, ok sneru þángat fyrst, sem mestar voru úfærðirnar ok þraungastir vegir[10].

---

1) Jármmakr, *II.* 2) *b. II.* 3) var hann þá við annan mann, *b. B, F.* 4) sagði at þeir hefðu sèt njósnir þeirra við kirkjugarðinn, (ok munu þèr nú skjótt finna þá, ef þèr ríðit mikinn; vegrinn lá beint um garðinn, *b. B*); ok lágu Ribbúngar þar drepnir. Ögmundr mælti þá til konúngs, *F, B.* 5) nú, *F.* 6) staðit, *F.* 7) Týri, *F*; í óttu, *b. II.* 8) mjár, *G.* 9) en kaflaup allt hjá, *b. G.* 10) Ok er

sögðu þau tíðindi at Ribbúngar höfði dregit skip í Mjörs[1] um Eiðaskóg, en þar væri fyrir í Eyjunni sýslumenn konúngs[2] Guthormr fjónkr, frændi konúngs, ok Árni áhola at gæta skipa. Ribbúngar komu at þeim óvörum, ok felldu Guthorm inni, en Árni komst út, ok fèll hann á akrinum ok[3] [sveit þeirra[4]. Síðan tóku Ribbúngar skip öll í Mjörs ok öðrum vötnum, en er bændr spurðu þat, gáfu þeir upp bygðina, en tóku grið af Ribbúngum; höfðu Ribbúngar nú öll Upplönd [inn til Óss[5]. [Í Oslu voru þá meirr en CC af bændum ok bæjarmönnum[6]. Konúngr átti þá tal við liðit, ok sögðu bændr svâ, at þeir hefði [Birkibeinum fylgt, síðan bardaginn var á Akri[7]: viljum vèr nú biðja yðr, herra, at þèr sitið hèr í vetr, at gæta bygða vârra, en vèr viljum gera yðr allan almenníng[8] á bak jólum; ok ef yðr þikkir nokkut á vanta, viljum vèr gefa yðr hálf bú vâr, ok hálfar allar vistir; en ef þèr vilit eigi hèr dveljast, tökum vèr oss grið af Ribbúngum[9]. Konúngr þakkaði þeim boð sitt, ok sagði at hann mundi gefa þeim orskurð, þá er hann hefði talat við sína menn; [en er konúngr talaði við ráð sitt, löttu allir[10] at hann legði svâ mikit undir

1) austan, *b. H, G.* 2) Birkibeina, *F, G.* 3) nær öll, *b. G.* 4) margir menn aðrir, *H.* 5) Oslu, *H; frá* [ *v. F.* 6) *frá* [ Hákon konúngr sigldi um daginn inn til Oslóar, þar var þá fjöldi bónda í bænum, meir en MCC með bæjarmönnum, *F, H; v. G.* 7) *frá* [ haldit safnaðinn, siðan þeir börðust á Akrinum við Ribbúnga, en nú heita þeir oss afarkostum, ok brenna bygðir vorar, er þeir ná eigi sjálfum oss, *F.* 8) ok annan, *b. F, H;* ok annan hálfan, *G.* 9) ok sættumst við þá, *b. F.* 10) *frá* [ konúngr sagði nú þessi boð hirðmönnum, en allir löttu, *G.*

trúnað bænda, at hann sæti í Oslu, sögðu at Sverri konúngi gafst þat eigi vel, þá er bændr fóru at honum til Oslóar. Konúngr segir þá bændum, at hann vill sitja á Berginu, en setja þar eptir lenda menn sína, at gæta varnaðar þeirra. Bændr áttu enn tal sín á milli, ok buðu at nefna konúngi gísla or kirkjusóknum, hina beztu bændr, ef hann hefði nokkurn vantrúnað[1] á þeim; átti konúngr þá enn tal við sína menn, ok báðu allir at hann trýði eigi bændum. Konúngr gaf þá orskurð; sagði at hann mundi þar engis manns ráðs um taka[2], kvaðst [hjá bændum skyldu vera, er þó[3] buðu þeir honum svâ góða kosti, ok vildu fè sitt ok fjör leggja við líf hans. Konúngr sat í Hákonargarði, [en um jólin í biskupsgarði[4]; hann sendi eptir föngum til Túnsbergs ok Björgynjar; þessi var hinn tíundi vetr konúngdóms hans. Arnbjörn Jónsson sat um vetrinn til landsgæzlu í Valldishólma, ok njósnar.

*Sættarboð Hákonar konúngs*[5].

149. Herra Knútr fór austr í Gautland, ok sat þar meðan hæst var vetrar, en setti eptir nokkurar sveitir Ribbúnga í Mjörs, ok drógu þeir skip at sèr um öll Upplönd. Hákon konúngr sendi menn um vetrinn leyniliga með brèfum í lið Ribbúnga til sveitarhöfðíngja ok margra annarra, ok bauð þeim grið, ef þeir kvæmi til hans, en þessi grið tók fyrst Erlíngr rúmstafr, hann var [röskr maðr[6], ok er hann kom á kon-

[1]) mistrúnað, *F*, *G*, *H*. [2]) nema sjálfs sins, *b. F.* [3]) *frá* [ at visu skyldi sitja hjá bændum, er, *F.* [4]) *frá* [ ok veitti þar, *H.* [5]) *b. H.* Konúngr gaf Ribbúngum grið, *G.* [6]) vaskr maðr ok vel siðaðr, *B*, *F*, *H*.

úngs fund, fèkk hann [sætt sæmiliga[1]. Konúngr gerði nokkurar sveitir í Sóleyjar[2], at leita Ribbúnga, ok var fyri þeim Erlíngr rúmstafr; þar fèllu[3] XL[4] manna af Ribbúngum. Síðan hèlt konúngr Erlíng fyrir tryggvan mann, ok kvað hann sik höggvit hafa í lends manns rètt. Þá var ger önnur ferð austr í Víkina hit efra á hestum; var fyri þeim Sigurðr[5] kýr, ok hafði CCC manna, ok komu austr í Befju; voru þar fyrir margir Ribbúngar, ok fengu njósn af Birkibeinum, ok flýðu þegar undan, en þó fengu Birkibeinar hèr ok hvar af mönnum þeirra; fór Sigurðr[6] aptr til konúngs. Um sumarit eptir andlát[7] Sigurðar Ribbúngs, skildi Guðólfr[8] sik frá flokkinum Ribbúnga, ok fór heim til bús síns[9]; hann gætti sín í kirkju nær bænum; þat var gott vígi; [hann hafði gert margar úspektir þar í bygðum[10], þá er hann var með Ribbúngum. Ótryggr hèt bóndi, sá er hann hafði barit mjök ok tekit af honum hest góðan; hann átti II sonu, hèt annarr Ásólfr en annarr Guðleifr, þeir fengu sèr sveit manna, ok fóru at Guðólfi; þeir tóku stíga ok settu við kirkjuna ok hjöggu ráfrit[11] yfir honum, ok ljópu þar inn, ok drápu hann, ok var hann lítt harmðauðr[12].

*Orðsendíng*[13].

150. Þetta sama haust gerði Skúli jarl sendi-

---

1) góð grið, *F*, *G*, *H*; ok sættir, *b.* *F*. 2) Seleyjar, *F*. 3) felldu þeir, *F*. 4) LX, *G*. 5) Simon, *hin* (*líklega rèttast*). 6) Simon, *hin*. 7) dráp, *H*. 8) af Blakkastöðum, *b.* *B*, *F*, *H*. 9) á Blakkastaði, *b.* *G*. 10) Guðólfr var all(ú)spakr, *H*. 11) ræfrit, *F*; ráfit, *G*, *H*. 12) harmðauði af mönnum, fyri sinn ójafnað, *F*. 13) *b.* *H*. Af Hákoni konúngi, *F*; Frá sendimönnum Skúla her(tuga) til Danakonúngs, *G*.

menn til Valdimars konúngs[1]: Kolbein kettu-rygg (ok) Grunnda fèhirði; ok er þeir fóru heim um vetrinn lágu þeir í Másströndum[2] fyri ísa sakir. Knútr var þá í Ljóðhúsum; ok er hann spurði þetta, tóku Ribbúngar lèttiskip, ok fóru at þeim, ok komu á þá óvara; þar lágu margir kaupmenn í höfnum ok vildu ekki hjálpa þeim, en þeir vörðust vel ok drengiliga, ok fèllu þar báðir með föruneyti sínu nær öllu[3]. En er Hákon konúngr frètti þetta, lèt hann höggva ísinn or Oslu allt út um Hólma[4], ok var þat sýst á II dögum. Síðan [voru skiput[5] mörg lèttiskip austr til Ljóðhúsa, ok þessir formenn: Loðinn Gunnason, Símon kýr, Hallvarðr bratti, Gunnbjörn, Ólafr Ínguson[6]; ok er þeir komu fram, var Knútr í brottu ok allr[7] herinn, nema fáir menn voru eptir; sá hèt Björn barki[8], er fyri þeim var. Þeir sátu í kastalanum norðr frá bænum. Birkibeinar settust um kastalann, ok var hann skjótt upp gefinn, en þeir fengu grið er í sátu. tóku Birkibeinar þar mikit herfáng, en[9] brendu kástalann; [þeir lögðu stór gjöld á þá bændr[10], er verit höfðu með Knúti. Síðan fóru þeir aptr til konúngs; svâ kvað Sturla:

Vitr let virki brjóta
valdr norrænnar aldar,

---

1) *hèr byrjar þriðja skinnbókar brot.* 2) Marsströndum, *H*; Máströndum, *F*, *G*, 3 *br.* 3) með drengskap ok miklum hraustleik, *b. F*, 3 *br.* 4) Sliðhólma, *B*, *F*, *G*; Sliðrhólma, 3 *br.* 5) skipaði hann, 3 *br.* 6) ok er þeir voru brott komnir, þá ísaði þegar sem áðr, *b. H.* 7) meginn, *b. F*, 3 *brot.* 8) bakki, *G*; þakki, *F*; pakki, *B*, 3 *br.* 9) brutu ok, *b. B*, *F*, 3 *brot.* 10) ok tóku stór fè fyri þeim mönnum, *F.*

austr þar er jöfrar treystut
ógnfúsir, Ljóðhúsa.
Þat veit ek at gallt Gautum
göfugr oddviti jöfra,
þjóð fèkk ræsis reiði,
rán, gekk slíkt at vánum.

*Frá konúngi ok Knúti*[1].

151. Ribbúngar sömnuðust saman á Upplöndum, ok voru fjölmennir í Mjörs. Þá lèt Hákon konúngr draga skip nokkur or Oslu upp í Elfi, ok voru þessir menn fyri: Ívarr af Skeðjuhofi ok Saxi blaðspjót; [þeir gættu sín vel á skipum[2]. [Ribbúngar voru flestir farnir [or Mjörs við[3] Knúti. [4]Konúngr fór or Oslu upp til Eiðsvallar, ok átti þíng við bændr; gengu þeir þá í samheldi við hann á nýja leik. Konúngr sneri þaðan á Raumaríki, ok svâ austr yfir Elfina, þvíat honum var sagt, at Knútr lèti draga skip or Hellisfirði, ok ætlaði upp á Markir ok þaðan í Elfina. Ok er konúngr kom í bygð þá er Heggin[5] heitir, var honum sagt at þat var lygð ein; sneri hann þá aptr[6] til Oslóar, var þat hálfum mánaði fyri[7] páska. Þá er Knútr spurði at konúngr var horfinn[8], lèt hann draga skip[9] or

[1]) *b. B.* Af Ribbúngum, *F, G*; Frá R., 3 *brot.* [2]) en er þeir komu í Elfina, þá skipuðu þeir skipin sem bezt ok gættu sín þar, *B, F.* [3]) austr á mót herra, *H.* [4]) *frá fyrra* [ lètu þá eptir öll skip í Mjörs, ok voru flestir farnir or vatninu austr á Markir til móts við Knút, *F,* 3 *brot.* [5]) Hegni, *H.* [6]) ok fór út á Follu ok síðan, *b. F.* [7]) eptir, *H, F,* 3 *br.* [8]) norðr farinn, 3 *brot.* [9]) *b. F.*

Hellisfirði, þar er aldri höfðu fyrr skip dregin verit, ok komu þeim uppá Markir[1], ok svâ norðr í Elfi, ok komu á úvart Birkibeinum[2], ok eltu þá [af skipum sínum út til Oslóar[3].

*Um skipadrátt*[4].

152. En er konúngr spurði þetta, lèt hann draga [hálfan fjórða tog skipa[5] or Oslu; hann fylgði sjálfr. Konúngr gerði orð Arnbirni Jónssyni ok öðrum lendum mönnum, at þeir drægi skip upp í Elfina, ok [fundu þeir konúng[6] í Eyjavatni. Þá spurðu þeir til Haralds af Lauftúni[7] ok margra Ribbúnga, er voru í bygð þeirri, er Skaun heitir. Konúngr gerði til þeirra nokkurar sveitir, ok mættust þeir á skógi nokkurum, ok varð þar bardagi, ok flýðu Ribbúngar ok lètust L manna af þeim, en Birkibeinar fóru[8] til konúngs. Konúngr lèt þá draga skipin í á þá er Kinna[9] heitir, ok þaðan rastar lángt eið áðr þeir komu í Elfi. Þá var honum sagt, at Ribbúngar hefði snúit austr frá[10] Elfinni, hèldu Birkibeinar þá eptir þeim, ok drógu skipin um Fundueið[11], ok komu til þess bæjar, er Fála heitir; þá var honum sagt, at Ribbúngar voru austr á Víngri[12]. Konúngr gekk þá frá[13] skipum, ok flest lið hans, en setti eptir at gæta skipa Gunn-

1) há-markir, *B*, 3 *brot.* 2) at þeim, *F*; Ívari, *b.* 3 *brot.* 3) *v. F*; á fund Hákonar konúngs, *b.* 3 *brot.* 4) *b. G*, konúngr fèkk sigr, *B*; frá Hákoni konúngi ok Ribbúngum, *H.* 5) XXXV skip, *F.* 6) mætti þar konúngi, *G*, *F*; m. þeir k., 2 *brot.* 7) Laufum, *H*; Lautun, *G*; Látyn, *B*, 3 *brot*; Lautyn, *F.* 8) aptr, *b.* 3 *brot.* 9) Kina, 3 *brot*; Kerma, *B*; Kemja, *H.* 10) or, 3 *brot.* 11) æið þat er Funduæið heitir, 3 *brot.* 12) *þannig rèttust, H*; Vigri, *A*; Vigrin, *B*; *v. G.* 13) af, 3 *br.*

ar[1] bónda ok Saxa blaðspjót[2]; þetta var sunnudaginn[3]. Um morgininn kom konúngr í lýsíng jafnfram kirkjunni á Víngri[4]; [þar var honum sagt[5], at Ribbúngar lágu þar öðrumegin vatsins[6] ok þeir reyri [hvern dag yfir[7] vatnit [til tíða[8]; þá bað konúngr sína menn leynast í skóginum upp frá bænum, en er sól tók at skína, sá Ribbúngar, hvar liðit lá í skóginum, ok sneru þeir þá út aptr skipum sínum þeim megin sem þeir voru; Birkibeinar skyndu þá sinni ferð, þvíat þeir óttuðust at Ribbúngar mundi taka skip þeirra. [þeir komu at Ámunda á Folavelli óvörum[9], voru sumir drepnir en sumir á kafi eltir, ok[10] allir lètu vâpnin. Um morgininn er Birkibeinar ljópu fram[11], sýndist Ribbúngum meira liðit en var, þá ljóp Haraldr af Lauftúni[12] út á árbakkann, ok spurði hverr fyri liði rèði. Haraldr stángarfylja svarar: kennast munum við, frændi; vèr erum hèr kuslúngar[13] ok sýslumenn af Upplöndum. Haraldr svarar: sjaldan hafit þèr svâ mikit lið eðr jafnvel búit, eðr hvar er Hákon konúngr? Hèr er hann, sagði Haraldr. Hinn

1) Gunnbjörn, *F*, *H*. 2) ok bað þá vera þeim megin vatzins sem hann fór, *b. B*, *F*. 3) sunnudags nátt, *H*; sunnunótt, *B. F*, 3 *brot*. 4) *þannig F*, *G*, *H*; Vigri, *A*, *B*; Vigr, 3 *br*. 5) *frá* [ þar var bóndi sá er Gunnar hèt, vin konúngs, hann sagði, *B*, *H*, *G*, 3 *brot*. 6) gegnt, *b. F*, *H*, 3 *brot*. 7) um þvert, 3 *brot*. 8) (eðr tiðinda); *frá* [ at spyrja tiðinda, *B*, *F*, *G*, *H*, 3 *br*. 9) *frá* [ þá er konúngr gekk af skipum sínum, þá sendi hann nokkurar sveitir þángat sem hann spurði til Ámunda á Folavelli, *F*, *H*, *G*. 10) flestir, *b. B*, *F*, *H*, 11) or skóginum, *b. B*, *F*, *H*. 12) Lautnm, *H*; Latun, 3 *brot*. 13) kullúngar, *H*; kyllúngar, *B*.

svarar: hví vildi hann taka á sik svâ mikla [vesöld at láni[1] at rekast at oss Ribbúngum allt á Markir austr. Meirr ætla ek nauðsyn tilreka, sagði Haraldr, en ofkæti[2], at stökkva slíkum óaldar flokki [or landinu[3], sem þèr hafit[4]. Fóru þá hvârirtveggju sem mest máttu. þeir skutust á, þar sem áin var mjóst. þá gerði guð sem jafnan mikla miskunn við Hákon konúng, þvíat þeir sem á [skóginum fóru[5], gengu þar upp sem konúngr hafði ráð fyri gert. þeir fundu þar sveit af Ribbúngum ok drápu þá alla; þá urðu þeir varir við at meginherrinn Ribbúnga var þeim megin árinnar; sneru þeir þá yfir ána ok mættu konúnginum, urðu þá hvârir öðrum fegnir. En þegar er Ribbúngar sá, at konúngr náði[6] skipum sínum, þá sneru þeir austr aptr sinni ferð, en þar var þá mikill straumr ok hásteint í ánni, er konúngr náði skipum sínum, ok svâ var þar sem Ribbúngar voru komnir, ok gengu hvârirtveggju á land upp, ok leiddu skip sín, en sumir stýrðu með forkum, ok ef [nokkut reip[7] bilaði á einhverju skipi, var þat þegar í ófæru[8]. En er þeir komu þar sem mjóst[9] var áin, hvíldust hvârirtveggju, ok ætlaði konúngr [at snæða[10]; Ribbúngar skutu[11], fóru þá hvârirtveggju sem mest; fóru Ribbúngar til [kirkju-

1) vâsbúð, *G.* 2) ofkeski, *F*; ofgæti, *H.* 3) braut or ríkinu, *G.* 4) erut, *H.* 5) *frá* [ skipunum voru, *F*, *G*, *H*, 3 *brot.* 6) hafði náð, *F*, 3 *brot.* 7) nokkr keipr, *H.* 8) forráði, ok þeir er á voru, *B*, *F*, *G*; foraði, ok þat sem á var, 3 *brot.* 9) mest, 3 *brot.* 10) til matar, 3 *brot.* 11) á þá, ok varð því eigi af snæðingunni, *b. H* (snæðinu, *F*; snæðinginum, *B*, 3 *brot*).

bæjarins, ok mæltu mart íllt við Birkibeina. Konúngr bað þá hætta fólsku þeirri[1], bað þá bíða þess[2], er skip hans kvæmi, ok mætti þeir þá við eigast fleira en orð ein. Ribbúngar kváðust þat gjarna vilja[3].

*Frá Hákoni konúngi*[4].

153. [Þá er[5] XIIII skip komu til konúngs, bjó[6] hann þau sem bezt, ok meðan konúngr gerði þetta, lögðu Ribbúngar skipum sínum austr með kirkjunni, ok upp um þverá eina[7] litla í[8] vatn, þat er Víngsjór[9] heitir, þat gengr allt[10] at Eiðaskógi. Birkibeinar reyru yfir ána, ok er þeir komu á miðja, sá þeir at Ribbúngar höfðu fylkt fyri þeim, ok skutu á þá ákafliga, ok hugðu at Ribbúngar mundu bíða þeirra, því at þeir höfðu vígi örugt, þar sem bakkinn var þriggja spjótskapta hár, er þeir stóðu á, en leiran svâ blaut at annarr fótr stóð fastr, þar til er annarr var niðr settr; var þat hinn mesti háski þar at at sækja, en Birkibeinar reyru[11] þó at sem djarfligast. En er skipin rendu[12] at landi, flýðu Ribb-

[1]) (þess bæjar) þar sem þeir höfðu áðr verit; gekk þá enn fram Haraldr af Lautum (Látyn) ok fleiri Ribbúngar, ok mæltu (mjök) mörg orð ferljg til Birkibeina; bað konúngr þá Arnbjörn Jónsson segja Ribbúngum at þeir hætti orðum slikum, *F*, *H*; (konúngr kallaði til sín Ólaf sundramm, sveitúng Arnbjarnar Jónssonar, òk bað hann segja Birkibeinum, at þeir hætti fólsku orðum, 3 *brot*). [2]) þar, 3 *brot*, *sem hættir með því orði.* [3]) *frá* [ ok eptir þat hèldu fram hvârirtveggju sinni ferð, ok er minka tók strauminu i ánni, stè konúngr á skip sin, *G*. [4]) *b. B.* Frá Birkibeinum ok Ribbúngum, *H*. [5]) þat er nú því næst, at, *B*. [6]) skipaði, *F*, *H*. [7]) *þ. F*; á, *A*; *v. H*. [8]) *b. B*, *F*. [9]) Fingrsjór, *B*; Vingrsjór, *F*, *G*; Vigrsjór, *H*. [10]) austr, *b. H*. [11]) rèðu, *H*. [12]) *þannig F*, *G*; reyru, *A*.

úngar, en Birkibeinar gengu upp[1] ok hugðu at þeir mundu bíða ofarr meirr, ok er þeir komu upp á bakkann, voru Ribbúngar hvergi nær. Sneri þá Hákon konúngr aptr til skipa sinna, ok fór austr eptir vötnum[2], þar sem skip Ribbúnga fóru undan, reyru hvârirtveggju sem mest máttu. Konúngr fór it efra[3] með vatni austr; en er Ribbúngar komu til vazendans, hljópu þeir af skipum; konúngr kom þá eptir þeim, ok felldi nokkura menn af þeim, en tók öll skipin[4]; þetta var mánadag í gagndögum. Konúngr bað menn sína snæða, þvíat þeir höfðu ekki etit síðan[5] laugardaginn. Þar [frètti konúngr[6] at Knútr hafði hit beinsta snúit út á Markir, sneri hann þá norðr aptr, ok svâ uppá Heiðmörk ok drógu skipin um Fundueið, ok svâ í Mjörs. Hallvarðr biskup var þá í Hamri, ok var konúngr með honum uppstígníngardag[7] í góðum fagnaði; skipaði konúngr þá öll Upplönd, ok setti menn til skipagæzlu. Síðan fór konúngr til[8] Oslóar, hann var þar hálfan mánuð, áðr hann bjóst austr[9] til Elfar.

*Brèfsendíng til konúngs*[10].

154. Þá er Hákon konúngr var búinn at fara austr til landsenda, komu brèf frá Knúti ok frú

---

1) *þannig F*; eptir, *A.* 2) vatninn, *H.* 3) um skóga, *b. F, H.* 4) ok sneri aptr; kom hann þá um morguninn i dagan, þángat sem hann hafði áðr af skipum (á skip, *F, H*) gengit, *b. B, F, H.* 5) sízt, G. 6) þar komu til konúngs njósnir þær er hann hafði sent eptir Ribbúngum, ok sögðu, *B, F.* 7) helga Þórsdag, *F.* 8) Eiðsvallar ok þaðan til, *b. B, F.* 9)-aptr, *F.* 10) *b. H.* Um brèf Knúts ok umleitan griða við konúng, *G.*

Kristínar ok lögmannsins, ok leituðu Knúti griða til konúngs, ok sögðu svâ, at hann vildi koma á vald konúngs, þegar hann kvæmi austr. Þau báðu þetta fara leyniliga, at eigi yrði Ribbúngar varir við, því at þeir vildu [drepa Knút, ef hann færi eigi þeirra ráðum fram[2]. Konúngr fagnar þessu, ok gerði brèf í móti, ok hèt Knúti, frænda sínum, griðum ok sæmðum, ef hann kvæmi á hans vald. Ok er Hákon konúngr kom í Elfina, var honum sagt, at Ribbúngar voru uppi í Væni; gerði hann þá menn til frú Kristínar, at vita hvârt þat skyldi haldast sem Knútr hafði mælt. En frú Kristín sagði svâ, at hún mundi sjálf koma, at [friða[3] fyri Knúti, syni sínum[4], við konúng. Þar var þá með konúngi Ormr biskup ok margir lendir menn, er konúngr vildi við þessa sættarstefnu hafa, ok sat hann í Konúngahellu hálfan mánuð, ok komu menn dagliga frá frú Kristínar, ok sögðu þá ok þá, at Knútr mundi koma á konúngs vald.

*Svik Knúts*[5].

155. Herra Knútr tók þá [þat bragð, er eigi tók hans faðir[6]: hann lèt draga skip austr yfir Eiðaskóg, svâ sem aldri voru fyrri dregin, ok komu á úvart á konúngs mönnum í Vermá[7],

---

[1]) fund, *G.* [2]) *frá* [ hafa Knút at dauðamanni, ef hann færi frá þeim, *F.* [3]) friðleggja, *H.* [4]) *frá* [ at friðhelga Knút, sun sinn, *B, F.* [5]) *b. H.* Um ráðagerð herra Knúts, *G.* [6]) herra Knútr hafði þá með höndum þat ráð, er aldri hafði fyrr Hákon jarl faðir hans, ok mikil svik fylgðu, *hin.* [7]) Varmá, *B, H;* ánni Varmá, *G.*

jafnfram Eiðsvelli[1]. Þar var fyri[2] Ívarr af Skeðjuhofi, Jón ketlíngr, Erlíngr rumstafr, Þorgeir biskupsmágr, Andres hvíti ok margir Birkibeinar[3]; en bændr hèldu samnaðinum á Eiðsvelli; þá fengu Birkibeinar njósn af Ribbúngum[4]. [Birkibeinar höfðu stór skip; en er þeir fundust, tókst þar hin snarpasta orrosta, ok veitti Birkibeinum þýngra[5] svâ at næsta komu þeir á flótta. Þá kom til Jón ketlíngr ok Erlíngr rúmstafr á karfa einum, ok rèttu Birkibeinar þá við; sneri þá mannfallinu í lið Ribbúnga, ok vânu bráðara tóku þeir undan, Knútr ljóp á kaf, ok fèkk nauðuliga forðat sèr; þar fèll mart vildarmanna af Ribbúngum, en Birkibeinar urðu margir sárir. Ívarr bóndi varð sárr á fæti, gekk jafnan haltr síðan, Birkibeinar tóku öll skip þeirra. Eptir þetta dyrfðust bændr mjök við Ribbúnga, svâ at þeir fóru jafnan at þeim, ok drápu mart manna af þeim[6].

*Ribbúnga öld endast hèr*[7].

1227 156. Nú er Ribbúngar sá at alla vega þraungði

[1]) ok mundi hann þar hafa fyri komit miklum styrk konúngs á Upplöndum, ef eigi væri meiri miskunn guðs en trúleikr Ribbúnga, *b. F, H.* [2]) af konúngsmönnum, *b. F.* [3]) þeir voru á skipum, *b. F, H, G.* [4]) komu þá bændr til þeirra þar, sem fræknastir voru, *b. G.* [5]) *frá* [ gerðu þeir orð bóndum ok fóru þeir sem fræknastir voru or safnaðinum út á skipin til Birkibeina. Ribbúngar höfðu stór skip; þeir höfðu XIIIIsessu ok XII skip önnur; höfðu Birkibeinar smærri skip (ok fleiri, *b. G*), ok er þeir fundust, tókst (harðr) bardagi með þeim, ok veitti Birkibeinum þýngra í inni fyrstu atlögu, *B, F, G, H.* [6]) þótt þat sè eigi hèr ritat, *b. G.* [7]) *b. B;* Ribbúngar beiddust sættar, *G;* Sættargerð Ribbúnga við konúng, *H.*

kosti þeirra, sendu [þeir gísla til konúngs í Hornborusund. Konúngr sigldi austan um daginn, ok lagði at austan fjarðar, ok sendi[1] menn til Knúts á nýja leik, en hèt öllum Ribbúngum griðum, ef þeir vildi á hans vald gánga. Eptir þat fór konúngr til Oslóar. Litlu síðarr kom Haraldr af Lauftúni til konúngs, sendr af Knúti [til fullra griða ok sættar af Birkibeinum. Hákon konúngr [hafði þá[2] hirðstefnu, ok sagði svâ: flestum mönnum er þat kunnigt, hvern rekstr ok vâs vèr höfum haft fyri Ribbúngum, ok margfaldan skaða í láti góðra drengja, þótt þeir hafi fleiri fyri oss látit, er betr er; nú biðja þeir oss griða[3], en ef vèr viljum þeim grið gefa, þá [skulu þeir vera kallslausir af oss of[4] alla luti, þá er þeir hafa við oss misgert, sem siðr er til góðra höfðíngja; ella játtum þeim öngum griðum, ok fylgjum þeim sem fastast[5], þvíat nú [er minnkaðr styrkr[6] þeirra, ok em ek þess [ekki úfúsari[7], en þó skulut þèr ráða. Birkibeinar kvoðust gjarna

---

1) *frá* [ þeir menn á Upplönd til Birkibeina ok vildu sættast. Birkibeinar tóku því vel, ok sendust þeir gíslar (gísla) á millum. Birkibeinar sendu konúngi alla gísla Ribbúnga, ok fór með þeim Klemit af Hólmi (ok) Guthormr Erlingsson; þeir fundu konúng í Hornborusundum, ok sögðu honum slík tíðindi sem voru (at allt var á hans valdi ok miskunn, ok hversu hann vildi fara með gíslunum, *F*); konúngr tók vel við gíslunum ok sigldi um daginn til Usvikseyjar (Usvikreyjar, *F*). Hann, *hin.* 2) *frá* [ beiddist þá öruggra gísla ok fastra sætta, konúngr lèt þá blása til, *hin.* 3) ok vilja gjarna koma á vort vald, *h. F.* 4) *frá* [ skulum vèr þat með því móti gera, at þeir skulu vera klandalausir um, *F.* 5) ríkast, *F*; nú, þar til er vèr sigrum þá með öllu, *H.* 6) þverr mjök afli, *H.* 7) fúsari, *B.*

vilja fyriláta Ribbúngum fjártjón ok mannalát[1], heldr en rekast eptir þeim[2]. Sendi konúngr þá eptir [þeim Knúti[3], ok fóru þeir[4] til Oslóar á konúngs vald, ok fjöldi vildarliðs Ribbúnga. Eptir þetta skipaði konúngr ríki sín um öll Upplönd. En þeir Ribbúngar er sèr væntu [öngra griða[5] stukku or Noregi á Markir. Sá hèt Magnús blaðstakkr, er fyri þeim bazt ok kallaðist konúngr. En er Hákon konúngr frètti þetta, sendi hann Harald af Lauftúni at ná Magnúsi, en er Magnús spurði til Haralds, hafði hann grun á, at hann mundi eigi trúr vera, ok fór til ok drap hann. Konúngrinn hafði ok sent brèf austr í Vermaland, at bændr skyldi þar gera annathvârt, at reka úflokk þenna or bygðum sínum, ella mundi hann fara til ok gera þeim bakeld, öngum mun minna en fyrr[6]. Ok er bændr sá brèf þetta, sömnuðust þeir saman, ok fóru at Magnúsi, tóku hann ok festu upp, ok nokkura menn með honum, ok lýkr þar æfi Ribbúnga.

### *Frá Ívari gretti*[7].

157. Hákon konúngr bjóst or Oslu til Björgynjar; hann gaf Knúti, frænda sínum, II lángskip[8], ok fèkk honum alla luti, þá sem hann þurfti at hafa. [Ok er konúngr[9] kom í Seleyj-

1) frændalát, *F*, *G*. 2) lengr, *b. F*, *G*. 3) (ok öllum Ribbúngum) Eystein Róason, Guthorm Erlingsson, Friðrek slafsa. Þeir fundu þá uppi í Eyjavatni, *B*, *F*, *H*. 4) með Birkibeinum, *b. F*. 5) einskis friðar, *G*. 6) Vermum var lítit um þat, *b. G*. 7) *b. H*. Konúngr fór or Osló, *F*; Frá Hákoni konúngi, *G*. 8) skip, var annat tvö rúm ok tuttugu, *H*; XXII (sessa), *B*, *F*; skip með öllum reiða, *G*. 9) síðan fór konúngr norðr í land, ok er hann, *F*.

ar, [var þar fyri[1] Skúli jarl með mörgum skipum ok stórum; hann hafði ætlat suðr til Danmerkr; en er þeir fundust, [sneri jarl[2] norðr með konúngi til Björgynjar. Þeir voru báðir í konúngsgarði, ok höfðu mikit fjölmenni, var þá blíðligt með þeim, ok gekk[3] sinn dag hvárr [til annars[4], [at skemta sèr[5]; þá voru drykkjur miklar í bænum. Lendir menn höfðu stórar sveitir. Páll vâgaskálm átti son, er Ívarr grettir hèt[6]; hann drap einn fornan Birkibein um kveldit eptir aptansaung, ok fann þat til saka, at son hans hafði verit at vígi Árna herjardals; þessi hèt Eiríkr baggi, en hitt varð vígit norðr í Vâgum[7]. En er hirðin varð vör við vígit Eiríks, herklæddust allir handgengnir menn. Þessi tíðindi komu til þeirra feðganna Páls ok Nicholáss; lètu þeir illa yfir verkinu, er sá varð fyrir, er saklaus var, ok fóru þeir í Nicholáskirkju stöpul, ok bjöggust þar um. Hirðin gekk at kirkjunni ok vildi brjóta upp; þá var sagt konúnginum; Skúli jarl var þá í boði hans, ok gengu þeir þegar til Nicholáskirkju; þá hafði hirðin tekit Ívar nef, [frænda Páls[8], ok ætluðu at drepa hann[9]. Konúngr tók þegar Ívar á sitt vald, ok bað hirðina eigi gánga at kirkjunni. En um morgininn hafði konúngr hirðstefnu, ok sagði at hann vildi eigi, at Nicholás gyldi þessa verks,

1) kom í mót honum, *F, H.* 2) rèðst þat af, at jarl sneri, *F.* 3) drakk, *F.* 4) með öðrum, *F.* 5) til skemtunar, *F, G.* 6) honum varð eigi betra verk fyrir, en (at), *b. F.* 7) sem fyrr var ritat, *b. F, H.* 8) hann var frændi Nikolásar Pálssonar, *F.* 9) ok horfði þar til mikilla vandræða, áðr konúngr kom til, *b. F.*

þar sem hann var hvârtki vitandi nè valdandi þessa verks; gekk þá Nicholás or kirkju á konúngs vald. En Ívari bróður hans lèt hann skjóta yfir til múnklífis, ok var hann þar til þess er hann fór or landi. Mart hark varð þar annat um sumarit fyrir ofdrykkju sakir, en allir lutir fóru blíðliga[1] með konúngi ok jarli.

*Hèr er Ólafr Hákonarson fæddr*[2].

158. Skúli jarl bað konúnginn at hann gæfi honum orlof at hann færi til Danmerkr á fund Valdimars konúngs, ok vildi ríða or þrándheimi austr í Vík[3]. Konúngr lagði þar leyfi[4] til; bjóst þá jarl norðr í land. Herra Knútr var í góðu yfirlæti af konúnginum, [bað hann[5] júngfrú Ingiríðar, dóttur jarls[6], ok með ráði konúngs festi Knútr sèr hana, ok rèðst hann til ferðar með jarli, ok gerði brúðlaup sitt, áðr þeir konúngr ok jarl skildu. þá var fæddr Ólafr, son Hákonar konúngs. Fór jarl norðr til þrándheims, ok skildu þeir konúngr með blíðskap[7].

*Síra þórir kjörinn til erkibiskups*[8].

159. Pètr erkibiskup hafði andazt annat haust áðr, Díónisíusmessu, ok var kosinn[9] í stað hans síra þórir[10] þrænzki, ok út farinn. Á þessu ári andaðist Honoríus páfi, en Gregoríus páfi kom í stað hans. Hákon konúngr sat þann vetr í Björgyn, ok var þessi inn ellifti vetr konúng-

1) likliga, *H.* 2) *b. H.* Frá konúngi ok Skúla, *G.* 3) um vârit, *b. B, F.* 4) lof, *G.* 5) *frá* [ hann lèt flytja bónorð sitt Skúla jarli, ok bað, *F.* 6) hans, *F.* 7) miklum kærleikum, *F, H.* 8) *b. H.* Andlát Pètrs erkibiskups, *G.* 9) keyrinn, *G.* 10) inn, *b. F, G.*

dóms hans. Um vârit í föstu bjó hann ferð sína austr í Vík, ok kom til Túnsbergs eptir páskir, ok fór þaðan inn til Oslóar; ok er hann kom þar, var þar fyri Skúli jarl ok herra Knútr[1], ok margir aðrir [góðir drengir, þeir sem norðan fóru með jarli[2].

*Dráp Ólafs-hvíta*[3].

160. Þá er þeir konúngr ok jarl höfðu fár nætr vœrit í bœnum, kom Þórir erkibiskup þar frá Rómi[4] sunnan nývígðr. Konúngr sendi menn á móti honum út til Höfuðeyjar, ok fór erkibiskup í konúngs garð. En með því at konúngr hafði nóg faung flutt[5] norðan með sèr á skipum, en jarl hafði lítinn kost, þá var jarlinn með konúngi optast á kveldum. Konúngr var í garði þeim, er hèt Digri skytníngr, en jarl var í Skarthœlinum. Sá atburðr gerðist, at sá maðr er [Hrói Hallkelsson[6] hèt, sveitúngr jarls, drap eitt kveld handgènginn mann konúngs, þann er Ólafr hvíti hèt; eptir þat ljóp Hrói í þann garð, er konúngr var í ok jarl, ok gaf[7] sik í vald konúngs, ok sagði hvat hann hafði gert. Konúngr svarar svâ: með því at þú komt á vârt vald, þá mantu ná griðum af oss[8]. Litlu síðarr kvað við hirðmanna[9] lúðr, ok ljópu saman [handgengnir menn[10],

¹) Gregorius Jónsson, Ásólfr jarlsfrændi, *b. hin.* ²) vinir Skúla jarls, *G.* ³) *b. H;* Frá Þóri erkibiskupi ok konúngi, *G.* ⁴) Róma, *hin.* ⁵) *þannig hin*; fluttan, *A.* ⁶) Rói Áskelsson, *F.* ⁷) kallar at durum; konúngr bað upp láta, ok er Rói kom inn gaf hann, *F.* ⁸) en þess er eigi vân, at þeir gjaldi þessa verks er einkis eru af valdir, (en þèir munu gjalda, *o. s. fr.*, *G, H.*) *b. B.* ⁹) konúngs, *F, H.* ¹⁰) lendir menn (konúngs) ok handgengnir, *B, F, H.*

þeir sem í voru bænum, at garði þeim er [jarls menn voru[1] í, ok þessir[2] lendir menn[3]: Árnbjörn Jónsson, Symon kyr, Loðinn Gunnason, Gunnbjörn bóndi. Þá er konúngr ok jarl spurðu þetta, bað hann konúnginn leggja til nokkut[4], at betr færi en til var stefnt[5]; konúngr stóð upp þegar, ok bað jarl bíða sín[6]; ok er hann kom til garðhliðsins, var svâ mikil þraung af vâpnuðu fólki, at hann komst þar ekki fram. Þá fór hann upp [yfir herðar[7] mönnum, ok komst svâ til jarls manna, ok af hans tilkvâmu lægðist harkit, ok stefndi konúngr öllum mönnum til tals við sik í Hallvarðs kirkjugarð[8]. Síðan gekk konúngr or garðinum, ok fylgði honum allt liðit norðr til Pala[9], þvíat allir Birkibeinar vildu gánga at jarls mönnum[10]. Eptir þetta kom konúngr á griðum, ok skyldi standa um nóttina til rannsaks. [Um morgininn leiddi konúngr Hróa í[11] Hall-

---

1) sveit jarls var, *F, H.* 2) voru, *b. F.* 3) fyri, *b. F.* 4) nokkurt ráð, *F, G, H.* 5) stofnat, *F, H.* 6) til þess hann kæmi aptr, *b. F.* 7) á höfuð, *F, H, G*; sinum, *b. G.* 8) en maðr sá er Sigurðr hèt (er var með jarli, *b. G*) varð til þess at mæla þeim orðum (til konúngs, *v. F*): þá hefðim vèr nokkut fyrir ónáðir þessar (hark þetta, *G*) er oss eru gervar (gert er, *G*) at vèr drepim (dræpim, *G*) fyrst konúnginn, ok mundi oss ekki mikit fyrir verða. Fèlagar hans (jarlsmenn, *B*) bönnuðu honum þat ok sögðu: aumr ertu máls, (vesæll maðr, *F, H*) er þú vildir at vèr níðumst (niddimst, *G*) á konúnginum, þar sem (fyrir þat, *F*) hann kom til hjálpar við oss, *b. hin.* 9) fjalla ok fèkk seint stöðvat, *b. F.* 10) en erkibiskup sendi eptir þetta menn til konúngs, ok bað hann sjá svâ fyrir, at eigi stæði vandræði af þessu máli; konúngr kvað svâ vera skyldi, *b. F.* 11) gèkk konúngr þá heim, ok tók í hönd Hróa ok leiddi hann upp til, *F.*

varðs kirkju, ok bað hann sjálfan gæta sín, ok konúngr gekk til jarls[1], ok skemtu þeir sèr[2].

*Líflát Gregoríus Jónssonar*[3].

161. [Síðan fór Skúli jarl til móts við Danakonúng[4], ok með honum herra Knútr, Gregoríus Jónsson, Ásólfr frændi jarls. þeir fundu Danakonúng í Kaupmannahöfn, ok tók hann vel við jarli. þeir töluðu marga hluti leyniliga[5]; dvaldist hann um hríð með Danakonúngi í góðu yfirlæti; en er þeir skildust, gaf konúngr honum [margar góðar[6] gjafir, ok veitti[7] honum[8] hálft[9] Halland. Fór jarl norðr í Noreg, ok er hann kom til Túnsbergs, var konúngr norðr farinn [til Björgynjar[10]. Herra Knútr ok Gregoríus[11] fýstust norðr til konúngs, ok fengu orlof. Síðan stigu þeir báðir á eitt skip, ok er þeir komu [fyri Hvarfsnesenda[12], sigldu þeir í boða, ok týndist þar Gregoríus ok nokkurir menn með honum. Hann var[13] göfgastr lendra manna ok kominn af hinum beztum mönnum[14] í Nor-

---

[1]) *frá fyrra* [ gekk konúngr þá aptr í garðinn, ok var jarl þar fyri; sátu þeir um hríð, *G.* [2]) ok er konúngr gekk (*H*) tók hann í hönd Hróa, *o. s. fr. eins ok fyrr*, *B*, *G*, 4 *brot* (*sem byrjar hèr*). [3]) *b. H*; Frá Skúla jarli ok Danakonúngi, *G.* [4]) Skúli jarl var því norðan kominn, at hann ætlaði til fundar við Danakonúng á skipi (skipum) kaupmanna, þvíat hann hafði þar engi skip. Þá lèði konúngr honum skip sín ok gaf honum leiðángr or XII skipreiðum, fór jarl (leið sina þá til Danmerkr), *B*, *G*, *H*, *F*, 4 *brot.* [5]) þá ekki voru í annara manna vitund, *F*, 4 *brot*; við sèr, *b. H.* [6]) stórar, *F*, *G*, 4 *brot*; virðugligar, *H.* [7]) fèkk, *F*, 4 *brot.* [8]) at láni, *b. F*, *G*, *H*, 4 *br.* [9]) *v.* 4 *br.* [10]) *v. F.* [11]) Jónsson, *b. F*, 4 *br.* [12]) norðr til Hvarfsness, 4 *br.* [13]) þótti þá, *F*, *G*, *H.* [14]) ættum, *F*, *G*, *H*, 4 *br.*

egi, ok var[1] nú mjök endir á þeirri lendra manna ætt á Sunnmæri, er göfgust hafði verit, ok Blindheims[2] menn voru kallaðir. Herra Knútr komst undan[3] nauðuliga, ok týndi þar mörgum ágætisgripum; [fóru þeir[4] síðan norðr til Björgynjar, tók konúngr við þeim[5] sæmiliga. Skúli jarl dvaldist um haustið í Víkinni; hann fór er á leið norðr til Þrándheims, ok dvaldist þar um vetrinn.

*Frá sendimönnum Jóns jarls[6].*

162. Þetta sumar komu vestan um haf sendimenn Jóns jarls af Orkneyjum með mörgum góðum fórnum, er jarl sendi Hákoni konúngi. En um haustit sendi konúngr jarli lángskip gott ok margar gjafir aðrar. Hákon konúngr sat þenna vetr í Björgyn; [þessi var[7] hinn XII vetr konúngdóms hans. Þá var friðr góðr í landinu ok gott samþykki milli konúngs ok jarls. Um vetrinn sendi Þórir érkibiskup orð öllum biskupum í Noregi, at þeir skyldi koma til hans norðr um sumarit. Þetta sumar spurðist mikill úfriðr vestan um haf af Suðreyjum.

*Frá Aleinn jarli[8].*

163. Aleinn[9] hèt jarl einn í Skotlandi, son Rollands jarls af Galvei[10]; hann var hinn mesti hermaðr þann tíma; hann hafði mikinn her ok fjölda skipa; hann herjaði um Suðreyjar ok Írland, ok gerði mikinn hernað víða um Vestrlönd.

---

[1]) varð, *F*, *G*; þar, *b*. *H*; mjök, *G*. [2]) Blundheims, *G*, 4 *brot*. [3]) af, *F*, 4 *br*. [4]) fluttist Knútr, *F*, *G*, 4 *brot*. [5]) honum, *F*, *G*, 4 *br*. [6]) *b*. *H*, *G*. [7]) var sjá, *F*, 4 *br*. [8]) *b*. *H*. Frá Skotum, *G*. 4 *br* [9]) Alein, *H*; Alinn, *G*, 4 *br*. [10]) Galnei, *H*; Galvæi, *G*.

þá var Ólafr Guðrauðarron konúngr í Maun[1], ok hèlt hann drengiliga því ríki [fyri jarli ok miklum trúleika við Hákon[2] konúng. En Suðreyja konúngar, þeir sem af Sumarliða[3] ætt vóru komnir, voru mjök ótryggvir Hákoni konúngi. Þeir voru konúngar í Suðreyjum Duggall[4] skrækr[5] ok Dungaðr bróðir hans, faðir Jóns, er síðan var konúngr; þeir voru synir Duggalls[6] Sumarliðasonar. Óspakr hèt maðr; hann hafði lengi verit með Birkibeinum, þat kom upp at hann var son Duggalls ok bróðir þeirra. Sumarliði hèt einn bróðir[7] þeirra, er þá var enn konúngr í Suðreyjum.

## *Frá Andresi skjaldarband*[8].

164. Hákon konúngr fór um haustit[9] austr til Víkr[10] til Oslóar. Andres skjaldarband, frændi konúngs[11], bjó þann vetr ferð sína or landi til Jórsala; hann reið um vetrinn suðr á Halland, ok þaðan í Sjóland, ok svâ til Hvítsands[12] ok þaðan pálmara veg út til hafs, ok gekk þar á einn drómund, ok hefir til hans aldri spurzt síðan, ok ritaði Hákon konúngr til Friðreks keisara ok annarra vina sinna út í lönd, at þeir skyldi frèttum til halda, [en þat (er) þó ekki

1) Mon, *F.* 2) *frá* [ undir Noregs, *G.* 3) Sumarleða, *F.* 4) Dúgall, *B.* 5) skrögr, *B*; skorkr, *H*; skruggr, 4 *br.* 6) Dúngals, *G*, *H.* 7) frændi, (*líklega rèttara*) *B*, *F*, *G*, *H*, 4 *br.* 8) *b. H.* Andres fór til Jorsala, *G*; Andres andaðist, *B.* 9) or Björgyn, *b. F*, *B.* 10) ok dvaldist um hríð í Túnsbergi, ok fór þaðan inn, *b. B*, *F*, *H*, 4 *br.* 11) var þar, ok, *b. B*, *F*, 4 *br.* 12) Hnitzsands, *B*, *H.*

orðit[1]. Íngibjörg, kona hans, var eptir ok Pètr [son þeirra[2], ok er Andres [var brottu[3], kom þat upp af Íngibjörgu, at Skúli jarl væri faðir Pètrs, ok gekk jarl við frændsemi hans, ok tók Pètr til sín, ok lagði mikla ást á hann.

*Úspaki gefit konúngs nafn*[4].

165. Þenna vetr sat Hákon konúngr í Oslu, ok var þessi hinn XIII vetr konúngdóms hans. Um vetrinn[5] er á leið hafði konúngr þíng í bænum; á því þíngi gaf hann Óspaki konúngsnafn[6]; hann var kallaðr Óspakr suðreyski[7]. Konúngrinn gerði þá bert, at hann mundi fá honum lið um sumarit vestr or haf. Þann dag er þíngit var, kom[8] austan or Svíaríki Magnús broki[9], son Knúts jarls Birgissonar brosu, frændi Hákonar konúngs. Hann átti Sigríði, dóttur Knúts Svíakonúngs. Knútr hèt ok son þeirra. Hákon konúngr tók sæmiliga við Magnúsi, ok dvaldist hann um hríð með konúngi, ok skildu með miklum kærleikum. Um vârit andaðist Þórir erkibiskup í Þrándheimi páskadaginn, en í [staðinn var kjörinn[10] Sigurðr síni[11], ok fór hann þat sumar or landi.

*Konúngr bjó lið vestr um haf*[12].

166. Hákon konúngr fór um vârit norðr til

---

1) hvat af Andresi hefði orðit, ok hefir aldrei síðan til hans frèttst, *B*, *F*, 4 *br.* 2) er kallaðr var son þeirra Andresar, *B*, *G*, *H*, 4 *br.* 3) látinn, *F;* allr, *H; frá* [ kom eigi aptr, *B.* 4) *b. G.* 5) eptir, *b. F.* 6) en, *b. F*; ok, 4 *br.* 7) þarmeð gaf hann honum Hákonar nafn, *b. B*, *F*, *G*, 4 *br.* 8) til bæjarins, *b. F.* 9) brokki, *B*, *G*, *H*, 4 *br.* 10) kosinn, *H*, 4 *br*; *frá* [ stað hans kom, *F.* 11) eðr sim; son Eindriða peina, *F*, *G*, *H*; penna, *B*, 4 *br.* 12) *b. G*; Frá Óspaki konúngi, *H*; Konúngr fór or Björgyn, *F;* Bardagi, *B.*

Björgynjar[1], lèt hann þar búa her þann, er fylgja skyldi Óspaki konúngi[2] vestr um haf. Til þessarar ferðar fèkk Skúli jarl sumt liðit [ok þessa skipstjórnarmenn[3]: Sigurð sepil[4], Sigurð smið, Pál Bálkason; en af konúngs hendi var[5] Þormóðr Þíngskaun[6], Serkr Sygnakjúka[7], Ölver Illteitt[8], Sveinúngr svarti, Páll gás; þeir höfðu XI[9] skip af Noregi. En er þeir voru búnir, kom vestan[10] Ólafr svarti, Manarkonúngr, ok sagði mikinn ófrið af eyjunum; hann kvaðst ok af því stokkit hafa[11] or Mön, at Aleinn jarl hafði dregit saman mikinn her, ok ætlaði á hendr Noregs[12] mönnum. Hann hermdi mörg stóryrði jarls[13] til Noregs manna[14]. Ólafr konúngr var IIII nætr í bænum, áðr hann fór vestr aptr[15]. Ok er þeir fóru af Orkneyjum, höfðu þeir XX skip. En er þetta spurðu þeir [Páll bálki, son únga konúngs[16] ok Óttarr snækollr, fóru þeir [[17]suðr í Skíð, ok fundu í Vestfirði[18] Þorkel Þor-

---

1) en er hann kom þar, *b. F, H.* 2) *v. B, 4 br.* 3) *frá* [ voru þessir skipstjórnarmenn (formenn, *G*) af hans hendi, *F, G, H, 4 br.* 4) sætil, *B*; sæpil, *F, H.* 5) Óspakr konúngr ok, *b. F, G, H.* 6) Þíngskömm, *F*; Þíngskorinn, *B, H.* 7) svignakjúka, *H, 4 br.*; syknakjúka, *G.* 8) ýllteitt, *F.* 9) XII, *G.* 10) af Suðreyjum, *b. F.* 11) *b. G, 4 br.* 12) Manar, *B.* 13) eptir þeim vestan, *G.* 14) hann sagði at (jarl) kallaði eigi torsóttara hafit til Noregs, en af Noregi til Skotlands, ok þar eigi verra til hafna, þeim er herja vildi; en þetta var mælt, eigi gert, *b. F, H, 4 br.* 15) Ólafr fór á skip með Páli Bálkasyni til Orkneyja, en þá fèkk Jón jarl honum skip er uxinn hèt, *b. B, F, G, H, 4 br.* 16) *frá* [ Bálki úngi, *B, G, H, F*; son Páls, *b. B, G, H.* 17) fyri, *b. G.* 18) með liði sínu í Vestrfirði, (Vestrafirði), *F, B.*

muðarson, ok börðust við hann; þar fèll þorkell ok synir hans tveir, en þormuðr[1], son hans, komst undan, svâ at hann ljóp í [ker eitt, er flaut við skipit[2], ok rak þat með hann at Skotlandi fyrir norðan Hattarskot[3]. Eptir þetta fóru þeir[4] Bálki til móts við þá Óspak konúng.

*Frá Norðmönnum ok Suðreyíngum*[5].

167. Síðan komu þeir saman öllum herinum[6] í Ílarsund[7]; þar voru þá tveir bræðr Óspaks konúngs, Duggall ok Dunggaðr, ok sá hinn þriði höfðíngi, frændi þeirra, er Sumarliði hèt, ok höfðu þeir mikit lið[8]. þeir buðu Norðmönnum til veizlu, ok höfðu vín styrkt[9], en Norðmönnum var sagt; at eigi mundi allt vera svikalaust[10]. Dungaðr[11] svaf á skipi Óspaks bróður síns. [Litlu síðar[12] veittu þeir[13] Suðreyíngum atgaungu, ok drápu Sumarliða ok mart manna með honum. þeir tóku Duggal, ok [settu í[14] fjötra, fátt fèll af Norðmönnum. Ekki var Óspakr[15] við þetta, en er hann varð varr við, skaut hann braut Dungaði, bróður sínum, en [tók Duggal, bróður sinn[16] í sína gæzlu. þeir sömnuðu liði ok skipum of eyjarnar, ok fengu alls LXXX skipa, ok sigldu fyri Satírismúla suðr, ok svâ inn til Bótar; þar

---

1) Þormóðr, *hin.* 2) skip eitt, *F, G*; *frá* [ sker eitt, en þar flaut við skip eitt, *B.* 3) Hatarskot, *F;* Hakarskot, *B.* 4) Óttarr ok, *b. B, F. G, 4 br.* 5) *b. H, 4 br.;* Dráp Sumarliða, *G.* 6) suðr, *b. F, G.* 7) Ílarsundum, *H*; Írlandssund, *G.* 8) ok fritt, *b. G.* 9) sterkt, *4 br.* 10) ok því vildu þeir eigi fara til veizlunar, drógu þá hvârirtveggi lið saman, því at hvorugir trúðu öðrum, *b. B, F, H.* 11) *hèr endar 4 brot.* 12) um myrgininn, *G.* 13) Norðmenn, *B, F, G.* 14) lètu, *F.* 15) konúngr, *b. G.* 16) Duggáll bróður hans tók hann, *B.*

sátu Skotar í kastala[1], var þar stívarðr einn fyrir af Skotum. Norðmenn lögðu til kastalans[2], ok veittu harða atgaungu, en Skotar vörðust vel, ok helltu á þá biki vellanda ok blýi; þar fèll [mart af Norðmönnum, ok mart varð sárt. Norðmenn bundu yfir sik flaka[3] af viði, ok hjöggu [í síðan[4] múrinn, þvíat steinninn var blautr ok hrapaði veggrinn eptir þeim[5]. Sá kertisveinn[6], er Skagi skitraðr[7] hèt, hann skaut stívarðinn til bana í því er hann hljóp á borgarvegginn. Þrjá daga börðust þeir við borgarmenn, [at þeir ynni[8] borgina; þeir tóku þar mikit fè ok riddara einn skotskan, er sik leysti út fyrir CCC marka[9] brendra. Þar fèll af Norðmönnum Sveinúngr svarti, ok nær[10] CCC manna, allt saman ok Suðreyíngar. Þeir fengu mikinn storm, ok týndu þar III[11] skipum með mönnum ok öllu því er á var. Þeir spurðu þá at Aleinn jarl var austr[12] á Nesjum, ok hafði dregit saman [hálft annat hundrat[13] skipa, ok ætlaði at þeim. Þeir sigldu þá norðr undir Satíri, ok lágu þar um hríð, ok gerðu margar upprásir. Þar fèkk Óspakr konúngr sótt, ok lá litla stund áðr hann andaðist, ok var hann mjök harmdauði af sínum mönnum[14]. Eptir þetta var[15] Ólafr konúngr höfðíngi yfir öllum herinum. Síðan sigldu þeir yfir undir

[1]) borg einni, *H.* [2]) borgarinnar, *B, F.* [3]) fleka, *F.* [4]) við öxum, *G.* [5]) þeir hjöggu or (upp, *B*) við jörðina, *b. B, F.* [6]) *v. F.* [7]) skitrað, *F.* [8]) áðr þeir fengi unnit, *B, F, G.* [9]) *b. hin.* [10]) nokkr, *F*; *v. H.* [11]) IIII, *H.* [12]) suðr, *B, F, G, H.* [13]) nær tvö hundrut, *G, H.* [14]) þeir fluttu lik hans (til kirkju ok) graftar, *b. B, F.* [15]) gjörðist, *F.*

Kaupmannaeyjar, ok lágu þar lengi vetrar. Þeir fóru síðan[1] til Manar, ok var þar samnaðr fyri þeim; sá maðr var fyri liði því, er Þorkell Njálsson hèt. Manverjar[2] vildu eigi berjast móti Ólafi konúngi, ok rufu samnaðinn fyri Þorkeli, ok tóku Norðmenn hann höndum ok höfðu með sèr um hríð í fjötrum[3]. Sigurðr sepill ok Sigurðr smiðr hleyptu Þorkeli í brott, ok líkaði [þeirra mönnum sumum þat illa[4]. Ok er vâra tók, fóru Norðmenn í brott or Mön, en Ólafr konúngr var eptir; þeir sigldu norðr undir Satíri, ok gengu þar á land, en Skotar komu á móti þeim, ok börðust við þá, ok voru mjök lausir við bardagann, hljópu til ok frá; þar fèllu margir menn af hvârumtveggjum. En er Norðmenn komu til skipa sinna, höfðu Skotar drepit alla sveina þeirra, þá er á landi voru at búa vistir[5]. Norðmenn veittu margar upprásir á Satíri, ok fóru þaðan norðr í eyjar, ok er þeir komu í Ljóðhús, var þar fyri Þormuðr[6] Þorkelsson; þeir eltu hann or eyjunum, ok drápu af honum nokkura menn, ok tóku [öll föng hans[7], ok hertóku konu hans, sigldu svâ norðr til Orkneyja; en Páll Bálkason var eptir í Suðreyjum, ok fèll hann nokkurum[8] vikum[9] síðarr fyri Guðrauði svarta, syni Rögnvalds konúngs[10]. Flestir Norðmenn sigldu þegar austr til Noregs, ok höfðu í

1) suðr, *F*, *G*. 2) Manarmenn, *B*. 3) þeir lögðu gjöld á Manverja, þrjá peninga enska af hverri kú, ok fæða allan herinn um vetrinn, *b*. *B*. 4) liðsmönnum þat allilla, *G*, *H*. 5) ok tekit alla matkatla þeirra á brott, *b*. *B*, *F*, *H*. 6) Þormóðr, *hin*. 7) mikit fè er hann átti, *F*, *H*. 8) fám, *B*, *F*, *G*. 9) dögum, *B*. 10) jarls, *B*.

þeirri ferð [unnit mikla sæmð Hákoni konúngi[1] fyri vestan hafit; þakkaði konúngr þeim vel sína ferð[2].

*Heimkoma Sigurðar erkibiskups*[3].

168. Hákon konúngr hafði þenna vetr setið í Björgyn, ok var þessi hinn XIIII vetr konúngdóms hans. Þetta sama haust kom Sigurðr erkibiskup heim frá vígslu, ok fór norðr til stóls síns. Í Orkneyjum dvaldist eptir[4] Ölvir illteitt af Norðmönnum; hann var hirðmaðr Hákonar konúngs ok újafnaðarmaðr mikill. Hann fór til Hánefs únga, er þá hafði sýslu þar í eyjunum af konúngs hendi; hann[5] var skutilsveinn Hákonar konúngs. Þeir voru III bræðr Hánefr úngi ok Kolbeinn ok Andres; Hánefr hafði mikla sveit manna, [ok var heldr údæll[6].

*Frá Snækolli*[7].

169. Maðr hèt Snækollr Gunnason þar í eyjunum, móðir hans var Ragnhildr, dótt'r Eyríks stagbrells[8] ok Íngigerðar dóttur Rögnvalds jarls hins helga. Snækollr kallaði á bú nokkur þar í eyjunum, þau er þeir frændr höfðu átt, er[9] af Rögnvalds ætt voru komnir, en[10] jarl hafði at halda. Hann hafði undandrátt í at láta laus búin, en Snækollr kærði þat jafnan fyri honum; tók jarl þá at svara styggliga, ok spurði hvart hann vildi gera eptir Haraldi móðurbróður sín-

---

[1]) helzt verit unnar konúngsins sæmdir, *F*, *H*. [2]) ok lýkr þar Suðreyinga þætti, *b. B.* [3]) *b. H*; Sigurðr kom til Niðaróss, *B.* [4]) sá skipstjórnarmaðr, *b. B.* [5]) Hánefr, *F.* [6]) *v. F.* [7]) *b. G.* [8]) stakbrells, *H.* [9]) *b. hin.* [10]) Jón, *b. F.*

um, at kalla til Orkneyja í hendr honum: en at vísu ætla ek at verja þèr ríki mitt[1]. Snækollr svarar: vân er mèr þess at lítils unnir þú mèr af Orkneyjum, ef þú vill eigi unna (mèr) þess[2], er ek á at rèttum erfðum. Jón jarl lagði þá mikla fæð á við Snækoll. Tók hann svâ upp, at honum væri eigi[3] óhætt fyri jarli, fór hann þá til[4] Hánefs, ok rèðst í sveit með þeim ok fèlagsskap.

*Frá Hánefi*[5].

170. Þeir fóru yfir á Katanes um haustið, hvârirtveggju í Þórsá, ok höfðu sín herbergi hvârir, jarl ok þeir Hánefr, en hvârirtveggju höfðu mikla sveit, en jafnan skildi sveitúnga þeirra á, er þeir fundust drukknir á kveldum. Þat var eitt kveld at þeir Hánefr sátu ok drukku, ok voru mjök kátir, þá ljóp inn maðr einn fyri Hánef, ok mælti: hugsa svâ ráð þitt, Hánefr, ok þèr fèlagar, at jarl ætlar at veita yðr atgöngu í nótt, ok láta nú skipta um með yðr, því at hann trúir ekki[6], ef þèr [búit lengi[7] saman[8].

*Dráp Jóns jarls*[9].

171. Ok er Hánefr heyrði þetta, sagði hann Kolbeini, bróður sínum, ok Snækolli, taka nú þetta fyri sannleik ok [vilja eigi verða seinni[10] at bragði, biðja nú sveitúnga vâpna sik, en ofdrykkjan bjó svâ um at þeim sýndist þetta öllum

[1]) svâ sem faðir minn gerði við móðurbróður þinn, *b. B, F.* [2]) eigna þeirra, *F.* [3]) vært eðr, *b. B.* [4]) þeirra, *b. B.* [5]) *b. F*; Um róg við Jón jarl, *G.* [6]) yðr ekki vel, *B.* [7]) lengr, *B, F, H.* [8]) *frá* [ erut svâ nær, sem nú hefir verit um hríð, *G.* [9]) *b. G.* [10]) gera (taka) ráð sín, at þeir skulu verða fyrr, *F, B.*

gott ráð. En er þeir voru vâpnaðir, gengu þeir at herbergjum þeim, er jarl svaf í[1], ok báru þegar vâpn á þá, er fyri voru; en er jarl varð varr við úfriðinn leitaði hann undan í undirklefa[2] einn, ok ætlaði at fela sik þar, en þeir fengu njósn af, hvar hann var; hljópu þeir þegar í klefann, Snækollr ok Sumarliði Hrólfsson, Ölvir illteitt, Þorkell[3] ok Hrafn, ok enn fleiri sveitúngar; Snækollr fann jarl við tunnu eina, ok veittu þeir honum þegar banasár[4]. Þar lètust ok nokkurir menn af þeim Hánefi; jarl hafði IX sár. Eptir þetta verk fóru þeir Hánefr heim af Katanesi[5]; þeir fóru í Vigr, ok settust í kastalann, er Kolbeinn hrúga[6] hafði gera látit; þeir drógu at sèr nóg föng [í kastalann[7]. En er þetta spurðu vinir jarls[8], sömnuðu þeir miklu liði[9], ok fóru út í Vigr ok settust um kastalann, en þar var óhægt sókn við at koma. Þá sömnuðust ok saman frændr Hánefs, Kolbeinn í Reinadali[10] ok margir aðrir, ok leituðu um sættir með þeim. Svá kom at þeim voru grið gefin[11], skyldu þeir vera um vetrinn í Orkneyjum, en fara um sumarit á fund Hákonar konúngs til Noregs, ok skyldi hann skipa um öll þessi mál[12]; raufst þá samnaðrinn, ok stóð vandræðalaust um vetrinn. Um sumarit eptir fóru þeir til Noregs, Hánefr

1) með úfriði ok eldi, *b. B, F, G*; þeir báru þegar at eld, *H.* 2) *þannig hin;* undirklifa, *A.* 3) Bækill, *B.* 4) þar fèllu nokkurir jarlsmenn, *b. G.* 5) ok út í Orkneyjar, *b. B.* 6) kúga, *H, B.* 7) *frá* [ ok fjölda nauta, ok varðveittu í útkastalanum, *F, B.* 8) í Orkneyjum, *b. F.* 9) miklu, *b. B.* 10) Rennadali, *B.* 11) seld, *B.* 12) sem honum likaði, *b. F.*

ok hans fèlagar; á öðru skipi voru frændr jarls ok vinir[1].

*Frá Orkneyíngum*[2].

172. Þenna vetr sat konúngr í Björgyn, ok var þessi hinn XV vetr konúngdóms hans; [þeir Hánefr fóru í garð Aura-Páls. Litlu síðarr kom Skúli jarl [norðan[3]; var þá blásit[4] til hirðstefnu öllum handgengnum mönnum, ok er þeir Hánefr ok fèlagar hans komu á stefnuna, tóku skutilsveinar þá bræðr Hánef ok Kolbein [ok Snækoll[5] ok sonu Rólfs kettlíngs Sumarliða ok Andres, ok leiddu upp til borgar, ok voru þeir þar inn settir; en Ölver íllteitt ok þeir aðrir, sem at vígi jarls höfðu verit, voru fluttir út í Toluhólm[6]. Björn hèt gestr, er at víginu var með þeim; hann var þá kominn gegnt Maríukirkju, er þar hóf upp messu, ok ætlaði at gánga á hirðstefnuna. Hann mælti: skyldra ætla ek mèr at gánga til messunnar en [á hirðstefnuna[7]; snýr hann inn í kirkjuna; ok fyrr en lokit var messunni, var honum sagt at þeir Ölver íllteitt voru drepnir[8], ok gaf honum þat líf, er hann fór í kirkju. Sigvaldi Skjálgsson, mágr[9] jarls, gekk

[1]) ok nær allir inir beztu menn í Orkneyjum, *b. B, F, G, H.* [2]) *b. B*; Um refsíng, *G.* [3]) *frá fyrra* [ en um vârit hafði hann farit austr í Vík at eyrendum sínum, var hann eigi austan kominn er Orkneyíngar (þeir Hánefr) voru vestan komnir (til Björgvinar), *H.* Þeir Orkneyíngar voru í garði Páls, *B, F.* [4]) *frá* [ or Þrándheimi (í Björgyn) hann átti fáti við þá Hánef. Nokkuru síðar kom konúngr austan, þar var ok herra Knútr, ok er hann hafði litla hríð dvalizt í bænum, lèt hann blása, *B, F, H, G.* [5]) *frá* [ *v. B.* [6]) Totahólm, *H*; Tauluhólm, *B.* [7]) at fylgja þeim, *H.* [8]) teknir, (*líklega rèttara*) *B, F.* [9]) Jóns, *b. H, G.*

fastast at eptirmáli um víg jarls; hann tók þorkel svarta[1], ok færði út eptir stræti, ok er þeir komu fyri garð þann, er Skúli jarl var í, stóð jarl [við glugga einn[2], ok kallaði á hann: Sigvaldi, lát eigi drepa þorkel, nema hann sè ofmjök sakaðr. Sigvaldi svarar: hann er því meirr sakaðr en aðrir at hann vann á jarli dauðum. Fór þorkell út til hólmsins með Ölvi, ok voru þar hálshöggnir V menn, Rafn [ok Ölver ok þorkell[3] ok II menn aðrir, þeir er at vígi Jóns jarls voru.

*Skiptapi*[4].

173. þetta sama haust fóru Orkneyíngar vestr[5], ok gengu[6] allir á eitt skip, hinir beztu menn or eyjunum; þetta skip týndist, ok allir menn þeir sem á voru, ok hafa margir menn þess seint bætr fengit[7]. Skúli jarl fór norðr til þrándheims um haustið, ok þeir Hánefr ok Kolbeinn með honum, ok Snækollr; var Hánefr ok þeir bræðr um vetrinn með Páli vâgaskálm norðr á Dynjarnesi. Um vârit fór Hánefr til konúngs, ok fèkk þá leyfi heim at fara; hann varð aptrreka í Hernar, ok þar tók hann sótt ok andaðist, en Kolbeinn, bróðir hans, andaðist í þrándheimi litlu síðarr. Snækollr var lengi síðan með Skúla jarli [ok Hákoni konúngi[8].

*Greinir milli Hákonar konúngs ok Skúla jarls*[9].

174. Um haustið er þeir höfðu skilizt í Björg-

[1]) inn í Svartabúðum, *b. B.* [2]) í svala glugg einum, *B*; í svölum einum, *H*; í lopti einu, *B.* [3]) *v. F, B.* [4]) *b. B*; Frá Orkneyingum, *G.* [5]) *þannig hin*; vestan (*rángt*) *A.* [6]) nær, *b. G.* [7]) beðit, *F, H, B.* [8]) *frá* [ *v. B.* [9]) *b. B.* Fæddr Hákon Hákonarson, *G, H.*

yn, konúngr ok jarl, þá var fæddr Marteinsmessunótt[1] Hákon son Hákonar konúngs, ok þann vetr eptir sat Hákon konúngr í Björgyn, ok var þessi hinn sextándi vetr konúngdóms hans. Þenna vetr komu upp margar greinir ok sundrþykki milli Hákonar konúngs ok Skúla jarls, [ok hófst mjök af orðum lendra manna[2]. Skúli jarl hafði þenna vetr skipagerðir miklar, ok mörg önnur þau tiltæki, er hans óvinir höfðu[3] gtun á ok virðu til útrúleika við konúng. Þá var öndut frú Íngiríðr, dóttir jarls, er átti herra Knútr, ok var þá öll þeirra vinátta. Herra Knútr hafði þá hálft Rýgjafylki ok Sogn hálfan, ok þótti honum þat lèn minna en [hann vildi[4]. Hann flutti þat fyri konúngi[5], at landaskipti þat væri eigi jafnligt, sem gert var í Björgyn, ok þat væri nærr helmíngi lands, en þriðjúngi er Skúli jarl hafði. Þenna vetr gerði Sigurðr erkibiskup orð öllum biskupum í Noregi, ok stefndi þeim til móts við sik í Björgyn um sumarit eptir.

*Orðsendíng Hákonar konúngs*[6].

175. Hákon konúngr fór um vârit austr til Víkr; hann sendi orð Skúla jarli at hann skyldi koma um sumarit suðr til Björgynjar[7]. En er konúngr kom til Víkr austr, stefndi hann til sín

[1]) Marteinsmessudag, *B.* [2]) var þat ætlun manna at þat væri af illum meðalgaungu(m) vândra manna, *G*; þeirra, er menn vissu at jafnan höfðu meir sundr dregit þeirra vináttu, en vera átti, *b. B, F, H.* [3]) drógu mikinn, *B, F, H.* [4]) hugr (hugir) hans stóð(u) til, *F, G, H.* [5]) ok lendir menn með honum, *b. B, F.* [6]) *b. H,* Frá Hákoni konúngi, *G.* [7]) ok skyldi þá tala um greinir þær er í milli þeirra væri, *b. F, H, B.*

öllum lendum mönnum[1], með stórsveitum[2]; ok er hann kom aptr til Björgynjar, lagði hann[3] lángskipum[4] með endilöngum bryggjum allt í innanverðan bæinn.

*Frá Páli vâgaskálm[5].*

176. Skúli jarl var í þrándheimi um sumarit; um vârit lèt hann reisa mikit skip út á Eyrum, þat hèt Lângafrjádagr; þat var miklu meira en önnur skip, ok því varð lítið atgert of sumarit. Jarl bjóst suðr er á leið; hann varð síð búinn, ok hafði [hálfan þriðja tög[6] skipa, ok flest stór; [en er hann kom til Björgynjar, lágu skipin svâ þykkt at bryggjunum[7], at engi vân var í at

---

[1]) ok sýslumönnum þeim er í Víkinni voru, ok skyldaði þá til alla at (skyldu þeir) fara með honum til Björgynjar; þessir voru þá lendir menn með honum: Arnbjörn Jónsson, Símon kýr, Loðinn Gunnason, Gunnbjörn bóndi, ok er hann kom í Gulaþingslög, stefndi hann at sèr öllum lendum mönnum, *b. F, G, B.* [2]) konúngrinn hafði or Víkinni mikit lið ok frítt, *b. B.* [3]) sínu skipi fyri, *b, F.* [4]) síðan lögðu lángskip, *G.* [5]) *b. H.* Skúli jarl lèt gera Lángafrjádag, *G*; Sk. j. hèlt til Björgvinar, *B.* [6]) á þriðja tigi, *F, G, B.* [7]) þessir voru lendir menn með honum: Álfr mágr hans, Ásólfr frændi hans, Páll vâgaskálm, Nikolás son hans, Bárðr bratti, Eilífr af Velli, þar voru ok margir sýslumenn. Þá var mjök á liðit háustið er jarl kom suðr. Hann sendi suðr fyri sèr á fund konúngs Pál vâgaskálm. Ok er hann kom til Björgynjar, veittu lendir menn (sýslumenn) honum stórar átölur, ok sögðu þat undarligt, er hann var við jarli en móti konúngi ok aðrir lendir menn, þeir sem norðr voru komnir, ok báðu þá skilja við jarl ok fara til konúngs. En Páll kvaðst eigi hafa verit móti konúngi þótt hann færi norðan með jarli, þar sem konúngr sendi honum orð. En svâ ætla ek flestum lendum mönnum gefit þeim sem norðan eru komnir, at eigi munu skiljast frá Skúla jarli fyrir sakir ákefðar yðar (ákall þeirra eitt saman; *G*). Síðan fann Páll konúng ok fóru allar ræður vel með þeim;

að mætti leggja. Jarl skipaði svâ atlögunni til bæjarins, at hann lèt fyrst fara skip sitt, þar næst þau II er mest voru, þá III, þá IIII, ok fór svâ í vöxt æ meðan til vannst, ok var [fagrt at sjá mjök til þessarar skipanar[1]. Jarl lagði at við Norðnes út frá Múnklífi við Hákarlaströnd, ok höfðu þar vânt lægi, svâ at þar braut nokkur skip fyri þeim[2]; svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

Orð sendi þá jöfri þrænda-
afrendr konúngr víða lendum
fólkprúðr keyrði flota breiðan
flugu[3] borð[4] um [hafstilli[5] norðan;
fyrðar mæltu á hendr sem harðast
hófst önn af því lendum mönnum;
errinn bjó með herskip harri
Hákarlaströnd frömum jarli.

*Fundr konúngs ok jarls*[6].

177. Þá er jarl hafði verit litla stund[7], áttu þeir konúngr stefnu[8] í skrúðhúsinu hjá[9] Kristskirkju, ok gaf konúngr honum stórar átölur ok sakir margar. Síðan var þíng sett í Kristskirkjugarði, var þar stóll settr undir konúnginn, ok sátu umhverfis hann lendir menn hans ok ráðgjafar[10]. Sigurðr erkibiskup var á þínginu, ok

fór Páll í mót jarli ok sagði átekjur þær sem voru í bænum, ok at svâ lágu skip þikkt fyri bryggjum, *F, B, G.* Konúngr tók Páli vel ok bað hann fara austr móti jarli, ok svâ gerði hann, ok sagði honum átekjur manna í bænum, *H.*

1) var þessi skipan allglæsilig á at sjá, *G.* 2) jarli, áðr en lètti, *F.* 3) þá, *b. B.* 4) *þannig hin*; borg (*rángt*) *A.* 5) hafið, *B.* 6) *b. H*; í skrúðhúsi, *b. G*; Hák. k. veitti Skúla átölur, *B.* 7) í bænum, *b. hin.* 8) fund, *F.* 9) í, *hin.* 10) Gunnarr konúngs frændi stóð (sat, *G*; var, *H*) á baki konúngs við stólinn, *b. F.*

allir ljóðbiskupar innan lands, ok herra Knútr. Síðan kom Skúli jarl á þíngit með öllum sínum mönnum. Þeir sá at jarli var ekki rúm ætlat [á stóli þeim, er konúngr sat á[1]; [settu þá hans menn honum annan stól[2]. Síðan bar konúngr margar sakir á jarl[3], ok talaði snjallt eyrindi. [Eptir þat töluðu[4] lendir menn, ok bar hverr sakir á jarl eptir annan, ok veittu honum stórar átölur. Ok er þessu letti, stóð jarl upp ok mælti[5]: eina kann ek vísu:

Ari sat á steini[6],
[öll er sem ein sè,
ari sat á steini[7];

ok hina aðra:

Ari sat á steini;

hèr er ok svâ í dag, at sína leið hefr hverr sitt eyrindi, en allir lúka einn veg, at bera sakir á mik. Eptir þat talar hann lángt eyrendi ok snjallt, ok bar af sèr allar sakir, þær sem honum voru kendar[8], [kvaðst ok skyldr at þjóna til konúngs, ok vægjast við hann[9], en [kvaðst

1) *frá* [ hjá konúnginum, *G.* 2) ok gengu hans menn til at setja undir hann annann stól, ok settu undir hann, *F,* 3) sem hann hafði áðr tjáð, *b. G.* 4) þá stóð upp Dagfinnr bóndi ok talaði lángt erendi ok fagnaði konúngi sem siðvenja er til, ok lauk svâ sínu máli, at hann eggjaði friðar ok sætta með þeim mágum. Eptir þat stóð upp Hákon konúngr, ok talaði snjallt erindi ok bar á jarl þær sakir, er óvinir hans höfðu tjáð fyrir honum, ok er hann hafði lokit sinni ræðu, stóðu upp, *B, F, ok* 5 *br.* (*sem byrjar hèr*). 5) hóf á þessa leið ræðu sína, *F.* 6) hellu, *F.* 7) *frá* [ *v. F,* 8) gefnar, 5 *brot.* 9) *frá* [ hann veik svâ til í ræðunni, at hann væri skyldr at vægja til við konúng, *B, F,* 5 *brot.*

kunna[1] lendum mönnum fulla óþökk fyri sitt[2] róg ok[3] meðalgaungu[4]. [Síðan mælti[5] Gunnar konúngsfrændi: oss þikkir þú [því at eins veita skylda þjónustu konúngi, nema þú[6] leggir af þèr tignarklæðin[7] ok fallir til fóta konúnginum, ok gefir allt þitt mál í hans vald ok miskunn. Þá svarar jarl: þá kunna ek at þjóna höfðíngjum, er þú vant annat, Gunnar! Síðan stóð konúngr upp, ok bað þá alla með sèr gánga[8], er honum vildi þjóna; gekk hann þá af þínginu, ok allr múgrinn við honum, [en jarl fór[9] til skipa sinna, ok lið hans þat er norðan fór með honum. Eptir þat gekk erkibiskup í milli ok aðrir biskupar, ok fengu sætta þá, svâ at konúngi líkaði[10], ok seldi jarl þar festu til. Svâ kvað [Ólafr hvítaskáld[11]:

Þíng stofnuðu jöfrar úngir
jarl veitti svör ræsi snarla[12];
hersar báru á hilmi dýran,
hjaldrs fýstu þeir, sakar kaldar;
allt lagði þá frömuðr frægða,
fèkk [sætt af því[13] stillir rekka,
snildar styrs[14] ok seldi vara[15]

1) þess kvað hann visa vân (kvaðst hann hèr sannr, *G*) (ætla mega, 5 *br.*) at hann kunni, *F, B, G,* 5 *br.* 2) erindi, *b. B.* 3) vânda, *b. hin.* 4) milli konúngs ok hans, *b. F.* 5) ok er hann lauk sinni ræðu talaði, *F,* 5 *br.* 6) skyldugr til hlýðni við konúnginn, *F,* 5 *br.* 7) yfirklæðin, *B, F, G,* 5 *br.*; yfirklæðit, *H.* 8) inn í (til) kirkju, *b. B, F.* 9) inn í kirkjuna, *b. G;* en jarl stóð eptir, fór hann þá, *F.* 10) hugnaði, *G.* 11) Sturla í Hákonarflokki, *B.* 12) varla, *B, H.* 13) *b. G*; *frá* [ svör af því, *H.* 14) skirr, *B.* 15) varrar, *B;* vora, *H.*

sitt mál í knè lituðr[1] tála.
Fór þá enn blíðliga með þeim[2] at yfirsýn, ok hvârr var í annars boði, en aldri varð[3] síðan fullr trúnaðr [með þeim[4].

*Fædd Kristín konúngsdóttir*[5].

178. Skúli jarl fór norðr til þrándheims um haustið, en konúngr var í Björgyn fram um jól, ok var þessi hinn XVII vetr konúngdóms hans. þenna vetr var fædd frú Kristín, dóttir Hákonar konúngs, eptir jól. Í móti föstu fór Hákon konúngr norðr í Sogn, ok þaðan á land upp; en er hann kom á Upplönd, hófst sundrþykki með þeim Páli biskupi í Hamri; [veitti konúngr[6] ákall til eyjar þeirrar, er liggr í Mjörs, ok Eyin helga heitir; þessa hafði Íngi, er Baglar kölluðu konúng sinn, gefit til staðarins í Hamri, en Birkibeinar kölluðu hann fals-konúng, ok sögðu at hann hèt þorgils þúfuskítr, ok væri danskr. Nú þótti konúngi hann ekki hafa mátt gefa föðurleifð sína, en biskup synjaði þverliga at láta lausa eyna. Hákon konúngr fór til Túnsbergs, ok var þar um vârit. Páll biskup ritaði norðr til erkibiskups ok Skúla jarls, ok leitaði ráðs um þetta mál; ok af þeim orðsendíngum ræðst þat,

---

1) *þ. B;* liðtuðr (*rángt*) *A*; litaðr, *F, G, H.* 2) mágum. *b. F, H.* 3) þó þikkir mönnum sem aldri hafi verit, *H;* þat hafa þeir menn sagt, er vita þóttust hvârstveggja þeirra skaplyndi at aldri hafi verit, *B, F;* a. a. yrði síðan, 5 *br,* 4) milli þeirra, 5 *br.* 5) *b. B.* Hèr er fædd frú Kristín, *H*; Ákall konúngs á Eyna helgu, *G.* 6) var þat fyrst til at konúngr veitti, *F.*

[1]at Páll biskup bjó ferð sína or landi ok [út í páva garð[2].

*Andlát Íngu konúngsmóðir*[3].

179. Um vârit er Hákon konúngr sat í Túnsbergi lèt hann efla mjök steinmúrinn[4] um bergit, ok þar lèt hann [húsa konúngsgarð ok gera[5] skip mikit, þat hèt[6] Ólafssúðin. Konúngr fór[7] norðr til Björgynjar of sumarit. Þá kom Skúli jarl norðan, ok voru þeir báðir samt[8]. En þóat þeir væri með blíðu, þá gengu þó svâ [vândir menn[9] í milli þeirra, at [stundum hèlt við vandræði[10], sem síðan bar raun á. Frú Ínga, móðir Hákonar konúngs, var með honum, ok gerði hann til hennar âstsamliga[11]; hún [fèkk um vetrinn sótt ok andaðist[12] fyri jóla föstu[13]; þessi var hinn XVIII vetr konúngdóms Hákonar konúngs.

*Frá Íslendíngum ok sættargerð*[14].

180. Hákarla-haustið kom utan af Íslandi

---

1) af, *b. F.* 2) ok fór fyrst austr á Gautland, ok þaðan í Danmörk ok svâ suðr í Saxland, ok lètti eigi sinni ferð fyrr en hann kom á páva fund, *B. F, 5 br.* 3) *b. G.* Frá Hákoni konúngi ok gerðum hans, *B.* 4) steinvegginn, *B, F, 5 br.* 5) *frá* [ reisa, *B, F, 5 br.* 6) var síðan kallat, *B, 5 br.* 7) dvaldist nokkura ríð í Víkinni, ok fór síðan um sumarit, *B, F.* 8) ok fór allt vel (álitliga, *G*; allt it bezta, *H*) með þeim, sem jafnan er þeir báðir voru saman, *b. B, F, 5 br.* 9) óvinir þeirra, *F.* 10) at hèlt við váða sjálfan, þegar skamt leið frá, *F, H, 5 br.* 11) ágæta vel, sem vera átti, *B, F, 5 br.* 12) hafði sjúkleika mikinn (um haustit, *b. G*) ok tók sóttarfar hennar mjök at þýngja, ok andaðist, *hin, B, F, 5 br.* 13) jarl fór um haustit norðr til Þrándheims, en konúngr fór til Víkur austr, ok sat um vetrinn í Oslu, (Auslu, *5 br.*) *b. F, H, B, 5 br.* 14) *b. H.* Stúrla kom af Íslandi, *G*; Hèr segir frá Íslendingum, *B.*

Sturla Sighvatsson, ok fór þegar or landi um vetrinn út til páva. Hann kom aptr þetta sama haust, ok fann Hákon konúng í Túnsbergi, ok hafði hann Sturlu í boði sínu ok talaði við hann marga luti. Konúngr lèt illa yfir því, er Sturla sagði honum ófrið mikinn af Íslandi, ok spurði hversu mikit fyri mundi at koma einvaldi á landit, ok [sagði þá mundu verða frið betra[1], ef einn rèði mestu. Sturla [kvað lítið fyri því, ef sá kvæmi til, er nokkurn styrk hefði[2]. Konúngr spurði, ef hann vildi við taka, at flytja þat mál; hann kvaðst mundu til hætta með konúngs[3] forsjá[4], ok eiga slíkra sæmða vân af konúngi, ef hann [kvæmi þessu fram[5], sem honum þætti verðugt[6]. Konúngr [bað hann eigi[7] manndrápum vinna landit, en bað hann taka menn[8] ok færa[9] utan[10], [eðr fá ríki þeirra með nokkuru[11] móti. Um sumarit eptir[12] fór Sturla til Íslands, ok var með föður sínum um vetrinn á Grund. En meðan hann var utan, hafði Órækja Snorrason, bræðrúngr hans, gervan mikinn ófrið á ríki hans. Um vârit, er Sturla hafði einn vetr verit

[1]) lèt þá mundu verða frið, *F.* [2]) tók því likliga (lèttliga þessu, *F*) ok sagði litit mundi fyrir verða, ef sá kæmi til er væri harðfengr (harðyrki, *F*) ok ráðúgr; töluðu þeir hèr um jafnan, at Sturla mundi bindast fyri þessu, *H.* [3]) ráði ok, *b. F.* [4]) umsjá, *G.* [5]) fengi þessu á leið komit, *B, F.* [6]) hans væri miskunn til, *G.* [7]) sagði svâ, at eigi skyldi með, *F.* [8]) ok senda sèr, *b. H.* [9]) senda, *G,* 5 *br.* [10]) ef hann vildi, *b.* 5 *br.* [11]) öðru, *G.* [12]) *frá* [ ef hann mætti (*v.* 5 *br.*) Sturla var optliga fyri konúnginum um vetrinn, ok töluðu um þetta mál. En um sumarit eptir er Hákon konúngr hafði setit í Oslu um vetrinn, *F, H,* 5 *br.*

á Íslandi, fóru þeir[1] feðgar at Snorra í Reykjaholt með fjölmenni, ok vildu at hann bætti fyri þau illvirki, sem Órækja hafði gert. Snorri vildi [eigi samna mönnum móti bróður sínum, en Þórðr Sturluson[2] fór í milli, ok fèkk ekki samit[3] með þeim; stökk Snorri[4] þá í brott, en Sturla settist í Reykjaholt, ok tók undir sik alla kosti Snorra. Eptir þetta fór Sturla í Vestfjörðu at Órækju, ok sættust þeir at kalla, en þó hèllzt þat litla hríð, ok þarf þeirra skipti eigi hèr at telja; en sá varð endir á, at Órækja fór utan þat sumar með ráði Magnúss biskups[5]. Eptir þat fór Sturla at Þorleifi í Görðum, ok börðust þeir í Bæ í Borgarfirði; fèkk hann þá vald yfir Þorleifi, ok fór hann utan sumri síðarr en Órækja; þá fór ok utan Snorri Sturluson ok Þórðr kakali ok Ólafr hvítaskáld Þórðarson[6]. En Sturla sneri þá úfriði á hendr Gizuri Þorvaldssyni ok Kolbeini únga Arnórssyni[7], ok fóru þeirra skipti sem enn mun getið[8] verða.

*Konúngr ritaði jarli*[9].

181. Hákon konúngr sat um vetrinn í Oslu[10], sem fyrr var sagt, þá komu[11] upp margar greinir með þeim Skúla jarli[12]. Hákon konúngr [stefndi Skúla jarli norðan til móts við sik, en jarl

[1]) Sighvatr, *b.* 5 *br.* [2]) bróðir þeirra, 5 *br.* [3]) saman dregit, 5 *br.* [4]) *frá* [ öngu bæta ok stökk hann þá, *G.* [5]) í Skálaholti, *b. B.* [6]) son Þórðar Sturlusonar, *F.* [7]) frænda sínum, *b.* 5 *br.* [8]) sagt, 5 *br.* [9]) *b. H*; Konúngr sat í Oslu, *F;* Um greinir með konúngi ok jarli, *G;* Frá Hákoni konúngi, 5 *br.* [10]) Anslu, 5 *br.* [11]) enn, *b. F, H,* 5 *br.* [12]) ok var þat enn af sömu manna meðalgaungu, er jafnan voru vanir at spilla þeirra vináttu, *b. B, F,* 5 *br.*

átti[1] ráð við vini sína [ok þótti þeir vera ótrúligir, sem voru öfundarmenn hans en eigi beggja þeirra eiðsvarar; aflatti hann mjök[2] fyri sèr ferðina, en fleiri vinir hans fýstu hann mjök at fara, ok rèðst þat af, at hann bjó ferð sína[3] ok varð mjök síðbúinn; hann hafði[4] XX skip. Síðan sigldi hann suðr á Mæri, ok lá lengi[5] í Steinavâgi. Hákon konúngr bjóst or Víkinni, ok hafði [mikit lið ok marga lenda menn[6], hann lèt þá fram setja Ólafssúðina[7], þat var mikit skip

[1]) ritaði norðr um vorit til jarls, ok lagði honum stefnu við sik um sumarit í Björgyn, til tals um greinir þær er milli voru; ok er þessar orðsendingar komu til jarls, hafði hann, *F.* [2]) *frá* [ hvört hann skyldi stefndan fund (þessa stefnu, 5 *br.*) sækja, eðr eigi, *F;* ok tjáði þat (fyri þeim) at honum þótti fast at sèr gengit (lagt) hákarla haustit af áeggjan lendra manna, en mèr er sagt, at þeir munu nú eigi óákafari en þá voru þeir; eru nú þeir lutir í orðnir er þèr vitit at ek em úfusari, at fara á vald (fund, voru þá þeir einir menn í Björgyn er voru eiðsvarar jamt mínir sem konúngsins, 5 *br.*) þeirra en fyrr (*v.* 5 *br.*), þvíat hákarlahaustit er vèr fundust um í Björgyn, voru austan með oss Arnbjörn Jónsson, Gregorius ok herra Andres, ok gerðust þá handgengnir konúngi ok sóru hirðmannseið einum saman konúngi, ok skildi þann eiðstaf mikit, þar sem allir höfðu áðr svarit báðum okkur. Svâ gerði ok Brynjólfr, son Jóns stâls, ok margir menn aðrir hafa þann eið svarit, (en nú síðan hafa þeir gerzt honum handgengnir, *o. s. fr.* 5 *br.*); ok trúi ek þeim mun (mönnum, 5 *br.*) verr, en þeim sem eru beggja okkar vinir ok eiðsvarar; hafa þeir báðir stórar sveitir, Gregorius ok Brynjólfr; fleiri luti fann jarl til, at hann aftaldi, *B, F,* 5 *br.* [3]) ok sendi orð lendum mönnum sinum sem norðr þar voru, *b.* 5 *br.* [4]) nær, *b. F;* vel, *G.* [5]) um haustit, *b. F.* [6]) með sèr alla lenda menn, þá er þar voru, 5 *br.* [7]) er hann hafði gera látit í Tunsbergi, *b. F,* 5 *br.*

ok frítt, þat var XII[1] rúm ok XX[2]. Ok er hann kom í Gulaþíngs lög, [bauð hann liði út um öll þau fylki[3]. Hann sendi norðr til Þrándheims Klæmit[4] af Hólmi, ok [bað hann[5] segja at konúngr mundi norðr þannig[6], ef jarl kæmi eigi norðan[7]. [Þá er á leið haustið[8], fór Hákon konúngr norðr or Björgyn, hafði hann[9] XL skipa, ok öll stór[10]. Skúli jarl lá í Steinavâgi, sem fyrr var sagt[11]; þar kom til hans Páll vâgaskálm, [ok sagði[12] at konúngr hefði dregit saman lið mikit, ok ætlaði norðr til Þrándheims. Jarl átti þá [ráð við lið sitt[13], hvârt hann skyldi fara[14] í móti konúngi, eðr snúa norðr aptr til Þrándheims; [fýstu enn fleiri[15] þess; [hinir voru sumir, at báðu hann fara norðr til Þrándheims[16], til fóstbræðra sinna, ok bíða þar konúngs, ef honum sýndist. Þetta var af ráðit[17], at jarl sneri norðr aptr til Niðaróss, stefndi þá til sín hestum, ok

1) XI, 5 *br.*, *H*; IX, *F*; VI, *G*. 2) allfritt skip, *b. F*. 3) *frá* [ stefndi hann þaðan miklu (öllu) liði suðr til Björgynjar til móts við sik, *G*, 5 *br.* 4) Klemet, *F*, *H*. 5) skyldi hann fara til Frostuþings ok, *F*, 5 *br.* 6) til Þrándheims um haustit, *F*, *H*, 5 *br.* 7) til móts við hann, *b. F*. 8) at liðnu sumri, *F*. 9) nær, *b. F*, *B*. 10) þar voru þá margir lendir menn við konúngi: Arnbjörn Jónsson, Loðinn Gunnason, Símon kýr, Hallvarðr bratti, Eirikr stilkr, Ívarr nef, Gautr af Meli, Nikolás Pálsson, Pètr i Giska ok margir aðrir göfugir menn; hann hafði mikit lið ok frítt, *b. hin ok 5 brot.* 11) ritat, *F*, *G*. 12) norðan af Halogalandi, tók jarl þá þær fréttir, *F*. 13) stefnur við sína menn, 5 *br.* 14) suðr, *b. F*. 15) Páll ok fleiri aðrir fýstu, 5 *br.* 16) at fara móti konúngi; sögðu þá mundi bezt fara, ef þeir fyndist, þeir voru sumir trúnaðarmenn jarls er þessa löttu, ok sögðu ráðligra at snúa norðr, *F*, *G*. 17) sem jarl þar fúsastr, *b. H*.

bjó sik á land upp; en Páll ok fleiri löttu þessarar ferðar, [sögðu at enn mundi vel fara, ef þeir konúngr fyndist[1]. Var þat ráðit at Páll fór suðr á Mæri móti konúnginum, ok mætti flota konúngsins við Sólskel, ok fèkk eigi þar fundit konúnginn, þvíat hann var þá seglbúinn. Sigldu þeir þá allir saman norðr til þrándheims; ok er þeir komu í Leirángra, fann Páll konúnginn, ok tók hann vel orðum hans, hugði[2] at vel mundi fara, ef þeir jarl fyndist.

*Frá orðsendíng Hákonar konúngs til Skúla[3].*

182. þá nótt er konúngr var í Leiröngrum, var Skúli jarl at Meðalhúsum, ok reið þaðan[4] til Orkadals, ok ætlaði suðr um fjall. Hann hafði þá mikit lið ok frítt; ok er hann kom upp [at Orknarbrú[5] skildust við hann margir handgengnir menn hans[6] ok vinir, [þeir er áðr kölluðust kempur hans[7]. þá var þetta kveðit:

Hóli gæddust[8] hirðmenn Skúla,
hrukku lítt meðan full var skukka[9],
drukku þeir af Danmörk rekkar
drógust lítt um fjöll ok skóga;
síðan varð, er slóst í ferðir,
sángvan ill ok þunt um stángir,

---

1) *frá* [ ok báðu hann bíða konúngs, *F.* 2) ok lèzt ætla, *F.* 3) *b. H.* 4) út, *b. F, H,* 5 *br.* 5) á Dalskóg, *G.* 6) ok skutulsveinar, *b, F.* 7) *frá* [ *v.* 5 *br.;* en sumir á Uppdals skógi, þessir skildust við hann (*F;* þar voru þessir sveitarhöfðingjar) Andóttr (Öndóttr) skakalokkr (*v.* 5 *br.*) ok Elju-Bjarni (Elfi-Bjarni, *B;* Ælu-Bjarni, *G;* Hellu-Bjarni, 5 *br.*) ok Reiðar Dyn, ok margir aðrir (góðir menn) þeir er áðr kölluðust kempur, *hin.* 8) glöddust, 5 *br.* 9) skrukka, *F, G.*

eiðar rufust við Ínga bróður,
engi vildi fylgja lengra.

Ólafr hvítaskáld segir svâ:

Snæfrir drógu enn meðal jöfra,
aldir kváðu varla haldast
öðlíngs heit við alldvald[1] mætan;
arskapðan[2] grun, vinir hvârskis;
minnigr bjoggi[3] siklíngr sunnan
sunda vigg, en jarl stökk undan
[ítar brugðust jöfri mætum,
austr um fjall, með drengi snjalla[4].

*Konúngr gerði menn til jarls*[5].

183. En er Hákon konúngr kom í Þrándheim[6], frètti hann at jarl var í brott riðinn, sendi hann þá menn eptir jarli[7], ok fundu þeir hann í Uppdal, ok sögðu at konúngr vildi at hann sneri[8] aptr, ok semði þeir með sèr, ok sæti báðir samt í Þrándheimi um vetrinn. Jarl bar þetta enn fyri vini sína, ok fýstu flestir at hann sneri aptr. Þeir voru sumir at þat kölluðu ómerkiligt, at skipta svâ skjótt ráðagerð sinni. Jarl svarar: sè ek at þat væri ráðligra at snúa aptr, en þó munu þeir ráða, er [suðr vilja fara. Eptir þat sneri hann[9] suðr um fjall. Þá er sýslumenn konúngs, þeir er á Upplöndum voru, frèttu at

[1]) allvald, *hin.* [2]) árskaptan, *hin.* [3]) bygði, *B*; bjó, *F.* [4]) *þeim síðustu tveimur vísulínum sleppir A, en hefir geymt eyðu til að bæta þeim við, nær lesnar yrðu.* [5]) *b. B*; Skúli jarl skildi við konúng, *G*; *A hefir hèr ekki kapitula skipti.* [6]) Niðarós, *F*, 5 *br.* [7]) með ráði vina sinna, Pál vâgaskálm ok Ívar nef, *b. hin ok* 5 *br.* [8]) hyrfi, *F.* [9]) þess eggja, at ek fara suðr. Eptir þetta sneri hann upp til fjalls, ok svâ, *F, G,* 5 *br.*

jarl var norðan kominn, tóku þeir skip öll, þau er voru í Mjörs, ok gengu þar á XI sveitarhöfðíngjar[1]. Skúli jarl fór[2] í Hamarkaupángr, ok dvaldist þar um hríð með öllum sínum mönnum.

*Frá Sigurði erkibiskupi ok Hákoni konúngi*[3].

184. [En er konúngr frètti þetta, leitaði hann ráðs við sína menn[4], ok þótti honum þá í óvænt efni komit[5], er jarl var farinn suðr um fjall við liði miklu á ríki þat er konúngr átti einn saman. [Erkibiskup bað konúng gera fyri nokkut gott ráð, at friðr mætti standa[6]. Konúngr sendi þá suðr Björn ábóta [ok menn með honum[7], ok bað svâ segja jarli at hann skyldi um vetrinn hafa þriðjúng af sýslum [öllum á Upplöndum[8], ok mætti með því friðr standa[9]. [En er þeir ábóti komu í Hamar[10], hafði jarl sent Nichulás

1) en þessir voru fyrir þeim; Gregorius Jónsson, herra Andres, (Gregorius Andresson, *í stað hinna fyrstu treggja, G, H*) Hávarðr af Sundbúi, Áslákr smjörstakkr, Jón ketlingr, Ámundi af Folavelli, Dagr af Gröfu, Oddr Eiriksson, Saxi blaðspjót, ok höfðu þeir fjölmennar sveitir, *b. B, F, G, H ok 5 br. er þó sleppir þremr hinum fyrstnefndu.* 2) til þess er hann kom á Heiðmörk, *b. F, 5 br.* 3) *b. H*; Frá Páli vâgaskálm, *F;* Frá ferðum Skúla, *G.* 4) Sem Páll vâgaskálm ok Ívarr nef komu aptr til konúngs ok sögðu um ferðir jarls, átti konúngr tal við Sigurð erkibiskup ok ráðgjafa sína, ok leitaði ráðs við þá, hversu með skyldi fara, *B, F, 5 br.* 5) ok verra en vera skyldi, *b. G.* 6) um vetrinn, *b. F, 5 br.; frá* [ tók konúngr þat ráð með ráði (at bæn) erkibiskups ok annara vina sinna (manna annara) at hann, *H, 5 br.* 7) af Hólmi, Ívar af Skeðjuhofi ok Vilmund pillt, ok menn með þeim, *F, H, 5 br.* 8) *frá* [ um öll Upplönd ok í Víkinni, *F, G, 5 br,* 9) þar til er beggja vinir færi í milli, *b. F.* 10) *frá* [ Þeir ábóti komu á Heiðmörk, ok sendu menn til

af Mors[1] upp á Heiðmörk at taka allar konúngs skyldir. Sýslumenn höfðu fengit njósn af þessu, ok ætluðu til móts við Nichulás; ok ef ábóti hefði komit II nóttum síðarr, mundi [brugðit hafa verit friðinum[2] með jarli ok konúngi[3]. En er ábóti fann jarl, ok sagði honum konúngsboð, [játti hann þessu[4], ok hèt þar í móti friði[5], [skipaði hann[6] þá sýslur allar at þrándúngi um Upplönd ok í Víkinni[7]. Síðan fór jarl út í Oslu[8], ok þaðan í Túnsberg[9].

*Af sendiboðum Hákonar konúngs*[10].

185. [Þá er Hákon konúngr hafði sent Björn ábóta[11] suðr um fjall[12], lèt hann heim fara Arnbjörn Jónsson ok alla þá[13] menn, er or Víkinni voru, ok bauð þeim at verja landit[14], ef jarl gerði nokkurn ófrið í Víkinni[15]. Þeir[16] komu litlu síðarr í

sýslumanna, ok sögðu þeim boð konúngs, ok báðu þá eigi fyrr bregða friðinum, en (þeir ábóti kæmu i Hamar, ok) vitat væri hversu jarl tæki þeirra eyrendum. En er þeir ábóti komu í Hamar, þá, *hin ok* 5 *br.*

1) Maurs (Mörs), *G*; Mjors, *H*; Mói, 5 *br.*; Njörs, *B*; skutulsveinn sinn, *b. F, G, H,* 5 *br.* 2) orðit hafa ófriðr, 5 *br.* 3) konúngsmönnum, *hin ok* 5 *br.* 4) tók jarl svâ vitrligt ráð, at hann játaði þessum kostum sem konúngr hafði gert, *F, G, H,* 5 *br.* 5) til þess er kæmi vinir þeirra milli. Eptir þetta sneru þeir ábóti norðr aptr, en sumir þeirra fèlagar fóru út í Vikina at konúngs erindum, *b. F, H,* 5 *br.* 6) Skúli jarl skipaði, *F.* 7) hann setti í Borgarsýslu Árna rofu (rufu) ok Finn knött, *b. F, G, H,* 5 *br.* 8) Uslo, (*hèr*) 5 *br.* 9) voru konúngsmenn þar fyrir honum, þeir er norðan höfðu farit með ábóta, *b. F,* 5 *br.* 10) *b. F*; Tilskipan konúngs um landvörn, *G.* 11) af Niðarósi, *b. F.* 12) *frá* [ þegar sem konúngr kom norðr til Þrándheims, *G.* 13) lenda, *b. F, G,* 5 *br.* 14) ríki hans, *F, H, G.* 15) skyldi Arnbjörn vera fyrir þeim ok bað þá fylgja honum sem bezt, ef nokkurs þyrfti við, *b. F, G.* 16) þeim byrjaði vel, ok, *F.*

Víkina en jarl, ok lögðu í Grindhólmasund, en jarl var í Túnsbergi[1]; ok er lendir menn spurðu at jarl fór með friði, skildust þeir[2], ok fór hverr í sína sýslu[3]. Ok er Arnbjörn kom heim í Valdishólma, sendi hann orð sýslumönnum þeim, er jarl hafði þar sett, bað þá í brott fara, sagði at hann mundi við öngan mann miðla Borgarsýslu, fyrr en hann heyrði konúngs orð [á því. En er sýslumenn jarls frèttu þetta, fóru þeir til jarls[4], ok sögðu honum[5]. Skúli jarl fór eptir jólin austr í[6] Elfar, ok dvaldist þar mjök lengi í Konúngahellu. Þar gerðust hónum margir menn handgengnir: Álfr af Leifastöðum[7], Þorgils slyðra, Veseti úngi, Ásgautr[8] bróðir hans[9]. Þessa

1) Skúli jarl vildi þá senda til þeirra þá menn, er konúngr hafði norðan sent með ábóta, ok bað þá stefna til sín lendum mönnum til Túnsbergs, en þeir sögðu, at konúngr hafði svá fyrir mælt, at Eiríkr stilkr skyldi finna jarl, ok hann fór með konúngsbrèfum, en eigi aðrir lendir menn, *b. hin ok 5 br.* 2) í Grindhólmasundi, *b. F, G, H, 5 br.* 3) en Eiríkr fór með brèfum til jarls, *b. F, G.* 4) *frá* [ at hann skyldi laust láta. Jarls menn fóru á hans fund, *F.* 5) orð Arnbjarnar. Sendimenn konúngs, þeir sem í Túnsbergi voru, tóku mikit fè or Lafrantz kirkju, þat sem konúngr átti, svá at Skúli jarl vissi ekki til, ok fluttu þat norðr til Þrándheims (konúngs); þeir komu jólaaptan til Óss, (Niðaróss, *B, 5 br.*) ok sögðu konúngi slík tiðindi, sem þeir vissu, or Víkinni; höfðu svá sagt vinir konúngs, þeir sem austan komu, at þeir væri margir með jarli at hann eggjaði ófriðar móti konúngi, ok hann rækist eigi lengr af eignum sínum ok óðulum (rèttum bróðurarfi, *G, 5 br.*) ok eigi þóttust þeir vita hvart friðrinn mundi haldast eðr eigi (um vetrinn), *b. F, G, H, 5 br.* 6) til, *hin.* 7) með nokkra sveit manna ok, *b. F, G*; marga menn, 5 *br.* 8) Alganti, *B, F, G*; Algautr, *H.* 9) höfðu komit fyrri til jarls, *b. F, B.*

menn[1] kölluðu Birkibeinar Varbelgi. Álfr hafði áðr verit húskarl Arnbjarnar. Þessir fýstu jarl [mest úfriðar[2], ok láta eigi Hákon konúng yfir sínum bróðurarfi[3] sitja. Jarl veikst ofmjök undir þeirra fortölur, sem síðan bar raun á[4]; þessi var hinn XIX vetr konúngdóms Hákonar konúngs[5].

*Sættarumleitan milli konúngs ok jarls[6].*

186. Skúli jarl fór austan or Konúngahellu [um vârit[7]; hann gerði orð[8] Arnbirni Jónssyni, at hann skyldi koma til móts við hann [á Eiðsvelli[9]. Arnbjörn sótti þíngit með[10] CCC manna,

---

[1]) er þá gerðust handgengnir, *b. F, H, B,* 5 *br.* [2]) mjök at hann skyldi hefja ófrið, *F,* 5 *br.*; ok fara fyrst at þeim lendum mönnum, sem voru í Víkinni, en síðan at konúnginum, *b.* 5 *br.* [3]) *þannig B, F*; föðurarfi, *A, v. G.* [4]) Hákon konúngr sat um jólin (vetrinn) í Þrándheimi, *b. F, G,* 5 *br.* [5]) Erkibiskup bað enn konúng at hann skyldi gera nokkurar orðsendingar til jarls, at friðrinn mætti standa, þviat honum þótti sem enn væri búit til ófriðar í Víkinni (þviat þá fóru orðsendingar harðar, or Víkinni, frá Varbelgjum, *b. H*). Eptir þat voru þeir sendir á fund jarls Björn ábóti ok Vilmundr pilltr (tilltr, *H*) með sáttarboðum. Hákon konúngr gerði þá orð til Munans biskupssonar ok sýslumanna á Upplöndum, at þeir skyldu allir fara til Arnbjarnar Jónssonar ok skyldu þar saman halda, til þess er vitat væri hver erendi ábóta yrði til jarls. Ábóti fann jarl austr í Konúngahellu um vârit í föstu, ok báru (þeir) upp (fyrir hann) sín erendi; fluttu þá ok beggja þeirra vinir, þá tók at sveigjast (svefaðist þá, *G*; sefaðist, *H*) hugr jarls, en áðr þeir komu var búit til ins mesta vâða, at jarl mundi ófrið hefja, *b. B, F, G, H,* 5 *br.* [6]) *b. H.* [7]) um föstuna, *G*; at liðinni föstu, *F*; at áliðinni föstu, *H.* [8]) fyri sèr, *b. F.* [9]) *frá* [ ok skyldi þeir eiga þíng þar sem Eiðsberg (Heiðbjörg, *H*) heitir, *F, G, H,* 5 *br.* [10]) ok með honum Eirikr stillr, Munan biskupsson, ok margir aðrir sýslumenn af Upplöndum, með vel, *b. F,* 5 *br.*

ok allvel búit. Þeir komu fyrr[1] en jarl[2], sagði Arnbjörn at þeir skyldi fyrri berjast við jarl, en játta því nokkuru, er þeim væri [eigi vel viljat[3]. Skúli jarl kom á þíngit með [hálft fjórða hundrut[4] manna, ok eigi jafn vel búit[5]; jarl hafði hvítan þofahatt, ok sat á fríðum hesti, [hann mælti[6]: hví raktu, Arnbjörn, sýslumenn mína or Borgarsýslu, þá sem ek hafða setta í þann þriðjúng, er konúngr skipaði mèr[7] í vetr. Því, sagði Arnbjörn, at ek var[8] örnggr í at láta fyri öngum laust þat lèn, sem konúngrinn hafði [skipat mèr, fyrr en ek vissa víst at hann tæki af mèr[9]. Þá svarar jarl: [tók þú eigi, Arnbjörn, sýslu af mèr fyrri[10], ok hètst þú oss þá góðu[11], en þóat[12] þú sèr fyri öðrum mönnum í Noregi, þá þikkir [mèr yðr öllum ofkæti[13] at halda því fyri mèr, er konúngr vill[14] at ek hafa. Arnbjörn svarar: satt hygg ek þat, at engi lendr maðr skal þat taka af mèr, (er) konúngr fèkk[15] mèr, ok fyri öng-

---

1) til Eiðsbergs, *b. F.* 2) ok settust utan undir kirkjugarðinn, *b. F, G, H,* 5 *br.* 3) ósæmðir á, *F*; ósæmð i, *G.* 4) CCCC, *F,* 5 *br.* 5) sem hitt er fyri var, *b. F.* 6) Arnbjörn hafði svá mælt við sína menn, at hann skyldi einn svara öllum áköllum jarls. Þá er þíngit hafði skamma stund staðit tók jarl til orða, *B, F, G,* 5 *br.* 7) at hafa, *b. F.* 8) em, *F.* 9) mèr fengit, en ek vissa með sannleik, at konúngr vildi af mèr taka, *F, G,* 5 *br.* 10) tókst þú eigi af mèr Borgarsýslu í fyrstu, ok þá hálfa, *F, G, H.* 11) hvernig sem þú hefir ent. Satt var þat, segir Arnbjörn. Jarl svarar: Eigi var Hákon þá siðr konúngr en nú, þótt hann sè nú meir þroskaðr, ok virði ek nú eigi minna orð hans en þá, um þau lèn er hann skipar mèr, *b. B, F, . H,* 5 *br.* 12) *b. F, G, H.* 13) öllum þat ofrausn, *F, G, H.* 14) játar, *F*; jár, *G, H.* 15) fær, *F, G.*

um manni ætla ek háls at beygja [í Noregi[1], nema Hákoni konúngi, eða[2] þeim hinum hvíta hettinum, sem hèr er nú á þínginu. Þá [sagði Björn ábóti, at konúngr hefði jarli[3] upp gefit þriðjúng af[4] sýslum[5] um Víkina ok (á) Upplöndum[6] um vetrinn, [ok hann kynni öll(um) þökk fyri at gott legði til með þeim jarli. Síðan tók Arnbjörn at mýkjast í orðum[7]. Tók jarl þá undir sik þriðjúng Borgarsýslu; fór jarl þá norðr í Víkina, en ábóti norðr til Þrándheims[8] með sættarboðum; var þat þá mælt, at þeir konúngr ok jarl skyldi finnast um sumarit í Björgyn, ok skyldi hvârr öðrum selja gísla til þess fundar.

*Sættargerð Hákonar konúngs ok Skúla jarls*[9].

187. Skúli jarl var í Víkinni um vârit[10]; gerðust honum þá enn margir menn handgengnir, ok dró (hann) mikit lið at sèr, rèð hann þá til skipa ok tók mörg skip ólofut frá bændum[11]. Hann hafði Borgarþíng[12] Margretarmessu; þá lèt

1) *v. F.* 2) ok, *G*; ok eigi fyri, (*rèttast*) 5 *br.* 3) mælti Björn ábóti ok sagði at hann hefði þat brèf er konúngr mælti svâ fyrir, at þeir skyldu tveir einir heyra er upp væri lesit, ok bað þá inn gánga í kirkjuna, ok talaðist þeir við. Ok er þeir komu inn, innti ábóti upp orðsendíngar þær sem konúngr hafði við honum gert bæði til Arnbjarnar ok annara formanna (sýslumanna, *H*; manna, *G*); sagði hann at konúngr vildi at allir ætti í því lut at draga saman sátt með þeim mágum, sagði hann konúnginn sannliga hafa, *F, B, G, H,* 5 *br.* 4) öllum, *b.* 5 *br.* 5) *hèr endar 5ta brot.* 6) í Borgarsýslu sem öðrum, *G, B*; jarli til kostnaðar, *b. F.* 7) *frá* [ eptir þat tók Arnbjörn at snúast í ræðunni, ok fór þaðan af allt álitliga með þeim, *F, B, G.* 8) konúngs, *F.* 9) *b. H.* Gislar konúngs komu til jarls, *G.* 10) sumarit, *F, G, H.* 11) þar, ok lèt búa norðr, *b. F.* 12) um sumarit, *b, F.*

hann taka skip Arnbjarnar[1], ok ætlaði at hafa norðr; en Arnbjörn hafði áðr látið bora skipit[2], ok höggva or innviðuna, ok fylldi þegar flotað var, ok [var þat þegar[3] upp sett. Í þenna tíma komu norðan frá Hákoni konúngi Sigurðr son hans ok Íngimundr púss, gíslaðir jarlinum, en áðr hafði komit til konúngs Ásólfr jarlsfrændi ok Jatgeirr skáld í gíslíng. Ok er jarl var búinn, fór hann norðr til Björgynjar, ok lagði í konúngshöfn. Fóru þá menn í milli þeirra. Sagði jarl at hann mundi ekki leggja til bæjarins, nema þat væri skilt um þann lut sem [hann hafði af Noregi[4] tæki Pètr son hans eptir jarl[5]. En er þetta var flutt konúnginum, neitaði hann[6] því berliga, ok sagði svâ at aldri skyldi hans afspríngr[7] erfa Noreg, nema [sá er kominn var[8] af Margretu drottníng, dóttur hans. [Eptir þetta fóru menn í milli þeirra með erkibiskupi[9], at sætta þá; lagði jarl inn þá til bæjarins, ok [sættust þeir[10] þá enn með góðra manna ráði[11]; skyldu þeir þá sitja báðir samt um vetrinn í Björgyn ok halda eitt borð, svâ at jarl legði fram sinn kost hinn þriðja hvern dag. Foru þann vetr öll skipti vel með þeim, sem jafnan er þeir voru báðir saman, þvíat þá voru færri lygðir í milli þornar, er[12] þeir máttu þegar próva[13]. Þetta

1) Jónssonar, *b.* *F, G.* 2) skipin, *hin.* 3) voru síðan, *hin.* 4) honum væri skiptr af landi, *F, G, H.* 5) hans dag, *F, G.* 6) *b. hin.* 7) afspringi, *G.* 8) þat er komit væri, *G.* 9) *frá* [ lagði Sigurðr erkibiskup mikinn hug á, *G.* 10) ok voru þá stefnur at áttar, ok gekk þá enn saman sættin at bæn erkibiskups, *B, F.* 11) fortölum, *G.* 12) svâ skamt var at reka at, *b. B, F.* 13) sjálfir, *b. F.*

sumar kom Órækja Snorrason af Íslandi, ok sagði þaðan mikinn ófrið af Sturlu, frænda sínum, ok þótti konúngi hann hafa harðara at farit, en hann hafði honum ráð til gefit.

*Sætt Páls biskups ok konúngs*[1].

188. þessi var hinn XX vetr ríkis Hákonar konúngs er þeir jarl sátu báðir samt í Björgyn. þeir bjöggu ferð sína um vârit[2] norðr til þrándheims, ok sigldu þeir fyri Staði Kærlíngarsunnuaptan[3], ok bægði þeim veðr, svâ at þeir urðu at leggja at í Ángri. En jarl sigldi sunnudag or Silld[4], ok sat á Reini[5] um páskir, ok voru þeir báðir samt konúngr ok jarl um vârit í Kaupángri. [þá kom þannig Páll biskup or Hamri, ok töluðu þeir konúngr um mál sín[6]; var biskup jafnan harðari á þeim stefnum sem jarl var við; en þó kom þar, at þeir sættust með því móti, at konúngr tók við eynni, en lagði aðrar eignir í móti til staðarins, þær sem honum líkaði, ok biskup vildi[7] hafa.

*Róg með konúngi ok jarli*[8].

189. Um vârit varð einn lítill lutr [með konungi ok jarli[9] í þrándheimi, er sjá mátti hversu[10]

---

[1]) *b. G*; Af Hákoni konúngi ok Skúla jarli, *F*. [2]) í föstu, *b. F, G, H.* [3]) Kæru-sunnu aptan, *B.* [4]) Sylld, *B*; ok fékk mikit raðbyri, at hann lagði at norðr við Söndólfsstaði, *b. B, F.* [5]) Reime, *F.* [6]) *frá* [ þá voru orð ger Páli biskupi í Hamri með ráði Sigurðar erkibiskups, at hann skyldi norðr til sættarstefnu við Hákon konúng, ok er biskup kom norðr, voru stefnur áttar at málum þeirra konúngs, ok gekk seint saman sættin við biskup, *F.* [7]) játaði at, *F*; játti at, *G.* [8]) *b. G*; Af k. ok j., *F*; Frá umspillendum milli H. k. ok Sk. j., *H.* [9]) *frá* [ v. *F, G.* [10]) hve nær, *F, G, H.*

umspillendr voru þeirra skiptum. En þat var með því móti, at þá var Gunnarr konúngsfrændi með konúngi; hann hafði skilt[1] á við gesti jarls, ok þóttust þeir hafa fengit harðleik[2] af honum. Litlu síðarr fór Gunnarr út á Nes, ok ætlaði í sýslu sína, er konúngr hafði fengit honum. Um nóttina er Gunnarr var í brott farinn, var konúngi sagt at hann væri drepinn, ok jarl hefði sent eptir honum gesti ok látið drepa hann. Konúngr lèt þegar kalla á lúðrsveininn, ok klæddist sjálfr, ljópu þá allir hans menn til vâpna, ok gengu út í garðinn, ok settu upp merkit. Jarl svaf í öðru herbergi[3] skamt í frá, hann vaknaði við gnýinn, ok ljóp upp við, ok gekk út í svalirnar; hann sá at drottníngin stóð úti í garðinum, ok spurði [hverju herlaup þetta sætti[4]; hún sagði sem[5] var. Jarl bað hana vera káta, sagði at ekki mundi til saka[6]. Litlu síðarr var víst orðit at þetta var ekki nema [lýgi ein[7] vândra manna.

*Hèr verðr Skúli hertogi*[8].

190. Þetta sama vâr hafði konúngr Eyraþíng[9], ok kom þar mikit fjölmenni, ok á því þíngi [gaf hann Skúla[10] hertoga nafn. Þat tignar-

[1]) skilit, *H.* [2]) harðleikið, *F, G, H.* [3]) húsi, *F.* [4]) hàna hverju þetta gegndi, *F*; hví hún væri þar, eða hvat um væri, *H.* [5]) honum hvat títt, *F, G.* [6]) jarl klæddist þá; þar kom Sigurðr konúngsson i herbergit (til hans) ok gengu þeir þá báðir út, *b. B, F.* [7]) lygð ok upplost, *F*; hègómi, *G.* [8]) *b. H*; Konúngr jók nafnbætr Skúla jarls, *B*; Hákon konúngr gaf Skúla hertugà nafn, *F, G.* [9]) þing út á Eyrum, *F, G, H.* [10]) jók hann nafnbót Skúla jarls ok gaf honum, *F, G, H.*

nafn hafði engi fyrr fengit í Noregi[1], sem[2] kvað Ólafr hvítaskáld:

Snjallir fóru mága í milli
menn, seldust þar gisla tvenna,
sýnni[3] [tók þá[4] sætt er funnust
snarir bragníngar her at magna;
nafnbætr jók [sá er[5] Noregs gætir
niðjum prýddr ok siklíng skrýddi,
björtu heiti böðvar-fljótan
blíðs[6] hertoga gjöfum fríðum.

Með þessi nafnbot gaf konúngr hertoga margar sæmiligar gjafir, ok hófst þá enn at nýju blíða[7] með þeim mágum.

*Frá sendimönnum keisarans til Noregs konúngs*[8].

191. Þá er þeir rèðu Noregi Hákon konúngr ok Skúli hertogi, var keisari yfir Rúmaborgarríki Friðrekr, son Friðreks[9]; hann var mikill höfðíngi[10], þýddust[11] til hans margir höfðíngjar[12] af öðrum löndum. Keisarinn sendi menn norðr[13] á fund Hákonar konúngs ok Skúla hertoga; þetta var lángri stundu fyrr en nú var frá sagt. Sá hèt Vilhjálmr, er fyri þeim var. Þeir fórnuðu konúnginum ok hertoganum margar presentur; en þeir sendu í móti þá luti, er með keisara voru torugætir, ok þar þóttu gersimar. Síðan hófust sendiferðir milli keisara ok konúngs. Fór fyrst af konúngs hendi Guðleikr af

[1]) af rètt kristnum konúngi, *b. G.* [2]) um þetta, *F.* [3]) svinnir, *F.* [4]) tóku, *B, F, G, H.* [5]) *v. F.* [6]) blíðt, *B.* [7]) inn mesti blíðskapr, *H.* [8]) *b. G;* Frá Bárði Ísaksbróður, *H.* [9]) *ætti at vera* Heinreks, *eðr* sonarson Friðreks; keisara, *b. F, G, H;* Konráðs k., *B.* [10]) ok ágætr, *b. F.* [11]) í þann tíma, *b. F.* [12]) ágætir, *b. F, G.* [13]) til Noregs, *b. F, G.*

Aski, ok fann keisara í Sikiley, ok tók keisari honum vel. Síðan fór Nicholás Pálsson, ok var lengi í keisara garði, ok þá af honum [sæmiligar gjafir[1], ok enn engi maðr var svâ vel tekinn í þann tíma af Norðmönnum sem hann[2]. Nokkuru síðarr en þetta var fóru þeir Hrói konúngsfrændi ok Bárðr son[3] Ýsaks or Bæ; var Bárðr af hendi hertoga, þótti [þeim Hrói[4] eigi flytja af skynsemi eðr sannyndum um mál þeirra Hákonar konúngs ok hertogans. Eptir þetta fór[5] sá maðr[6] í milli keisarans ok konúngs, er Heinrekr hèt, hann var fæddr[7] í Noreg, en þýðerskr[8] at ætt, hann var kallaðr Heinrekr sendimaðr[9]. Af þessu varð hin mesta vinátta með keisara ok Hákoni konúngi.

*Frá Bárði*[10].

192. Um vârit eptir er þeir sátu í þrándheimi, Hákon konúngr ok Skúli hertogi, þá höfðu þeir sýslu[11] á Heiðmörk, Bárðr Ýsaks bróðir ok Hákon dúfa, af hendi hertogans, þvíat svâ var þá skipt landinu at hertoginn hafði þriðjúng af öllum sýslum of allan Noreg. Þar varð illr atburðr[12], at Bárðr tók konu nauðga, en hún var eiginkona [þórðar Friðreks sonar[13] slafsa, er alla æfi hafði verit vin[14] Hákonar konúngs, en í því

[1]) stórar sæmðir, *F, H, G.* [2]) í þann tíma, *b. F, G.* [3]) bróðir, *F, G, H*; frændi, *B.* [4]) *frá* [ Hróa hann, *F, G.* [5]) út, *b. G.* [6]) mest, *b. B, F.* [7]) upp, *b. B, F, G.* [8]) þýðeskr, *F*; þýðverskr, *G, H.* [9]) hann fór margar sendifarir í milli með ágætum sendingum, *b. F, G.* [10]) *b. B, F, H*; Frá konúngi ok jarli, *G.* [11]) uppi, *b. G, H.* [12]) með því móti, *b. F, G.* [13]) *frá* [ Friðreks, *H.* [14]) höfuðvin, *B, F.*

ráði ok vitand[1] hafði verit Hákon dúfa. Þetta frèttu þeir Hákon konúngr ok hertogi norðr í Þrándheim, ok lètu illa yfir, sem vân var, ok hafði eigi hertoginn færa[2] um opinberliga[3].

*Dráp Bárðar Ýsaksbróður*[4].

193. Hákon konúngr ok Skúli hertogi bjöggu ferð sína suðr til Björgynjar um sumarit; ok áðr þeir fóru, sendi konúngr Jón prófastsson á land upp ok [nokkura menn[5] með honum, ok skyldi hann fara hit efra austr. En er þeir konúngr ok hertogi voru búnir, fóru þeir til Björgynjar. Ok áðr þeir komu suðr, höfðu bæjarmenn [gefit Suðrmönnum[6] slag[7] í Björgyn, drepit suma, en rekit suma á kaf, ok margir voru sárir; en þat hafði til orðit, at Suðrmenn höfðu lagt kuggum sínum at Björgynjar bryggjum, þar sem bæjarmönnum líkaði eigi, ok brotið skip nokkur, þau sem áðr lágu fyrir. En er þeir konúngr ok hertogi komu suðr, settu þeir þessu[8]. Jón prófastsson fór á land upp, ok er hann kom á Heiðmörk, mætti hann í vatninu Mjörs Bárði Ýsaks bróður, þar sem hann lá á skipi sínu, tóku þeir hann höndum ok drápu hann; fóru síðan í Vík austr. Þetta sama sumar drap Þórðr Friðreksson Hákon dúfu í Túnsbergi, fyri þær sakir sem þeir Bárðr höfðu gert. Þessi tíðindi komu til konúngs ok hertoga, ok lèt hann[9] sèr fátt um

1) með Bárði, *b. F.* 2) færri orð, *H, G.* 3) en konúngr, *b. F.* 4) *b. H*; Dráp Hákonar dufu, *G.* 5) sveit manna, *H, G.* 6) mikit, *b. F, G.* 7) *frá* [ ok Suðrmenn átt skark nokkut, *H.* 8) þetta vandræði niðr, *F.* 9) hertugi, *F;* Skúli, *G.*

finnast, ok höfðu menn þat fyri satt at [hertoga væri mjök í móti skapi þessara manna aftaka[1].

*Frá konúngi ok hertoga*[2].

194. [Um vârit[3] er á leið bjöggu þeir ferð sína, konúngr ok hertogi, or Björgyn, austr í Víkina, ok efnuðu til vetrsetu í Oslu. Þeir hèldu báðir saman jól um vetrinn; þessi var einn vetr hins þriðja tigar ríkis Hákonar konúngs. En eptir jólin hèlt sinn hjúkólf[4] hvârr þeirra, ok drukku þó jafnan báðir saman á kveldum. Þetta sumar áðr kom utan af Íslandi Snorri Sturluson, Þórðr kakali, Þorleifr or Görðum, Ólafr hvítaskáld, ok voru í Þrándheimi um vetrinn. Skúli hertogi bjóst norðr til Þrándheims um vârit, ok fór á föstunni þegar; fór þá blíðliga[5] með þeim mágum, er þeir skildust, ok mæltu[6] at þeir mundu finnast um sumarit í Björgyn, þvíat þeir skildu[7] at þá fór jafnan betr með þeim, er þeir voru báðir saman. Hertoginn kom norðr fyri páskir, ok sat þar[8] öndvert sumar. Þeir frændr Skúli hertogi ok Ásólfr af Austrátt urðu misláttir, ok skildi þá um eignina[9] á Austrátt, þvíat frú Sigríð abbadís, systir hertogans, er átt hafði Jón af Austrátt, kallaði þat tilgjöf sína, en Ásólfr kallaði föðurarf Baugeiðar[10], konu sinnar, dóttur Jóns. Hèr voru áttar at margar stefnur,

[1]) honum hugnaði þessi verk allilla, *G.* [2]) *b. F, G*; Frá Birkibeinum, *B.* [3]) sumarit, *F*; *frá* [ þetta sumar, *G, H.* [4]) húskólf, *B*, (*á spáziunni:* húskost); kost, *H*, [5]) allt vel, *F.* [6]) var mælt til þess, *F.* [7]) fengu skilit, *F.* [8]) í Þrándheimi um vârit ok, *F, H.* [9]) eigin, *G.* [10]) Ragneiðar, *B.*

hirðmanna ok mart lið[1] annat. Hákon konúngr hafði gert um vetrinn brèf austr í Vík til herra Knúts ok Arnbjarnar Jónssonar, at hann skyldi gefa Knúti jarlsnafn; síðan skyldi þeir verja Víkina ok Upplönd fyri Varbelgjum, ok [svâ ef hertoginn kvæmi norðan[2].

*Drepnir Varbelgir nokkurir í þrándheimi[3].*

212. þá er Hákon konúngr fór or Björgyn, var honum sagt at hertoginn hafði sent menn í sýslur á Sunnmæri ok Raumsdal. Ok er konúngrinn kom til Keilustraums, [nefndi hann til nokkura menn[4] at fara norðr fyrir, ok voru[5] þessir fyrimenn[6]: Arni blakkr, Gunnar konúngsfrændi, Ásólfr, Sigurðr biskupsson. þeir fóru sem skyndiligast, ok er þeir komu norðr til Raumsdalsmynnis, spurðu þeir at Finnr knöttr[7] var inn í Vereyju[8] með sveit sína; hann hafði þar sýslu af hertogans hendi; sneru þeir þannig[9], ok drápu Finn ok nokkura menn með honum[10]. En er konúngrinn fór norðr um Knarrarskeið[11], gerði hvast veðr ok snjáfok, lagði hann at við Sundólfsstaði[12]; var honum þar sagt[13] at hertog-

1) fólk, *F, G, H.* 2) hertoga, ef hann bæri þar at, ok hans mönnum, *F.* 3) Frá H. k. ok hertoga, *G.* 4) lèt hann kalla menn til tals við sik, ok nefndi nokkr skip til, *F, G.* 5) *b. F.* 6) stýrimenn, *F.* 7) gautr, *H;* knútr, *G;* snotr, *B.* 8) Vereyjúm, *H;* Verteyjum, *G;* Veeyjum, *B.* 9) þegar inn, ok komu á óvart, *F, G.* 10) Hákon konúngr hafði fregnir öngar um vetrinn norðan frá hertoga, þvíat svâ var gætt allra vega, at engi komst norðan þótt vildi. En þá konúngr sótti norðr, fór sá kurr at Skúli byggist á land upp, ok vildi eigi bíða konúngs, *b. B, F.* 11) Kjarrarskeið, *B.* 12) Söndúlfsstaði, *F.* 13) til sanns, *b. F.*

inn var farinn á land upp. Þá var þat ráðs tekit, at ger voru fyri XV skip, ok voru þar[1] Ásólfr[2] ok Gunnarr. Þeir sigldu rakleitt norðr til bæjarins, [ok er þeir sigldu at bænum, var, sem myrkvast nætr[3]. Bergþórr rámr[4] hèt maðr hertogans, hann sigldi fyri þá á lèttiskipi, ok bar njósn til bæarins. [Gunnarr konúngsfrændi lagði[5] at við Íluvík[6], ok gekk þar upp. En Ásólfr ok sumt liðit reyri hit beinsta upp í ána, ok gekk þar upp. En með því at fyrri hafði njósn komit, þá komust menn í kirkjur. Þeir drápu nokkura menn af Varbelgjum, en sumir urðu sárir.

*Frá Skúla hertoga*[7].

213. Skúli hertogi fór[8] or bænum laugardag í IXvikna föstu, ok var hann um nóttina í Meðalhúsum; hann fór þaðan út til Orkadals. Hann hafði sett eptir í bænum Klæmit föður ok Guthorm af Suðrheimum, at gæta skipa sinna ok allra þrændalaga, ok höfðu CC manna. Hertoginn fór suðr um fjall með V hundrut manna ok hit fríðasta lið, ok vel búit at vâpnum ok klæðum[9]. Álfr á Leifastöðum hafði fyrri austr farit, ok þeir sveitúngar, sem fyrr var sagt. Þá voru þeir í Guðbrandsdölum, Munan biskupsson ok Ögmundr krækidanz, er þeir spurðu at hertoginn var norðan kominn; sneru þeir þá upp á Heiðmörk. Ok

1) þeir þar fyrir, *F*. 2) af Austrátt, *b. F, H*. 3) *frá* [ um nóttina, *F*. 4) tanni, *F*; tamr, *G, H*. 5) *frá* [ ok er þeir sigldu at bænum, lagði G. k. fr., *F*. 6) Ilsvík, *F*; Ilvík, *B*; bryggjur, *H*. 7) *þ. G, H*; hertogi (*rángt, á at vera* konúngsmenn) elti (eltu) Álf í kirkju, *A*. 8) hafði farit, *F, G*. 9) ok hestum, *b. B, F*.

er þeir komu til Ríngisakrs[1], var þar fyrir Álfr á Leifastöðum, ok varð honum svâ þraungt[2] at hann hleypti inn í kirkju, ok allir hans menn, en þeir Munan[3] settust um kirkjuna, ok sátu þar lengi um daginn. En með því at hertogans var vân norðan, þá sneru þeir út til Oslóar; gerðu þeir þá orð[4] Knúti jarli ok Arnbirni Jónssyni ok öðrum lendum mönnum í Víkinni, ok drógu þeir þá mikinn her saman.

*Hákon konúngr kom í Þrándheim[5].*

214. Hákon konúngr sigldi inn [til Þrándheims[6], ok lagði at við Hólm; þá var honum sagt, at Varbelgir voru fyri í bænum fjölmennir, Klæmit faðir ok Guthormr; þeir höfðu þángat flýit, þegar þeir spurðu, at konúngs var vân til bæjarins, ok sátu trúfastliga í kirkju[7]. Þeir gerðu orð til konúngs ok beiddust griða, en engi svör komu í móti frá konúngi[8]. Konúngr reyri síðan inn til bæjarins, gekk Sigurðr erkibiskup vel[9] í móti honum ok kórsbræðr[10]; þeir voru vinir hertogans nokkurir er þat töluðu, at þeir skyldi sættast konúngr ok hertogi, með því at hálft ríki hefði hverr þeirra ok báðir kon-

1) Hringsakurs, *F*; Hringisakurs, *G*. 2) nær ækit (*ekit*) *G*. 3) ok Ögmundr, *b. F*. 4) njósnir, *F, G*. 5) Frá konúngi ok erkibiskupi, *G*; Frá k. ok Varbelgjum, *H*. 6) eptir Þrándheimi, *F, H*. 7) Hákon konúngr vildi fyri því eigi upp gánga, *b. B, F*. 8) átti konúngr tal við sína menn, *b. B, F*. 9) *v. F*. 10) ok fögnuðu honum vel (ok gerðu vegliga processionem í móti honum, *H*) en finna þóttist hann, at sumir töluðu annat en í hug var. Þeir töluðu optliga, konúngr ok erkibiskup, um þau stórmæli er stóðu um allt landit, *b. B, F, G, H*.

úngsnafn. Konúngr sagði at honum gatst eigi at þeirri sætt svâ búit. Hertoginn hafði sent til Elgisetrs[1] frú Ragnhildi ok [frú Ragnfríði[2] ok margan annan varnat sinn. Erkibiskup bað þeim griða af konúnginum, en hann sagði svâ at hann mundi gefa grið, þó at aðrir menn væri í kirkju komnir en þær, sagði ok [þeir skyldi allir fá grið, er í kirkju sæti í Hólmi[3], ok gengu þeir þá til sætta[4]; fóru sumir til konúngs, en sumir til búa sinna. Hertoginn hafði svâ farit or Þrándheimi, at bú þeirra manna er honum fylgðu stóðu kyr, ok því komu menn or öllum bygðum[5], þeir er gættu búa Varbelgja, ok báðu miskunnar, at konúngr lèti eigi upp taka búin. Konúngr [svarar svâ[6], at bú Varbelgja skyldi standa til sumarmála, ok bíða[7] ef þeir vildi gánga til sættar við hann[8].

*Bannsettr Björn ábóti[9].*

215. Sigurðr erkibiskup varð reiðr Birni ábóta[10] um haustið, þá er hertoginn hafði látið gefa sèr konúngsnafn, bæði fyri þær sakir, er hann hafði sjálfr gert, ok svâ þat er hann hafði verit í ráði með hertoganum um hans tiltæki; ok fyri þetta alltsaman bannsetti[11] erkibiskup ábótann. Honum líkaði þetta stórilla, ok því appelleraði[12] hann erkibiskup til páva. Þeir báru

[1]) í kirkju, *b. F, G, H.* [2]) júngfrú Ragnríði, *G.* [3]) *frá* [ allir Varbelgir (hertoga menn, *H*) skyldu þar grið hafa er í kirkjum sátu, *G, H.* [4]) griða, *F.* [5]) fylkjum or Þrándheimi, *F, G.* [6]) *frá* [ lèt þá blása til þings, ok lýsti því fyrir öllum mönnum, *F, G.* [7]) freista, *F, H.* [8]) ok miskunnar, *b. F, H.* [9]) Frá Sigurði erkibiskupi ok Birni ábóta, *G.* [10]) í Hólmi, *b. F, G.* [11]) bannsaung, *B, G.* [12]) appellaði, *F.*

þá saman ráð sín, hertoginn ok ábóti; tók ábóti fè af hertoganum, ok setti at veði staðinn í Hólmi; [fór hann með eyrendi hertogans[1] til annarra landa, Danmerkr ok þýþersku[2] ok út [í Kúrí-am[3]. Fór ábóti um vetrinn [til Upplanda[4], ok er hann kom í Hamarkaupáng, var þar fyri Munan biskupsson[5]; hafði hann spurt um ferðir hans, ok því tók hann ábóta ok[6] þat sem hann fór með, ok [sendi hann[7] til Björgynjar; var hann í Borg hjá drottníngunni, þar til er konúngr kom norðan.

*Skúli hertogi sendi brèf í Svíaríki*[8].

216. Skúli hertogi hafði gert Jatgeir skáld austr í Jamtaland [ok Helsíngjaland ok Svíaríki[9] með brèfum; ok er Hákon konúngr spurði þetta, gerði hann Gunnar, frænda sinn, eptir honum, ok fór hann sem ákafligast, ok hafði hann mikla nauð í þessi ferð; hann hafði eigi meirr en XV menn. Hann dráp þann mann í Helsíngjalandi, er Þórir[10] hèt, hann hafði sýslu af hertogans hendi. Síðan fóru þeir eptir Jatgeiri, ok fundu[11] hann í Helsíngjalandi, ok tóku af honum öll brèf ok gersemar, þær er hertoginn hafði sent vin-

1) tók ábóti við erindum hertogans ok brèfum, *F.* 2) þýðeska ríkis ok i önnur lönd er þar eru nær, *F*; þýðverska land, *G.* 3) til Róms, *B.* 4) fyri jól, or Niðarósi, ok er hann kom upp um fjall, þá fór hann sem tómligast, sem hefði hann aungva þá hluti með at fara, er varðaði, *F.* 5) lèt ábóti allblítt við hann ok gerði öngvan grun á sèr, *b. F.* 6) allt, *b. F.* 7) fèkk til fjóra hirðmenn ok fjóra aðra menn, at fara með ábóta ofan í Sogn, ok, *F, G, H.* 8) Frá Skúla hertoga, *F, H.* 9) Svíþjóð, *F; frá* [ ok svá til Svíþjóðar, *G, H.* 10) hrísbitr, *b. kin.* 11) stóðu, *F, H.*

um sínum. Jatgeirr komst undan sem nauðugligast. Fèkk Gunnarr í þeirri ferð sóma[1] mikinn; kom hann fyrr til Niðaróss, en konúngr væri brott búinn[2].

*Úfriðr um Upplönd*[3].

217. Þá er Skúli hertogi var á Heiðmörk, kom til hans Veseti litli austan af Mörkum. Hertoginn fór or Hamri ok út til Eiðsvallar í annarri viku lángaföstu; hann gerði fram fyri sik Álf af Leifastöðum á njósn; hann mætti um nóttina njósnarmönnum Knúts jarls; fóru þeirra skipti svâ, at Knúts menn fengu tekit einn mann[4] af Álfi, ok færðu þann jarli, en með jarli var sá maðr, er sakar átti við hann, ok [drap þenna mann[5]. Þá er hertoginn fór af Eiðsvelli, kom til hans prestr einn danskr[6], ok sagði at Knútr jarl hefði sent hann til hertogans: at jarl vildi at þeir fyndist þar sem Leiruvellir heita, ok hèldu orrostu. [Hertoginn bað svâ segja jarli, at þenna kost vill hann, ok lèzt önga úró gera mundi, áðr þessi fundr væri reyndr. Hertoginn hafði verit um nóttina á Raumaríki, á þeim bæ er á Láku heitir. Um morgininn er hertoginn var búinn með lið

[1]) heiðr, *F*; æru, *H*. [2]) þá er Hákon konúngr var í Niðarósi, komu sveinar nokkurir austan um fjall ok sögðu, at Knútr jarl ok lendir menn konúngs höfðu saman safnazt í Oslu, ok höfðu V hundruð ok XX (hálfan þriðja tug hundraða, *G*) manna, ok lèti allvænliga (allvígliga, *G*) at þeir mundi vinna sigr á hertoga, þótt þeir hefðu minna lið en þá höfðu þeir. Ok þeir sögðu at hertoginn var með sínu liði á Heiðmörk er þeir fóru þar um, sögðu ok allt hit efniligasta um tiltekjur Birkibeina, *b. B, F, G.* [3]) Bardaga stefna, *G.* [4]) svein, *F, G.* [5]) gerði hann hálshöggvinn, *B, F, G.* [6]) ok fáir (nokkrir) menn með honum, *F, G.*

sitt, fóru þeir fram yfir ána Leiru; fóru þá ok Birkibeinar í mót þeim[1] eptir árísínum, ok var nes í milli þeirra, er Leirnes heitir. Þeir riðu fyrstir af hertogans mönnum, Bárðr vargr, lendr maðr hans[2] af Guðreksstöðum, son Þorsteins kúgaðs. Ok er þeir komu[3] fyri nesit, komu Birkibeinar á mót þeim, Arnbjörn posi ok sveit með honum; vildu þá Varbelgir snúa undan í mót fèlögum sínum; en er Bárðr sneri hestinum, fèll hestrinn undir honum, ok fèkk Arnbjörn tekit hann[4]. Hertoginn sneri af ánni upp á

[1]) *frá* [ byggist hvârirtveggju við sem bezt, ok træðu sèr gadd, en hvârigir stælist á aðra þar til er þessi fundr væri reyndr. Hertoginn bað hann svâ segja jarli ok öðrum Birkibeinum at þenna kost vili hann ok lèzt engan úfrið gera skyldu, áðr þessi fundr lyktaðist. Annan dag kom þessi (komu þeir) prestr til hertogans, ok sagði svâ at jarl vildi at þeir skipaði til um fylkingar sínar hverjar sveitir móti skyldu gángast, bað hertogann láta sitt merki móti jarls merki, en hann sagði at gestir hans mundi hafa svart merki, ok skyldi þar gesta merki hertogans móti, ok sagði þá svâ at jarl vildi at þeir skipaði til svâ, at kertissveinar ok þær sveitir er þar voru með mundi hafa gyllt (gúlt, *F, G, H*) merki, ok væri þar í móti kertissveinar hertogans. Prestr bað hertogann senda með sèr menn á fund jarls ok heyra þessi orð af hans munni; hann sendi þann mann er Kári einhendi hèt. Hertoginn hafði verit um nóttina á Raumariki á þeim bæ er á Láku heitir. En er þeir prestr ok Kári komu skamt burt frá hertoganum við einn lítinn skóg, þá sá þeir merki Birkibeina fara í mót sèr. Prestr sagði at jarl var þá hvatlátari, en honum var (hann hafði) sagt; bað hann þá Kára aptr snúa ok segja hertoganum hvat titt var, ok svâ gerði hann. En lið hertogans fór þá fram af skóginum á ána Leiru; fóru þá hvârir á móti öðrum, *B, F, G, H.* [2]) við smásveina, *b. H;* ok Bárðr af, *b. B, F, G.* [3]) mjök, *b. F.* [4]) en Bárðr af Guðrekstöðum komst undan, ok fèkk mikit spjótlag milli herðanna, ok hlífði honum góð brynja, er hann varð eigi sárr, *b. B, G.*

nesit ok bjóst þar um, en Birkibeinar annan veg af ánni, gegnt þeim. þeir skutust á um hríð, fèkk af því banasár Jón parís[1] af hertogans mönnum. Bárðr vargr fór til Eiríks stilks, mágs síns; hann kærði þat fyri honum at hann hefði eigi þar klæði sín, bað Eirík fá til mann at fylgja sèr út á ísinn, [svâ at hann mætti[2] kasta rúnakefli[3] til fèlaga sinna. Eiríkr gerði svâ: ok er þeir komu á ísinn, fór Bárðr þeirra fyrst[4]; sveitúngar hans voru öðru megin árinnar, ok kendu hann, ok gengu á mót honum. Bárðr hefr þá á rás frá Birkibeinum ok til fèlaga sinna. Skúli hertogi var III nætr á Leirnesi, ok mátti þar eigi lengr fæða herinn, ok fór þaðan snimma frjádags morgin í annarri viku lángaföstu[5], ok sneri hann þá aptr til Láku. Ok er Birkibeinar urðu við þetta varir, fóru þeir eptir honum. þá er Varbelgir komu á Láku, tróðu þeir sèr gadd á brekkunni hjá húsunum; var þar fyri niðri dalr einn, en hæð öðru megin; sá þeir þá Birkibeina[6]; tók hertoginn þá at fylkja[7] ok hans menn.

1240 *Bardagi á Láku*[8].

218. Birkibeinar fóru til þess er þeir komu á Láku, ok fylktu öðru megin hjá[9] dalverpinu. þeir Knútr jarl ok Arnbjörn fengu til [margar

[1]) faris, *H*; pans, *B*. [2]) ok kvaðst vilja, *F*. [3]) á ísinn, *b. F*. [4]) skjótast, *F*. [5]) þat var inn VII (þriðja, *H*) iðus dag martii mánaðar, *b. B, F, G, H*. [6]) at Birkibeinar fóru eptir þeim, ok þóttust skilja at þar mundi verða fundr þeirra, *B, F*. [7]) liðinu á brekkunni, *b. F*. [8]) Birkibeinar fylktu liðinu, *F*. [9]) á, *F, G, H*.

sveitir[1] at veita Varbelgjum bakslag[2], gengu þeir á bak fylkíng hertogans, ok var bærinn milli þeirra. Ok er hertoginn sá þetta, skipaði hann sínum mönnum móti [þessu liði[3]. Ok er þeir mættust, varð þar harðr bardagi; var Birkibeinum úhæg atgángan, þvíat snjár var mikill ok íllt at fara, en Varbelgir tóku [hart í móti[4]. Þá er þeir jarl ok Arnbjörn þóttust vita at saman voru komin bakföllin, [þá gengu þeir[5] í dalinn með lið sitt, ok upp í brekkuna undir fylkíng hertogans. Hertoginn bað sína menn vera eigi of veiðibráða, ok láta þá gánga lángt upp, áðr þeir rèði í mót; en þat var at öngu haft, [ok gengu Varbelgir skjótt í móti [Birkibeinum; máttu[6] ok ekki framkomast fyri snjánum, ok[7] viku skjótt aptr, þar sem þeir höfðu fyrr staðit, ok lèzt þar einn maðr af þeim.

*Flýði Knútr jarl*[8].

219. Nú er at segja frá bakföllunum: Hákon grís gekk í fyrra lagi af Birkibeinum, ok er þeir komu saman, sneri[9] mannfallinu í lið Birkibeina, þar fèll Hákon grís ok Jón prófastsson, Guth-

---

1) marga sveitarhöfðingja, *B, F.* 2) bakslettr, *B*; áhlaup, *F*; var fyrir þeim Loðinn Gunnason ok Hákon griss, ok Jón prófastsson, hann var fyrir kertissveina liði, ok bar Þórir knappr (knapr, *H*) merki þeirra; margir voru þar aðrir sveitarhöfðingjar, *b. hin.* 3) bakfallinu, ok voru þessir sveitarhöfðingjar þar fyrir: Álfr af Þornsbergi, Ólafr (Ögmundr) af Vígdeild, Álfr af Leifastöðum, Veseti litli, Algauti bróðir hans, ok enn fleiri sveitarhöfðingjar, *hin.* 4) harðfengiliga við, *F.* 5) lètu þeir fram bera merki sín ok gengu, *b. B, F.* 6) Birkibeinar máttu, *F.* 7) *frá fyrra* [ Varbelgir steyptust nú ofan á Birkibeina, svå at þeir, *G, H.* 8) Bardagi, *F.* 9) *b. hin.*

ormr heggr ok margir aðrir ágætir menn; flýðu þá Birkibeinar ok fèll mart í flóttanum. Loðinn Gunnason hljóp í [skot kirkju[1] með sveit manna. Varbelgir fengu tekit merkin, ok höfðu þau til hertogans. þóttust þeir jarl ok Arnbjörn vita, at þeirra menn höfðu farit ósigr, [sendu þeir þá mann[2] með nokkura sætta umleitan til hertogans; ok er sendimaðr kom aptr, ok þeir menn sem hertoginn hafði sent með honum, stóðu þar skildir í fönninni[3], en menn voru allir á brauttu. Flýðu Knútr jarl ok Arnbjörn út til Túnsbergs, en sumir til Oslóar ok út til Höfuðeyjar, ok sátu þar í klaustri. Kolbeinn[4], bróðir Álfs af þornbergi, fèll af Varbelgjum, ok fáir menn aðrir; svâ kvað Ólafr hvítaskáld[5]:

Hilmir fór með herskap stóran
hildar borðs á Upplönd norðan,
merki skárust ljós á Láku
lá ferð vegin skörpum sverðum.
þunnum[6] reið til þrándheims sunnan
þíngfrækn jöfurr völum stínga;
herskip brendi hilmir grundar
hyggju gegn en líf gaf þegnum.

Svâ kvað Sturla:

[Stóð úfriðr
af afarmenni
innanlands

[1]) kirkjuskot, *B*; skotit kirkjunnar, *F*; skot kirkjunnar, *H*.
[2]) gerðu þeir þá ráð sitt ok sendu þann mann er Eilifr kýr hèt, *B*, *F*, *G*.
[3]) feninu, sem þeir jarl höfðu áðr staðit, *B*, *F*.
[4]) Kábjörn, *B*; Kolbjörn, *F*.
[5]) um þessi tíðindi, *b*. *B*, *F*.
[6]) þinnig, *B*.

öllu fólki[1];
þá er ýnglíngr
austr á Láku
sverða seið
um[2] samit hafði.
Ok víggjálfr[3]
vaxanda lèt
úlfa ár
ok ara ferðar;
valdan vetr
til vâpn-þrimu
of vígskátt
vísa ríki.

*Hertoginn gaf mönnum grið[4].*

220. Skúli hertogi gaf grið Loðni Gunnasyni ok þeim mönnum sem með honum voru. Eptir þat fór hann út til Oslóar, ok lèt sik þar til konúngs taka; gaf þeim mönnum grið, sem sátu í klaustri[5], Páli gás, Gjarðari Styrssyni ok enn fleirum sveitarhöfðíngjum; gengu margir Birkibeinar til handa hertoganum; dvaldist hann þá í Oslu um hríð.

*Hákon konúngr í þrándheimi[6].*

221. Hákon konúngr sat í þrándheimi sem fyrr var ritað. þat var siðr konúngsmanna at gánga til Elgisetrs jafnan[7] til frú Ragnhildar[8] ok hennar[9] manna[10]. Ok einn dag er þeir komu

---

1) *frá* [ *v. F.* 2) of, *H.* 3) *eðr* viggjálfr; vigi álfr, *G;* viga álfr, *F;* vigálfr, *B.* 4) Frá griðagjöfum Sk. hert., *G.* 5) í Höfuðey, *b. B, F.* 6) Hèr frèttir konúngr fall manna sinna, *H;* Frá konúngsmönnum, *G.* 7) um daga, *B, F, G.* 8) ok þeirra mægna, *b. F.* 9) hertogans, *F.* 10) at skemta sèr, *b. H.*

þar, sá þeir at fólk allt[1] hló at þeim, sem þeir vildu gera gys nokkurn, en [segja þeim ekki[2]. Þann sama dag kom austan gestr einn til konúngs, [ok sagði honum bardagann á Láku, ok þar hefði fallit margir ágætir menn af honum. Konúngi þótti þetta mikil tíðindi[3], skorti þá[4] eigi gabb af hertogans [mönnum, ok[5] sögðu at drjúgum var öll hirð Hákonar konúngs látin[6] í Víkinni, ok eigi víst at jarl hèldist við[7]. Öllum konúngs mönnum var [mikill ótti[8] at þeim tíðindum; þá kvað Ólafr vísu:

Tjón höfum Birkibeina
böðhraustir fregit austan
brátt mun bug þann rètta
bragníngr ef[9] [vel hagnar[10];
virðendr munu verða
vâpnglyms fima ymsir,

1) þat er þar var, *b. H.* 2) en vildu engi tíðindi segja þeim; þeir sögðu konúngi at víst voru nokkur tíðindi þau (með Varbelgjum) er þeim hló hugr við, *b. F.* 3) *frá* [ konúngr spurði tíðinda, en hann stóð ok þagði. Konúngr bað hann segja slík sem voru ok guð hafði til sett at verða skyldi, þvíat vèr munum spyrja af öðrum, þótt þú segir eigi; hann svarar: þat er skjótast at segja, at Knútr jarl ok lendir menn yðrir í Víkinni fundust, ok hertoginn, á Raumaríki, á bæ þeim er á Láku heitir, ok áttu þar bardaga, ok höfðu yðrir menn betr inn fyrra dag, en inn síðara dag flýðu þeir, ok fèllu þar margir ágætir menn; sagði hann þá konúngi allt sem farit hafði, þvíat hann hafði verit í bardaganum. Konúngi þótti þetta stórilla, *B, F, G.* 4) jafnan síðan, *B, F, G.* 5) vinum til Birkibeina, þegar þeir þorðu, ok svá mikit bragð var at þessu, at þeir sem austan komu til vina hertogans, *B, F, H.* 6) niðr höggvin, *G*; drepin, *H.* 7) í landinu, *b. F.* 8) mikil hrygð, *F, H*; rygð, *B.* 9) er, *B.* 10) ve magnar, *F.*

veit ek at vart hefir Knúti
vegnat, brögðum[1] fegnir.

*Hákon konúngr talaði*[2].

222. Eptir þetta gerði Hákon konúngr orð lendum mönnum, at menn bjöggi ferð sína sem ákafligast. [Erkibiskup bauð konúngi at ríða suðr um fjall, ok leita um sættir með þeim hertoga, ef hann vildi[3]. Konúngr svarar: guð þakki yðr, herra, góðvilja yðarn, [þvíat þat má skilja[4], at þèr vildit at vel færi[5], en þo at vèr hafim fengit[6] skaða um vâra menn, kann vera at þar sè meira frá sagt en satt sè; en þótt svâ sè, þá segjum vèr með guðs miskunn ok hins heilaga Ólafs konúngs, at þat er vârr hinn mesti styrkr[7] sem sjálfra vârt föruneyti er; ok því líkar oss þat illa[8] at gera nokkura sætt við hertogann, fyrr en nokkut er reynt af vârum skiptum meira en nú er[9], ok sjást skulum

---

1) bragning, *F*; brögnum, *G.* 2) Viðrtal Hákonar konúngs ok erkibiskups, *B.* 3) *frá* [ Eptir þetta kom Sigurðr erkibiskup einn dag í Nikolás (Mikals, *H*) kirkju til konúngs ok með honum Lambi prior af Helgisetri. Erkibiskup sagði til konúngs: vèr höfum spurt at þèr hafit fengit mikinn ok margfaldan skaða í láti yðvarra manna í Víkinni fyrir Skúla hertoga; er þat nú ræðiligt, (hræðiligt ef yðrir óvinir skulu gánga svâ mjök) at mjök gángi yðrir úvinir fram ef svâ ferr nokkura rið, sem nú horfist á, ok þætti oss ráðligt at leitat væri um sættir milli yðar ok hertogans, bæði fyrir sakir landsins ok allrar alþýðu; viljum vèr gjarna mæða oss til þessarar ferðar, at ráða suðr um fjall, ef yðr er þar nokkur áfúsa á. Kann vera at því síðr nái góðum sættum af hertoga, sem honum gengr betr, *hin.* 4) er þèr birtit í þessu, má þat ok finna, *F.* 5) með slíku framlagi starfs yðar, *b. B, F.* 6) nokkurn, *b. hin.* 7) í landinu, *b. F, G.* 8) varla at svâ búnu, *F.* 9) þvi við höfum enn eigi fundizt sjálfir nè

vèr áðr mágarnir, ok vita, hvart betr vili vegna, eða þá er aðrir berjast af vârri hendi'. Eptir þetta komu hversdagliga Varbelgir til konúngs, Jón af Suðrheimum, frændi hans, þorfinnr af Gyrvi, ok tóku grið af konúngi. Rannsakaði hann þá eptir skipum þeim, er hertoginn átti, ok tók þau til sín sem honum líkaði[2], en hin stærri voru brend eðr höggvin upp.

*Gefit Hákoni únga konúngs nafn*[3].

223. þá er Hákon konúngr var albúinn lèt hann blása til Eyraþíngs[4], ok var út borit skrín hins heilaga Ólafs konúngs ok kross sá er í var lignum domini; þetta var sunnudag, hálfum mánaði fyri páska[5]. Var þá gefit Hákoni únga konúngsnafn; þat gerði Einarr smjörbakr er síðan var erkibiskup; var þar við[6] erkibiskup ok hinir beztu menn or þrændalögum. Konúngr úngi sór eið at skríni hins heilaga Ólafs konúngs, eptir rèttri siðvenju. Sóru síðan honum allir lendir menn ok hirðstjórar ok XII[7] bændr or hverju fylki. Eptir þetta talaði Hákon konúngr gamli; sagði at bændr höfðu gert meira styrk á móti honum en hann lèzt vara, ok[8] þeir ætti við konúng sinn at gera;

---

barizt undir merkjum okkrum. En ef þess er auðit at vèr finnumst ok hafi guð svâ fyrir sèð (ætlat) ok hinn heilagi Ólafr konúngr, at ek fái lægra lut, þá mun þess kostr at gera sættir okkar í milli, en með engu móti líkar oss svâ búit at sættast, at úreyndum okkrum fundi, *b. hin.*

1) skildu þeir, at svâ mæltu, konúngr ok erkibiskup, *b. F, G.* 2) honum þóttu sèr bezt fallin, *F, G.* 3) Hákon úngi var til konúngs tekinn, *G.* 4) eptir þvi sem áðr var stefnt, *b. F, H.* 5) (*ok annars*), páskir, *G.* 6) Sigurðr, *b. F.* 7) *eðr* VII; átta, *B, F*; VIII, *G.* 8) eðr, *B.*

en þó kvaðst hann þat þeim eigi mest kenna, [þótti ok líkligt[1] at öðrum hvârum mundi mislíka, honum eða bændum. Þann sama dag var erkibiskup í boði konúngs, en konúngr var mánadag í boði erkibiskúps, ok gaf hvârr öðrum góðar gjafir.

*Ráðagerð Hákonar konúngs*[2].

224. Týrsdaginn lagði konúngr út til Hólms, en síðan gaf honum hægja byri, kom hann týrsdaginn eptir pálmsunnu til Hegraness, [ok átti þíng við lið sitt, ok talaði[3] svâ: vèr höfum heyrt kurr[4] nokkurn um hríð, at mönnum leiðist rekstr þessi, er vèr höfum haft í vetr; svâ eru menn ok nokkut óttaslegnir, síðan menn höfðu spurt tíðindi austan or Víkinni, [hafa ok margir[5] menn meiri vâsbúð fyri konúngi sínum ok rekstr, allra helzt er eigi hefir einn vârr maðr skeinu fengit, ok öngan vâpnaburð hafit þèr sèt í móti yðr; mundi slíkt þykkja forðum daga lítil þraut, er enn hefir í gerzt með oss, ok eigi mundu fornu Birkibeinar skiljast við sinn konúng í eigi meiri raun. Nú er þat bæn mín[6] at þèr hafizt

---

1) gat hann ok þess, at eigi var örvænt, *F.* 2) Tala Hákonar konúngs, *G*; fyri sínum mönnum, *b. H.* 3) *frá* [ í óttu, ok svaf þar til þess er ljóst var; kom þá lið eptir honum norðan; lèt konúngr þá blása öllu liðinu af skipum (til landgaungu, *G*) ok átti húsþíng. Kurr nokkr hafði verit í herinum, síðan slagit hafði verit á Láku, ok mest af leiðángrs mönnum; beiddu þá margir orlofs at fara heim ok var nokkr ótti á at fara lengra suðr. Hákon konúngr talaði þá fyrir herinum ok mælti, *B, F.* 4) kyrr, *G.* 5) mun þat þó flestum kunnigt, at opt hafa, *F.* 6) til allra manna *b. F, G, H.*

við vel, ok skilìzt eigi við oss svâ búit, þvíat þat mun eigi drengiligt þykkja yðarrar handar; [vænti ek at eigi líði hálfr mánaðr hèðan, áðr oss sè nokkuru hægra[1]. Bóndi einn[2] stóð upp ok svarar konúngi: ek var í þrim bardögum með Sverri konúngi föðurföður þínum, ok ef hann mælti svâ, þá mundi mönnum lítil raun í þykkja at fylgja honum; [verði sá ok hvers manns níðíngr[3], er skilst við konúng sinn, þótt meiri raun sè en nú er hèr. Síðan bað konúngr menn búa ferð sína sem ákafast. Þegar þeir komu til Björgynjar, lagði konúngr til bæjarins, ok var geyr processía í móti honum, ok urðu allir [menn honum fegnir[4].

*Endrnýað at gefa Hákoni konúngsnafn*[5].

225. Þá lèt konúngr rannsaka brèf þau er Björn ábóti fór með; voru þar brèf til pávans ok keisarans ok margra höfðíngja út í löndum af hertogans hendi, er hann ætlaði at hans mál skyldi mest hafa fram dregit, ok svâ mikit bragð var at því, at varla mundi nokkurr maðr trúa, at slíkr höfðíngi skyldi svâ mart vilja segja satt ok logit[6]; þau voru sum brèf er ábóti væri líflátsverðr[7] fyrir, en þó gaf konúngr honum

[1]) *frá* [en þat mun ek segja yðr, (góðir vinir, *b. H*) sem vèr væntum at sannast man, áðr en hèðan sè liðinn mánaðr, þá skal sumum vera rýmra um hendr (innanlands ok, *b. B*) innan hirðar, en nú er, *B, F, G.* [2]) gamall, *b. F, G.* [3]) er þat ok mitt mál, at sá verði allra manna armastr, *hin.* [4]) fegnir hans tilkomu, *F*; kvamu, *G*; þarkvomu, *H.* [5]) Um brèf Bjarnar ábóta, *G*; Hèr segir frá brèfum Skúla hertoga, *H.* [6]) sem Skyli hafði rita látit, *b. G.* [7]) sannliga dauðaverðr, *H.*

grið, þegar hann fèkk[1] brèfin[2]; fór ábóti austr með konúngi. [Lendir menn báðu konúng[3] at hann sæti í Björgyn of páskana[4], ok gæfi heimleyfi þeim sem [þar voru[5] með honum, en byði út leiðángri um öll Gulaþíngslög at mönnum ok vistum, ok tæki þar svâ mikinn styrk, at hann þyrfti ekki at óttast hertogann. Konúngr svarar: [ekki þikki mèr[6] þat ráð [at gefa þeim heimleyfi, sem nú eru með oss[7], þvíat vèr vitum eigi[8], hvart vèr fám meira styrk af Gulaþíngs mönnum[9] ofarr meirr en nú höfum vèr[10]; þykkjumst vèr þá dýrt kaupa þann styrk, ef vèr týnum þeim er í Víkinni eru, ok vârri sæmð vilja fylgja, ok sjálfa sik fram leggja fyrir oss, ef vèr komum bráðliga til þeirra; mun ok því minni vârr styrkr þar, sem vèr komum síðarr til þeirra, ok því munum vèr fara sem skyndiligast með því liði sem vèr fám, ok þó mun ek austr fara, þótt ek hafa eigi meira en III skip, ok þó munu vèr fram halda at vèr farim einskipa, en þeir sem eigi vilja fylgja oss[11], láti guð oss fá[12] þeim umbunat svâ at þeir kenni. Hann sagði ok at hann vildi láta þar endrnýja konúngsnafn únga kon-

---

1) öll, *b. B, F, G.* 2) ok vissi öll erindi hans, *b. F.* 3) þá konúngr var í Björgyn, gengu til hans lendir menn ok ráðgjafar, ok sögðu ráð, *F.* 4) ok á vârit fram, *b. B, F, G*; ok únáða sik eigi svâ mjök nè sína menn, *b. G.* 5) áðr höfðu verit, *F.* 6) *frá* [ með öllu þikkir mèr ekki, *F, G.* 7) því ef vèr sitjum hèr í vâr, þá er sá margr brautu á skamri stundu, er nú er hèr, *F.* 8) varla, *F.* 9) lögum, *F, G.* 10) man Víkverjum, þeim er þar eru, þikkja því betr, sem vèr komum þar fyrr, *b. H.* 11) þá, *b. F.* 12) verða svâ lánghenda, at vèr fáim, *F, G, H.*

úngs, ok líkaði mönnum þat vel. Var þá blásit til þíngs skíriþórsdag[1] út í Kristskirkjugarði; var þá enn[2] gefit Hákóni únga konúngsnafn; sór hann þá eið eptir[3] siðvenju, ok lendir menn eptir honum ok bændr or öllum Gulaþíngslögum ok af Orkneyjum[4], Hjaltlandi [ok Íslandi. Eptir þat lýsti Hákon konúngr því, at lángafrjádag skyldu þeir brottleggja skipunum, lagði þeim við lándráð, er þá dveldist eptir. [Hann lagði frjádag út[5] í Flóruvâga, [en laugardag suðr[6] í Grænîngjasund, ok hafði þá eigi meirr en X skip. [Páska lèt hann veita tíðir sæmiliga[7]. Sunnanveðr var á hvast, ok sögðu menn[8] at eigi mundi vel byrja, er konúngr vildi eigi vera í kaupstaðnum þvílíka hátíð. [Konúngr bað menn vera káta, sagði at enn mundi vel verða[9].

*Andlát Arnbjarnar Jónssonar*[10].

226. Svâ er at segja frá Skúla hertoga at hann sat í Oslu[11], ok dró[12] lið at sèr. Síðan fór

---

1) skírdag, *F.* 2) *b. H.* 3) rèttri, *b. F, H.* 4) ok, *b. F.* 5) *v. B, G.* 6) ok var þar úm nóttina; hann fór um morgininn inn til bæjar ok heyrði tíðir, ok fór þegar út aptr, ok lagði þá þegar út, *B, F, G.* 7) ok lá þar páskadaginn; lèt konúngr reisa þar tvö landtjöld, ok lèt veita tíðir sem sæmiligast; þar var preðikat ok gerðar (voru preðikarar ok höfðu, *G*) lángar tölur (ræður) um skriptir manna ok nauðsynjar, *B, F, G, H.* 8) flestir menn svâ, *F.* 9) af þessu varð konúngrinn nokkut hryggr (ryggr), er menn drápu þann veg orði (dómi, *G*) á um hans tiltekju (tiltæki), ok er messur voru súngnar, kallaði konúngr nokkura menn til sín ok sýndi sik blíðligan, ok bað menn vera í góðum hug, sagði at guð mundi vel greiða þeirra ferð á nokkurn hátt (at því sinni), *B, F, G, H.* 10) Frá Skúla hertoga, *F, G*; ok Arnbirni Jónssyni, *b. H.* 11) sem fyrr var ritat, *b. F.* 12) mikit, *b. F.*

hann or Oslu[1] austr til Valdishólma fyri pálmsunnudag, ok[2] þessir formenn með honum: Vilhjálmr or Torgum, Þórir mjóbeinn. En er þetta spurði Arnbjörn, [fór hann[3] austr yfir Foldina, [ok mætti[4] þar Varbelgjum þeim er á skipum voru, ok elti þá þar upp, ok fèllu nokkurir menn af Varbelgjum, en Arnbjörn tók skipin. Ok með því at hann hafði haft erfiði mikit, en var mjök [hníginn, fèkk hann sjúkleika[5], ok lá skamma stund, áðr hann andaðist. Þótti þat hinn mesta mannskaði, þvíat þat var einmælt, at í þann tíma þótti engi lendr maðr þvílíkr í Noregi sem hann. Skúli hertogi kom til Valdishólma, ok sat þar skamma hríð, áðr upp var gefinn hólmrinn; tók hertoginn þar [mikit herfáng[6]. Eptir þat fór hann inn[7] til Oslóar fyri páskana, þótti mönnum þá sem ekki[8] mundi við honum standa. Pètr hertogason hafði mikla sveit um páskana uppi á Heiðmörk.

*Hákon konúngr sigldi austr til Víkr[9].*

227. Hákon konúngr lá í Grænîngjasundi um páskana, sem fyrr var ritat. [Þar frètti hann andlát[10] Arnbjarnar Jónssonar, ok þat með at

1) Víkinni, *G*. 2) hann sendi ok skip nokkr austr til Borgar, ok voru, *F*, *B*, *G*. 3) Jónsson, þá skaut hann skipum á vatn, ok fór, *F*, *B*, *G*. 4) er hann kom austr í Borgará, mætti hann, *F*. 5) á efra aldri, *F*, *G*; ok þeim öðrum atburðum (atkvæðum) er til fèllu, þá tók (fèkk) Arnbjörn sótt (sjúkleika), *B*, *F*. 6) alla luti þá er honum þarfaðist, *B*; (sem honum líkaði), *F*. 7) út aptr, *B*. 8) engi hlutr, *F*, *G*. 9) Frá Hák. k., *G*, *H*. 10) páskadaginn komu þar menn á skútu austan, var fyri þeim Guðleikr eiðúngr (eðlúngr, *G*, *H*) ok sagði líflát, *F*, *G*.

Víkverjar voru[1] mjög tvídrægir, ef konúngr kvæmi eigi skjótt til þeirra. Annan dag páskanna gekk konúngr á land snimma við einn svein, var þá lítið veðr af landsuðri, [en þó gekk hann skjótt ofan ok vakti liðit ok bað þá[2] róa af[3] fjörðinn Harðsjó, ok var svâ gert[4]. [Litlu síðarr gerði á góðan byr ok hægjan[5], ok sigldu í Hvítíngseyjar of kveldit; svâ kvað Sturla:

Lagði rösk,
en risu laukar,
hilmis ferð[6]
hendr at reipum;
en húnskriptr
hreggi blásnar
fylkis til
frama greiddu.
Ok úfárr
austr með landi
snekkju brandr
svífa knátti;
gulli glæstr[7],

---

[1]) mundu, *F, G.* [2]) þótti honum vânt at vekja menn, ef veðrit harðnaði, þvíat margir voru fúsir aptr til bæjarins, ok þó eigi at síðr bað hann menn klæðast, ok, *B, F.* [3]) á, *B, F, G.* [4]) gekk konúngr þá á skútu við nokkura menn ok rèri suðr til Sandkauðru (Sandróðru, *G*; Sandtoðru, *F*; Sandkantru, *H*) ok heyrði þar messu; ok er lesit var, bað hann menn út gánga, ok sjá hvar skipin færi; þeir komu inn, ok sögðu at menn tóku til at sigla á skipunum, ok er súngit var, sigldu öll skipin, þá var ok góðr byrr, skundar konúngr þá sem mest ok fèkk eigi tekit skipin fyrr en í Saltbjarnarsundi (Salbjarnarsundi), ok var þó heflat á öllum skipunum, áðr hann kom, *b. hin.* [5]) þann dag var góðr byrr ok hægr, *F.* [6]) hirð, *B, F, G.* [7]) glæst, *F, G.*

und göfugmenni,
[var at[1] auðligr
allvalds floti[2].

Um morguninn eptir [sigldi konúngr[3] fyrir Jaðar, ok er þeir komu fyri rifit, gerði á stórm veðrs, lètu[4] menn stýri sín. En er þeir komu fyrir Hvini[5], brast stýri á konúngsskipinu, ok gekk af [nær allt blaðit; var þá stýrt með bryggjum ok árum inn um Skjarrandasund. Síðan sigldi konúngr inn í Víkina, ok lagði at í höfn þá er Sláttunes heitir; þar frètti hann þau tíðindi[6], at Varbelgir voru allir í Oslu ok búnir til Túnsbergs ok fara at Birkibeinum. En Knútr jarl ok lendir menn konúngs lágu við Jarlsey, ok margir Birkibeinar, ok búnir[7] at fara norðr [til móts við konúnginn[8], en sumir voru eptir á

---

[1]) var ei, *B.* [2]) *frá* [ *v. G.* [3]) hlýddi konúngr messu ok sigldi þann dag, *b. B, F.* [4]) nokkrir, *b. B. F.* [5]) Hviðni, *H.* [6]) allt blaðit náliga; voru þá teknar bryggjur ok árar, ok stýrt með þeim suðr um nesit; ok er þeir liðu (voru fyrir gengnir) nesit, lögðu þeir upp bryggjurnar, ok var stýrt með því er eptir var stýrisins ok árunum inn um Skerðandasund (Skerandasund); ok er þeir komu til hafnar, var upp lagt þat er eptir var stýrisins; þótti mönnum mikil jarteikn er með slíku skyldi stýrt verða jafnmiklu skipi. Óðinsdaginn (miðvikudaginn) sigldu þeir til Esjuness eyja (Æsuness eyja, *G*; Eljunesseyja, *H*; Esjuness), ok lögðu þar at *snimma* um morguninn (dags); kom þar saman mestr luti liðsins; þaðan sigldu þeir inn í Víkina, ok er þeir komu á Grenmar fyrir sunnan eyna Ör (Aur), þá kom í mót þeim landsynningr *með miklum stormi ok sjómyrkri; sneru þá* öll skipin aptr til hafnar, þau sem eigi fengu beitt (betr, *b. G*), en konúngr lagði inn undir land í þá höfn sem Sláttunes heitir, ok var þat lángt af þjóðleið; lá hann þar um nóttina; þar komu þau tíðindi til konúngs, *F, B, G.* [7]) voru albúnir til, *F.* [8]) *v. F.*

Berginu. Konúngr sendi [þá menn[1] til Túnsbergs, [at segja[2] í hljóði Birkibeinum, at konúngr væri kominn í Víkina. Menn höfðu drukkit fast um kveldit á konúngsskipinu, ok sváfu lengi[3] of morgininn. Konúngr var snimma uppi, ok bað menn klæðast, en menn brugðu seint við; þá mælti konúngr: þat ætla ek at skjótara klæðist Varbelgir í dag at fara út til Túnsbergs at fèlögum várum[4]. Birkibeinar ljópu upp skjótt[5] ok reyru drengiliga or höfninni, [ok sigldu í Malstrandir. Konúngr hèt þá[6] fyri sèr ok liði sínu, at allir Birkibeinar skyldu vatnfasta Ólafsvökuaptan hinn fyrra, en fasta hinn síðara eða leysa[7] XV penníngum[8]. Hèldu menn vel þessi heit hina fyrstu XII mánaði, en verr síðan.

*Hákon konúngr lagði til Oslóar[9].*

228. þaðan sigldi konúngr til Grindhólmasunda; komu þar í mót honum[10] Munan biskupsson[11], [ok bað hann leggja undir Jarlsey til móts við Knút jarl ok Birkibeina[12]. Konúngr

[1]) menn inn á land, Indriða Bersason ok menn með honum, *F, G, H.* [2]) *þ. F*; ok sagði, *A.* [3]) mikit, *F.* [4]) yðrum, en þèr klæðizt nú at fara at þeim, *F, G.* [5]) ok sögðu at þat skyldi aldri vera (verða), *b. F, B.* [6]) ok er þeir komu fram fyrir eyna Ör (Aur), þá rann á byr ok tóku þeir til segls. Hákon konúngr hugði þá at öll skipin mundi hafa um siglt, ok er lýsa tók, sáu þeir at vestan sigldu skipin hit ytra, lagði konúngr at Málundum (Máströndum, *G*; Smálundum, *H*; Ívasundum, *B*) ok beið þar til þess at allr herinn kom eptir. Hèt hann þar heitum sínum, *F, B, G, H.* [7]) leysast undan, *F.* [8]) vegnum, *b. F, H.* [9]) Frá H. k. ok liði hans, *G*; *Sigling H. k. til Víkr, H.* [10]) Gunnbjörn bóndi (Jónsson), *b. B, F, G.* [11]) ok Ívarr af Skeðjuhofi, *b. hin.* [12]) sögðu þeir at Knútr jarl lá við Jarlsey ok allr herr Birkibeina, ok báðu hann þar at leggja, *F, G.*

svarar: með því at guð hefir oss nú þenna byr gefit, þá væntum vèr at þetta skuli sigrbyrr vera[1], munu vèr þessa neyta[2]; sigli þeir eptir oss er vilja[3]. Svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

Norðan rendi næst þá er spurðist
nafnkunnr jöfurr skíðum stafna
bárur lèku bröndum hærri,
[brodda hríð[4], fyri Noregs síðu;
þrútin lágu veðr á vatni,
vinda ript[5] nè gramr bað svipta,
snarr ýngvi kvað sigrbyr fengin[6]
sinni ferð at hjaldri stinnum.

Síðan sigldu þeir inn eptir sundum; ok er þeir komu fyrir[7] Jarlsey, bað konúngr blása. En þegar er Birkibeinar heyrðu þetta, þeir sem lágu við Jarlsey, ráku þeir af sèr tjöldin ok sigldu [til móts við konúng, ok sigldi konúngr svâ[8] inn eptir firðinum[9] með allan herinn, sem Sturla kvað:

Skriðu hafrökn
und höfuðsmanni
inn í botn[10]
Oslu fjarðar;
þar er vegstór

1) ok öllum oss til sæmðar, ok, *b. B, F, G.* 2) með guðs miskunn, *b. F, G.* 3) ok er vant at sjá at hverju haldi sá byrr kemr er þessum er verstr, ok þessi verði eigi nýtr, *b. F,* (— haldi þeir koma er þessa byrjar vilja eigi neyta, *B*). 4) borða rýð, *B.* 5) drift, *F;* skript, *B;* hript, *H.* 6) slúnginn, *B.* 7) gegnt, *B.* 8) *frá* [ inn eptir konúnginum sem skjótast, konúngr gerði þá menn á skútu inn til Túnsbergs, ok lèt segja hverir gæta skyldu bergsins, eða hverir honum skyldu fylgja, ok er hann kom inn til Beðjusunda (Væðusunda), þá lagði hann þar at, ok beið jarls ok hans manna. Síðan sigldu þeir, *B, F.* 9) it beinsta, *b. F.* 10) þotn, *F;* botni, *B.*

fyri vígliði
Skúla öld
[of skipat[1] hafði.

[Ok er myrkva tók, reyru þeir inn fyrir Nesodda: þá átti Hákon konúngr tal við sína menn, ok sagði[2] fyrir um atlöguna, at Gunnbjörn bóndi ok Pètr Pálsson ok[3] sýslumenn fyri norðan Stað skyldi róa fyri vestan Höfuðey, ok leggja at[4] við[5] Gyljanda ok gánga[6] móti Frysjubrú ok mæta Varbelgjum, ef þeir kvæmi þar fram; Knútr jarl ok Víkverjar[7] skyldu leggja at bryggjum, ok ertast við Varbelgi, en konúngr sjálfr ok mestr þorri liðsins skyldi gánga upp við Eikabergsskóg[8] fyri sunnan Þrælaberg, ok koma svá sunnan[9] at bænum; skyldu [allir jafn snimma leggja at bænum, þegar lýsa tæki[10]. Þar var þá Hákon kon-

1) um skipast, *B*, *F*. 2) *frá* [ veðrit minkaði svá sem á leið daginn, ok er þeir komu til Sigvaldasteina, þá var logn; tók þá at myrkva, ok rèru þeir síðan inn til Nesodda (ok lágu þar um nóttina, *b. H.*; sögðu þá sumir (at hertoginn mundi riðinn or bænum, en sumir sögðu, *v. F*) Varbelgi at vísu þar í bænum. Konúngr átti þá tal við alla stýrimenn ok sveitarhöfðingja ok sagði svá, *B*, *F*, *G*. 3) nokkurir, *b. hin*. 4) norðr, *F*. 5) fyrir norðan, *B*. 6) austr, *b. B*, *G*. 7) Símon kýr ok Eiríkr stilkr, *b. B*, *F*, *G*. 8) Eikabergs skor, *H*; Eikaskorsberg, *G*; Eikabergs stoð, *B*, *F*, *H*. 9) ofan at, *H*. 10) *frá* [ engi skip róa fyrr frá Höfuðey, en lýsa tæki, (ok þá öll senn) er þeir sæi at Hákon konúngr viki ofan af berginu at bænum, skyldi þá hverr róa sem skipat var, ok leggja þó fyrst at bryggjunum. Konúngr hafði áðr um daginn gert njósnarmenn inn til Höfuðeyjar, at þeir yrði vísir sanura tíðinda af Varbelgjum. En er konúngi þótti þeir seinni en hann ætlaði, gekk hann á eptirbát, ok ætlaði inn til Höfuðeyjar. En er hann kom á miðjan fjörðinn, gerði svá mikit sjómyrkr, at varla mátti sjá stafna í millum, því sneri konúngr aptr til liðsins. En meðan konúngr rèri á fjörðinn,

úngr úngi, son Hákonar konúngs, ok lèt konúngr hann fara á skútu þá er skjótust var, er Kúfinhetta[1] hèt, ok með honum marga góða menn[2]; hann lèt ok II skútur eptir vera með únga konúngi, ok bað þá [vera við eyna ok hafa njósn af þeim tíðindum[3], sem gerðist í bænum: ok ef guð hefir svâ fyrir ætlat, sagði konúngr, at oss brestr á borði, ok [faim vèr[4] úsigr, þá dvelìzt þèr hèr ekki; [farit þegar[5] til Björgynjar, hvat sem guð gefr yðr þá til ráðs. Hann talaði mörgum fögrum orðum fyrir únga konúngi, áðr þeir skildu. Síðan [lagði konúngr[6] at við Eikabergsskóg [ok lið hans; gengu þeir þar upp[7], ok áðr þeir kvæmi í sýn við bæinn, talaði konúngr fyri liðinu á þann hátt sem Sverrir konúngr var vanr[8].

*Tala Hákonar konúngs*[9].

229. Flestir menn munu heyrt hafa getið,

---

höfðu njósnarmenn um farit ok eigi fundit hann; vissu menn þá varla hvar konúngr mundi vera; gerðist þá kurr mikill í liðinu; því næst brást sú ætlan, sem áðr var sett, ùm atlögunа; þeir rèru eigi norðr sem upp skyldu gánga við Gyljanda. Hákon konúngr sneri þá aptr til skipa sinna, *b. hin.*

[1]) Skúfinhetta, *B.* [2]) Vilhjálm kapalin sinn, Íngimund Kolbeinsson, Andres kept, Pètr músa, *b. B, F, H.* [3]) róa fyrir vestan Höfuðey ok liggja þar sem leyniligast, ok hafa njósn í höfðanum uppi á eynni, at sjá þaðan þau tíðindi, *F, B.* [4]) verðim vèr þess varir til sanns, at vèr fáim, *F.* [5]) róit út or firðinum ok stundit eigi á Vikverja; lèttit eigi fyrr en þèr komit, *b. hin.* [6]) *frá* [ gekk Hákon konúngr á lèttiskip ok þat lið er honum fylgði, ok rèri fyrir sunnan (eyjarnar), ok lagði, *hin.* [7]) sem áðr var ætlat. Eptir honum sneri Knútr jarl; gekk Hákon konúngr þar upp með því liði, sem með honum var, *F.* [8]) at hafa áðr hánn barðist; hann hóf ræðuna á þessa lund, *b. F.* [9]) fyri liðinu, *b. H.*

sagði hann, ok mörgum kunnigt[1] um skipti vâr Skúla hertoga; hafa þau verit mörg ok ýmislig[2], mun hèr þó svâ [fara, sem mælt[3] er, at sjaldan veldr einn, ef II deila. Nú [á þat ofan, sem áðr gerðist meðal okkar[4], lèt hann gefa sèr konúngsnafn at ósögðum sundr[5] griðum mèðal vâr, sem aldri eru dæmi til, at gert hafi verit fyrr í Noregi. Síðan sendi hann menn í frá sèr bæði norðr ok suðr ok á land upp, ok lèt drepa eiðsvara[6] beggja okkar, hvar sem staddir voru, ok níddist svâ á þeim sem honum vildu jafngjarnliga þjóna[7] sem oss, ok saklausir voru, ok[8] eigi hèldu þeim kirkjur heldr en fjós. En á þetta ofan allt[9] gerði hann suðr at oss [XIII skútur[10], at láta drepa oss eðr inni brenna, eða sunu vâra, ef guð hefði þat lofat honum. Nú hefir hann fengit svâ mikinn framgáng, at varla finnast dæmi til, at nokkurr maðr hafi þvílíkan fengit með jafnmiklum rángyndum, allra helzt eptir fund þann, sem var á Láku millum hans ok vârra manna; fengum vèr þar mikinn skaða, þvíat þar fèllu margir góðir drengir, þeir er frændr ok vinir munu seint bætr bíða. Nú biðju vèr alla yðr[11], at þèr haldit einarð yðarri ok manndóm við oss, [þvíat vèr væntum með guðs miskunn[12], at nú

1) vera, *b. G.* 2) sum (mörg góð), ok mörg (til) meðallags, *b. F, G.* ) vera sem viðast, *B, F.* 4) ofan á alla þá hluti, sem fram hafa farit okkar í milli, þá, *F.* 5) *v. F.* 6) ok sverðtakara, *b. B, F, G.* 7) trúliga, *b. F.* 8) sem vissu einskis von nema góðs, svâ at, *b. F.* 9) íllt, *F.* 10) XIV skip, *F, G*; *v, H.* 11) menn þess, þá sem hèr eru komnir. *F, G.* 12) ok minnist nú á frænda lát ok fjár ok allan þann skaða er Varbelgir hafa gert oss, ok svâ segir mèr hugr um, ok þess væntum vèr af guði, *B, F.*

skyli nokkut [skapast at með oss[1]. Birtið nú [í yðarri[2] atferð, hvers þèr ègit at hefna, eðr hversu [rángliga á oss er gengit. Ok[3] þótt Skúli hertogi hafi [hit bezta mannval með sèr, þá[4] eigum vèr þó, ok vârir menn, at vera yfirmenn þeirra í öllum stöðum sakir ætta ok atferða, ok er því meiri vanvirðíng at vârir óvinir fái nokkurn bug á oss[5]. Síðan hvatti hann lið sitt eptir dæmisögu þeirri, er Sverrir konúngr var vanr at segja [af karlssonum[6] nokkurum[7], þeim er fara skyldu til liðsmanna frá feðr sínum; nú spyrr karl son sinn, áðr þeir skildist, sagði konúngr: hversu mun nú, kvað karl, ef þú kemr í orrostu, ok veiztu víst at þú skalt þar deyja; karlsson svarar: hvat mun þá annat en berjast sem frækiligast ok falla með sæmð; nú væri svâ, sagði karl, at þú[8] skyldir í brott komast; hann svarar: mundi eigi þá[9] nauðsyn at duga sem drengiligast; nú megum vèr sjá[10], sagði konúngr, at þessir II eru til[11], engi enn þriði. Síðan sagði hann þeim, hversu þeir skyldi fara með vâpnum sínum, ef[12] þeir kvæmi til orrostu[13], ok hafa þat

---

1) at skipast viðskiptum vârum ok Varbelgja, *F*. 2) hvârutveggja í yðrum ræðum ok, *F*. 3) *frá* [ einarðliga vèr eigum at verja frelsi vârt ok fè; minnist ok þess, at, *F*, *G*. 4) *frá* [ góða drengi með sèr, þá höfum vèr ok it bezta mannval, er til er í landinu, ok af inum beztum ættum, ok, *B*, *F*, *G*. 5) eðr aptrhnekking, *b*. *F*, *G*, *H*. 6) bóndasonum, *F*; einum bóndasyni, (*rèttast*) *G*. 7) *frá* [ frá þeim karli ok syni hans, *H*. 8) vissir til víss at þú, *b*. *F*. 9) höfuð, *b*. *F*. 10) góðir vinir, *b*. *G*. 11) fyrir hendi, *F*. 12) þá er, *B*. *F*. 13) ok svâ at þeir gætti sem bezt at þeir kendist sjálfir, ok at þeir bæri eigi vâpn at sjálfa sik, *b*. *B*, *F*, *H*.

orðtak[1], sem Birkibeinar voru vanir: fram Kristsmenn, krossmenn, hins heilaga Ólafs konúngs menn[2].

*Farit at Skúla hertoga í Oslu*[3].

230. Þá er Hákon konúngr kom í sýn við bæinn, ok lýsa tók, [sá þeir at þar[4] var allt kyrt[5] ok hljótt[6]; þá mælti konúngr: þat óttumst vèr at Varbelgjum muni hafa komit njósn um ferðir vârar, ok sè þeir í brottu or bænum. Því næst rendu skipin undan Höfuðey, þau er at bryggjum skyldu leggja, ok þegar er þeir sá þat í bænum, hljópu þeir til herklukkunnar; en er klukkan kvað við, þóttust þeir konúngr vita, at Varbelgir voru í bænum. Sjá þeir þá hlaup mikit um bæinn ok hark[7], [hljópu Varbelgir[8] í konúngs garð, þar sem hertoginn svaf; ok er honum var sagt at úfriðr mundi vera, klæddist hann skjótt ok vâpnaðist; stefndi síðan upp eptir stræti til Hallvarðs kirkjugarðs; kom þar mart lið til hans, fóru þeir svâ uppá Mörtustokka; kom[9] þar saman allt liðit; var þá talað um, hvat liði þetta mundi vera; sögðu flestir at vera mundi Knútr jarl ok lendir menn; ræddu þá um, hvat til ráðs skyldi taka[10], vildi hertoginn þar fylkja ok taka móti Birkibeinum. Arni rúga[11] bar merki hertogans; hann sagði at þat væri skömm at láta Knút jarl taka

[1]) ákall, *hin.* [2]) *b. F.* [3]) Frá konúngi ok Skúla, *G*; Hèr kemr Hákon konúngr í bæinn, *H.* [4]) fram á brekkuna, *b. hin.* [5]) svâ at þeir fengu skilit hvat títt var í bænum, *b. F.* [6]) tjúst, *F, H.* [7]) til at sjá, *b. F.* [8]) Varbelgir svófu í ymsum stöðum, en er þeir heyrðu herklukkuna, lupu þeir í ymsa staði, ok flestir, *B, F, G, H.* [9]) *b. hin.* [10]) *b. hin.* [11]) rófa, *F;* rufa, *G, H.*

klæði[1] þeirra ok hesta í bænum. Skipti hertoginn þá liðinu, lèt fara Ólaf af Vígdeild ok nokkura sveitarhöfðíngja með honum á hit vestra stræti, en hertoginn[2] ok mestr þorri liðsins snerist ofan í móti Hallvarðs kirkjugarði; hann sendi [menn til[3] at taka af Geitabrú, at öngir mætti þar yfir komast konúngs menn.

*Hákon konúngr kom í Oslu*[4].

231. [En er[5] Birkibeinar sá, at liðit var á Mörtustokkum, fóru konúngsmenn mikinn. Þorsteinn Heimnes bar merki Hákonar konúngs[6], ok hafði jafnan vel gefizt[7]. Konúngr bað Þorstein eigi hart[8] fara, sagði at þat henti[9] eigi þeim, er minnr voru færir[10]. Þá var svâ fram komit ári, at páska aptan[11] var sumardagr hinn fyrsti, en þetta var laugardagr í páskaviku. Var þá allr þeli or jörðu, ok svâ blautt lent, þar sem Birkibeinar gengu, at leirrinn[12] tók í knè eða meirr[13]. Ok er þeir komu [á brekkuna, var sagt konúngi[14] at af var brúin. Þorsteinn [bað þá[15] snúa upp[16] til þeirrar brúar, er liggr hjá[17] Rýginabergi. Konúngr kvað þat ekki ráð. Sneru þeir þá til

---

1) herklæði, *F, H.* 2) ok hans merki, *b, F.* 3) Hallvarð stoð (stull), frænda Orms biskups, ok marga menn með honum, *B, F, G.* 4) Frá Hákoni konúngi, *F*; Frá k. ok liði hans, *G.* 5) Þá er Hákon konúngr var á brekkunni fyrir ofan bæinn, ok, *F.* 6) spakr maðr ok vel siðaðr, hann hafði lengi þjónat Hákoni konúngi, *b. B. F.* 7) reynzt, *F.* 8) svâ ákafliga, *B, F.* 9) eirði, *F.* 10) í liðinu, *b. F.* 11) dagr, *G, H.* 12) leirit, *G.* 13) varð þeim því þúnggengt, at annarr fótr sökk áðr öðrum væri upp stigit (kippt), *b, B, F.* 14) mjök svâ at brekkunni, hlupu menn aptr á móti konúngi, ok sögðu, *F.* 15) lèt þat ráð at, *F.* 16) eptir völlunum ok svâ, *b. B, F.* 17) móti, *F.*

Geitabrúar, voru þá Varbelgir at at taka af [þau lög[1] sem [eptir voru brúarinnar[2], ok stukku þegar í brutt, er Birkibeinar komu at, ok máttu vel X menn verja[3]. Lágu þá enn yfir II ásar ok varð þar yfir at ganga[4]. Konúngr nefndi til [Vtígi[5] manna at gánga fyri merkinu, síðan gekk Þorsteinn við merkit, ok mátti eigi öðruvís gánga en styðja sik með spjótsoddinum við annan ásinn, [en hverr[6] gekk eptir öðrum[7]. [Þorsteinn bað þá fyrr koma í móti Varbelgjum, en þá er á skipinu voru[8]. Ok þegar er konúngr sá [at lið hans kom yfir brúna mjök[9], gengu þeir upp eptir stræti hjá Nicholáskirkju með fylktu liðinu. En er konúngr kom jafnfram garði Guthorms Erlendssonar, kom hann þar í móti konúngi ökulskúaðr[10], ok hafði kápu yfir sèr; hann mælti: guð gæti yðarr herra, mjök fari þèr nú háskasamliga svá fámennir, þvíat Varbelgir eru hèr upp frá yðr með fylktu liði, ok [ætla þar[11] í móti

[1]) lángásana, *H*; þær brúar, *F*. [2]) næst voru bænum, *B*, *G*. [3]) svâ engi kæmist yfir, *b*. *F*. [4]) ef komast mætti, *b*. *F*. [5]) L, *G*, *H*; XL, *F*; XI, *B*. [6]) er maðr, *G*. [7]) konúngr hafði þá eigi meira lið, er hann gekk yfir trèit, en IXtign, *b*. *H*. [8]) *frá* [ ok þá er þeir komu yfir, stóðu þeir í milli Eyrastrætis ok Nicholáss kirkju, ok þá er konúngr kom yfir, var eigi meira lið yfir komit, en fyllti í móti strætinu; Þorsteinn bað þá, at þeir gengi upp sem ákafast, svâ at þeir kæmi heim fyrr á móti Varbelgjum, (en þeir) er á skipunum gengu (þeir yrði eigi skjótari er af skipunum fóru, *G*). Konúngr sagði, at honum þótti eigi ráðligt at þeir gengi upp (eigi) fjölmennari, en þá voru þeir (svâ fámennir, *B*) ok kvaðst bíða vilja til þess, er liðit kæmi yfir brúna; kom þá ok vânu bráðara liðit eptir þeim, *F*, *B*, *G*. [9]) aukast liðit, *F*. [10]) hökulskúaðr, *F*. [11]) hafa enn hugsat, *F*.

at taka, ok vildi guð at ek væra nú jafnvel færr, sem þá er ek fylgða yðr í Vermalandi[1]. Þá kom Sigurðr, son Hákonar konúngs í móti þeim, ok hafði farit[2] norðan dagfari[3]; var konúngi mikil þökk á hans kvâmu[4]. Síðan gengu þeir upp[5] eptir strætinu.

*Upphaf bardaga*[6].

232. Uppi við garð Ásbjarnar kóps[7] var fyrir Árni rúga[8] með merki hertogans ok [mart lið[9]. Ok áðr en saman komu fylkíngar, bað Hákon konúngr lúðrsveininn blása; hann blès tysvar[10] ok heldr lágt. Konúngr mælti: betr blès bikkjuhvelprinn þinn[11] á Björgynjar bryggjum, er þú tók silfr af mönnum; síðan blès hann miklu betr[12]. Eptir þat bað konúngr menn gánga fram við merkinu; gekk hann þá sjálfr [einna[13] fremstr[14], sem Sturla kvað:

Gekk allvaldr
und[15] ýgis[16] hjálmi
megin mildr
merkjum fyrri[17],
en gullsett

[1]) konúngr svarar: haf guðs (góða) þökk fyrir þinn góðvilja, ok gakk inn aptr; brátt man koma lið til vâr á alla vega, ok er þeir höfðu skamt gengit, *b. hin.*. [2]) eptir þeim, *b. F.* [3]) ok náttfari, *b. hin.* [4]) fylgði hann þá konúngi með sveit sina, *b. B, F.* [5]) fram, *F, G.* [6]) Bardagi i Aulsu (Auslu), *G.* [7]) koprs, *B*; kopars, *G, H.* [8]) rofa, *F*; rufa, *G.* [9]) allr þorri hins bezta liðs Varbelgja, ok höfðu þeir fylkt, *F, G.* [10]) II sinnum, *F.* [11]) i vetr, *b. G.* [12]) svâ gjall i hverjum steinvegg, *b. G*; (hamri, *H*) [13]) allra, *B*; nær, *G.* [14]) *frá* [ i fremra lagi, *H.* [15]) *þannig G*; undir, *A, F.* [16]) ægis, *F.* [17]) fyri, *F.*

gnæfa knáttu[1]
vísa ve
of vala fólki.
[En þar fram
fylgja knátti[2]
ræsis hirð
rómu stýri,
hildar fús
á hliðar báðar
í gagnför
greypra[3] vâpna.

Varbelgir voru sumir uppi í kirkjugarðinum, ok skorti þar eigi grjóthríð[4], en hvârirtveggju skutu. Svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

Hallgíslat[5] rauð hvatt í Oslu
hildar túngl með skata mildum,
raustir þrungðu[6] jöfrar æstum,
járnfaldit lið, saman hjaldri,
bröndum skífðust blóðgar randir
bleikir fèllu menn á[7] velli,
hlífar laus var[8] gramr með gæfu
gylltar súngu hjalta túngur.

Ok er fram var borit merki konúngs, brast flótti í liði Varbelgja, því er fyrir utan stóð kirkjugarðinn. En [þeir Varbelgir sem í kirkjugarðinum voru, lètu gánga grjóthríð sem þykkvast mátti[9]. Árni rufa sneri með merki hertogans

1) *þannig G;* knættu, *A.* 2) náðu, *F.* 3) greyptra, *B.* 4) ok lètu þeir þá fast gánga, *b. F.* 5) hallgeislat, *B.* 6) þrúngu, *B, F.* 7) at, *B, F.* 8) vo, *B, F.* 9) *frá* [ er Varbelgir, er stóðu í kirkjugarðinum, sá þetta ok svâ þeir er uppi voru, at þeirra menn flýðu, þá gerðu þeir hina snörpustu ríð af grjóti, at svâ fló, sem þykkvast mátti. Árni rofa (rufa) var þar inni fyrir, ok Vilhjálmr or Torgum, lendr maðr,

inn[1] í kirkjugarðinn. Þá sóttu þar at margir Birkibeinar, ljópu sumir inn í kirkjugarðinn[2], en með því at grjót var ærit laust fyrir innan, þá báru Varbelgir svâ skot ok grjót á Birkibeina, at þeir hrukku út aptr; var þá allhörð orrosta, ok sóttu Birkibeinar fast at, en Varbelgir vörðust vel ok drengiliga. Svâ segir Sturla:

Ok inndrótt
elda kyndi
böðvar týs
við bauga renni,
svâ at eggfárs[3]
eisur stukku
of ilflet
aurnis spjalla.

En er Álfr á Leifastöðum sá, at þeir mundi verða inni byrgðir, leitaði hann út um garðs hliðit, ok barðist alldjarfliga[4]; hann komst ofan til árinnar, en margir hljópu eptir honum. Álfr fèll í ánni, ok er þat flestra manna sögn, at sú hafi verit einhver drengiligust vörn, er hann varðist, áðr hann fèll. Hákon konúngr sneri þá eptir þeim Varbelgjum, er flýðu upp fyrir austan[5] kirkjugarðinn. [Þar fèllu nokkurir menn af Varbelgjum[6], ok einn af Birkibeinum, en margir[7] sárir.

ok mestr þorri liðsins Varbelgja, en sumir sneru upp fyrir austan kirkjugarðinn, *B*, *F*.

1) út, *F*. 2) Ívarr hólmr (*v. B*), Ívarr dýri, Þorlaugr bósi, *b. B*, *F*. 3) eikfárs, *H*. 4) afburðar vel, *B*. 5) vestan, *F*. 6) í því bili fèll sá maðr af Varbelgjum er Eysteinn sundrammr hèt, ok enn fleiri Varbelgir, *B*, *F*, *G*, *H*. 7) nokkrir urðu, *F*.

*Varbelgir í kirkju*[1].

233. Á stræti því er [Ólafr af Vígdeild skyldi verja[2] komu í móti honum Birkibeinar, þeir sem upp gengu af skipunum; varð þar [hörð orrosta[3]. Voru margir Varbelgir í kastala biskups, ok báru stórt grjót[4] á Birkibeina; var þat mjök mannhætt at sækja at þeim[5] er á strætinu voru, ok[6] gæta sín við þeim er í kastalanum voru[7]. En með því lauk at Varbelgir sneru undan ok inn í kirkjugarðinn, en Ólafr af Vígdeild sneri upp með sveit sína fyri norðan kirkjurnar. Arnfinnr þjófsson[8] veik norðr[9] til Nunnusetrs, ok þar[10] inn í kirkju. Hákon konúngr sneri upp fyrir austan[11] kirkjurnar[12] með sitt merki, [voru þar fyri margir Varbelgir[13]; voru sumir á kirkjugarðinum[14], en sumir á [smiðju nokkurri[15], ok báru þaðan grjót á Birkibeina[16]. Þar lèzt Bjarni hestr[17], af Birkibeinum[18], en margir urðu sárir; [svâ kvað Sturla[19]:

Flugu hræleiptr  
at hjarar leiki

[1]) *Orrusta á strætinu, G;* Fall Bjarna hests, *H.* [2]) hertogi hafði skipat Ólafi af Vígdeild, *F, G.* [3]) allhörð snerra, *B.* [4]) ofan, *b. F, G.* [5]) *A hefir hèr rángt:* Birkibeinum. [6]) en, *F.* [7]) ok því varð þar orrusta, *b. F, H.* [8]) stallari hertogans, *b. hin.* [9]) norðan, *B.* [10]) hljóp, *F, G, H.* [11]) norðan, *G.* [12]) kirkjugarðinn, *F.* [13]) var þar fyrir sá maðr er Grímr á Sandi hèt, ok fjöldi manns, *B, F.* [14]) húsunum, *G.* [15]) húsi nokkru, *B*; (smiðjubúðunum, *G;* smiðjuhúsum, *H*); höfðu þar borit at sèr grjót ok skot ok báru hvâritveggja, *B, F.* [16]) sem ákafast, *b. B, F.* [17]) forn Birkibeinn, *b. H.* [18]) ok var skotinn í knèit með kesju; hann var bróðurson Karls svánga ok Sigurðar skjálga, it bezta mannsefni, *b. B, F, G.* [19]) ok flestir fengu þar nokkut hark sem Sturla segir, *F.*

geigurlig
á Gauts himin[1];
en randálfr
rídandi[2] fór
böðvar ský
blóðs eldíngum.

*Atsókn konúngs*[3].

234. Þá er Hákon konúngr kom í ofanverðar geilarnar jafnfram kórsbræðragörðum, var þar fyrir hertoginn á hesti ok mjök mart manna við honum. En er þeir mættust, varð nokkur staðr á, svâ at hvârigir rèðu til annarra[4]. Kirkjugarðs hliðit[5] var at baki Birkibeinum, ok var þat fullt af Varbelgjum; undir merki Hákonar konúngs [voru þa eigi fleiri en[6] XX menn, var konúngr þá háskasamliga kominn, er hertoginn var fyrir ofan með marga menn, en fullt garðs hliðit at baki þeim af Varbelgjum. Gerði guð þá miskunnsamliga við konúnginn, er hvârigir rèðu á hann, þvíat ef aðrirhvârir heldi á ráðit, þá væri hann skjótt í foraði[7]. Konúngr vísaði sínum mönnum móti garðs hliðinu, en hann sjálfr með merkit sneri móti hertoganum. Þá var mikill vâpnaburðr við kirkjugarðs hliðit[8]. Svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

---

1) hifin, *G.* 2) rifandi, *G, H, B.* 3) *þ. B;* Konúngr ok jarl fundust, *A;* Þar fundust konúngr ok j., *G;* Frá Hák. k., *H.* 4) stóðu Birkibeinar í veisu nokkurri ok þó neðar meirr, en Varbelgir voru uppi á brúnni ok strætinu, ok var þar nokkuru þurrara, *b. hin.* 5) kirkjugarðsliðit, *G.* 6) *frá [* mundu vera nokkurir, *F;* var litið um, *G;* var ei um, *H.* 7) forráði, (sigraðr at líkindum) ok allir þeir menn sem með honum voru, *F, B.* 8) af grjóti ok skotum, er Birkibeinar báru inn í kirkjugarðinn, en Varbelgir út í móti, *b. B.*

Snörp bitu járn sem ísmöl ýrpi;
óða straums[1] með heitu blóði,
herstefnir rauð hamri ofna
Hildar serki framar merkjum;
grimmum stóð á Göndlar himni
grárr[2] regnboði Hnikars þegna,
harðar lustu fylkíng firða[3]
fár-eldíngar meginsára.

Varbelgir ráku aptr kirkjuhurðina, er þeir þoldu eigi vâpnaburðinn.

*Hákon konúngr hafði sigr, en hertoginn flýði*[4].

235. Skúli hertogi var á hesti, ok er hann sá þessa atburði, bað hann sína menn fram sækja. Sá maðr stóð hjá honum, er Sóni[5] síkr hèt; hann mælti til hertogans[6]: hèr er nú merki Hákonar konúngs, ok [hann sjálfr fylgir[7]. Hertoginn svarar: eigi skal fram at síðr, ok sló hestinn við sporum. Sóni tók í taumana, ok hèlt[8] hestinum. Birkibeinar skutu þá at hertoganum nokkurum spjótum, ok flugu nær honum[9]; svâ kvað Sturla:

Var laushendr
lofða stýrir
á blóðorms
benju[10] skapti,
en[11] haldsamr
at hjararleiki
á geirtýs

[1]) straumr, *B, F, G, H.* [2]) *þ. hin*; grátt, *A.* [3]) *b. hin; v. A.* [4]) Orrusta, *F*; Skúli hertogi flýði, *G*; Hèr flýði Sk. h., *H*; Frá Skúla, *B.* [5]) Jón, *H.* [6]) herra, *b. F.* [7]) *frá* [ hèr er konúngr sjálfr undir, *F, G.* [8]) aptr, *b. F, G, H, B.* [9]) ok komu engi á, *b. G.* [10]) beinu, *F*; benja, *B.* [11]) *þ. F, H*; er, *A.*

græ[illegible]ni[1] málu.

Ok brátt eptir þetta sneri hertoginn undan, ok allir þeir sem honum fylgðu. Svâ kvað Ólafr hvítaskáld:

Aldri börðust afli stærðir[2]
ógn sveipinna blóðgum greipum,
hirð sótti þar hraust[3] at garði,
herrar tveir af drengskap meira;
undan reið sá er fremstr var fundinn
fyrða gramr at jöfnum burðum;
Sverris ætt fèkk sigr at rèttu
svâ vildi guð, framiðr mildi.

Í þessu[4] samnaðist lið til Hákonar konúngs. Þá bað hann Þorstein snúa eptir hertoganum, með merkit ok flest allt liðit þat sem þar var, en hann kvaðst eigi vilja skiljast við garðs hliðit, fyrr en þat væri [unnit, ok[5] eigi væri þaðan bakslettu vân. Hertoginn reið upp eptir götum, kom þar mart hans manna á mót honum ok snerist á flótta við honum. [Síðan skipaði konúngr[6] menn til at sækja at garðs hliðinu, ok lèt fara menn á hús upp með bogum ok [reka þá ofan er vâpn báru á Birkibeina[7]. Þá kom Gautr Jónsson með sína sveit til konúngs. Litlu síðar kom ofan frá Þorsteini Ásólfr strykr, ok sagði at hann þættist fámennr undir merkinu, en lið samnaðist mikit til hertogans[8], sendi konúngr þá Gaut Jónsson

[1]) *þ. H*; grenni (*hið sama*), *hin.* [2]) *þ. F, H, B, G*; stærðar, *A.* [3]) hvöss, *F, H*; hress, *B.* [4]) bili, *b. B, F.* [5]) *frá* [ svâ skipat, at, *F, G.* [6]) vânu bráðara kom Gunnar konúngsfrændi með sveit sína til konúngs, ok skipuðu þeir þá, *B, F, G.* [7]) skutu þeir sem tiðast, *G.* [8]) er flúði neðan or bænum, *b. H.*

með sína sveit upp undir merkit til þorsteins[1]. Hertoginn sneri[2] uppá Mörtustokka, en þorsteinn[3] eptir [honum með merkit[4]; fèllu þá drjúgum menn af Varbelgjum[5] í götunum. þar fèll Algauti, en Veseti bróðir hans varð sárr. þeir komu[6] báðir senn upp í göturnar, Gautr Jónsson ok Ólafr af Vígdeild, síðan hann hafði flýit[7] af hinu vestra stræti; átti Ólafr þá öngan kost annan en snúa inn í Lafranzkirkju ok hans menn, en þó fèllu nokkurir af honum fyrir utan kirkjugarðinn. Gautr spurði ef Ólafr vildi grið; hann kvaðst gjarna vilja. Gautr bað hann vera í kirkju ok treystast eigi meirr þeim griðum. [En er hertoginn sá fjölda manns eptir fara, reið hann upp á land, ok fór[8] í hirðinni upp til Hofs til Ámunda rembu lögmanns, ok át þar mat[9].

*Hákon konúngr gaf mönnum grið*[10].

236. [Hákon konúngr gekk í Prèdikaragarð, en[11] milli Ólafskirkju ok kórsbræðragarðs var

---

1) ok mart annarra manna, en sjálfr hann skipaði mönnum til atsóknar at garðshliðinu, *b. F.* 2) hafði snúit, (*rèttara*) *F, G, B.* 3) heimnes, *b. B, F.* 4) því liði er fylgði merkinu, *F.* 5) hèr ok hvâr, *b. F, G.* 6) drjúgum, *b. F.* 7) *b. hin.* 8) *frá* [ Skúli hertogi var á Mörtustokkun, ok kom þar mart manna til hans, ætlaði hann þá til viðtöku. Ok er hann sá at Gautr kom undir merkit, ok Þorsteini safnaðizt lið, þá sneri hann á land upp með því liði sem þá var hjá honum. Þar voru þessir lendir menn hans: Bárðr vargr, Bárðr bratti, Erlíngr ljóðhorn, Veseti litli. Hertoginn reið, *B, F, H, G.* 9) máltið, *B.* 10) Atsókn Birkibeina, *G, B*; Frá Birkibeinum, *H.* 11) *frá* [ Meðan þeir hertogi ok Birkibeinar áttust við (á Mörtustokkum), þá kom svâ lið af skipunum, at Birkibeinar kríngðu (um) allan kirkjugarðinn, svâ at Varbelgjum var eigi kostr útkomu. En þeir höfðu svâ

[einn skíðgarðr[1], lèt konúngr bera þar at[2] stór reip, ok varð niðr felldr skíðgarðrinn, [en við þetta hark stukku Varbelgir[3] frá öllum garðshliðum, náðu þá Birkibeinar inngöngu; [fèll þá mestr luti af Varbelgjum, sem Sturla kvað:

þar baugsegl
í brímis vindi
branda byrr
blása knátti;
en hrælögr
af hjararborðum
geigurligr
glymjandi fèll[4].
Reið blóðlaukr[5].
á berum knerri
örva[6] ás
járni slúnginn;
en gandreið
grænna skjalda
svölnis egg[7]
sleit á lofti.
Ok þar fèll

skipat fyrir innan, at hvårgi mátti inn komast. En er Hákon konúngr hafði skipat mönnum til atsóknar, svå sem hann vildi, þá gekk hann inn í kórsbræðragarð ok þaðan í Prèðikaragarð, *B, F, G.*

[1]) *frá* [ sterkr skíðgarðr, en engi steinmúr, *B, F, G.* [2]) svörðu ok, *b. B, F, G.* [3]) *frá* [ ok þá garðrinn fèll, varð óp mikit í liði Birkibeina, en brestr varð hár ok mikit hark, en er Varbelgir heyrðu þat, þá óttuðust þeir, ok stukku, *B, F, G, H.* [4]) *frá* [ þá var mikill våpnaburðr, ok urðu Varbelgir mjök sárir; voru höggnar mjök hlífarnar af þeim, en fjöldi fèll, sem Sturla kvað, *b. B, F.* [5]) blóðugr, *B*; blóðlaugr, *G.* [6]) örvar, *B, F, H, G.* [7]) vegg, *B, F, G.*

feignm hausi
gjallar mans[1]
greypri hendi
Fenris nipt[2]
fylkis dólga[3],
í hjörgöll[4],
heiptar blóði[5].

Vilhjálmr or Torgum var suðr við garðs hliðit, en Ívarr dýri[6] kallaði á hann, ok spurði ef hann vildi grið; hann svarar: ek veit eigi enn, hvârr okkarr á fyri griðum at ráða, ok sló Ívar með steini mikit högg á kinnina. þá mælti Ívarr: með því at þú villt kjósa hit verra, þá skaltu þat hafa. Var Vilhjálmr þá felldr. En því vildi hann eigi grið þiggja, at [hann var áðr sæi ðr til ólífis[7]. Margir Birkibeinar kendu þar [vini sína ok frændr[8], ok fengu sumir eigi grið, þótt bæði, en sumir vildu eigi, þótt boðin væri. Snerust þá Varbelgir til suðrduranna ok komu svâ at margir senn, at eigi komust inn um hliðit, ok fèllu Varbelgir þar svâ þykkt at [III eða IIII[9] lágu á þyktina[10], sem Sturla kvað:

þar sigrhljóð
sýngva knáttu
harða hvell
hvössum munni
í herför
of höfuðs[11] manna

1) *þ. F*; manns, *A.* 2) *þ. B, F*; nipr, *A, P.* 3) *þ. F, G*; balga, *A.* 4) *þ. B, F*; hjargaull, *A, G.* 5) *frá* [ *v. H.* 6) dyn, *H.* 7) af honum var höggvin höndin, *B*; hællinn, *F.* 8) *frá* [ kunningja sína, *F*; fèlaga sína, *G.* 9) *frá* [ V eðr VI, *G*, 10) var þá unninn sigrinn, *b. F, B, G.* 11) höfuð, *G.*

Högna mans
hlýrna dísir.

Í þenna tíma náðu þeir Knútr jarl ok Birkibeinar inngöngu, er voru fyri vestan kirkjuna[1], en or kastala biskups[2] voru göng nokkur upp í kirkju, báru Birkibeinar þar á reip[3] ok felldu þau niðr, ok [voru þar í sumir Varbelgir[4]. Þar fèll Hákon laukr[5]-hirðmaðr hertogans, ok enn fleiri þegar göngin fèllu[6].

*Riðit eptir Skúla hertoga*[7].

237. Þá er Hákon konúngr sá, at allir Varbelgir voru í kirkju komnir, þeir sem[8] eigi höfðu grið[9], sneri hann or kirkjugarðinum, ok hljóp á hest svartan; fengu þá menn hans sèr hesta, en sumir runnu. Reið konúngr þá upp or bænum, ok var gyrðr sverði, en hafði annat í hendi alblóðugt, [hafði hann þá[10] CCC manna. [Þeir fengu menn nokkura, en önga hesta[11], ok voru öllum grið gefin[12]. Þá mælti konúngr: ef Skúli

---

[1]) kirkjugarðinn, *G.* [2]) þar sem Varbelgir voru í, *b. F.* [3]) svörðu, *F;* ok kaðla, *b. G.* [4]) urðu þar undir sumir Varbelgir, er hlaupa vildu í kirkju or kastalanum, *B, F.* [5]) endr, *B, F.* [6]) ok lètust allir, *b. B, F; frá* [ ok þá felldu þeir ofan riðit milli kastala biskups ok kirkjunnar. Þar var í riðinu Hák. l. hm. hert., ok enn lètust þar fleiri Varbelgir þegar riðit fèll. Birkibeinar voru þá móðir mjök, *H.* [7]) Frá konúngi, *F;* Skúli j. flýði, *B;* Konúngr hèlt eptir hertoga, *G.* [8]) uppi stóðu ok, *b. B, F.* [9]) Árni rufa (rofa) komst eigi í kirkju, ok fèkk þó grið, þá, *b. B, F.* [10]) þat er Varbelgir höfðu átt, *b. B, F;* er hann kom í göturnar upp, mundi hann hafa, *B, F.* [11]) Siðan riðu þeir nokkura hálfa (*v. G*) röst í götu, ok urðu aungvir hestar á vegi þeirra, en menn fengu þeir nokkura, *F, G, B.* [12]) konúngr nam þá staðar, ok átti tal við sina menn, *b, F, G, B.*

mágr minn hefir hèr undan riðit, mun hann svâ hafa fyri sèt, at oss mun ekki gott verða til hesta, [trúi ek at vèr fáim ok ekki af þeim. En menn voru í kirkjum í bænum[1], ok em ek hræddr um, hversu þeir munu halda þeim fyri vârum mönnum, er þeir þikkjast mestar sakir við eiga, en ek vil fyri öngan mun kirkjufriðinn brjóta láta. Manu vèr snúa aptr til bæjarins ok gæta sigrs vârs; fara enn síðan skipti okkur mága, sem guð hefir fyrir ætlat. Eptir þetta sneri konúngr aptr. En Varbelgir höfðu borit innan við kirkjuhurðirnar, svâ at eigi mátti upp brjóta; en Birkibeinar báru utan at viðu, svâ at eigi mátti út komast. Konúngr gekk[2] til biskups, ok tók lausn af honum ok hans menn. Eptir þat [veitti biskup[3] honum ok snæddi hann þar um hríð. Þeir sátu baðir saman[4], Þorsteinn heimnes ok Árni rufa; var konúngr svâ[5] til Árna, sem hefði honum jafnan fylgt[6], ok svâ grimmr sem Hákon konúngr var[7] um daginn [við sína óvini[8], þá var hitt eigi með minna móti, hversu miskunnsamr hann var síðan í griðagjöfum við alla þá, er á hans vald gengu. En er kannaðr var valrinn, lágu[9] LXX dauðra manna fyrir Hallvarðskirkjudurum, en [alls fèllu þar nær[10] CCC

[1]) en þessir gerast nú mjög móðir, er vèr riðum, eru þeir ok svâ undan bornir, at vèr fáim hvartki af þeim vitum nè sýn, en í bænum var þat títt sem þèr vissut, at Varbelgir voru í kirkjur komnir, *B, F, G.* [2]) fyrst, *b. F, G, B.* [3]) lèt biskup matbúa, *b. B, F, G.* [4]) at mat, *b. F, G, B.* [5]) vel, *b. F, B.* [6]) þjónat, *G.* [7]) hafði verit, *F, G.* [8]) at fyrikoma sínum óvinum, *F, B.* [9]) nokkrir, *b. F.* [10]) þat hugðu menn at þar mundu fallit hafa aukin, *B, F, G.*

manna, ok margir [góðir menn[1] or Þrændalögum: Bárðr af Guðreksstöðum, son Þorsteins kúgaðs, Petr systurson Ívars, Vilhjálmr or Torgum, Grímr af Sandi. Sunnudaginn átti Hákon konúngr þíng úti í kirkjugarði, ok lýsti því at allir Varbelgir, þeir sem í kirkjum voru, skyldi hafa grið[2]. Síðan var skipt herfángi öllu eptir sið liðsmanna[3]. Ok nokkurum[4] nóttum eptir bardagann sendi hann lið norðr [til Þrándheims[5]; var þar fyrir Ásólfr af Austrátt, Ívar Petrsson, Árni blakkr, Klemit af Hólmi, Ólafr kiðlíngsmunnr[6], Bárðr Gróuson, höfðu þeir XV skútur[7]. En konúngr dvalðist eptir í Víkinni at eyrindum sínum; hann hafði fengit sýslu á Raumaríki Gregoríus, syni herra Andress, en II vetrum fyrir úfriðinn hafði Gregoríus gefit upp sýsluna, ok farit suðr til Danmerkr með sveina sína, ok var með Valdimar konúngi vel virðr. Konúngi þótti þessi ferð[8] undarlig[9], ok þann sama vetr, sem [úfriðr hófst[10], sendi konúngr [menn til[11] Gregoríus, ok bað hann aptr fara[12], ok hèt honum sæmðum eptir því sem hann reyndi trúnað hans

[1]) drengir, *F; frá* [ ágætir menn, *G.* [2]) gengu Birkibeinar þá til kirkna, ok leitaði hverr at sínum hugðarmanni; gengu (Varbelgir) þá til griða, ok var þeim skipt í sveitir, sem konúngr sá ráð fyrir, *b. B, F, G.* [3]) þá er konúngr dvaldist í Oslu um hrið, *b. F.* [4]) VII, *b. H, G, F.* [5]) í land, á skútum, *F, G.* [6]) kiðlingsmúli, *B, F;* — munni, *G.* [7]) *frá* [ skyldu þeir fara (fóru þeir, *G*) allt norðr til Þrándheims, ok vita hver tiðindi þar væri, *B, F, G.* [8]) nokkut, *b. F, B.* [9]) er Gregorius hafði eigi tekit orlof af honum, *b. B, F, G.* [10]) Skúli hafði látit gefa sèr konúngs nafn, *B, F, G.* [11]) til Danmerkr Bjarna Móisesson til móts við, *F, G, B.* [12]) í Noreg, *b. F, G.*

til. Fór Gregoríus þá aptr. Ok þegar hann kom í Víkina aflaði hann sèr sveitar, ok kom til Birkibeina fyrir bardagann á Láku; hann var ok í Oslu með Hákoni konúngi. Síðan lagði konúngr mikil metorð[1] á hann[2], ok fèkk honum Borgarsýslu; Gregoríus var vitr maðr ok vel mentr. [Nokkuru síðarr fór Hákon konúngr til Björgynjar, ok var þar um sumarit[3].

*Frá Skúla*[4].

238. Skúli hertogi var með Ámunda lögmanni sem fyrr ritað, ok reið[5] allt upp til Molda[6] um kveldit. Sunnudag fór hann upp á Heiðmörk[7] í Eyna Helgu; var þar fyri Pètr, son hans. [Síðan fór hann upp[8] til Ullinsakrs[9], hafði hann þá[10] C manna, átti hann tal við lið sitt, hvert ráð upp skyldi taka. Veseti litli ok þorgísl slyðra báðu hertogann fara austr[11] í Vermaland[12] í æthaga þeirra, ok sagði at hann mundi[13] þar[14] einn[15] hálfan mánuð, áðr [hann mundi hafa eigi minna lið en fyri bardagann[16] í Oslu. Erlíngr

---

1) hinar mestu mætur, *F, H.* 2) í alla staði, *b. B, F.* 3) *frá* [ ok er á leið vorit, fór Hákon konúngr or Víkinni, ok kom viku fyrir hvítasunnudag. Uppstígníngardag (helga þórsdag, *F*) lá hann í Salbjarnarsundi. En um sumarit sat hann í Björgyn, *B, F.* 4) *b. B*; hertoga, *b. G*; h. ok Birkibeinum, *b. H.* 5) hann til Eiðsvallar þaðan ok, *b. P, F.* 6) Molga, *F*; Mjolga, *B.* 7) ok út, *b. F.* 8) dvaldist hann þar litla hríð, áðr hann fór til lands, ok hann kom, *b. B.* 9) Ullinshofs, *F, B.* 10) nær, *F, B.* 11) í Eystridali ok þaðan, *F, B.* 12) ok austr á Markir, *b. F, B.* 13) eigi, *b. F, G, B.* 14) vera, *b. F, B.* 15) meir enn, *B, F*; um, *G.* 16) *frá* [ en þeir skyldu til hans hafa komit eigi minna liði, en hann hafði til bardagans, *F, B.*

ljóðhorn ok [aðrir þrændir[1] sögðu at þeim var ekki hent at rekast um fjöll ok skóga, ok báðu hertogann fara norðr til þrándheims til vina sinna ok ráða þar til skipa, þvíat þat var Norðmanna háttr[2], ef þeir skulu[3] úfrið halda. Ok þat var ráðs tekit at snúa norðr. En þorgísl ok Veseti skildust í frá, ok fóru austr í átthaga sína með sveitir sínar. Hertoginn fór norðr í Dala, ok hafði LXXX[4] manna; fór hann þaðan í Ríngabú[5]. þá spurðu þeir at Birkibeinar voru fyri þeim, Ögmundr krækidanz, Oddr Eiríksson, Eiríkr toppr; þeir sátu við brúna. Hertoginn dvaldist á litlum bæ, skamt frá brúnni, en hans menn fóru til brúarinnar, ok lètu kveða við lúðra sína; ok þegar blásit var, reið hertoginn at brúnni; en Birkibeinar hugðu at [liðit mundi vera meira en var, ok stóðu eigi allnær brúnni[6]; gengu Varbelgir yfir brúna. Sóni síkr bar merkit[7], ok er þeir komu yfir brúna, mættu þeir Birkibeinum; þar fèllu II hirðmenn Hákonar konúngs, Ívarr hjálmhús[8] ok Björn af Hofi. - Hertoginn reið þegar eptir þeim yfir brúna hvítum hesti er Fótr hèt; hann hafði góða brynju ok styrkja treyju. Birkibeinar hopuðu upp í fjallshlíðina, ok skutu[9] meirr en XX senn at[10] hertoganum,

1) ok Bárðr bratti ok þeir menn sem norðan voru or landi, *F. G, B.* 2) at fara (vera) á skipum, *b. F, G, B.* 3) *b. B, F.* 4) nær IXtigu, *F*; IXtigi, *G*; niutigi, *B.* 5) Hríngabý, *F*; Hríngabú, *G, B.* 6) *frá* [ þeim mundi dragast lið, ok viku frá, *H.* 7) þar fór ok Guttormr jónadalr, Hávarðr dyntill (dyndill, *B*), Eysteinn orri, Hákon Bárðarson, Hallkell á Rýginni, Hávarðr kollr ok enn fleiri aðrir, *b. B, F.* 8) hálmhaus, *G*; hjálmhaus, *B.* 9) ok skipuðu til, *F.* 10) skjóta at, *b. F.*

ok var[1] skúfaðr af örum skjöldr hans. [Hestrinn hafði III[2] broddskot, svâ at öll stóðu uppi á reyrböndum[3]. Hertoginn fèkk ok broddhögg í gögnum fótlegginn við öklat[4]; við þetta sóttu Varbelgir yfir brúna[5]. Ásvarðr[6] harmr fletti[7] Ívar hjálmhús[8]. Hertoganum var fenginn góðr hestr, er Gautstafr hèt; fóru þeir til þess er þeir komu í Þrándheim. Hertoginn sendi fyri sèr af fjallinu [Brúsa hít við[9] nokkura menn[10], ok drápu þeir hirðmann Hákonar konúngs í Uppdal, er Halldór hèt. Birkibeinar fóru eptir þeim norðr til fjalls, ok tóku þar af lífi Ásvarð, er Varbelgir höfðu eptir látið á Steig. Hertoginn fór[11] til Niðaróss; þóttist hann þá finna at mjök var snúit skaplyndi alþýðu til hans; bar þat mjök til, at menn þóttust fengit hafa mannalát mikit í Oslu, hitt annat at þá er Hákon konúngr var[12] í Þrándheimi, [þóttust menn heyra[13] margar [sannligri tölur, en þær[14] sem hertogans menn höfðu á Eyraþíngi[15]. Þar með þóttust menn eigi sjá upp-

---

[1]) sem, *b. F, G.* [2]) IIII, *B; VII, F.* [3]) *frá* [ þar fèll hestrinn undir hertuga, ok var skotinn í gegnum, *H.* [4]) öklann, *B.* [5]) en Birkibeina hefr (Birkibeinar hófust) undan í fjallshlíðina, *b. B, F, G.* [6]) Ásvaldr, (*ok annars*) *H.* [7]) vildi fletta, *F, G, B.* [8]) þá kom at Árni lági sveinn (er bar merki) Pètrs hertogasonar, ok hugði Ívar mundi oflitt sáran (miðr sárr en hann var), ok hjó til hans ok kom höggit á höndina Ásvarði, svâ at nær tók af. Þeir fluttu hann með sèr norðr til Steigar, en riðu eptir þat leið sína, *b. F, G, B.* [9]) *frá* [ Sigurð hít, Brúsa ok, *F, B.* [10]) aðra, *b. F.* [11]) var um nótt á Vogi (Vángi, *B*) í Uppdal ok fór þaðan, *F.* [12]) hafði setit, *F.* [13]) höfðu þeir heyrt, *F.* [14]) gagnstæðligar tölur þeim, *B, F*; aðrar ræður sannligri e. þ., *G.* [15]) *frá* [ ok virtust þeim þessar sannligri, *b. F, B.*

reist hertogans móti Hákoni konúngi[1]. Hertoginn sat um vârit í Niðarósi, ok hèlt borð í Breiðastofu, en var lengstum í herbergjum sínum, ok átti fátt við aðra menn. Hann var III nætr í Krossgildi ok heldr fámálugr[2]. [Vinum hertogans þótti hann fara[3] óvarliga ok gæta[4] sín lítt; hann sagði at eigi mundu Birkibeinar á allskamri stundu fara milli Víkr ok Þrándheims. Þeir sögðu at Hákon konúngr hefði skemr farit, en líklígt þætti til Oslóar: ok enn má svâ vera. Eptir þat var ein skúta send út á fjörðinn til njósnar.

*Frá Ásólfi ok Klemit, Birkibeinum*[5].

239. Mánadags morgininn komu þeir Ásólfr[6] til Niðaróss, í gagndögum, við XV skipum á úvart; lagði Klæmit af Hólmi yfir við Bakka II skútur, en þeir Ásólfr lögðu til bæjarins öllu liðinu. Skúli hertogi vaknaði við, er hann heyrði herklukkuna, ljóp hann þegar upp ok klæddist, ok tók vâpn sín, ok þeir menn aðrir sem þar voru í garðinum. Sendi hann þá sveina sína út í bæinn, ok bað Varbelgi ok annat fólk sækja til sín upp í konúngs garð, ok tæki þeir þar móti Birkibeinum. En er sveinarnir komu aptr, fengu þeir önga menn; tveim sinnum gerði hertoginn menn út í bæinn, ok fèkkst ekki af mönnum[7].

[1]) ok vildu menn af því engan úfrið halda með honum móti konúngi, *b. B, F.* [2]) var þat ok flestra manna skaplyndi at eiga fátt við hann, *b. B, F.* [3]) þá kærðu vinir hans, at hann færi, *B, F.* [4]) gætti, *F.* [5]) *b. H*; Frá Skúla hertuga, *G*; Frá Skúla ok Pètri, syni hans, *B.* [6]) *þ. hin;* Ásvarðr, (*rángt*) *A.* [7]) sögðu þeir svâ, er sendir voru, at menn allir hljópu í kirkjur, *b. G.*

Hertoginn spurði, hvat ráðs skyldi taka[1]. Menn hans [báðu (hann) þá flytjast[2] yfir ána, ok leita svâ[3] til skógar, ef hann vildi eigi í Kristskirkju[4]. Pètr hertogason var fyri ofan konúngsgarð, [ok bað hertoginn hann fara yfir ána við þeim, ok þángat fóru sumir sveitúngar hans[5], en Pètr sneri inn í Kristskirkju. Bárðr bratti ljóp ok í Kristskirkju, þvíat hann þóttist þúngfærr til göngu. Hertoginn gekk á land[6] við Skellíngarhellu, bað hann þá gánga[7] upp til Erlendshaugs, ok[8] gefa þeim nokkut slag, sem upp höfðu gengit við Bakka, en [menn gerðu öngan róm at því[9]; [sóttu þeir[10] uppá brekkurnar ok lètu[11] skóginn gæta sín. Pètr hertogason var[12] í Kristskirkju, ok fór þaðan til prèdikara[13], ok buðu þeir honum á náðir sínar[14], en hann bar eigi traust til þess, ok fór hann þaðan [til konúngsgarðs[15], ok IIII sveinar með honum; þeir fengu þar einn bát, ok fluttust yfir ána, ok fóru til efra Elgisetrs, fór Pètr þar inn í hús eitt, er konur voru at bakstri, ok fèkk sèr [eitt vânt[16] klæði ok duldist. Þá er Birkibeinar komu í bæinn ok rannsökuðu, voru flestir Var-

1) Brú var engi á ánni niðri (Nið), *b. F, B.* 2) sögðu at til var at flota skútu, er stóð í konúngsgarði, ok flytjast á henni, *F, B.* 3) siðan at forða sèr, *F, B.* 4) var þá flotað skútunni, *b. F, G, H, B.* 5) *frá* [ lèt hertogi þá kalla ofan til skútunnar, ok þángat fóru sumir sveitúngar Pètrs, ok fluttust yfir ána með hertoga, *F, G, B.* 6) yfir, *b. F*; upp, *G.* 7) at þeir skyldu sækja, *F.* 8) hyggja þaðan at, ef þeir mættu, *b. F.* 9) *engi lèt sem heyrði, G.* 10) ok var ekki *ráð* annat tekit, en þeir sóttu, *F.* 11) siðan, *b. F.* 12) vildi ekki í skútuna, ok ljóp hann, *H.* 13) kirkju, *b. F, G, H.* 14) ok sögðust skyldi gæta hans, *b. F, B.* 15) *þ. A* (*skamstafað* kgarðs); á biskupsgarð, *F, G, H, B.* 16) þar vond, *F, G, H, B.*

belgir komnir í kirkjur[1]; Bárðr vargr var[2] í Krosskirkju. Birkibeinar höfðu njósn af um ferðir Pètrs, ok fóru yfir ána til efra Elgisetrs, ok sendu mann inn í bakstrhúsit, er Jón köttr[3] hèt; en er hann kom út, sagði hann at þar var Pètr inni; síðan leiddu þeir hann út ok drápu hann þegar. Hann hafði verit [ekki lítill[4] maðr vexti ok þykkr; meirr í móðurætt sína yfirsýndar; hann var vel mentr, klerkr góðr ok trúmaðr, en ekki þótti Varbelgjum hann [djarfr[5] til úfriðar[6]. Lík Pètrs var borit til graftar. Eptir þetta fóru Birkibeinar aptr til bæjarins, ok [sendu menn[7] alla vega[8], hvat þeir spyrði til hertogans eða hans manna.

*Frá Skúla hertoga*[9].

240. Skúli hertogi var nú[10] á skóginum, ok hafði[11] þær frèttir, at [Birkibeinar hèldi vörðu[12] umhverfis skóginn[13]; tóku menn þá at drífa brott frá hertoganum, þeir sem honum höfðu fylgt, svâ ok þeir sem hann sendi á brott, komu nær[14] öngvir aptr. Erlíngr ljóðhorn fór inn í Tötru, ok tók þar við kufli. Hertoginn var II nætr á skóginum, en óðinsdaginn fyrir helgi[15]-þórsdag,

1) þeir sem innan bæjar voru, *b. F, G, B.* 2) hafði hlaupit, *F, B.* 3) knöttr, *H;* kor, *B.* 4) *frá* [ mikill, *H;* meðalmaðr, G. 5) góðr, *G.* 6) *frá* [ frækinn til vâpns, *H;* sem hans forellri hafði (forellrar höfðu) verit, *b. F, G.* 7) voru þá gervar orðsendingar, *B, F;* njósnir, *G;* (njósn, *H*). 8) í hèraðit, *b. F, B.* 9) *b. F, H;* Frá Skúla á skóginum, *G.* 10) þá, *H.* 11) hèlt þaðan frèttum til Helgisetrs, ok annan veg fèkk hann þá, *B, F.* 12) alla vegu væri njósnum til haldit, *F.* 13) svâ at hann skyldi eigi brutt komast svá, at Birkibeinar yrði eigi varir við, *b. B, F.* 14) *v. F.* 15) helga, *F.*

þá er kanokar gengu með krossum, voru hertoganum færðar kórkápur or klaustrinu, ok gekk hann svâ inn í klaustrit með bræðrum; fór hertoginn upp í stöpulinn ok hans menn; var þeim búit síðan at drekka ok snæða. Eptir þat var búinn hvíla hertoganum[1] þvíat hann var mjök syfjaðr.

*Fall Skúla hertoga fyri Birkibeinum*[2].

241. Birkibeinar fengu njósn af, at menn höfðu gengit af skóginum til Elgisetrs í kórkápum, ok [menn hugðu þat vera hertogann ok hans menn[3], ljópu þeir þegar til vâpna[4], ok fóru yfir âna. Ok er þessa varð varr Sigurðr erkibiskup, fór hann til Elgisetrs, ok mart kennimanna við honum ok bæjarfólk[5]; en þegar Birkibeinar komu at klaustrinu[6], skutu hertogans menn á þá sem tíðast[7]; ok er erkibiskup kom til, bannaði hann Birkibeinum at gánga at klaustrinu, eða gera þar nokkurn úfrið; en Birkibeinar sögðu, at [klaustrinn[8] var svâ skipaðr[9], at [nauðsyn bar til úfriðar[10], hvârt er þeim þætti vel eðr illa; en erkibiskup bauð fè fyrir hertogann, at hann skyldi fara í griðum til[11] konúngs. Þeir vildu eigi þat, nema hann legði at veði stað hins helga Ólafs konúngs, ef þat endist eigi, sem her-

[1]) ok ætlaði hann at sofa, *b. B, G*; ok þá lagðist hertogi til svefns, *H.* [2]) af Birkibeinum, *F*; Um dráp Skúla falskonúngs, *G.* [3]) var þess til getit, at þar mundi verit hafa Skúli hertogi, *F.* [4]) ok fengu sèr skip, *b. G, B.* [5]) bæjarmenn ok kaupmenn, *B, F.* [6]) klaustranum, *H.* [7]) ákafast máttu þeir, *F.* [8]) klaustrit, *B, H, G.* [9]) skipat, *B, H, G*; *frá* [ *v. F.* [10]) eiða úaldar flokkum í landinu, *H.* [11]) á fund, *F.*

toginn hèti. Sumir voru svâ ákafir at ekki gáfu gaum at, hvat erkibiskup sagði, ok lögðu eld í klaustrit; sumir vildu slökkva, en svâ kom at eldrinn magnaðist. Ok er hertoginn sá þetta, at þeir vildu brenna klaustrið[1], bað hann sína menn út gánga[2]. Gekk hertoginn þá út, ok hafði buklara yfir[3] andliti sèr, hann mælti þá: höggvit eigi í andlit mèr[4], þat er eigi[5] siðr við höfðíngja at gera. Eptir þat báru Birkibeinar vâpn á hertogann ok alla þá, er út gengu með honum[6]: Soni síkr, Eysteinn orri, Áslákr dynntill, Hallkell á Rygini, Hallvarðr kollr, Brúsi[7], Árni maríall[8]. Meistari Bergr var særðr mjök[9], ok varð þó græddr. Svâ sagði Sturla:

Nú man frægt
nokkvi síðarr:
í ná reið
á Niðarbakka,
við leygför[10],
leggja knátti
rausnar líf[11]
ríkr hertogi.
Ok þar gekk
á Gjallarbrú
ræsis mágr
fyri riðu sóttum
bauga bliks,
er boðar fèllu

[1]) til hans, *b. G.* [2]) fóru þeir þá til dyranna, *b. F, G, H, B.* [3]) fyrir, *F, G, H, B.* [4]) því, *b. F, B.* [5]) engi, *B.* [6]) þeir voru, *b. F.* [7]) dyttr, *b. G.* [8]) matjall, *B.* [9]) til ólifis, *F, H, G, B.* [10]) *þ. F*; leggfjör, *A*; laugför, *B*; lægfær, *G.* [11]) lið, *B.*

elda vers
of afarmenni.

þegar sem hertoginn var fallinn [vildu menn[1] slökkva eldinn, [ok þat varð eigi gert[2], ok brann upp allt[3] klaustrið.

*Hèr segir frá líkferð Skúla hertoga[4].*

242. Lík Skúla hertoga var borit á skildi til bæjarins, ok þar veittr umbúnaðr; stóð líkit uppi í Nicholáskirkju. Um morgininn eptir gengu þeir Ásólfr til erkibiskups, ok beiddust lausnar af honum; gekk þat mál ekki skjótt, en þó [urðu þeir[5] leystir[6], til þess er þeir fyndi konúng, ok vita[7] hverju hann vildi sèr af skipta um stórvirki þetta. Síðan var búin líkferð hertogans, ok var hún[8] hinn sæmiligasta; var hann jarðaðr í Kristskirkju fyrir sunnan kórinn[9], þar undir niðri sem [Íngi konúngr liggr[10] í steinvegginum; stóð þar yfir erkibiskup ok [allt bæjarfólk[11]. Ártíð Skúla hertoga er hinn níunda[12] Kal. júníí; hann hafði vetr [hins sètta tígar[13]. Hann var mjök harmdauðr [öllum sínum[14] mönnum, þvíat hann var [allvinsæll maðr[15], ok hafði hann marga

---

1) fóru menn ok vildu, *F.* 2) en því varð ekki á leið komit, *F.* 3) mjök, *G.* 4) *b. H, B*; Um gröft Sk. h., *G.* 5) kom þar, at þeir voru, *F.* 6) svâ at þeir skyldi vera mannværir (hjá öðrum mönnum), *b. F, B, G.* 7) ritat væri, *F.* 8) ger, *b. F.* 9) *v. F, G.* 10) hann hafði búit (látit búa) um lík (leg) Inga konúngs, bróður sins, uppi, *B, F, G.* 11) allir kórsbræðr ok mart annara kennimanna, ok allr bæjarlýðr (nær allt bæjarfólk) ok margir Birkibeinar, *B, F, G.* 12) dag, *b. F.* 13) ok fimtugt, *G;* III vetr ins sètta tugar, *H.* 14) *frá* [ mörgum, *F.* 15) hinn vinsælasti, *F, H.*

luti til þess, [blíðu ok mildi[1], svâ at hann sparði [2]ekki við sína menn; hann gaf mörgum nafnbætr, eða fèkk kvânfaung, eða kom til annars þroska, þeim er [til hans skunduðu[3], ok varð hann af slíkum lutum mjök vinsæll. Hann gaf bæinn á Reini, föðurleifð sína, til klaustrs, ok lèt [þar gera steinkirkju ágæta[4], ok setti þar nunnuklaustr, ok gaf[5] fè til. Margir lutir eru aðrir ágætir at segja af [hans höfðíngsskap[6]. Hann var heldr hárr maðr ok grannvaxinn, ljósjarpr á hár, ok hærðr manna bezt, rèttleitr ok ljós í andliti, eygðr [manna bezt[7]; allra manna var hann kurteisastr ok hæverskastr, snjallr í máli ok talaðr vel á þíngum; flesta luti hafði hann þá með sèr, er [prýða máttu[8] góðan höfðíngja; ok þat mundi mælt hafa verit, ef eigi hefði þat úgiptuár[9] yfir hann komit[10] [hit síðarsta[11], at eigi hefði sá maðr fæzt í Noregi, at betr hafi mannaðr verit, þeirra sem eigi voru komnir af sjálfu lángfeðgatali konúnganna. Hann átti öngan son eptir[12].

---

[1]) fyrst blíðu ok góðar viðvistir (viðrvistir), þarmeð mildi ok örleika (dælleika), *F, B, G.* [2]) nær, *b. F, G.* [3]) hann stunduðu, *F, G.* [4]) reisa þar ágætt steinmusteri, *hin.* [5]) þar stór, *b. B, F, H.* [6]) athöfnum hans afbragðligum, þótt hèr sè eigi ritaðir, *B, F.* [7]) forkunnar vel, *B, F.* [8]) skyldu, *F; frá* [ friddi, *G.* [9]) úgiptuverk, *B, F.* [10]) gengit, *G.* [11]) er hann lifði síðast, *F, G, H;* á síðustu dögum hans lífs, *B.* [12]) svâ at menn vissu þat með sannindum, en þess er at vænta, með guðs miskunn, at lengi man Noregr prýðast af hans afspríngi (afkvæmi, *B. F;* ætt ok afkvæmi, *G*), *b. hin.*

PRENTVILLA: *bls.* 321, *l.* 24 húðfasts *l.* húðfats.

